# ÍSLENDÍNGA SÖGUR.

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AT TILHLUTUN

HINS KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÉLAGS.

---

URDAR ORDI
KVEDR ENGI MADR.

*Fjölsvinnsmál.*

---

## FYRSTA BINDI.

ÍSLENDÍNGABÓK ARA PRESTS ENS FRÓÐA ÞORGILSSONAR, ÍSLANDS LANDNÁMABÓK, HEIÐARVÍGASÖGU BROT, ok ÁGRIP VÍGASTÝRS- ok HEIÐARVÍGA-SÖGU.

---

KAUPMANNAHÖFN.
Prentadar hjá *S. L. Möller.*

1829.

# ÍSLENDÍNGABÓK
# ARA PRESTS ENS FRÓÐA ÞORGILSSONAR,
# ÍSLANDS LANDNÁMABÓK,
# HEIÐARVÍGASÖGU BROT,

OK

## ÁGRIP VÍGASTÝRS- OK HEIÐAR-VÍGA-SÖGU.

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AT TILHLUTUN

HINS KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

KAUPMANNAHÖFN.

Prentaðar hjá *S. L. Möller.*

1829.

# FORMÁLI.

Bindi þetta, er hèrmeð leggst fyrir almennings sjónir, inniheldr sögur þær, er fara yfir Islands landnám og landsins fyrstu byggíngu, og sem skíra frá þeim elztu atburðum, er gerðust í landinu. Sögur þessar gánga hèr í broddi allra Islands sagna, sem hið Konúngliga Norræna Fornfræða-Fèlag hefir einsett sèr að láta á prent útgánga, þareð allflestar Islands sögur eru af þeim sprottnar og hefja frá þeim, einkum frá Landnámabók, upptök sín, og sanna þarvið ágæti sitt og trúverðugleika. Skal nú nokkuð segja frá, hvör meðferð höfð hefir verit og hvör hjálparmeðöl hagnýtt hafa verið við útgáfu sagna þessara:

I. ISLENDINGABÓK ARA PRESTS ENS FRÓDA ÞORGILSSONAR, eða Schedæ Ara prests fróða (bls. 1—20). Af sögu þessari eru 2 pappírshandrit Nr. 113 A, sem hèr kallast *B*, og Nr. 113B, sem hèr kallast *A*, bæði með reglulígri settletrshendi Síra Jóns Erlendssonar í Villíngaholti, er á 17du öld út hefir skrifað margar Islendínga sögur fyrir Skálholts biskupa, einkum fyrir Mag. Brynjólf Sveinsson; bæði þessi handrit eru að öllum líkindum skrifuð eptir Ara prests egin handarriti á bókfelli, því við niðrlag beggja stendr skrifað, með Síra Jóns egin hendi, þessi orð: „þessar Schedæ Ara prests fróða og frásögn er skrifuð eptir hans egin handskrift á bókfelli, (að menn meina), í Villíngaholti af Jóni presti Ellendssyni, anno domini 1651, mánudaginn næstan eptir dominicam jubilate; — Jón Ellendsson m. p." Nr. 113 B (*A*) er hèr lagt til grundvallar við útgáfu þessa, þareð það er hið nákvæmasta að rèttritun af öllum þeim handritum sem hèr eru til af bók þessari, og miklu betra enn Nr. 113 A (*B*); um handrit þessi hefir Assess. Árni Magnússon á blöðum, sem limd eru framan við A, fellt svolátandi dóm: „það (nl. *A*) er accuratissimum allra þeirra exemplarium sem eg sèð hefi, og ekkert hygg eg betra til vera, eptir þat codex pergamenus er undir lok liðinn, eg kalla það hjá mèr codicem *A* quasi accuratissimum v. primarium. Um codicem *B* er mín gáta, að Síra Jón muni hann ex membrana fyrst uppskrifað hafa, sú skrift muni eigi Mag. Brynjólfi líkað hafa, (þvíat þessi codex er reingri enn codex *A*, sem af collatione er að sjá), muni svo Síra Jón á ný codicem membraneum uppskrifað hafa, og lagt sig eptir at fylgja betr literaturæ codicis mem-

branei, hvarum honum eigi sýnt var, og sè svo sú síðari betri copía; þessi codex *A*; álíka og sagnir eru að til sè gengið um Sæmundar Eddu, sem Mag. Brynjólfr skal hafa látið tvisvar skrifa, áðrenn honum líkaði skriftin. Endiliga kynni og vera, að codex *A* væri fyrst skrifaðr, og hefði biskup hann annaðhvört burtlèð, burtgefið eða í annan máta eitt exemplar ennú hafa viljað, og þarfyrir Síra Jóni bókfellið að nýju afhendt til nýrrar útskriftar, hann svo códicem *B* eptir bókfellinu skrifað, en flýtt sér eptir vanda, og verið svo minus accuratus. Sè þetta nú vilt gáta, þá er það víst at hvörigt þessara exemplarium, A eða B, er skrifað eptir öðru, því í báðum þeim finnast einstöku orð sem í hinu útilátin eru." Þessi dómr og getgáta Assess. Árna Magnússonar hèfir staðfezt við nánari ransókun beggja handritanna.

Þareð nú þessi Islendíngabók Ara prests fróða er hið elzta rit, svo menn til vita, sem nú er til á norræna túngu, og er bæði fornyrðt, og að stafasetníngu og rithætti mjög svo frábrugðið öðrum tilverandi fornritum ennar gömlu túngu; svo hefir í útgáfu þessari haldið verið, svo mikið sem varð og hlýða þótti, rithætti handritsins sem til grundvallar lagt hefir verið, að því undanteknu er hèr skal nú frá segja: 1) Að áherzlumerkin eru öll viðsett; má þess þó geta, að á stöku stað í handritinu standa tvö strik yfir þvílíkum hljóðstöfum, svo sem: ö fyrir *ó*, eða raddarstafirnir eru tvísettir (*aa*, *oo*), eins og dæmi finnast til í öðrum fornritum. 2) Eð eða stungið d (ð) er alstaðar sett fyrir *d*, þar sem hljóðið heimti það og eigi stóð *þ*; á fáeinum stöðum í handritinu stóð *þ* eptir *n* í staðin fyir *d*, kannske af gáleysi skrifarans, er því umbreytt, t. d.: mundi f. *munþi*. 3) Alstaðar þar sem *ö* stendr prentað og hljóðið útheimti það, stóð o i handritinu; þó var sumstaðar skrifað *av* fyrir *ö*, t. d.: *Ravgvaldr* f. Rögvaldr; einsog *av* opt er brúkað fyrir *au*, t. d.: *bravt* f. braut. 4) Í handritinu stóð á flestum stöðum *ø* fyrir *æ*, t. d.: *føri*, *átrøðr*, *norrønn* f. færi, átræðr, norrænn, sem þannig er prentað; líka stóð *ø* eða *o* opt þar sem hljóðið krafði *á*, t. d.: *Ølfs*, *Pøls*, *føm*, *ø*, *røð*, *ør*, f. Álfs, Páls, á, ráð, ár; líka brúkast það sumstaðar fyrir *e*, t. d.: *øfra*, f. efra; á fáeinum stöðum finst það sett fyrir *u*, t. d.: *møndi* f. mundi, er þessu umbreytt í útgáfu þessari. 5) Alstaðar hvar *i* eða *e* stóð í handritinu á undan raddarstöfum, er hèr j prentað samsvarandi úttalinu, og hvar *v* eða *y* stóð í byrjun orða, í staðinn fyrir *u* eða *ú*, er annarhvörr þessara stafa tilsettr, t. d.: urðu f. *vrðu*, úr f. *yr*; *v* brúkast optastnær í staðinn fyrir *f*, milli tveggja hljóðstafa, er því ekki haldið, og því prentað æfi, páfi, hafa, en ekki, *ævi*, *pávi*, *hava*. Líka er e prentað fyrir *æ* eða *e* hvar hljóðið krafði þess, t. d.: deild, Breiðifjörðr, Óleifs, f. *dæild*, *Bræidif.*, *Olæifs*. 6) Fyrir rúmverskar tölur er hvervetna standa í handritunum, er tala kemr við, eru þær algeingnu siffrur hagnýttar, einsog að undanförnu brúkað hefir verið í útgáfum fèlagsins. 7) öll

aðgreiníngarteikn eru og tilsett, því í handrit. standa ekki nema punktar einir, og þó eigi alstaðar, þar sem klausum skiptir, eins og títt var á fyrri tímum; samtengíngar-merki eru sett á milli einstöku orða, er aðskilin stóðu í handritinu, en saman áttu að hánga. 8) Böndin í handritinu eru þau helzt að merkja: að stór bókstafr er skrifaðr fyrir tvo smáa víðast hvar, t. d.: N, f. *nn*, G, f. *gg*, S, f. *ss*, R, f. *rr*; líka binzt *ng* í einn bókstaf á allflestum stöðum þannig ŋ; ɔ (öfugt *c*) brúkast alstaðar fyrir kon, t. d.: *ɔtinetr*, *ɔugr* = continentr, konúngr; ō f. om; það venjuliga band fyrir ok; *c* brúkast alstaðar fyrir *k* í handritinu, er því eigi haldið, líka q hvar *v* kemr á eptir í staðinn fyrir k; *ns* og *nt* binzt opt í eitt; x brúkast fyrir ks, t. d.: *lyxc* f. lyksk; c brúkast alstaðar fyrir *t* eptir *s* í líðandi sögnum, er því haldið að svo miklu leiti að *k* er prentað fyrir *c*. Þess má og geta að allir upphafsstafir í byrjun kapit. vanta, og er eyða fyrir þeim í handritinu, eins og í mörgum gömlum bókum finnast dæmi til, því þeir hafa optast nær verið seinna skrifaðir með mikilli viðhöfn og flúri. Það annað sem fábreytiligt er í stafasetníngu og rithætti handritsins má sjá af sjálfri sögunni sem hún hèr er prentuð. Við handrit þessi, sem nú voru talin, (*A* og *B*), hefir samanborið verið handritið Nr. 366 í 4blf. með snoturri settletrshendi Assess. Árna Magnússonar, eru leiðrèttingar þær, sem þar er gjörðar, hvervetna hagnýttar, eins og sjá má af samanburðinum, og eru þær nefndar *C*; líka hefir Skálholts útgáfan, er Mag. Þórðr Þorláksson, biskup í Skálholts stipti, árið 1688 lèt á prent útgánga, verið samanborin, og kölluð *S*; eru öll líkindi til, að hún sè orðrètt prentuð eptir *B*, er hún bæði nákvæm og vel af hendi leyst, því leitazt hefir verið við að sýna öll böndin sem í hafa verið handritinu. Íslendíngabók þessi er líka prentuð að Worms tilhlutun í Oxfurðu með látinskri útleggíngu og lærðum athugasemdum, og með þessari yfirskrift: *Aræ multiscii Schedæ de Islandia*, en bókin er titilblaðslaus; þar aptanvið stendr: *dissertatio de Aræ multiscii vita et scriptis*, en niðrlagið vantar.

II. ISLANDS LANDNÁMABÓK eða Landnámabók Íslands bygðar, sem hún líka nefnist (bls. 21—260); af sögu þessari eru alls ennú til 10 handrit af ýmisligu ásigkomulagi í Árna Magnúss. handritasafni á sívala turni, sýna þau við frekari grenslun og athugasama ransókn fernslags meðferð á sögu þessari, og má þeim því hægliga skipa í 4 höfuðflokka, eins og sá hálærði Dr. Hannes Finnsson í formála sínum fyir Kaupmannahafnar útgáfunni 1774 hefir skipt þeim í; skal hèr nú stuttliga lýsa sèrhvörjum flokk þessum fyrir sík.

1ti flokkr er sú eginliga Landnáma, er svo kallast, er hún lángtum styttri enn öll hin handritin af sögubók þessari, og sleppir úr mörgum köblum ok ættbálkum, rekr ættartölurnar skemst niðreptir, og hleypr líka yfir marga liði í

þeim ættartölum hún hefir; þessi meðferð landnámabókar er því að öllum líkindum hin elsta. Sumar ættartölur þar á móti rekr hún alstaðar mikið nákvæmliga og vandliga, einkum Sturlúnga og Oddverja, hvar þeir koma við, hvarfyrir meining þeirra er allliklig, er halda að Sturli lögmaðr hinn fróði hafi samið bók þessa. Eitt pappirs handrit er til af flokk þessum Nr. 107 í arkarformi, með stórri og snotri settaskriftar hendi Sira Jóns Erlendssonar í Villíngaholti, hvörs áðr er viðgetið; hefr bókfellið, sem hann hefir útskrifað, viða hvar verið gjör máð og ólesandi, og sumstaðar lika vantað í það nokkur blöð, því í handriti þessu eru víða eyður, bæði fyrir einstöku orð, og fyrir heilar og hálfar línur, lika vantar í það stóra kabla (t. d. bls. 46—53 og bls. 214—15). Handrit þetta er í samanburðinum nefnt *B*.

2ar flokkr er Hauksbók, hefir hún nafn sitt þegið af Hauki lögmanni, er bókina hefir samið eða samansett eptir fróðra manna ritum, sjá bls. 248 hèr að neðan, hvar hann talar um sjálfan sig í fyrstu persónu, og skýrir frá þeim hjálparmeðölum hann hefir haft að styðjast við, og hvörja forgaungu-menn hann haft hefir í að rita landnám. Flokkr þessi er miklu fjölorðari enn sá fyrrnefndi, hefir bæði fleiri ættartölur og rekr þær lengra niðr eptir, og bætir lika við mörgum markverðum viðraukum, eins og sjá má hèr að neðan af samanburðinum. Af flokk þessum eru 2 handrit til í Árna Magnússonar handritasafni, það er Nr. 105 í arkarformi, með stórri settletrshendi Sira Jóns Erlendssonar, þess er áðr er viðgetið; í því finst ein eyða, (frá bls. 86—96), sem í athugasemdunum er tilgreint; aptanvið handrit þetta er Kristnisaga með sömu hendi; það annað er skinnbókarbrotið Nr. 371 í 4blformi, alls 14 blöð; fyrsta blaðið hefst bls. 36, í 4ðu línu að ofan, með orðunum: „Björn, son minn" og endar bls. 40, í 14ðu línu að ofan, með orð.: „er átti Sigfús Elliðagrímsson"; annað blaðið byrjar bls. 62, með 6ta kap. í 2um parti: „Grímr hèt maðr," nær fram á bls. 68 og sleppr í 2 línu að neðan, með orð.: „sóttust lengi áðr sundr gekk"; þriðja blaðið, hvörju fylgja 6 samföst blöð, kemr við á bls. 147, í línu 14ðu að ofan, með orðinu: „Hauknstöðum" og ná þessi 7 blöð, sem eru í samfellu, fram á bls. 192, hvar þau sleppa í 5tu og 6tu línu að ofan, með orð.: "Hróars ok systursona hans"; tíunda og ellefta blaðið fylgist að, og koma við á bls. 204, í seinustu línu, með orð.: „hjá Jökulsfelli fur vestan", og sleppa á bls. 218 í næst sein. línu, með orð.: „fór Ketill hængr norðr í Torgar"; og þá fylgist að hið tólfta, þrettánda og fjórtánda blað af skinnbókarbroti þessu, og koma þau við á bls. 224, með kapit. „Dufþakr í Dufþaksholti", og ná fram á bls. 240, hvar þau sleppa að öllu leiti í 4ðu línu að neðan, með orð.: „keypti land í Hrunamanna." Skinnbókarbrot þetta er öldúngis samhljóða handriti Sira Jóns Erlendssonar, og mun það því eptir bókfelli þessu skrifað vera,

og mun það verið hafa heilt hèrumbil á miðri 17du öld, þegar Síra Jón skrifaði það út, og ekki annað þá í það vantað enn það, sem nú vantar í handritið, og áðr var tilgreint; styrkist þetta ennfremr þarvið, að á skinnbókarbroti þessu er líka Kristnisaga, sem einnig er aptan við handritið, skrifuð af sama manni. Flokkr þessi er í samanburðinum nefndr C, og þareð báðum handritunum bar svo vel saman, var engin orsök til að aðgreina þau, en þó er handritið leiðrètt á fáeinum stöðum eptir bókfellinu, hvar skrifarinn annaðhvört af gáleysi hafði lesið rángt úr böndunum, eða af flýtir ekki nákvæmliga athugað þau orð er máð voru, og hafa nokkur mannanöfn þarvið leiðrèzt.

3ji flokkr er Melabók, er svo kallast, þareð hún rekr ættartölur sínar niðr til Markúsar Þórðarsonar prests á Melum, er var í frændsemistölu við Sturlúnga. Þessi flokkr eða Melabók, fylgir hvað mezt Hauksbók, en er þó töluvert fjölorðari og lengri enn hinir aðrir handritaflokkar af Landnámabók; hefir flokkr þessi sumstaðar bæði lánga sögukabla, og líka mörg merkilig atvik til frekari upplýsingar einstöku atburðum, og þaraðauki rekr hann ættartölur og kynslóð Melamanna grandgæfiligar og lengra enn hinir. Niðrröðun og skipun efnis í flokk þessum er þari frábrugðin öllum hinum handritaflokkum Landnámabókar, að í þessum er Landnámabók einasta skipt í 4 parta, því þeim 1ta og 5ta parti er steypt saman í þann fyrsta part. Flokki þessum heyra 2 handrit til, Nr. 106 (E) og Nr. 112 (F), bæði í arkarformi; það fyrra er með lagligri og greiniligri settaskriftarhendi Síra Þórðar Jónssonar, er prestr var í Hýtardal, frá 1634 til 1670: aptan við handrit þetta er registr yfir lögmenn á Islandi frá 930—1290; hið síðara er með settletrshendi Síra Helga Grímssonar, er prestr var á Húsafelli, frá 1652 til 1691, er það ekki nema fáein blöð, sumstaðar mjög rotin og ólæsilig, þau fylgja orðrètt, hvar þau koma við, Nr. 106, er sjá má af athugasemdunum hèr að neðan; aptanvið bók þessa eru 10 blöð, hvará Ass. Arni Magnússon hefir skrifað, eptir einhvörju skinnbókarbroti, ýmislig brot af gömlum lögum, bæði andligri og versligri stètt viðkomandi. Á mörgum stöðum í E og F, stendr við einstöku atvik og kabla skrifað með sömu hendi, hvaðan þeir sèu teknir, hvört heldr úr Landnámu eða Hauksbók, og er þess viðgetið í athugasemdunum, þegar svo stóð á.

4ði flokkr eru þau handrit, er sprottin eru af báðum þeim fyrst nefndu flokkum, nl. Landnámu og Hauksbók, og fylgja ýmist þessari, ýmist hinni, og er þess þá á spáziunni viðgetið úr hvörri fyrir sig sèrhvörr kabli er tekinn. Til þessa flokks heyra pappírs handritin Nr. 104 (A), Nr. 108 (G), Nr. 109 (H), Nr. 110 (I), Nr. 111 (K), öll í arkarformi, og líka Skálholts útgáfan (Sk). Handritið Nr. 104, sem er með snoturri settletrshendi Ásgeirs Jónssonar, er út hefr skrifað margar sögur fyrir Th. Torfæus, ber af öllum hinum handritunum, bæði í tilliti til rithandar, rit-

háttar og nákvæmni, og er líka hið réttasta og fyllsta, það er þessvegna lagt til grundvallar við útgáfu þessa, og kallað A; það er helzt athugandi við handritið, að mannanöfnin Hrafn, Hrólfr og önnur þesshàttar, skrifast þar optastnær þannveg, að H er sleppt, svosem: Rafn, Rólfr, o. s. frv., hvörju eigi hefir fylgt verið, en að öðruléiti hefir réttritun handritsins að mestu leiti borið saman við reglur þær, sem Fèlagið hefir fylgt í útgáfu sögubókanna. Nr. 108 og Nr. 109 (eða G, H, sem þau eru kölluð), eru mjög áþekk, og þvínær samhljóða; er G ritað með læsiligri fljótaskriftarhendi, H þar á móti er með lakligri fljótaskriftarhendi Jóns Gissurarsonar, er lifði á öndverðri 17du öld. Nr. 110 (eða I), er með gamalli sèttaskrift og all-læsiligri rithönd, sem er eldri enn 1683, að dómi Á. Magnússonar, og að mestu orðrètt og samhljóða Skálholts útgáfunni (Sk). Nr. 111 (eða K), er af öllum handritum Landnámabókar, það lakligasta og öldúngis óáreiðanligt, því heilum köblum er úrslept, og hlaupið yfir margar ættartölur, og þar sem það kemr við, er það optastnær vitlaust og rángt, það er því einasta á fám stöðum hagnýtt.

Öll þau handrit, sem nú hafa verið talin í þessum 4 flokkum, hafa vandliga verið hagnýtt og samanborin við útgáfu þessa, líka Skálholts útgáfan og Kaupmannahafnar útgáfan (Kh), og allr orðamunr, hvar þau skilr frá A, hefr úr þeim verið tekinn og nákvæmliga tilfærðr í athugasemdunum; líka hefir Arngríms Jónssonar rit um Ísland verið hagnýtt á einstöku stöðum, og getgátur þaðan teknar, sem merktar eru A-I. Nr. 104 eða A, hefir orðrètt fylgt verið, og engu þari umbreytt, utan einstöku orðum, sem auðsjáanliga raung voru, og hvar hinna helztu handrita samhljóða frásögn krafði þess, og er slíkra breytinga alsfaðar viðgetið í athugasemdunum; hefir allr hugr verið álagðr að gjöra útgáfa þessa svo fullkomna, sem kostr var á, og þótt Kph. útgáfan sè mikið nákvæm og prýðiliga af hendi leyst, þá er hún þó í útgáfu þessari á mörgum stöðum leiðrètt, og miklum orðamun er hèr viðaukið, einkum hefir handritanna og hvað helzt handrita-flokkanna frábrugðins orðamunar, jafnvel hins minnsta, getið verið, svo að athugasamir lesarar og fornrita vinir gætu fengið sem fullkomnasta hugmynd um sèrhvörs flokks meðferð á sögu þessari, útaf fyrir sig. Þess er ekki við að dyljast, að hefði ekki Kph. útgáfan verið búin svo ágætliga að ryðja veginn, hefði það vart verið möguligt að leysa nærverandi útgáfu svo nákvæmliga af hendi, sem kostað hefir verið kapps um, og hefir hún þó samt sem áðr krafið ótrúanliga mikið starf og ómak. Viðbætirinn, sem prentaðr er hèr aptan við Landnámabók, finnst ekki í öðrum handritum enn þeim, er heyra til 4ða flokki (en þó er hann ekki í Nr. 111 eða K), en þareð hann er á mörgu falli fróðligr og líka töluverdt gamall, þókti vel fallið að prenta hann hèr við niðrlag Landnámabókar, eins og gert hefir verið við undanfarnar útgáfur.

III. HEIÐARVÍGASÖGUBROT (bls. 261—308). Þetta er síðari hlutinn sögunnar, sem Dr. Hannes Finnsson á ferðareisu sinni í Stokkhólmi árið 1772, var svo heppinn að uppgötva og skrifa út af skinnbókinni Nr. 18 í 4blf. í Fornritasafninu á konúngsins stóru bókahirzlu; auk fyrra hlutans vantaði í skinnbókina, hvaðan sögubrot þetta er tekið, 3 blöð, 2 á einum stað og eitt á öðrum, og er þess viðgetið í athugasemdunum, þaraðauki voru hèr og hvar einstöku orð og klausuhlutar, svo máðir, að ólesandi þóktu, og er það, hvar svo stóð á, sýnt með merki þessu (* * *). Handrit það, sem sögubrot þetta hèr er prentað eptir, hefir átt hreppstjórinn Þorsteinn Gíslason, sem góðfúsliga lánaði það árið 1828 Cand. Theol. Þorgeiri Guðmundssyni til afskriftar, var það með lipurri, hálfsettri hendi, og mjög bundið, en skrifað með mikilli nákvæmni og athugasemi, hefir því að mestu orðrètt fylgt verið (þar annað handrit var ekki fáanligt), og einasta fáein orð eptir ágizkun leiðrètt. Þareð bæði orðfæri brots þessa og samhljóða vitnisburðr fleiri Íslands sagna sannar, að Heiðarvígasaga er ein hin elzta af Islands sögum, og þareð efni hennar er all-merkilgt og fróðligt, þókti vel fallið að prenta hèr brot hennar, og þannveg geyma þær einustu leyfar, sem nú eru til af sögu þessari, fornritavinum til þóknunar.

IV. Ágrip VÍGASTÝRSSÖGU og fyrra parts HEIÐARVÍGASÖGU, ritað af Jóni Ólafsyni frá Grunnavík (bls. 309—350); árið 1727 eða snemma á árinu 1728 fèkk Próf. Árni Magnússon til láns hjá svenskum manni, fyrra part skinnbókarinnar Nr. 18 í 4blf, hvörrar hèr að ofan er getið, hvar á var Vígastýrs-saga, og byrjun eða fyrri hluti Heiðarvígasögu, og lèt útskrifa hana. hvörsu skinnbók þessari hafi háttað verið, og hvörsu hraparliga hún tortýndist sèzt best af formálanum framanvið, sem er með Jóns Ólafssonar egin hendi, og hljóðar þannig: „Hèr skrifast inntak þeirrar membranæ, sem á var Fragmentið af Vigastýrssögu, hverrar appendix að er Heiðarvígasaga, sú membrana var lèð af Svenskum, Ass. Árna Magnússyni, og skrifaði eg hana upp fyrir hann, um áramótin 1727—28, hún var í svo hátt: tvö örk í 4to, samanfest með hampþræði, voru 8 blöð í öðru, sumstaðar litið máð, en mjög mikið á seinustu blaðsíðunni, lemmata voru rauð, en numerus capitum enginn, hún var með góðu ok jöfnu settletri, mjög eptir látinu prentstafa formi, ritnð hèrum 1360, að því er Ass. Árni sagði, með hans bókum brann hún síðan í Kaupinhafnar eldsbrunanum 1728. Það sem undan gekk berserkja-drápinu, og þar til er Þórhalli kom í sakir við Styr, man eg eigi glöggvara enn hèr er sett; af históríunni um víg Styrs, atrekandanum til þess, og hefndunum eptir hann, er án efa engu gleymt, því er í membrana stóð, og eigi fjærri því niðrraðað efninu, en hversu Heiðarvígin knýttust þarvið, var svo, eðr mjög líkt því, sem hèr greinir, um nöfn þeirra manna, sem litið koma við söguna,

hefi eg umgetið, hvar eg eigi man þau glöggt, svo og um bæjanöfn, var mèr eigi auðveldt þau að muna, því eg hefi hverki verið í Eyrarsveit, nè þar í Borgarfirði, sem sagan mest umgetr, og eru þær sveitir, svo at segja, mèr alls ókunnar, eg las og ekki membranam yfir optar enn í því eina sinni, er eg skrifaði hana upp, og er nú síðan heilt ár og nokkrir mánuðir, var mèr þá annara að lesa hana rètt en setja ríkt á mig sögunnar efni, þar til vissi eg mèr víst að rita enn þá annað exemplar af henni á nýjan leik. Þetta hefi eg helzt þar fyrir uppteiknað að menn nærri lagi viti, hvað mikið þetta Fragment innihèlt, og hvílikt innihaldið hafi verið, þeim til vilja, er það eigi forsmá, heldr vel virða, hvers eg vænti; — þeirra þènustuvil. vin — Jón Ólafsson." Hèraf sèzt að skinnbókarblöð þau, sem Dr. Finnsen fann af Heiðarvígasögubrotinu, og sem hèr er nú prentað í bindi þessu, hafa heyrt því skinnbókarbroti til, sem Árni Magnússon fèkk til láns, og hvörs innihald og ágrip sá nafnkendi fornfræða yðkari Jón Ólafsson hefir uppteiknað svo vel, sem hann mundi það; er ágrip þetta því hèr prentað, að það þikir fróðligt, og líka af því, að öll von er horfin að geta fengið það fullkomnara; en því er það prentað með smærra letri, að trúligt er að hèr sè sagt of eða van á mörgum stöðum, frá því sem stóð á bókfellinu, og sè því ekki ágripið að öllu svo áreiðanligt, sem frumritið var, og sem sá hógværi höfundr í formála sínum ekki heldr leggr dulur á; er ágripið orðrètt prentað eptir handriti Jóns Ólafssonar, með þeim athugasemdum er honum hefir sýnzt að gjöra þarvið; ýms orðatiltæki og talshættir, sem höfundr ágripsins var viss um að voru sögunnar egin orð, eru með gisnara letri sett, hvar hann þar á mót ekki var viss um eitthvað, hefr hann þar viðsett *m. m.*, sem prentað hefir verið í athugasemðunum, og sem þýðir: mig minnir; og þareð hann, hvað helzt hefir verið í óvissu með nokkur mannanöfn, svo hafa hvorki manna, nè staðanöfn úr ágripi þessu verið tekin í registrin, sem eru aptanvið bindi þetta, og sem einasta ná til niðrlags Heiðarvígasögubrots.

Að útbúnaði bindis þessa í öllu tilliti hafa í sameiningu starfað tveir af meðlimum Fornritanefndar Fèlagsins, yfirkennari, Cand. Þorgeir Gudmundsson og Cand. Þorsteinn Helgason, þó hafa þeir, hvað samanburð Landnámabókar snertir, notið ljúfmannligs fulltingis af 5 löndum sínum, lærdóms yðkurum hèr við háskólann.

Kaupmannahöfn, dag 28 Jan. 1829.

# Íslendínga bók Ara prests ens fróða Þorgilssonar.

## Prologus[1].

Íslendínga bók gjörða ek fyrst byskopum orum Þorláki ok Katli, ok sýndak bæði þeim ok Sæmundi presti. En með því at þeim líkaði svá at hafa eða þar viðr auka, þá skrifaða ek þessa of et sama far, fyr utan ættartölu[2] ok konúnga æfi, ok jókk[3] því, er mèr varð síðan kunnara, ok nú er gerr sagt á þessi, enn á þeirri. En hvatki es missagt[4] es í fræðum þessum, þá er skylt at hafa þat heldr, er sannara reynisk.

Hálfdán hvítbeinn Upplendínga konúngr, sonr Ólafs trètelgju Svía konúngs, vas faðir Aisteins frets, föður Hálfdánar ens milda ok ens matarilla, föður Goðröðar veiðikonúngs, föður Hálfdánar ens svarta, föður Haralls ens hárfagra, es fyrstr varð þess kyns einn konúngr at öllum Norvegi.

[1]) *Handritin hafa í fyrisögn:* Schedæ Ara prests fróða, *en sú fyrisögn mun smíðuð af þeim, er afskrifaði þau eptir skinnbókinni.* [2]) *þannig B, S;* attartölu, *A, C.* [3]) *þannig leiðrètt í C;* jóke, *A, B, S.* [4]) *þannig líkliga rèttara lesið í S;* mi sagt, *A, B;* nú sagt, *C.*

*In hoc codice continentur capitula:*

Frá Íslanns bygð: fyrsta; frá lann-námsmönnum: annat, ok lagasetníng; frá alþíngis setníng: þriðja; frá misseris tali: fjórða; frá fjórðúnga-deild: fimta; frá Grænlanns bygð: sètta; frá því, er kristni kom á Ísland: sjönda; frá byskopum útlendum[1]: áttunda; frá Ísleifi byskopi: nínunda; frá Gizori byskopi: tíunda[1].

*Incipit libellus Islandorum.*

1. Ísland bygðisk fyrst úr Norvegi á dögum Haralls ens hárfagra, Hálfdánarsonar ens svarta, í þann tíð, at ætlun ok tölu þeirra Teits, fóstra míns, þess manns, er ek kunna spakastan, sonar Ísleifs byskops, ok þorkels, föðurbróður míns, Gellissonar, er lángt mundi fram, ok þoríðar Snorradóttur goða, es bæði vas margspök ok óljúgfróð, es Ívar Ragnarsson loðbrókar lèt drepa Eaðmund enn helga Engla konúng; en þat vas 8 hundruð ok 70 (vetrum)[2] eptir burð Krists, at því es ritit es í sögu hans. Íngólfr hèt maðr Norænn, es sannliga er sagt at færi fyrst þaðan til Íslands, þá es Haraldr enn hárfagri var 16 vetra gamall, en í annat sinn fám vetrum síðarr; hann bygði suðr í Raikjarvík; þar er Íngólfshöfði kallaðr fyr austan Minþaksairi, sem hann kom fyrst á land, en þar Íngólfsfell fyr vestan Ölfossá, es hann lagði sína eigu á síðan. Í þann tíð vas Ísland viði vaxit á miðli fjalls ok fjöru. Þá vóru hèr menn kristnir, þeir er Norðmenn kallà Papa; en þeir fóru síðan á braut, af því at þeir vildu eigi vesa hèr við heiðna menn,

[1]) *vantar í A, B, S; bætir við C.* [2]) *b. v. C.*

ok lètu eptir bækr Írskar ok bjöllur ok bagla; af því mátti skilja at þeir voru menn Írskir. En þá varð för manna mikil mjök út híngat ór Norvegi, til þess unz konúngrinn Haraldr bannaði, af því at honum þótti landauðn nema. Þá sættusk þeir á þat, at hverr maðr skyldi gjalda konúngi 5 aura, sá er eigi væri frá því skilðr ok þaðan færi hingat. En svá er sagt, at Haraldr væri 70 vetra konúngr ok yrði áttræðr. Þau hafa upphöf verit at gjaldi því, es nú er kallat landaurar;[1] en þar galsk stundum meira, en stundum minna, unz Ólafr enn digri gjörði skýrt, at hverr maðr skyldi gjalda konúngi hálfa mörk, sá er færi á miðli Norvegs ok Íslanns, nema konur, eða þeir menn, es hann næmi frá. Svá sagði Þorkell oss Gellisson.

2. Hrollaugr, son Rögvalls jarls á Mæri, bygði austr á Síðu; þaðan eru Síðumenn komnir. Ketilbjörn Ketilsson, maðr Norænn, bygði suðr at Mosfelli enu efra; þaðan eru Mosfellíngar komnir. Öðr, dóttir Ketils flatnefs, hersis Norænns bygði vestr í Breiðafirði; þaðan eru Breiðfirðíngar komnir. Helgi enn magri, Norænn, son Eyvindar Austmanns, bygði norðr í Eyjafirði; þaðan eru Eyfirðíngar komnir. En þá es Ísland vas víða bygt orðit, þá hafði maðr Austrænn fyrst lög út híngat ór Norvegi, sá er Úlfljótr hèt, svá sagði Teitr oss, ok voru þá Úlfljótslög kölluð; hann var faðir Gunnars, er Djúpdælir[2] eru komnir frá í Eyjafirði; en þau voru

---

[1]) þau, *leiðrètt í C.* [2]) Djúffdælir, *líkl. rángt lesið úr* Djúppdælir, *A, B, S.*

flest sett at því, sem þá voru Golaþíngslög, eða ráð þorleifs ens spaka Hörðakárasonar voru. til hvar við skyldi auka eða afnema, eða annann veg setja. Úlfljótr var austr í Lóni; en svá er sagt, at Grímr geitskór væri fóstbróðir hans, sá er kannaði Ísland allt at ráði hans, áðr alþíngi væri átt; en honum fèkk hverr maðr peníng til á landi hèr, en hann gaf fè þat síðan til hofa.

3. Alþíngi vas sett at ráði Úlfljóts, ok allra lannsmanna þar er nú es; en, áðr vas þíng á Kjalarnesi, þat es þorsteinn Íngólfsson, lannnámamanns, faðir þorkels mána lögsögumanns, hafði þar, ok höfðíngjar þeir, es at því hurfu. En maðr hafði sekr orðit of þræls morð eða leysíngs, sá er land átti í Bláskógum, hann es nefndr þórir kroppinskeggi; en dóttursonr hans es kallaðr þorvaldr kroppinskeggi, sá es fór síðan í Austfjörðu, ok brendi þar inni Gunnar, bróður sinn, svá sagði Hallr Órækjuson; en sá hèt Kolr, es myrðr vas; við hann[1] es kend gjá sú, es þar es kölluð síðan Kolsgjá, sem hræin fundusk; land þat varð síðan[2] allsherjarfè, en þat lögðu landsmenn til alþíngis neizlu; af því es þar almenníng at víða til alþíngis í skógum, ok á heiðum hagi til hrossa hafnar; þat sagði Úlfhèðinn oss. Svá hafa ok spakir menn sagt, at á 60 vetra yrði Ísland albygt, svá at eigi væri meirr síðan. Því nær tók Hrafn lögsögu, Hængssonr, lann-námamanns, næstr Úlfljóti, ok hafði 20 sumur, hann var úr Rángárhverfi; þat var 60 vetrum eptir dráp Eaðmundar konúngs, vetri eða

[1]) þat, *B*, *S*. [2]) *v. í A.*

tveim áðr Haraldr enn hárfagri yrði dauðr, at tölu spakra manna. Þórarinn Raga-bróðir, son Óleifs hjalta, tók lögsögu næstr Hramni ok hafði önnur 20; hann vas Borgfirðskr[1].

4. Þat[2] vas ok þá, es[3] enir spökustu menn á landi hèr höfðu talit í tveim misserum fjóra daga ens fjórða hundraðs, þat verða vikur 2 ens sètta tegar, en mánuðr 12 þrítögnáttar ok dagar 4 umbfram, þá merkðu þeir at sólargángi, at sumarit munaði aptr til vársins; en þat kunni engi segja þeim, at degi einum vas fleira enn heilum vikum gegndi í tveim misserum, ok þat olli. En maðr hèt Þorsteinn surtr, hann vas Breiðfirðskr, sonr Hallsteins Þórólfssonar[4] Mörstrarskeggja[5], landnámamanns, ok Óskar Þorsteinsdóttur ens rauða; hann draimdi þat, at hann hygðisk vesa at lögbergi, þá es þar var fjölmennt, ok vaka, en hann hugði alla menn aðra sofa; en síðan hugðisk hann sofna, en hann hugði þá alla[6] aðra vakna. Þann draum rèð Ósyfr Helgason, móðurfaðir Gellis Þorkelssonar svâ, at allir menn myndi [þagna við[7]; meðan hann mælti at lögbergi, en síðan, es hann þagnaði at, þá myndi allir þat róma, es hann hefði mælt; en þeir voru báðir spakir menn mjök. En síðan, es menn kvomu til þíngs, þá leitaði hann þess ráðs at lögbergi, at et sjönda hvert sumar skyldi auka viku, ok freista hve þá hlýddi. En svâ sem

---

1) *þannig leiðr. í C;* Borgfirþer, *hin.* 2) hat, *A, B, S; á að vera:* That, *en upphafs-stafinn* T *hefir vantað í skinnbókinni.* 3) *v. í B, S.* 4) *þannig C;* Þórólpss., *A, B, S.* 5) *þannig A;* Mostrarskeggja, *hin.* 6) menn, *b. v. B, C, S.* 7) *þannig ágizkuð lagfæring af A. Magnúss.;* þegn var, *líkl. rángt lesið í A, B, S.*

Ósyfr rèð drauminn, þá vöknuðu allir menn við þat vel, ok vas þat þá þegar í lög leidt, at ráði þorkels mána ok annara spakra manna. At rèttu tali (eru)[1] í hverju ári 5 dagar ens fjórða hundraðs, ef eigi es hlaupár, en þá einum fleira; en at oru tali verða 4; en þá es aiksk at oru tali et sjönda hvert at viku, en engu at hinu, þá verða 7 ár saman jamplanng at hvorutveggja; en ef hlaupár verða 2 á miðli þeirra, es auka skal, þá þarf auka et sètta.

5. þíngadeild mikil varð á miðli þeirra þórðar gellis, sonar Óleifs feilans, úr Breiðafirði, ok Odds þess, er kallaðr var Túngu-Oddr, hann var Borgfirðskr; þorvaldr, sonr hans, vas at brennu þorkels Blunnketilssonar með Hæsna-þóri[2] í Örnólfsdali. En þórðr gellir varð höfðíngi at sökinni, af því at Hersteinn þorkelsson, Blunnketilssonar, átti þórunni, systurdóttur hans; hún vas Helgudóttir ok Gunnars, systir Jófríðar, es þorsteinn átti Egilsson. En þeir voru sóttir á þíngi því, es var í Borgarfirði, í þeim stað, es síðan es kallat þíngnes. þat voru þá lög, at vígsakar skyldi sækja á því þíngi, es næst vas vettvángi[3]. En þeir börðusk þar, ok mátti þíngit eigi heyjask at lögum; þar fèll þórólfr refr, bróðir Álfs í Dölum, úr liði þórðar gellis. En síðan fóru sakarnar til alþíngis, ok börðusk þeir þar þá enn; þá fèllu menn úr liði Odds, enda varð sekr hann Hæsna-þórir ok drepinn síðan, ok fleiri þeir at brennunni voru. þá taldi þórðr gellir tölu umb

1) *þannig ágizk.; v. í öll.* 2) *þannig A, B, S;* Hænsa-þóri, *C.* 3) *þannig leiðrètt í C;* veit vagi, *A, B, S.*

at lögbergi, hve illa mönnum gegndi at fara í ókunn þíng at sækja of víg eða harma sína, ok taldi hvat honum varð fyrir, áðr hann mætti því máli til laga koma, ok kvað ýmissa vandræði mundu verða, ef eigi rèðisk bætr á. Þá vas landinu skipt í fjórðúnga, svá at 3 urðu þíng í hverjum fjórðúngi, ok skyldu þínguнautar eiga hvar saksóknir saman, nema í Norðlendínga fjórðúngi voru 4, af því at þeir urðu eigi á annat sáttir; þeir, er fyr norðan voru Eyjafjörð vildu eigi þángat sækja þíngin, ok eigi í Skagafjörð þeir, es þar voru fyr vestan; en þó skyldi jöfn dómnefna ok lögrèttuskipun ór þeirra fjórðúngi sem or einumhverjum öðrum; en síðan voru sett fjórðúngarþíng; svá sagði oss Úlfhèðinn Gunnarsson, lögsögumaðr. Þorkell máni Þorsteinsson, Ingólfssonar, tók lögsögu eptir Þórarinn Raga-bróður, ok hafði 15 sumur; þá hafði Þorgeir at Ljósavatni, Þorkelsson, 17 sumur.

6. Land þat, es kallat es Grænland, fannsk ok bygðisk af Íslandi. Eiríkr[1] enn rauði hèt maðr Breiðfirðskr, es fór út hèðan þángat, ok nam þar land, er síðan es kallaðr Eiríksfjörðr; hann gaf nafn landinu ok kallaði Grænland, ok kvað menn þat myndu fýsa þángat farar, at [landit ætti[2] nafn gott. Þeir fundu þar manna vistir, bæði austr ok vestr á landi, ok keiplabrot[3] ok steinsmíði, þat es af því má skilja, at þar hafði þesskonar þjóð farit, es Vínland hefir bygt ok Grænlendíngar kalla Skrælínga. En þat vas, es

1) Eirekr, *hèr B, S.* 2) landiþ ætti, *þannig A, C;* landit þætti, *B, S.* 3) keiflabrot, *rángt les. B, S.*

hann tók byggva landit, 14 vetrum eða 15 fyrr enn kristni kvæmi hèr á Ísland, at því er sá taldi fyrir Þorkeli Gellissyni á Grænlandi, er sjálfr fylgdi Eiríki enum rauða út.

7. Ólafr rex Tryggvason, Ólafssonar, Harallssonar ens hárfagra, kom kristni í Noreg ok á Ísland; hann sendi híngat til lanns prest þann, er hèt Þángbrandr, ok hèr kendi mönnum kristni, ok skírði þá alla, es við trú tóku. En Hallr á Síðu Þorsteinssonr lèt skírask snimmhendis, ok Hjalti Skeggjasonr ór Þjórsárdali, ok Gizor enn hvíti Teitsson, Ketilbjarnarsonar frá Mosfelli, ok margir höfðíngjar aðrir; en þeir voru þó fleiri, es í gegn mæltu ok neittu. En þá er hann hafði hèr verit einn vetr eða 2, þá fór hann á braut, ok hafði vegit hèr 2 menn eða 3, þá et hann höfðu nídt. En hann sagði konúnginum Ólafi, es hann kom austr, allt þat, es hèr hafði yfir hann gíngit, ok lèt örvænt, at hèr mundi kristni enn takask. En hann varð við þat reiðr mjök, ok ætlaði at láta meiða eða drepa ossa landa fyrir, þá es þar voru austr. En þat sumar et sama kvomu utan heðan þeir Gizor ok Hjalti, ok þágu þá undan við konúnginn, ok hètu honum umbsýslu sinni til á nýja leik at hèr yrði enn við kristninni tekit, ok lètu sèr eigi annars von, enn þat[1] mundi hlýða. En et næsta sumar eptir fóru þeir austan, ok prestr sá, es Þormóðr hèt, ok kvomu þá í Vestmannaeyjar es 10 vikur voru af sumri, ok hafði allt farisk vel at; svá kvað Teitr þann[2] segja, es sjálfr vas þar.

---

[1]) *þannig A, C;* þar, *B, S.* [2]) *þannig C;* þ, *A, B;* þat, *S.*

þá vas þat mælt et næsta sumar áðr í lögum, at menn skyldi svá koma til alþíngis, es 10 vikur væri af sumri, en þángat til kvomu (menn)[1] viku fyrr. En þeir fóru þegar inn til meginnlanns ok síðan til alþíngis, ok gátu at Hjalta, at hann vas eptir í Laugardali með 12ta mann, af því at hann hafði áðr sekr orðit fjörbaugsmaðr et næsta sumar á alþíngi of goðgá; en þat vas til þess haft, at hann kvað at lögbergi kviðlíng þenna:

Vil ek eigi goð geyja,
grai þykir mèr Fraija.

En þeir Gizor fóru unz þeir kvomu í stað þann í hjá Ölfossvatni, es kallaðr es Vellankatla, ok gerðu orð þaðan til þíngs, at á mót þeim skyldi koma allir fulltíngsmenn þeirra, af því at þeir höfðu spurt, at andskotar þeirra vildi verja þeim vígi þíngvöllinn[2]. En fyrr enn þeir færi þaðan, þá kom þar ríðandi Hjalti, ok þeir, er eptir voru með honum; en síðan riðu þeir á þíngit, ok kvomu áðr á mót þeim frændr þeirra ok vinir, sem þeir höfðu æst. En enir heiðnu menn hurfu saman með alvæpni, ok hafði svá nær, at þeir myndi berjask, [at eigi[3] of sá á miðli[4]. En annann dag eptir gengu þeir Gizor ok Hjalti til lögbergs, ok báru þar upp erindi sín; en svá er sagt, at þat bæri frá, hve vel þeir mæltu. En þat gerðisk af því, at þar nefndi annar maðr at öðrum vátta, ok sögðusk hvárir úr lögum við aðra, enir kristnu menn ok enir heiðnu, ok gíngu síðan frá lögbergi. Þá báðu enir kristnu

1) *b. v. til leitr. C.* 2) Þíngvellinn, *þannig öll.* 3) eigi: *er ágizkun A. M. samkvæmt talshætti í Egils S.; í A, B, er eyða.* 4) *frá* [ *v. í S.*

menn Hall á Síðu, at hann skyldi lög þeirra uppsegja, þau es kristninni skyldi fylgja; en hann leystisk því undan við þá, at hann kaypti at Þorgeiri lögsögumanni, at hann skyldi uppsegja, en hann vas enn þá heiðinn. En síðan es menn kvomu í búðir, þá lagðisk hann niðr Þorgeirr ok breiddi feld sinn á sik, ok hvíldi þann dag allan ok nóttina eptir, ok kvað ekki orð. En of morguninn eptir settisk hann upp, ok gerði orð, at menn skyldi gánga til lögbergis; en þá hóf hann tölu sína upp, es menn kvomu þar, ok sagði, at honum þótti þá komit hag manna í óhytt efni, ef menn skyldi eigi hafa allir lög ein á landi hèr, ok taldi fyrir mönnum á marga vega, at þat skyldi eigi láta verða, ok sagði, at þat mundi at því óssætti verða, es vísa von vas, at þær barsmíðir gerðisk á miðli manna, es landit eyddisk af; hann sagði frá því, at konúngar ór Norvegi ok ór Danmörku höfðu haft ófrið ok orrostur á miðli sín lánga tíð, til þess unz lannsmenn gerðu frið á miðli þeirra, þótt þeir vildi eigi: en þat ráð gerðisk svâ, at af standu sendusk þeir gersemar á miðli, enda hèlt friðr sá meðan þeir lifðu; en nú þykkir mèr þat ráð, kvað hann, at vèr látim ok eigi þá ráða, er mest vilja í gegn gángask, ok miðlum svâ mál á miðli þeirra, at hverirtveggju hafi nâkkvat síns máls, ok höfum allir ein lög ok einn sið; þat mun verða satt, es vèr slítum í sundr lögin, at vèr munum slíta ok friðinn. En hann lauk svâ máli sínu, at hvârirtveggju játtu því, at allir skyldi ein lög hafa, þau sem hann rèði upp at segja. Þá vas þat

mælt í lögum, at allir menn skyldi kristnir vesa ok skírn taka, þeir er áðr voru óskírðir á landi hèr; en of barna útburð skyldu standa en fornu lög, ok of hrossakjötsát, skyldu menn blóta á laun, ef vildu, en varða fjörbaugsgarðr, ef vottum of kvæmi við; en síðar fám vetrum var sú heiðni afhumin, sem önnur. þenna atburð sagði Teitr oss, at því en kristni kom á Ísland. En Ólafr Tryggvason fèll et sama sumar at sögu Sæmundar prests; þá barðisk hann við Svein Haraldsson, Dana-konúng, ok Óláf enn Sænska, Eiríksson at Upsölum, Svía-konúngs, ok Eirík, es síðan vas jarl at Norvegi Hákonarson; þat vas hundrað ok 30 vetrum eptir dráp Eaðmundar, en þúsund eptir burð Krists at alþýðu tali.

8. þessi[1] eru nöfn byskopa þeirra, es verit hafa á Íslandi útlendir, at sögu Teits: Friðrekr kom í heiðni hèr; en þessir voru síðan: Bjarnharðr enn bókvísi 5 ár; Kolr fá ár; Hróðólfr 19 ár; Jóhan enn Írski fá ár; Bjarnharðr 19 ár; Heinrekr 2 ár. Enn kvomu hèr aðrir 5, þeir eð byskopar kvóðusk vesa: Örnólfr ok Góðiskálkr ok 3 Ermskir: Petrus ok Abraham ok Stephanus. Grímr at Mosfelli Svertíngsson tók lögsögu eptir þorgeir, ok hafði 2 sumur; en þá fèkk hann lof til þess, at Skapti þóroddsson hefði, systurson hans, af því at hann vas hásmæltr sjálfr. Skapti hafði lögsögu 27 sumur; hann setti fimtardómalög, ok þat, at[2] engi vegandi skyldi lýsa vígi[3] á hendr öðrum manni enn sèr, en áðr voru hèr

1) hessi, *A, B, S, á at vera:* thessi, *en upphafsstafinn vantar.* 2) *v. í B, S.* 3) *þannig leiðrètt í C;* víg, *A, B, S.*

slík lög of þat sem í Norvegi. Á hans dögum urðu margir höfðíngjar ok ríkismenn sekir eða landflótta of víg eða barsmíðir af ríkis sökum hans ok landstjórn; en hann andaðisk á enu sama ári ok Ólafr enn digri fèll Harallsson, Goðröðarsonar, Bjarnarsonar, Haralls-sonar[1] ens hárfagra, 30 vetrum síðarr enn Ólafr fèlli Tryggvason. Þá tók Steinn Þorgestezson lögsögu, ok háfði 3 sumur; þá hafði Þorkell Tjörvason 20 sumur; þá háfði Gellir Bölverksson 9 sumur.

9. Ísleifr Gizorarson ens hvíta vas vígðr til byskops á dögum Haralls Norvegs konúngs Sigurðarsonar, Hálfdánarsonar, Sigurðarsonar hrísa, Harallssonar ens hárfagra. En es þat sá höfðíngjar ok góðir menn, at Ísleifr vas myklu nýtri, enn aðrir kennimenn, þeir es á þvísa landi[2] næði, þá seldu honum margir sonu sína til læríngar, ok lètu vígja til presta; þeir urðu síðan vígðir 2 til byskopa: Kolr[3], er var í Vík austr, ok Jóan at Hólum. Ísleifr átti 3 sonu; þeir urðu allir höfðíngjar nýtir: Gizor byskop ok Teitr prestr, faðir Halls, ok Þorvaldr[4]. Teit fæddi Halr í Haukadali, sá maðr, es þat vas almælt at mildastr væri ok ágæstr at góðu á landi hèr ólærðra manna. Ek kom ok til Halls 7 vetra gamall, vetri eptir þat, es Gellir Þorkelsson föðurfaðir minn ok fóstri andaðisk, ok vask þar 14 vetr. Gunnar enn spaki hafði tekit lögsögu, þá es Gellir lèt af, ok hafði 3 sumur; þá hafði Kolbeinn Flosason 6; þat sumar, er hann tók lögsögu, fèll Haraldr

[1]) sonar, *v. í B, S.* [2]) voru, *b. v. C, S; yfirdregið í B.* [3]) *þannig leiðr. af A. M.*; Kollr, *A, B, S.* [4]) *þannig leiðr. af A. M. samkv. Húngrvöku og Sturlúngu;* Þorvallz, *A, B, S.*

rex á Englandi; þá hafði Gellir í annat sinn 3 sumur; þá hafði Gunnar í annat sinn eitt sumar; þá hafði Sighvatr Surtsson, systurson Kolbeins, 8. Á þeim dögum kom Sæmundr Sigfússon sunnan af Fraklandi hingat til lands ok lèt síðan vígjask til prests. Ísleifr vas vígðr til byskops þá es hann vas fimtögr; þá vas Leó septimus pávi; en hann vas enn næsta vetr í Norvegi, ok fór síðan út hingat; en hann andaðisk í Skálaholti þá es hann hafði alls verit byskop 4 vetr ok 20; svâ sagði Teitr oss; þat var á drottinsdægi, 6 nóttum eptir hátíð þeirra Pètrs ok Páls, 80 (vetra)[1] eptir Ólafs fall Tryggvasonar; þar vas ek þá með Teiti, fóstra mínum, 12 vetra gamall. En Hallr sagði oss svâ, es bæði vas minnigr ok ólýginn, ok mundi sjálfr þat, es hann var skírðr, at Þángbrandr skírði hann þrèvetran; en þat vas vetri fyrr enn kristni væri hèr í lög tekin. En hann gerði bú þrítögr ok bjó 64 vetr í Haukadali, ok hafði 94 vetr, þá es hann andaðisk; en þat vas of hátíð Marteins byskops, á enum tíunda vetri eptir andlát (Ísleifs)[2] byskops.

10. Gizor byskop, sonr Ísleifs, vas vígðr til byskops at bæn lannsmanna á dögum Ólafs konúngs Haraldssonar, 2 vetrum eptir þat es Ísleifr andaðisk; þann vas hann annann hèr á landi, en annann á Gautlandi; en þá vas namn hans rætt, at hann hèt Gisrøðr; svâ sagði hann oss. Markús Skeggjason hafði lögsögu næstr Sighvati ok tók þat sumar, es Gizor byskop hafði einn vetr verit hèr á landi, en fór með 4 sumur ok 20. At

[1]) *v. í B, S.* [2]) *b. v. til leiðrèttingar í C; v. í hin.*

hans sögu er skrifuð æfi allra lögsögumanna á bók þessi, þeirra es voru fyrir várt minni; en honum sagði Þórarinn, bróðir hans, ok Skeggi, faðir þeirra, ok fleiri spakir menn, til þeirra æfi, es fyrir hans minni voru, at því es Bjarni enn spaki hafði sagt, föðurfaðir þeirra, es mundi Þórarinn lögsögumann ok 6 aðra síðan. Gizor byskop vas ástsælli af öllum lansmönnum enn hverr maðr annara, þeirra es vèr vitam[1] hèr á landi hafa verit; af ástsæld hans ok af tölum þeirra Sæmundar, með umbráði Markúss lögsögumanns, vas þat í lög leidt, at allir menn töldu ok virðu allt fè sitt, ok sóru at rètt virdt væri, hvárt sem vas í löndum eða í lausa-aurum, ok gerðu tíund af síðan. Þat eru miklar jarteknir, hvat hlýðnir lansmenn voru þeim manni, es hann kom því fram, at fè allt vas virdt með svardögum, þat es á Íslandi vas, ok landit sjálft, ok tíundir af gervar, ok lög álögð at svá skal vesa meðan Ísland es bygt. Gizor byskop lèt ok lög leggja á þat, at stóll byskops þess, es á Íslandi væri, skyldi í Skálaholti vesa, en áðr vas hvergi, ok lagði hann þar til stólsins Skálaholts land ok margra kynja auðæfi önnur bæði í löndum ok í lausum aurum. En þá es honum þótti sá staðr hafa vel at auðæfum þróask, þá gaf hann meir enn fjórðúng byskopsdóms síns til þess, at heldr væri 2 byskopsstólar á landi hèr, enn einn, svá sem Norðlendíngar æstu hann til. En hann hafði áðr látit telja búendr á landi hèr, ok voru þá í Austfirðínga fjórðúngi 7

[1] *þannig.*

hundruð heil, en í Rángæínga fjórðúngi 10, en í Breiðfirðínga[1] fjórðúngi 9, en í Ayfirðínga fjórðúngi 12, en ótaldir voru þeir, es eigi áttu þíngfararkaupi at gegna of allt Ísland. Úlfheðinn Gunnarsson ens spaka tók lögsögu eptir Markús, ok hafði 9 sumur; þá hafði Bergþór Hramnsson 6, en þá hafði Goðmundr þorgeirsson 12 sumur. Et fyrsta sumar, es Bergþór sagði lög upp, vas nýmæli þat gjört, at lög or skyldi skrifa á bók at Hafliða Móss-sonar[2] of vetrinn eptir, at sögu ok umbráði þeirra Bergþórs ok annara spakra manna, þeirra er til þess voru teknir; skyldu þeir gerva nýmæli þau öll í lögum, er þeim litisk þau betri enn en fornu lög; skyldi þau segja upp et næsta sumar eptir í lögrèttu, ok þau öll halda, es enn meiri hlutr manna mælti þá eigi gegn. En þat varð at framfara, at þá vas skrifaðr Vígslóði ok margt annat í lögum, ok sagt upp í lögrettu af kennimönnum of sumarit eptir; en þat líkaði öllum vel, ok mælti því, mangi í gegn. Þat vas ok et fyrsta sumar, es Bergþór sagði lög upp, þá vas Gizor byskop óþíngfærr af sótt; þá sendi hann orð til alþíngis vinum sínum ok höfðíngjum at biðja skyldi þorlák Runólfsson, þorleikssonar, bróður Halls í Haukadali, at hann skyldi láta vígjask til byskops; en þat gerðu allir svá sem orð hans kvomu til, ok fèksk þat af því, at Gizor hafði sjálfr fyrr mjök beðit, ok fór hann utan þat sumar, en

[1]) *þannig leiðrètt í C;* Bræiðinga, *hin.* [2]) Njóssonar, *B;* Mjóssonar, *S.*

kom út et næsta eptir, ok vas þá vígðr til byskops. Gizor vas vígðr til byskops þá es hann var fertögr; þá vas Gregóríus septímus pávi; en síðan vas hann enn næsta vetr í Danmörku, ok kom of sumarit eptir híngat til lands. En þá es hann hafði verit 24 vetr byskop, svâ sem faðir hans, þá vas Jóan Ögmundarson vígðr til byskops, fyrstr til stóls at Hólum, þá vas hann vetri miðr enn hálfsextögr[1]. En 12 vetrum síðar, þá es Gizor hafði alls verit byskop 36 vetr, þá vas Þorlákr vígðr til byskops; hann lèt Gizor vígja til stóls í Skálaholti at sèr lifanda; þá vas Þorlákr 2 vetrum meir enn 30. En Gizor byskop andaðisk 30 nóttum síðar í Skálaholti, á enum þriðja degi í viku, 5ta[2] kalend. júníí. Á því ári enu sama obíit Paschalis secúndus pape, fyrr enn Gizor byskop, ok Baldvini Jórsala konúngr ok Arnaldus patríarcha í Híerúsalem ok Philippus Svía konúngr; en síðar et sama sumar Alexíus Grikkja konúngr, þá hafði hann 38 vetr setit at stóli í Miklagarði; en 2 vetrum síðar varð aldamót; þá höfðu þeir Eysteinn ok Sigurðr verit 17 vetr konúngar í Norvegi eptir Magnús, föður sinn, Ólafsson, Haralssonar. Þat vas hundrað ok 20 vetrum eptir fall Ólafs Tryggvasonar, en 2 hundruð ok 50 eptir dráp Eaðmundar Engla konúngs, en 5 hundruð ok 16 vetrum eptir andlát Gregóríus páva, þess es kristni kom á England, at því es talit es; en hann andaðisk á öðru ári konúngdóms Fóku keisara, 6 hundruð

---

1) *þannig leiðr. af A. M.;* hálffertögr, *líkl. rángt úrlesið, hin.* 2) *v. í A, B, S; þannig af A. M. samkv. Kristni S.*

ok 4 vetrum eptir burð Krists at almanna tali; þat verðr alltsaman 1120 ár. Hèr lyksk sjá bók.

*Þetta es kyn byskopa Íslendínga ok ættartala.*

11. Ketilbjörn, landnámsmaðr, sá es bygði suðr at Mosfelli enu efra, vas faðir Teits, föður Gizorar ens hvíta, föður Ísleifs, es fyrstr vas byskop í Skálaholti, föður Gizorar byskops. Hrollaugr landnámsmaðr, sá es bygði austr á Síðu, á Breiðabólstað, vas faðir Özorar, föður Þórdísar, móður Halls á Síðu, föður Egils, föður Þorgerðar, móður Jóans, es fyrstr vas byskop at Hólum. Öðr landnámskona, es bygði vestr í Breiðafirði í Hvammi, vas móðir Þorsteins ens rauða, föður Óleifs feilans, föður Þórðar gellis, föður Þórhildar rjúpu, móður Þórðar hesthöfða, föður Karlsefnis, föður Snorra, föður Hallfríðar[1], móður Þorláks, es nú es byskop í Skálaholti næstr Gizori. Helgi enn magri landnámsmaðr, sá es bygði norðr í Eyjafirði í Kristnesi, vas faðir Helgu, móður Einars, föður Eyjólfs Valgerðarsonar, föður Goðmundar, föður Eyjólfs, föður Þorsteins, föður Ketils, es nú es byskop at Hólum, næstr Jóanni.

*Þessi eru nöfn lángfeðga Ýnglínga ok Breiðfirðínga.*

12. Ýngvi Tyrkja konúngr; annar Njörðr, Svía konúngr, þriði Frayr, fjórði Fjölnir, sá er dó at Friðfróða, fimti Svegðir, sètti Vanlandi, sjöndi Visburr, áttundi Dómaldr, níundi Dómarr, tíundi Dyggvi, ellefti Dagr, tólfti Alrekr, þrettándi Agni, fjórtándi Ýngvi, fimtándi Jörundr,

[1]) *þannig C;* Hallfiþar, *hin.*

sextándi Ön[1] enn gamli, [sjötjándi Egill Vendilkráka, átjándi Óttar[2], nítjándi Aðisl at Uppsölum, tuttugasti Eysteinn, tuttugasti ok fyrsti Yngvarr, tuttugasti ok annar Braut-Önundr[3], tuttugasti ok þriði Ingjaldr enn illráði, tuttugasti ok fjórði Ólafr trètelgja, tuttugasti ok fimti Hálfdán hvítbeinn, Upplendínga konúngr, tuttugasti ok sètti Goðröðr, tuttugasti ok sjöndi Ólafr, tuttugasti ok áttundi Helgi, tuttugasti ok níundi Ingjaldr, dóttursonr Sigurðar, Ragnarssonar loðbrókar, þrítögasti Óleifr enn hvíti, þrítögasti ok fyrsti þorsteinn enn rauði, þrítögasti ok annar Óleifr feilan, es fyrstr bygði þeirra á Íslandi, þrítögasti ok þriði þórðr gellir, þrítögasti ok fjórði Eyjólfr, es skírðr vas í elli sinni, þá es kristni kom á Ísland, þrítögasti ok fimti þorkell, þrítögasti ok sètti Gellir, faðir þeirra þorkels ok[4] Branns ok þorgils, föður míns, en ek heitir Ari.

---

[1]) Aun, *öll.* [2]) 17di Egill, 18di Óttar Vendilkráka, *er leiðrètting A. Magnúss. samkv. Snorra.* [3]) Graut-Önundr, *rángt les. í S.* [4]) *þannig leiðr. af A. M. samkv.* 9 *Kap.;* föður, *líkl. rángt lesið úr bändi, hin.*

# Íslands Landnámabók.

*þetta er Prólógus fyrir bók þessi*[1].

Í ALDAFARS bók þeirri, er Beða prestr heilagr gerði[2], er getit eylands þess, er Thyle heitir[3] á bókum, er sagt er liggi [sex[4] dægra siglíng norðr frá Bretlandi; þar sagði hann eigi koma[5] dag á vetr, ok eigi nótt á sumar, þá er dagr er sem lengstr. Til þess ætla vitrir menn þat haft, at Ísland sè Thyle kallat, at[6] þat er víða á landinu at sól skín um nætr, þá er dagr er lengstr, en þat er víða um daga at sól sèr eigi, þá er nótt er lengst. En Beða prestr andaðist sjö hundruð þrjátígi ok fimm árum eptir holdgan vors herra Jesú Kristí, at því er ritat er, meirr enn hundraði ára fyrr enn Ísland bygðist af Norðmönnum. [En áðr Ísland bygðist af Norðmönnum[7] voru þar þeir menn, er Norðmenn kalla Papa, þeir voru menn kristnir[8], ok hyggja menn at þeir muni verit hafa vestan um haf, þvíat fundust eptir þeim bækr Írskar, bjöllur ok baglar, ok enn fleiri lutir, þeir er þat mátti skilja, at þeir [voru Vestmenn[9]; [þat fannst í Papey austr ok í Papyli[10]; er ok þess getit á bókum Enskum, at í þann tíma var farit milli landanna.

---

[1]) *þannig B, Sk, Kh;* Upphaf Íslands bygðar ok annara bygða kríngum landit, *K; í hinum handritunum er engin fyrisögn.* [2]) um landaskipan í heiminum, *b. v. K, Sk.* [3]) ok; *b. v. C, Sk.* [4]) 5, *I.* [5]) svá lángt í Norðrálfu heimsins, at þar komi eigi dagr, *K.* [6]) *frá byrjuninni er afrifit í K.* [7]) *b. v. B, C, E, F, G, H, Sk; vantar í A, I, K.* [8]) ókristnir, *I.* [9]) hafi kristnir verit ok komit til vestan um haf, *K.* [10]) enn, *C.*

# Hèr hefr Landnámabók Íslands bygdar.

## Fyrsti Partr.

*Segir í hinum fyrsta kapítula, hvert skemst er frá Íslandi, ok hverir herrar ríktu á Norðrlöndum í þann tíma*[1].

Á ÞEIM tíma er Ísland fannst ok bygðist af Noregi, var Aðríanus páfi í Róma, ok Jóhannes, sá er hinn fimti var með því nafni[2], í postulligu[3] sæti; en Hlöðver Hlöðversson keysari fur norðan fjall, en Leó ok Alexander, son hans, yfir Miklagarði. Þá var Haraldr hinn hárfagri konúngr yfir Noregi, en Eiríkr Eymundarson[4] yfir Svíaríki ok Björn son hans, en Gormr hinn gamli[5] at Danmörk, Elfráðr hinn ríki í Englandi ok Játvarðr son hans, en Kjárvalr[6] at Dýflinni[7], Sigurðr jarl hinn ríki at Orkneyjum[8]. Svâ segja vitrir menn, at or Noregi frá Staði sè sjö dægra siglíng[9] til Horns á austanverðu Íslandi; en frá Snæfellsnesi fjögra dægra siglíng til Hvarfs á

1) *þannig er fyrisögnin í A, G, H, I, að því undanteknu, að* Fyrsti Partr *er hèr til betri aðgreiníngar viðbætt; B hefir eins og þau, nema niðrlagið:* ok hverir herrar ríktu á Norðrlöndum í þann tíma, *vantar; E, F hafa einasta:* hèr hefr upp Landnámabók Islands bygðar; *Kh, Sk hafa, líkl. sjálfsmíðað að nokkru:* hèr hefr upp Landnámabók Islands bygðar; Fyrsti partr: segir frá almenniligri bygging landsins; *C, K hafa hèr enga fyrisögn.* 2) eptir hann, *b. v. C, K.* 3) því, *B;* prestligu, *G, H, I.* 4) Emundason, *C.* 5) 58di konúngr, *b. v. E, F.* 6) Kjarvall, *B.* 7) á Irlandi, *b. v. E, F, K, Sk.* 8) ok Katanesi, son Eysteins glumru ok Torf-Einar, bróðurson hans, *b. v. E, F á spássíunni;* bróðir Rögnvalds (Mæra jarls, *b. v. Sk.*) *b. v. E, F, Sk.* 9) í vestr, *b. v. C, Sk.*

Grænalandi í vestr, þar skemst er. [Af Húsnum[1] af Noregi skal sigla jamnan til vestrs til Hvarfs á Grænlandi, ok er þá siglt fur norðan Hjaltland, svá at[2] því at eins sèi þat, at allgóð sè sjóvarsýn, en fur sunnan Færeyjar, svá at sjór er í miðjum hlíðum, en svá fur sunnan Ísland, at þeir hafa af fugl ok hval[3]. Frá Reykjanesi á sunnanverðu Íslandi er þriggja[4] dægra haf til Jöldulaups[5] á Írlandi, í suðr. [En frá Lánganesi á norðanverðu Íslandi er[6] fjögra dægra haf til Svalbarða norðr í Hafsbotna[7]; [en dægrsiglíng er til óbygða í Grænlandi or Kolbeinsey norðr[8].

[Svá er sagt, at menn skyldu fara af Noregi til Færeyja, nefna sumir til Naddodd[9] víking[10], en þá rak vestr í haf, ok fundu þar land mikit; þeir gengu upp í Austfjörðum á fjall eitt hátt, ok sáust um víða, ef þeir sæi reyki eða nokkur líkindi til þess, at landit væri bygt, ok sá þeir þat eigi. Þeir fóru aptr um haustit til Færeyja; ok[11]

1) Húsum, G, I; Húsunum, K, Sk. 2) sjór er í miðjum hlíðum, ok þá, *b. v. B, Sk.* 3) En svá er sagt, ef siglt er úr Björgin rètt í vestr til Hvarfsins á Grænlandi, at þá mun siglt vera tylft fyri sunnan Ísland, *C, K í stað þess frá* [. 4) 5, *C, K*; 8, *Sk.* 5) Ölduhlaups, *E, K.* 6) *frá* [ *v. í C.* 7) þessir hafsbotnar eru fyrir austan Greipar á Grænlandi, ok eru aldri ísalausir, *b. v. K, Sk.* 8) *frá* [ *v. í C.* 9) Naddoð, *C.* 10) bróður Yxnaþóris, mág Ölvis barnakarls, hann var víkingr mikill; af því staðfestist hann í Færeyjum, at hann átti hvergi annarstaðar vel fridt. Hann fór or Noregi ok vildi til eyjanna ok varð sæhafi, til þess er fyrir honum varð land mikit, *b. v. Sk.* 11) Naddoddr hèt maðr, bróðir Exnaþoris, mágr Ölvis barnakarls, hann var víkingr mikill; af því staðfestist hann í Færeyjum, at hann átti hvergi annarstaðar vel fridt; hann fór úr Noregi ok vildi til eyjanna ok varð sæhafi til Garðarshólms, ok kom í Reiðarfjörð í Austfjörðum, ok gengu þeir þar á hin hæstu fjöll at vita, ef þeir sæi nokkurar manna vistir eða reyki, ok sá þeir ekki tiðenda. En, *þannig í stað þess frá* [ *B, er og setr þessa grein um fund landsins af Naddoddi á eptir gr. um fund Íslands af Garðari.*

er[1] þeir sigldu af landinu, fèll snær mikill á fjöll, ok fyrir því kölluðu þeir landit Snæland; þeir lofuðu mjök landit. [Þar heitir nú Reiðarfjall[2] í Austfjörðum, er þeir höfðu atkomit; [svâ sagði Sæmundr prestr hinn fróði[3].

Maðr hèt Garðar Svafarsson, Svenskr[4] at ætt; hann [fór at leita Snælands at tilvísan móður sinnar framssýnnar[5]; hann kom at landi fyrir austan Horn et eystra[6], þar var þá höfn[7]. Garðar sigldi umhverfis landit, ok vissi at þat var eyland; [hann var um vetr fyrir norðan í Húsavík á Skjálfanda, ok gerði þar hús[8]. Um vorit, er hann var búinn til hafs, sleit frá honum mann á báti, er hèt Náttfari, ok þræl ok ambátt, hann bygði þar síðan, er heitir Náttfaravík[9]. [Garðar fór þá til Noregs ok lofaði mjök landit; hann var faðir Una, föður Hróars Túngugoða. Eptir þat var landit kallat Garðarshólmr, ok var þá skógr milli fjalls ok fjöru[10].

2. Flóki Vilgerðarson[11] hèt víkíngr mikill, hann bjóst af Rogalandi at leita Snjólands[12]; [þeir

---

1) áðr, *E*, *F*, 2) Reiðarfjörðr, *K*. 3) *frá fyrra* [ *v. í B*; *frá síðara* [ *v. í K*. 4) Sænskr, *C*. 5) átti jarðir í Sjólandi, en var fæddr í Svíaríki; hann fór til Suðreyja at heimta föðurarf konu sinnar; en er hann sigldi ígegnum Petlandsfjörð, þá sleit hann undan veðr, ok rak hann vestr í haf, *B*, *Sk*. 6) at tilvísun móður sinnar framsýnnar, *b. v. Sk*. 7) góð, *b. v. K*, *Sk*. 8) þat heitir því Húsavík, *b. v. K*. 9) Hann kom á fjörð þann, er hann kallaði Skjálfanda, þar skutu þeir báti ok gekk á Náttfari þræll hans, (ok ambátt, *b. v. Sk.*); þá slitnaði festin, ok kom hann í Náttfaravík (ok bar þau at landi fyrir vestan fjörðinn, *b. v. Sk.*) fyrir utan Skuggabjörg; en Garðar kom öðrumegin fjarðarins (ok lagði þar at landi, *b. v. Sk.*), var þar inni vetrinn (ok gerði sèr þar hús, *b. v. Sk.*); því kallaði hann þar Húsavík. Náttfari var eptir með þræl sinn ok ambátt; því heitir þar Náttfaravík, (Náttfaravíkr, *Sk.*), *þannig í stað þess frá* [ *B*, *Sk*. 10) Garðar sigldi austr aptr ok lofaði mjök landit, ok kallaði Garðarshólma, *B*. 11) Valgarðsson, *E*. 12) Garðarshólma, *C*, *K*, *Sk*.

lágu í Smjörsundi; hann fèkk at blóti miklu, ok blótaði hrafna þrjá, þá er honum skyldu leið vísa, þvíat þá höfðu hafsiglíngarmenn engir leiðarstein í þann tíma í Norðrlöndum. þeir hlóðu þar varða, er blótit hafði verit, ok kölluðu Flókavarða[1]; þat er þar, er mætist Hörðaland ok Rogaland. Hann fór fyrst til Hjaltlands ok lá í Flókavogi, þá týndist Geirhildr dóttir hans í Geirhildarvatni. Með Flóka var á skipi [bóndi sá[2], er þórólfr hèt, ok annar Herjólfr[3], ok Faxi Suðreyskr maðr. Flóki [sigldi þaðan til Færeyja, ok gipti þar dóttur sína, frá henni var þrándr í Götu. þaðan sigldi hann útí haf með[4] hrafna þá þrjá, er hann hafði blótat í Noregi; ok er hann lèt lausan hinn fyrsta, fló sá aptr um stafn; annar fló í lopt upp, ok aptr til skips; þriði fló fram um stafn í þá ætt, er þeir fundu landit. þeir komu austan at Horni[5]; þá sigldu þeir fyrir sunnan landit; en er þeir sigldu vestr um Reykjanes ok upplauk firðinum, svá at þeir sá Snæfellsnes, þá mælti Faxi: þetta mun vera mikit land, er vèr höfum fundit, hèr eru vatnföll stór[6]; þat er síðan kallat Faxaós. þeir Flóki[7] sigldu vestr um[8] Breiðafjörð, ok tóku þar land sem heitir Vatnsfjörðr við Barðaströnd; fjörðrinn allr var fullr af veiðiskap, ok gáðu þeir eigi fyrir veiðum at fá heyjanna, ok dó allt kvikfè þeirra um vetrinn; vár var heldr kalt. þá gekk Flóki

1) ok sigldi þar út, er heitir Flókavarði, *í stað þess frá* [ *C, K*. 2) bræðr 2, *K, Sk*. 3) Norskir, *b. v. Sk*. 4) hafði með *sér*, *C, K*. 5) landshorninu, *K, Sk*. 6) þeir sáu foss mikinn, er fèll í sjóinn, ok var þar ós mikill, *b. v. K, Sk*. 7) Faxi, *B*. 8) yfir, *B, C, F, G, H, I, K, Sk*.

norðr á fjöll[1] ok sá fjörð einn fullan af hafísum; því kölluðu þeir landit Ísland[2]. Þeir [fóru brott[3] um sumarit, ok urðu síðbúnir[4]. [Þar sèr enn skálatópt þeirra inn frá Brámslæk[5], ok svá hrófit ok svá seyði þeirra[6]. Þeim beit eigi fur Reykjanes, ok þar sleit frá þeim bátinn, ok á Herjólf, hann kom í Herjólfshöfn. [Flóki kom í Hafnarfjörð; þeir fundu hval á eyri[7] einni út frá firðinum, ok kölluðu þar Hvaleyri[8]; [þar fundust þeir Herjólfr[9]. Um sumarit sigldu þeir til Noregs. Flóki[10] lastaði mjök landit, en Herjólfr sagði kost ok löst á landinu, en Þórólfr kvað drjúpa smjör af hverju strái[11] á landi því, er þeir höfðu fundit, því var hann kallaðr Þórólfr smjör.

3. Björnúlfr[12] hèt maðr, en annar Hróaldr, þeir voru synir Hrómundar Grípssonar; þeir fóru af Þelamörk fur vígasakir, ok staðfestust í Dalsfirði á Fjölum[13]. Son Björnólfs var Örn, faðir Íngólfs ok Helgu[14], en Hróaldsson var Hroðmar[15], faðir Leifs. Þeir Íngólfr ok Leifr, [fóstbræðr, fóru í hernað með sonum Atla jarls hins mjófa af Gaulum, þeim Hásteini[16] ok Hersteini ok Hólmsteini, með þeim fóru öll skipti vel; ok er þeir komu heim mæltu þeir[17] til samfara með

[1]) norðr yfir fjöllin, *b. v. C, K, Sk.* [2]) sem þat hefir síðan heitit, en fjörðinn Ísafjörð, *b. v. K, Sk.* [3]) Flóki ætlaðu utan, *C, K, Sk.* [4]) búnir litlu fyri vetr, *C, Sk.* [5]) Bjánslæk, *B*; Brámslæk, *E, F*; Brjámslæk, *Sk.* [6]) *frá* [ *v. í C.* [7]) ey, *E.* [8]) Hvaley, *E*; *frá* [ *v. í C.* [9]) Flóki var um vetrinn í Borgarfirði, ok fundu þeir Herjólf, *C, K, Sk.* [10]) en er menn spurðu af landinu lèt Flóki illa yfir, ok, *C, K, Sk.* [11]) steini, *L.* [12]) Brynjólfr, *alstaðar, K.* [13]) Fjöllum, *C, K.* [14]) er allra kvenna var vænst, *b. v. K, Sk.* [15]) Hrómundr, *K.* [16]) Hallsteini, *E, F, K.* [17]) *í stað þess frá* [ *hafa*

sèr annat sumar. En um vetrinn gerðu þeir fóstbræðr veizlu sonum Atla jarls; at þeirri veizlu strengdi Hólmsteinn heit, at hann skyldi eiga Helgu Arnardóttur eða enga konu ella. Um þessa heitstrengíng fannst mönnum fátt; en Leifr roðnaði, ok varð fátt um með þeim Hólmsteini þá er þeir skildu.

4. Um vorit eptir bjöggust þeir fóstbræðr í hernað, ok ætluðu at fara til móts við Atla jarls sonu; þeir fundust við Hýsargafl, ok lögðu þeir Hólmsteinn bræðr þegar til orrustu við þá fóstbræðr; en er þeir höfðu barizt um hríð, þá kom at Ölmóðr hinn gamli, son Hörðakára, frændi Leifs, ok veitti þeim Ingólfi; í þeirri orrustu fèll Hólmsteinn, en Hersteinn flýði. Þá fóru þeir Leifr í hernað. En um vetrinn eptir fór Hersteinn at þeim Leifi ok vildi drepa þá; en þeir fengu njósn af för hans, ok fóru í mót honum ok börðust[1], ok fèll þar Hersteinn. Eptir þat[2] voru menn sendir á fund Atla jarls ok Hásteins[3] at bjóða sættir, ok sættust þeir at því, at þeir Leifr guldu eignir sínar þeim feðgum. En þeir fóstbræðr bjöggu eitt mikit skip, er þeir áttu, ok fóru at leita lands þess, er Hrafnaflóki hafði fundit, er þá var Ísland kallat. Þeir fundu landit ok voru í Austfjörðum í Álpta-

*K, Sk:* gjörðust fóstbræðr. Í þann tíma var Atli jarl á Gaulum, hann var kallaðr hinn mjófi; hans synir voru þeir Hásteinn, Hersteinn ok Hólmsteinn. Þeir fóstbræðr, Ingólfr ok Leifr, lögðu fèlag sitt við syni Atla jarls, ok fóru í hernað allir samt, kvomu heim at hausti með herfáng mikit, fóru ok þeirra skipti vel ok skildu með vináttu ok mæltu, *o. s. frv.*

[1]) varð orrusta mikil, *b. v. C, K, Sk.* [2]) dreif lið at þeim fóstbræðrum, frændr þeirra ok vinir af Firðafylki, *b. v. C, K, Sk.* [3]) Hallsteins, *E, K.*

firði hinum syðra; þeim virðist landit betra suðr enn norðr; þeir voru einn vetr á landinu, ok fóru þá aptr til Noregs.

5. Eptir þat varði Íngólfr fè þeirra til Íslandsferðar, en Leifr fór í vestrvíking; hann herjaði á Írland ok fann þar jarðhús mikit, þar gekk hann í, ok var myrkt, þar til er lýsti af vópni því, er maðr hèlt á[1]; Leifr drap þann mann, ok tók sverðit ok mikit fè annat[2]; síðan var hann kallaðr Hjörleifr. Hjörleifr herjaði víða um Írland, ok fèkk þar mikit herfáng; þar fèkk[3] hann þræla tíu, er svá hètu: Dufþakr[4] [ok Geirröðr, Skjaldbjörn[5], Haldórr ok Drafditr[6], eigi eru fleiri nefndir[7]. Eptir þat fór Hjörleifr til Noregs, ok fann þar Íngólf, fóstbróður sinn; hann hafði fengit áðr Helgu Arnardóttur, systur Íngólfs. Vetr þenna fèkk Íngólfr at blóti miklu, ok leitaði sèr heilla[8] um forlög sín, en Hjörleifr vildi aldrí blóta; frèttin vísaði Íngólfi til Íslands. Eptir þat bjó sitt skip hvárr þeirra mága til Íslands, hafði Íngólfr fèlags fè þeirra á skipi, en Hjörleifr herfáng sitt; þeir lögðu til hafs er þeir voru búnir, [ok sigldu út[9].

6. [Sumar þat, er þeir Íngólfr fóru at byggja Ísland, hafði Haraldr konúngr hinn hárfagri verit tólf ár konúngr í Noregi[10]. Þá var liðit

1) er þángat hafði fluit fyri Leifi, *b. v. K, Sk.* 2) sverð þat var allgóðr gripr, *b. v. K, Sk.* 3) tók, *hin.* 4) hèt sá, er fyri þeim var, *b. v. K, Sk.* 5) Skjallbjörn, *C.* 6) Drafdritr, *B, E, F, G, H, I, Sk.* 7) *frá* [ *v. í K.* 8) frètta, *H, Sk.* 9) *v. í C, Sk.* 10) Þat var á sjötta ári Haralds konúngs hárfagra er þeir Íngólfr fóru at leita Íslands; en sjö vetrum síðarr fóru þeir at byggja landit; þat var á þrettánda ári Haralds konúngs; hafði hann þá verit tvö ár einvaldskonúngr yfir Noregi síðan Hafrsfjarðar orrusta var; þat var fjórum

frá upphafi þessarar veraldar ok frá því, er Adam var skapaðr, [sex þúsundir vetra, sjötígi ok þrír vetr[1], en frá höldgan drottins vârs Jesú Kristí átta hundruð ár ok sjötígi ok fjórir vetr. [þeir höfðu samflot þar til er þeir sá Ísland, þá skildi með þeim[2]. En þá er Íngólfr sá Ísland, skaut hann fur borð öndvegissúlum sínum til heilla; hann mælti svâ fur, at hann skyldi þar byggva, er súlurnar kvæmi á land. Íngólfr tók þar land sem nú heitir Íngólfshöfði. En Hjörleif rak vestr fur land, ok fèkk hann vatnfátt[3]; þá tóku þrælarnir Írsku þat ráð, at knoða saman mjöl ok smjör, ok kölluðu þat óþorstlátt, þeir nefndu þat minnþak[4]; en er þat var tilbúit, þá kom regn mikit ok tóku þeir þá vatn af[5] tjöldum; en er minnþakit tók at mygla, köstuðu þeir því fur borð, ok rak þat á land þar sem nú heitir Minnþakseyri. Hjörleifr tók land við Hjörleifshöfða ok var þar fjörðr, ok horfði botninn at höfðanum. Hjörleifr lèt þar gera skála tvo, ok er önnur tóptin átján[6] faðmar, en önnur nítján. Hjörleifr sat þar um vetrinn, en um vorit vildi hann sá; hann átti einn uxa, ok lèt hann þrælana draga arðrinn. En er þeir Hjörleifr voru at skála[7], þá gerði Dufþakr þat ráð, at þeir skyldu drepa uxann, ok segja at skógarbjörn hefði drepit, en síðan skyldu þeir ráða á þá

---

vetrum eptir fall hins helga Eymundar konungs á Englandi, *þannig í stað þess frá* [ *K*, *Sk.*

1) 3 þúsundir vetr ok 73 vetr, *C*; 4 þúsundir 74 vetr, *K*; 4 þúsund 8 hundruð 41 ár, *Sk.*, 2) *frá* [ *v. í Sk.* 3) á skipinu, *b. v. K, Sk.* 4) *þannig öll.* 5) seglum sínum ok, *b. v. K, Sk.* 6) 9, *K.* 7) skálasmiði ok þrælarnir skyldu erja, *E, F, K, Sk.*

Hjörleif, er þeir leitaði bjarnarins; eptir þat sögðu þeir Hjörleifi þetta[1]. En er [þeir fóru[2] at leita bjarnar[3] ok dreifðust um skóginn, þá drápu þrælarnir sèrhvern þeirra ok myrðu þá alla, jammarga sèr; þeir ljópu brott með konur þeirra ok fè ok bátinn. þrælarnir fóru til eyja þeirra, er þeir sá til hafs í útsuðr, ok bjöggust[4] þar fur um ríð. Vífill ok Karli hètu þrælar Íngólfs; þá sendi hann vestr með sjó at leita öndvegissúlna sinna; en er þeir kvamu til Hjörleifshöfða, fundu þeir Hjörleif dauðan; þá fóru þeir aptr ok segja Íngólfi þau tíðindi, ok lèt hann illa yfir[5].

7. Eptir þat fór Íngólfr vestr til Hjörleifshöfða, ok er hann sá Hjörleif dauðan, mælti hann: lítit lagðist hèr fur góðan dreng, er[6] þrælar skyldu at bana verða, ok sè ek svá hverjum verða, er eigi vill blóta. Íngólfr lèt búa gröft þeirra Hjörleifs, ok sá fur skipi þeirra ok fjárlut. Íngólfr gekk þá uppá höfðann, ok sá eyjar liggja til hafs í útsuðr, kom honum þat í hug, at þeir mundu þángat laupit hafa, þvíat bátrinn var horfinn, ok fóru þeir at leita þeirra[7], ok fundu þeir þá þar sem Eyð[8] heitir í eyjunum, voru þeir þá at mat, er þeir Íngólfr kvamu at þeim. þeir urðu felmsfullir, ok ljóp síns vegar hvörr þeirra; Íngólfr drap þá alla; þar heitir Dufþaksskor[9], er hann lèzt; fleiri ljópu þeir fur berg þar sem við þá er kendt síðan; þar heitir síðan

---

1) at skógarbjörn hafði drepit uxann, *b. v. K, Sk.* 2) hann fór, *K, Sk.* 3) með sínum fèlögum, *b. v. K, Sk.* 4) börgluðust, *á spáziunni í E, F.* 5) drápi þeirra Hjörleifs, *b. v. C, K, Sk.* 6) ljótir, *b. v. E, F.* 7) þrælanna, *B, C, E, G, H, I, Sk.* 8) þrælaeyð, *K, Sk.* 9) Dufþakssker, *E, G, I;* Dufþakskór, *H, Sk.*

Vestmannaeyjar, er þeir voru drepnir, þvíat þeir voru Vestmenn. Þeir Íngólfr höfðu með sèr konur þeirra, er myrðir höfðu verit; fóru þeir þá aptr til Hjörleifshöfða, var Íngólfr þar vetr annann, en um sumarit eptir fór hann vestr með sjó; hann var hinn þriðja vetr undir Íngólfsfelli fur vestan Ölfusá[1]; þau misseri fundu þeir Vífill ok Karli öndvegissúlur hans við Arnarhvol fur neðan heiði.

8. Íngólfr fór um vorit ofan um heiði; hann tók sèr bústað þar, sem öndvegissúlur hans höfðu á land komit, hann bjó í Reykjarvík[2], þar eru enn öndvegissúlur þær í eldhúsi. [En Íngólfr nam land millum Ölvusár ok Hvalfjarðar, fur útan Brynjudalsá, [milli ok Öxarár[3], ok öll nes út[4]. [Þá mælti Karli: til ílls fórum vèr um góð heröð, er vèr skulum byggja útnes þetta; hann hvarf á brott, ok ambátt með honum. Vífli gaf Íngólfr frelsi, ok bygði hann á Vífilsstöðum[5]; við hann er kendt Vífilsfell; þar bjó hann lengi ok var skilríkr maðr. Íngólfr lèt gera skála á Skálafelli, þaðan sá hann reyki við Ölvusvatn ok fann þar Karla[6].

9. Íngólfr[7] var frægstr allra landnámsmanna, þvíat hann kom hèr at auðu landi, óbygðu, ok bygði fyrstr landit, ok gerðu þat aðrir landnáms-

[1]) Ölbusá, *C*; þar sem sumir menn segja at hann sè heygðr, *b. v. E, F.* [2]) ok bjó þar alla æfi, *b. v. E, F.* [3]) ok millim Hranná, *B*; ok Öxará, *Sk*; *v. í K.* [4]) *frá fyrra* [ *v. í E, F.* [5]) Vifilstóptum, *C.* [6]) *frá* [ *v. í K; í E og F kemr hèr á eptir Sunnlendinga fjórðúngr, sem er 5ti partr Landnámu í A og hinum handrit.; knýta E, F þarvið því sem enn er eptir af fyrsta partinum.* [7]) var maðr Norrænn, Hörðskr at kyni, son Björnólfs af Fjölum, bróðir Heyángrs-Bjarnar; Ingólfr, *b. v. E, F.*

menn eptir hans dæmum síðan; hann átti Hallveigu Fróðadóttur, systur[1] Lopts hins gamla; þeirra son var Þorsteinn, er þíng lèt setja á Kjalarnesi[2] áðr alþíngi væri sett; hans son var Þorkell máni, lögsögumaðr, er einn heiðinna manna á Íslandi hefir bezt verit siðaðr, at því er menn viti dæmi til; hann lèt bera sik í sólargeisla í banasótt sinni, ok fal sik á hendr þeim guði, er sólina hafði skapat; hann hafði ok lifat svá hreinliga, sem þeir kristnir menn, er bezt eru siðaðir; son hans var Þormóðr, er þá var allsherjargoði, er kristni kom á Ísland; hans son var Hamall, faðir Márs ok Þormóðar ok Torfa. [Sigurðr var son Márs, faðir Hamals, föður Guðmundar, föður Þormóðar Skeiða-Goða[3].

10. Björn buna hèt hersir ríkr ok ágætr í Noregi, hann var son Veðrar-Gríms hersis or Sogni. [Grímr átti Hervöru[4], dóttur[5] Þorgerðar Eylaugsdóttur konúngs[6]. Björn átti Velaugu[7], [systur Vemundar[8] hins gamla[9]; þau áttu þrjá sonu, var einn Ketill flatnefr, annar Helgi, þriði Hrappr; þeir voru ágætir menn, ok er frá þeirra afkvæmi margt sagt í þessi bók, ok frá þeim er flestallt stórmenni komit á Íslandi. Hrappr átti Þórunni Græníngjarjúpu[10]; þeirra son var Þórðr skeggi; hann átti Vilborgu[11] Ósvaldsdóttur, konúngs, ok Úlfrúnar ennar óbornu, dóttur Játmundar Engla konúngs. Þórðr[12] bygði

1) föðursystur, *E, F, milli* [ ] *eptir Landn.* 2) Krossnesi, *E, F.* 3) *frá* [ *v. í C, K.* 4) Geirvöru, *Sk.* 5) móðir Gríms var Hervör, dóttir, *frá* [ *C.* 6) hersis or Sogni, *C.* 7) Víglaugu, *H, I.* 8) Vermundar, *I.* 9) *frá* [ *v. í C.* 10) Groníngarjúpu, *hin.* 11) *A-J lætr Vilborgu vera konu Hrapps, móður Skeggja og Helgu.* 12) Hrappson, *b. v. Sk.*

fyrst í Lóni austr tíu vetr eða fimtán; en er hann frá til öndvegissúlna sinna í Leiruvogi, þá seldi hann lönd sín Úlfljóti, hann var son Þóru Hörðakáradóttur; en hann fór vestr með allt sitt, ok nam land at ráði Íngólfs millum Ulfarsár ok Leiruvogsár, ok bjó síðan at Skeggjastöðum; hans dóttir var Helga, er átti Ketilbjörn hinn gamli at Mosfelli. Frá Þórði er margt stórmenni komit á Íslandi.

11. Hallr [hèt maðr, son Þóris goðlauss[1] Ormarssonar[2], bróður Hildar Ormarsdóttur[3], er átti Þorbjörn hinn Gaulverski, samfeðri, en hún var sammædd, við Þórð skeggja; þeir feðgar vildu eigi blóta, ok trúðu á mátt sinn. Hallr fór til Íslands, ok nam land[4] millum Mógilsár ok Leiruvogsár, ok bjó í Múla; hans [son var Helgi, er átti Þuríði Ketilbjarnardóttur; þeirra[5] son var Þórðr í Álfsnesi, er átti Guðnýu[6] Hrafnkelsdóttur.

Haraldr hinn hárfagri herjaði vestr um haf, sem ritat er í sögu hans; hann lagði undir sik allar Suðreyjar, svá lángt vestr, at engi Noregskonúngr hefir síðan lengra eignast, útan Magnús konúngr berbeinn; en er hann fór vestan, slógust víkíngar í eyjarnar, Skotar ok Írar, ok herjuðu ok ræntu víða. En er þat spurði Haraldr konúngr, sendi hann vestr Ketil flatnef, son Bjarnar bunu, at vinna aptr eyjarnar. Ketill átti Íngvildi, dóttur Ketils veðrs, hersis afRíngaríki;

[1]) goðlauss hèt maðr, son Helga goðlauss, *C*, *E*. [2]) Ormssonar, *Sk*. [3]) Ormsdóttur, *Sk*. [4]) með ráði Ingólfs, *b. v. C*, *Sk*. [5]) *frá* [ *v. í G*, *H*, *I*. [6]) Guðrúnu, *G*, *H*, *I*, *Sk*.

þeirra synir voru þeir Björn hinn austræni ok Helgi bjóla; Auðr hin djúpauðga ok þórunn hyrna voru dætr þeirra. Ketill fór vestr, en setti eptir Björn, son sinn; hann lagði undir sik allar Suðreyjar ok gerðist höfðíngi yfir, en galdt engan skatt Haraldi konúngi, sem ætlat var; þá tók Haraldr konúngr undir sik eignir hans í Noregi, en rak brott son hans Björn[1].

Helgi bjóla, son Ketils flatnefs, fór til Íslands or Suðreyjum; hann var með Íngólfi hinn fyrsta vetr, ok nam með hans ráði Kjalarnes allt, milli Mógilsár ok Mýdalsár; hann bjó at Hofi; hans son var Víga-Hrappr ok [Eyvindr hjalti, faðir Kolsveins[2], föður Eyvindar, er átti þórlaugu Klængsdóttur; þeirra dóttir var þorgerðr, móðir þóru, er átti þorkell, son Ásgeirs kneifar; þeirra son var Ögmundr, faðir Jóns biskups ens helga[3].

12. Örlygr hèt son Hrapps Bjarnarsonar bunu, hann var at fóstri með Patreki biskupi hinum helga í Suðreyjum; hann fýstist at fara til Íslands, ok bað Patrek biskup[4], at hann sæi um með honum. Biskup fèkk honum kyrkjuvið, ok bað hann hafa með sèr, ok plenaríum, ok járnklokku, ok gullpenníng, ok mold vígða, at hann skyldi leggja undir hornstafi, ok hafa þat fur vígslu, skyldi hann helga Kolúmkilla[5]. þá mælti Patrekr biskup: hvargi er þú tekr land, þá bygðu þar at eins, er þú sèr þrjú[6] fjöll af

1) *frá byrjun* 10*da kap. og hingað v. í K.* 2) Kallsveins, *E, F;* Kolbeins, *I.* 3) Kolsveinn, f. Eyvindar hjalta, f. Kollsveins ok Þorgerðar, m. Þóru, m. Ögmundar, f. Jóns biskups ens helga, *í stað þess frá* [ *C.* 4) fóstra sinn, *b. v. K, Sk.* 5) Kolúmbilla, *rèttara E, F, H, I, Sk, alstaðar;* Kolúmba, *K.* 6) 2, *C.*

hafi, ok fjörð[1] at sjá í millum hvers fjalls, ok dal í hverju fjalli; þú skalt sigla at enu synsta[2] fjalli, þar mun skógr vera, ok sunnan undir fjallinu mantu rjóðr hitta, ok lagða upp eða reista þrjá steina, reistu þar kyrkju ok bú þar. Örlygr lèt í haf, ok sá maðr á öðru skipi, er Kollr hèt, fóstbróðir hans, þeir höfðu samflot. Á skipi var með Örlygi sá maðr, er hèt Þorbjörn spörr, annar Þorbjörn tálkni, þriði[3] Þorbjörn skúma[4], þeir voru synir Böðvars blöðruskalla. [En er þeir kvâmu [í landvon[5], gerði at þeim storm mikinn, ok rak þá vestr um Ísland[5]; þá hèt Örlygr á Patrek biskup, fóstra sinn, til landtöku þeim, ok hann skyldi af hans nafni gefa örnefni þar, sem hann tæki land; þeir voru þaðan frá litla hríð áðr enn þeir sá land[7]; hann kom skipi sínu í Örlygshöfn, ok þar inn kallaði hann fjörðinn Patreksfjörð. [En Kollr hèt á Þór, þá skildi í storminum, ok kom hann þar, sem Kollsvík heitir, ok braut hann þar skip sitt[8]; þar voru þeir um vetrinn; hásetar hans námu þar sumir land, sem enn mun sagt verða. En um vorit bjó Örlygr skip sitt ok sigldi brott með allt sitt[9]; ok er hann kom suðr [fur Faxaós, þar[10] kendi hann fjöll þau, er honum var tilvísat; þar fèll útbyrðis járnklokkan ok sökk niðr; en þeir sigldu inn eptir firði, ok tóku þar land, sem nú heitir Sandvík á Kjalarnesi, þar lá þá

1) *þannig B, C, E, F, H, Sk;* fjöll, *A, G, L* 2) syðsta, *E;* fyrsta, *I.* 3) ok bróðir hans, *Sk.* 4) Skyma, *H, I, Sk.* 5) at landinu, *Sk.* 6) þeir Örlygr lètu í haf, ok fengu útivist harða, ok vissu eigi hvar þeir fóru, *í stað þess frá fyrra [ C.* 7) ok voru þá komnir vestr um landit, *b. v. C. Sk.* 8) *frá [ v. í C.* 9) vestan fyri Barð, *b. v. C, Sk.* 10) um Snæfellsjökul á fjörðinn, þá, *C.*

járnklokkan í þarabruki. Örlygr [bygði undir Esjubergi, at ráði Helga bjólu, frænda síns, ok nam land á millum Mógilsár ok Ósvífrslækjar[1]; hann gerði kyrkju at Esjubergi, sem honum var boðit; Hjálp[2] hèt kona hans; þeirra son var Valþjófr, [er fulltíða kom[3] til Íslands með Örlýgi. Síðan átti Örlygr Ísgerði[4], dóttur þormóðs Bresa[5]-sonar; þeirra son var Geirmundr, faðir Haldóru, er átti þjóstólfr, son Bjarnar gullbera; þeirra son var þorleifr[6], er bjó at Esjubergi eptir Geirmund móðurföður sinn[7]. þeir trúðu á Kolúmkilla[8], þóat þeir væri óskírðir. þorleifr var tröllaukinn, ok tók þó kristni; frá honum er margt manna komit. Dóttir Örlygs[9] ok Ísgerðar var Velaug, er átti Gunnlaugr ormstúnga [hin gamla[10], ok var þeirra dóttir þuríðr dylla, móðir Illuga ens svarta [á Gilsbakka. Gunnlaugr ormstúnga var son Hrómundar í þverárhlíð. [Valþjófr, son Örlygs, var faðir Valbrands, föður Torfa[11].

13. Svartkell[12] hèt maðr Katneskr[13], hann fór af Englandi til Íslands, ok nam land fur innan Mýdalsá, í millum Eylífsdalsár, ok bjó á Kiðjafelli[14] fyrst, en síðan á Eyri; hans son var þorkell, faðir Glúms þess, er gamall tók kristni;

[1]) var með Helga bræðrúngi sínum hinn fyrsta vetr; en um vârit nam hann land, at ráði Helga, millum Mógilsár ok Osvifrslækjar, ok bjó at Esjubergi, *í stað þess frá* [ *C, E, F, Sk.* [2]) Hjólp, *E, F.* [3]) faðir Valbrands, föður Torfa; Valþjófr kom fulltíða, *C, Sk.* [4]) Ásgerði, *I.* [5]) Bessa, *I*; Bersa, *Sk.* [6]) þórólfr, *B*; þjóstólfr, *I.* [7]) er Esjubergingar eru frá komnir, *b. v. C, Sk.* [8]) Kolúmba, *C.* [9]) ens gamla, *b. v. C, Sk.* [10]) *frá* [ *v. í C, Sk*; hinn gamli, *E, F, I.* [11]) *frá fyrra* [ *v. í B*; *frá síðara* [ *v. í C, H, I, Sk.* [12]) Svarkell, *C.* [13]) *v. í B, K.* [14]) Kiðafelli, *G, K, Sk.*

hann baðst svá fur at krossi: gott æ gömlum[1] mönnum, gott æ órum[2] mönnum! hans son var Þórarinn, faðir Glúms [á Vatnlausu[3]. Arnleif hèt systir Svartkels, er átti Þórólfr viligisl[4], faðir Kleppjárns ens gamla or Flókadal; þeirra dóttir var Hallgerðr, er átti Bergþórr Kollsson[5].

Valþjófr, er fyrr var getit[6], son Örlygs[7] at Esjubergi, hann nam Kjós alla ok bjó at Meðalfelli. [Þorbjörn kollr hèt son hans, faðir Hallveigar, er átti Þórðr lambi; þat er Valþýflngakyn[8]. Signý hèt dóttir Valþjófs, er Signýjarstaðir eru viðkendir; hana átti Grímkell, son Bjarnar gullbera; þeirra synir voru þeir Hörðr, er drepinn var í Geirshólmi, ok Gnúpr, faðir Birníngs, föður Gnúps, föður Eiríks Grænlendínga biskups. [Valbrandr hèt annar son Valþjófs, faðir Torfa, er fyrst bjó á Möðruvöllum. Þeir feðgar gerðu fèlag við Túngu-Odd; af því bjuggu þeir síðan á Breiðabólstað í Reykjardal hinum neyrðra[9]. Torfi var faðir Þorkels á Skáneyju, er átti Arngerði[10], dóttur Þorkels Svartkelssonar[11].

14. Hvammþórir[12] nam land á milli Laxár ok Forsár, ok bjó í Hvammi. Þórir deildi við Ref hinn gamla um kú þá, er Brynja hèt, ok Brynjudalr er viðkendr; sú kvíga hafði horfit Þóri fur löngu; en sú kvíga fannst í Brynjudal, þar er Refr átti land, ok 40 nauta með henni,

---

1) öllum, *E.* 2) úngum, *C, K*; vorum, *E.* 3) á Vatsleysu, *E, H.* 4) viligils, *E, F*; veðigilz, *I.* 5) Kallson, *E, F*; *frá* [*v. í C.* 6) hèt, *b. v. H, Sk.* 7) Erlygs, *E, F.* 8) Valkyflingakyn, *B*; Valþýflingakyn, *Sk*; frá honum eru Valþjóflingar komnir, *í stað þess frá* [ *C.* 9) neðra, *G, H, I.* 10) Argerði, *F.* 11) *frá* [ *v. í C.* 12) Svarnsþórir, *E, F.*

þeirra er öll voru frá henni komin, ok höfðu gengit sjálfala úti; því kendi hvárrtveggi sèr nautin. En þórir fèll fur Ref með átta menn, þá er þeir börðust hjá hólum þeim, er síðan eru kallaðir þórishólar.

þórólfr smjör, er fyrr var getit, var son þorsteins skrofa, Grímssonar, þess er blótinn var dauðr fur þokkasæld ok kallaðr kamban. Son þórólfs smjörs var Sölmundr, faðir þorsteins þess, er land nam í Brynjudal á millum Bláskógsár [1] ok Forsár; hann átti þorbjörgu kötlu, dóttur Helga skarfs, Geirleifssonar, er nam Barðaströnd; þeirra son var Refr [2] í Brynjudal, faðir Haldóru, er átti Sigfús [3] [Elliða-Grímsson [4]; þeirra dóttir þorgerðr, móðir Sigfúss [5], föður Sæmundar prests ens fróða.

Maðr hèt Avángr [6] Írskr [7] at kyni; hann bygði fyrst í Botni, ok bjó þar allan aldr sinn; þá var þar svâ stór skógr, at hann gerði þar af hafskip, ok hlóð þar, sem nú heitir Hlaðhamar. Hans son var þorleifr, faðir þuríðar, er átti þormóðr þjóstarsson [á Álptanesi, ok son Iðunnar Molda-Gnúpsdóttur [8]; þeirra son var Börkr, faðir þórðar, föður Auðunar í Brautarholti [9].

[Kolgrímr hinn gamli, son Hrólfs hersis, nam land út frá Botnsá til Kalmansár [10], ok bjó á Ferstiklu [11]; hann átti Gunnvöru, dóttur Hroðgeirs ens spaka; þeirra börn voru þau þórhallr, faðir

[1]) Bláskeggsár, *B*; Botzár, *C*. [2]) er bjó at Múla, *b. v. E, F*. [3]) Vigfús, *Sk*. [4]) þaðan eru Bryndælir komnir, *b. v. E*. [5]) *frá* [ *v. í G*. [6]) Evángr, *E milli* [ ] *eptir Landn*. [7]) Norskr, *Sk milli* [ ] [8]) *frá* [ *v. í B*. [9]) þessir kynþættir allir eru frá þeim mönnum, er landit hafa numit í landnámi Ingólfs, *b. v. E, F*. [10]) Kalmarsár, *C alstaðar*. [11]) Fetstiklu, *K*.

Kolgríms, föður Steins, föður Kvists, er Kvistlíngar eru frákomnir. Bergþóra var dóttir Kolgríms ens gamla, er átti Refr í Brynjudal[1].

15. Þormóðr hinn gamli ok Ketill[2], Bresasynir[3], fóru af Írlandi til Íslands, ok námu Akranes allt á millum Örriðaár ok Kalmansár; þeir voru Írskir; Kalmann var ok Írskr, er áin er viðkend, ok bjó fyrst í Katanesi. Þeir bræðr skiptu löndum með sèr, svá at Þormóðr átti fur sunnan Reyni til Kalmansár, ok bjó at Hólmi enum yðra; en Ketill, bróðir hans, átti fur vestan Reyni ok fur norðan Akrafell til Örriðaár; Bersi[4] hèt son hans, faðir Þorgests[5], föður Starta at Hólmi, föður Knattar, föður Ásdísar, er átti Klængr Snæbjarnarson[6], Hafnar-Orms. Geirlaug[7] var dóttir Þormóðs ens gamla, móðir Túngu-Odds. Jörundr enn kristni var son Ketils Bresasonar[8], hann bjó í Jörundarholti, þat er nú kallat í Görðum; hann hèldt vel kristni til dauðadags, ok var einsetumaðr í elli sinni. Son Jörundar var Kleppr, faðir Einars, föður Narfa[9]. [Hávarr hèt annar son Klepps, faðir Þorgeirs[10]. Eðna hèt dóttir Ketils Bresasonar, hún var gipt á Írlandi þeim manni, er Konáll hèt; hans son var Ásólfr alskik[11], er í þann tíma fór af Írlandi til Íslands ok kom [í Austfjörðu[12]; þeir fóru tólf saman austan,

---

1) *frá* [ *v. hèr í B, sem hefir þat seinna fjölorðara í byrjun 17da kap. ásamt A,* G, *H, I, K, Sk.* 2) gufa, *b. v. A-J.* 3) Bersasynir, *I, K, Sk.* 4) Bresi, *Kh.* 5) Þorsteins, *G.* 6) sonar, *b. v. H, Sk.* 7) Þórlaug, *C; E, F, milli* [ ] *eptir Landn.* 8) Bersasonar, *I, Sk, alstaðar.* 9) föður Rafns, föður Þorgeirs, *b. v. C, Sk;* ok Hávarðs, föður Þorgeirs, *b. v. E, F.* 10) *frá* [ *v. í E. F.* 11) alskikk, *C, E, F.* 12) út austr í Ósum, á Austfjörðum; hann var frændi Jörundar í Görðum; ok var kristinn, ok vildi eigi eiga við heiðna menn, ok eigi vildi hann þiggja mat at þeim, *í stað þess frá* [ *C, Sk.*

þartil er þeir kvâmu at garði þorgeirs hins Hörðska í Holti undir Eyjafjöllum, ok settu þar tjald sitt; en förunautar hans 3 voru þá sjúkir, þeir önduðust þar; en Jón prestr þorgeirsson, faðir Gríms í Holti, fann bein þeirra, ok flutti til kyrkju. Síðan gerði Ásólfr sèr skála, þar nær sem nú er kyrkjuhornit at Ásólfsskála[1], at ráði þorgeirs, þvíat þorgeirr vildi eigi hafa þá við hús sín[2].

16. Á fèll við skála Ásólfs sjálfan, þat var öndverðan vetr, áin varð þegar full með fiskum. þorgeirr sagði, at þeir sæti í veiðistöð hans. Síðan fór Asólfr burt þaðan ok gerði annann skála vestr við aðra á, sú heitir Írá[3], þvíat þeir voru Írskir; en er menn kvâmu til árinnar, var hún full af fiskum, svâ at slíkt undr þóttust menn eigi sèt hafa, en brottu var allt or enni eystri ánni. þá ráku hèraðsmenn þá brott þaðan, ok fór Ásólfr þá til hins vestasta skálans, fór allt á sömu leið; bændr kölluðu þá fjölkunniga, en þorgeirr kveðst hyggja at þeir mundu vera góðir menn. Um vorit [fóru þeir[4] brott ok vestr á Akranes[5]; hann gerði bú[6] at Hólmi á kyrkjubólstað; hans son var Sölvi, faðir þórhildar, er átti Brandr, son þorgríms Kjallakssonar; þeirra son þorleifr, faðir Bárðar, föður Jófríðar, er átti Árni Torfason; þeirra dóttir Helga, er átti Grímr[7]

[1]) hinum austasta undir Eyjafjöllum, *b. v. C, Sk.* [2]) hann fann eigi menn; þá var um forvitnazt, hvat hann hefði til fæðslu, ok sá menn í skálanum fiska marga, *b. v. C, Sk.* [3]) Irań, *E, F.* [4]) fór Ásólfr, *C.* [5]) fór hann á fund Jörundar, frænda sins, ok bauð hann Ásólfi at vera með sèr; en hann lèzt ekki vilja vera hjá öðrum mönnum; þá lèt Jörundr gjöra honum hús á Hólmi enum iðra, ok færði honum þangat fæðslu, *b. v. C, Sk.* [6]) í fyrstu, *b. v. C, Sk.* [7]) Arngrimr, *B, Sk.*

Guðmundarson. En er Ásólfr eldist, gerðist hann einsetumaðr; þar var kofi hans sem nú er kyrkjan; þar andaðist hann, ok var þar grafinn at Hólmi[1]. [En þá er Haldórr, son Illuga ens rauða, bjó þar, þá vandist fjóskona ein at þerra fætr sína á þúfu þeirri, er var á leiði Ásólfs; hana dreymdi, at Ásólfr ávítaði hana um þat, er hún þerði fætr sína saurga á húsi hans: en þá munum við sátt, segir hann, ef þú segir Haldóri draum þinn; hún sagði honum, ok kvað hann eigi mark at því, er konur dreymdi, ok gaf eigi gaum at. En er Hróðólfr[2] biskup fór burt or Bæ, þar er hann hafði búit[3], þá voru þar eptir múnkar 3; einn þeirra dreymdi, at Ásólfr mælti við hann: sendtu húskarl þinn til Haldórs at Hólmi, ok kaup at honum þúfu þá, er á fjósgötu er, ok gef við mörk silfrs; múnkrinn gerði svá. Húskarlinn gat keypt þúfuna, ok gróf síðan jörðina, ok hitti þar mannsbein, hann tók þau upp ok fór heim með. Ena næstu nótt eptir dreymdi Haldór, at Ásólfr kom at honum, ok kveðst bæði augu mundi sprengja or hausi hans, nema hann keypti bein hans slíku verði, sem hann seldi[4]. Haldórr keypti bein Ásólfs, ok lèt gera at trèskrín, ok setja yfir altari. Haldórr sendi Illuga son sinn utan eptir kyrkjuviði; en er hann fór út aptr, ok er hann kom milli Reykjaness ok Snjófjallsness, þá náði

[1]) ok er hinn helgasti maðr kallaðr, *b. v. C, Sk.* [2]) Rúðólfr, *H;* Rauðólfr, *I.* [3]) 19 ár; þat er haldit, at hann hafi verit af Rúðuborg í Englandi; biskupinn hèt Úlfr, en var síðan kallaðr Rúðu-Úlfr eða Hróðólfr, *b. v. K, Sk; líka A, G, H, I, á spázíunni.* [4]) þúfuna, *b. v. K, Sk.*

hann eigi fur stýrimönnum at taka land, þar er hann vildi; þá bar hann fur borð kyrkjuviðinn allan, ok bað þar koma sem Ásólfr vildi; en Austmenn kvámu vestr í Vaðil[1]. En tveim[2] nóttum síðarr kom viðrinn á kyrkjusand at Hólmi, nema tvö trè komu á Raufarnes á Mýrum. Haldórr lèt gera kyrkju þrítuga[3] ok viði þakta, ok helgaði Kolúmkilla[4] með guði[5].

*Nú skrifast hèr aptr af landnámi Kolgríms hins gamla eptir Hauksbók, þat fyrr stendr.*

17. [Kolgrímr hinn gamli, son Hrólfs hersis, ok Unnar Hákonardóttur, Grjótgarðssonar jarls, er Grjótgarðshaugr er viðkendr fur sunnan Agðanes, fór or Þrándheimi til Íslands, ok nam Hvalfjarðarströnd hina nyrðri frá Bláskógsá[6] til Laxár, ok út til lækjar þess, er fellr út frá Saurbæ, ok bjó á Ferstiklu[7]; hans son var Þórhalli, faðir Kolgríms, föður Steins, föður Kvists, föður Kala. Bergþóra var dóttir Kolgríms, er átti Refr í Brynjudal[8].

Finnr hinn auðgi, son Haldórs Högnasonar, fór or Stafángri til Íslands; hann átti Þórvöru[9], dóttur Þorbjarnar frá Mosfelli, Hraðasonar[10]; hann nam land fur sunnan Laxá til Kalmansár, hann bjó í[11] Miðfelli; hans son var Þorgeirr, faðir Hólmsteins[12], föður Þórunnar, móður Guðrúnar, móður Sæmundar, föður Brands biskups. Skeggi í

[1]) Vaðili, *G*; Vöðli, *H*, *I*; Vaðli, *Sk*. [2]) þrem, *B*. [3]) 30 álna, *E*, *F*. [4]) Kolúmbilla, *H*, *I*, *Sk*; Kolúmba, *K*. [5]) *frá* [ *v. í C.* [6]) Bláskeggsá, *B*. [7]) Fetstiklu, *K*. [8]) *frá* [ *v. hèr í C, E, F, sem hafa þat styttra viþ niðrlag* 14*da káp. hèr að framan.* [9]) Þorbjörgu, *E*, *F*. [10]) Brandssonar, *B*; Hroðasonar, *E*, *F*. [11]) Miðfirði á, *b. v. I.* [12]) Jósteins, *C*; *E*, *F*, *milli* [ ] *eptir Landn.*

Skógum var son Þórunnar, faðir Styrmis ok Bolla í Skógum.

Bekan[1] hèt maðr, er nam land frá Berjadalsá til Örriðaár, ok bjó á Bekanstöðum[2] í landnámi Ketils[3].

[Hallkell, er nam Hvítársíðu, bjó fyrst á Akranesi, á Hrakkelsstöðum[4], áðr Bresasynir[5] ráku hann brott; en er hann fór út eptir fè sínu, því er þar hafði sjálfala úti gengit, var hann drepinn, ok er þar heygðr[6].

Hafnar-Ormr fór or Stafángri til Íslands, ok nam öll lönd um Melahverfi[7] út til Urriðaár ok Laxár, ok inn til Andakílsár, ok bjó í Höfn; hans son var Þorgeirr höggvinnkinni, faðir Þórunnar[8], móður Þórunnar, móður Jósteins, föður Sigurðar, föður Bjarnhèðins[9]. Þorgeirr höggvinnkinni var hirðmaðr Hákonar konúngs Aðalsteinsfóstra; [hann fèkk á Fitjum kinnasár ok orð gott[10].

1) Beigan, *C.* 2) Beiganstöðum, *C.* 3) (þat tókst af landnámi því, er Ketill hafði numit, *E, F milli* [ ] *eptir Landn.*). Gufi hèt annar son Ketils, hann vildi byggja í Nesi, en Ingólfr rak hann á brott þaðan; þá fór hann á Rosmhvalanes, ok vildi byggja at Gufu; en þau Steinuðr keyptu saman, at hann skyldi á brott fara, en vermannastöð skyldi vera ávalt frá Hólmi. Skorri hèt þræll Gufu, er hann seldi í hendr konu sína ok fè, meðan hann færi í landaleitan, en þrællinn segir konu hans hann vera dauðan, ok vildi hann gánga at eiga hana; hún varð við stygg, ok vildi fara sèr. Gufa var vetr hinn fyrsta á Mýrum hjá Gufuá, annann á Snæfellsnesi á Gufuskálum, þriðja í Gufufirði, þá líkaði honum vel, ok fór þaðan aptr; þá ljópst Skorri á brott. Skorri var um vetr í Skorraholti á laun, annann í Skorradal, en Gufa fann hann um síðir í Skorraeyju fyri Mýrum, ok drap hann þar. Gufa bjó síðar í Gufudal; hans son var Þorkell skeifr, faðir Arnórs, föður Kolla á Heynesi, *b. v. E, F.* 4) Hallkelsstöðum, *B, Sk.* 5) Bersasynir, *I, K, Sk.* 6) *frá* [ *v. í C.* 7) Múlahverfi, *I.* 8) Þuríðar, *E, F.* 9) prests, *b. v. E, F.* 10) en er hann var búinn til Bjarmalands, þá kom Haraldr með her mikinn; þetta kvað Þorgeirr þá:

Bar mèra morð enn norðar
naðregns hvötum þegni,

Bræðr tveir bjuggu í landnámi þeirra Finns ok Orms: Hroðgeirr hinn spaki í Saurbæ, en Oddgeirr at Leirá; en þeir Finnr ok Ormr keyptu þá brott, þvíat þeim þótti sèr ofþrönglendt. þeir bræðr námu síðan Hraungerðíngahrepp í Flóa, bjó Hroðgeirr í Hraungerði, en Oddgeirr í Oddgeirshólum; hann átti dóttur Ketils gufu. Hafnar-Ormr er þar heygðr í höfðanum, fram frá bænum í Höfn, sem hann tók land[1] fyrst, var þar þá skipalægi.

18. Úlfr hèt maðr, son Brunda-Bjálfa[2] ok Hallberu, dóttur Úlfs hins óarga or Hrafnistu. Úlfr átti Salbjörgu, dóttur Berlukára[3], hann var kallaðr Kveld-Úlfr; þórólfr ok Skallagrímr voru synir þeirra. Haraldr konúngr hárfagri lèt drepa þórólf norðr í Álöst á Sandnesi, af rógi Hildiríðarsona, þat vildi Haraldr konúngr eigi bæta. þá bjuggu þeir Grímr ok Kveldúlfr kaupskip, ok ætluðu til Íslands, þvíat þeir höfðu þar spurt til Íngólfs, vinar síns; þeir lágu til hafs í Sólundum; þar tóku þeir knör þann, er Haraldr konúngr lèt taka fur þórólfi, þá er menn hans voru nýkomnir af Englandi, ok drápu þar Hallvarð harðfara[4] ok Sigtrygg snarfara, er því höfðu valdit; þar drápu þeir ok sonu Guttorms Sig-

oss samir bil at bölva
borðmærar skæ færa;
nú er þar er rekkr at rakna
rástóð, konúngr, slóðar,
grípum oss í greipar
gunnborð, Haraldr.....

þá var þorgeirr kinnhöggvinn á Fitjum, ok fèkk orð gott, *í stað þess frá* [ *E, F.*

1) *Hèr sleppr B í þessum parti og byrjar aptr á Vestfirðingafjórðúngi.* 2) -Bjálka, *E, F.* 3) Berðlukára, *C, Sk;* Berslukára, *E, F, I.* 4) hraðfara, *E, F,*

urðarsonar hjartar, bræðrúnga konúngs, ok alla skipshöfn þeirra, nema 2 menn, er þeir lêtu segja konúngi tíðindin. þeir bjuggu hvârttveggja skipit til Íslands, ok þrjátígi menn á hvâru, stýrði Kveldúlfr því, er þá var fengit. Grímr hinn Háleyski þórisson, Gunnlaugssonar, Hrólfssonar[1], Ketilssonar kjalfara, var forráðamaðr með Kveldúlfi á því skipi, er hann stýrði; þeir vissust jafnan til í hafinu. Ok er mjök sóttist hafit, þá tók Kveldúlfr sótt; hann bað þess, at kistu skyldi gera at líki hans, ef hann dæi, ok bað svâ segja Grími, syni sínum, at hann tæki skamt þaðan bústað á Íslandi, er kista hans kæmi á land, ef þess yrði auðit. Eptir þat andaðist Kveldúlfr, ok var skotit fur borð kistu hans. þeir Grímr hèldu suðr um landit, þvíat þeir höfðu spurt[2] at Íngólfr bygði sunnan á landinu, sigldu þeir vestr fur Reykjanes, ok stefndu þar inn á fjörðinn; [skildi þá með þeim, svâ at hvârigir vissu til annarra; sigldu þeir Grímr enn Háleyski allt inn á fjörðinn[3], þartil er þraut sker öll,, ok köstuðu þá akkerum sínum; en er flóð gerði, fluttust þeir upp í árós einn, ok leiddu þar upp skipit sem gekk; sú á heitir nú Gufá[4]; báru þeir þar á land faung sín. En er þeir könnuðu landit, þá höfðu þeir skamt gengit út frá skipinu, at[5] þeir fundu kistu Kveldúlfs í vík einni; þeir báru hana á þat nes, er þar var[6], ok hlóðu at grjóti.

---

[1]) Hjörleifssonar, *H, I, Sk.* [2]) með sanníndum, *b. v, E, F.* [3]) *frá* [ *v. i E, F.* [4]) Gufuá, *Sk.* [5]) áðr, *C, E, F.* [6]) skamt frá, *b. v. E, F.*

19. Skallagrímr kom þar at landi, er nú heitir Knarrarnes á Mýrum; síðan kannaði hann landit, ok var þar mýrlendi mikit, ok skógar víðir[1] lángt á milli fjalls ok fjöru. En er þeir fóru inn með firðinum, kvâmu þeir á nes þat, er þeir fundu álptir, þat kölluðu þeir Álptanes. Þeir lèttu eigi fyrr enn þeir fundu þá Grím enn Háleyska, sögðu þeir Grími allt um ferðir sínar, ok svâ hver orð Kveldúlfr hafði sendt Grími, syni sínum. Skallagrímr gekk til at sjá, hvar kistan hafði á land komit, hugðist honum svâ at, at skamt þaðan mundi vera bólstaðr góðr. Skallagrímr var þar um vetrinn sem hann kom af hafi, ok kannaði þá[2] allt hèrað; hann nam land utan frá Selalóni, ok it efra til Borgarhrauns, ok suðr allt til Hafnarfjalla, hèrað allt svâ vítt sem vatnföll deila til sjófar; hann reisti bæ hjá vík þeirri, er kista Kveldúlfs kom á land, ok kallaði at Borg, ok svâ kallaði hann fjörðinn Borgarfjörð; síðan skipaði hann hèraðit sínum fèlögum, ok þar námu margir menn síðan land með hans ráði. Skallagrímr gaf land Grími enum Háleyska fur sunnan fjörð, á milli Andakýlsár ok Grímsár; hann bjó á Hvanneyri; Úlfr hèt son hans, [faðir Hrólfs í Geitlandi[3].

Þorbjörn svarti hèt maðr; hann keypti land at Hafnar-Ormi inn frá Sela-eyri ok upp til Forsár,

---

[1]) víða, *E, F;* -viðir, *H, I.* [2]) þó, *E, F.* [3]) Grímr enn Háleyski, sem nú var getit, nam land fyrir innan Andakílsá ok til Grímsár, ok alla dali þar upp, ok bjó at Hvanneyri; hans son var Úlfr, faðir Hrólfs í Geitlandi. Ingimundr hinn gamli var fóstbróðir hans, ok var með honum hinn fyrsta vetr, er hann kvâm út hingat, áðr hann næmi Vatnsdal, *í stað þess frá* [ *E, F.*

hann bjó at Skeljabrekku; hans son var þorvarðr, er átti þórunni, dóttur þorbjarnar or Arnarholti; þeirra synir voru þeir þórarinn blindi ok þorgils orraskáld[1], er var með Ólafi kvoran[2] í Dýflinni.

Skorri, leysingi Ketils gufu[3], nam Skorradal fur ofan vatn, ok var þar drepinn.

Björn gullberi nam Reykjardal syðra[4], ok bjó á Gullberastöðum; hans són var Grímkell goði í Bláskógum; hann átti Signýju Valbrandsdóttur, Valþjófssonar[5]; þeirra son var Hörðr, er var fur Hólmsmönnum. Björn gullberi átti Ljótunni[6], systur Kolgríms ens gamla. Svarthöfði at Reiðarfelli var annar son þeirra; hann átti þurfði Túngu-Oddsdóttur; þeirra dóttir þórdís, er átti Guðlögr[7] enn auðgi. þjóstólfr var enn þriði son Bjarnar; fjórði Geirmundr[8].

þorgeirr meldún[9] þág[10] lönd öll at Birni fur ofan Grímsá; hann bjó í Túngufelli; hann átti Geirbjörgu[11], dóttur Bálka or Hrútafirði; þeirra son Veleifr hinn gamli.

Flóki, þræll[12] Ketils gufu[13], nam Flókadal[14] ok var þar drepinn.

20. Óleifr[15] hjalti hèt maðr göfugr, hann kom skipi sínu í Borgarfjörð, ok var enn fyrsta vetr með Skallagrími; hann nam land at ráði

[1]) öraskáld, *C, G.* [2]) knaran, *E, F.* [3]) *v. í I.* [4]) frá Grímsá til Flókadalsár, vitr maðr, auðigr ok kynstór, *b. v. E, F.* [5]) Valþjófssonar, *C.* [6]) Ljótadóttur, *b. v. E*; Kolgrímsd., *A-J.* [7]) Gunnlaugr, *Sk.* [8]) 5ti Úlfr, *b. v. E, F.* [9]) moldán, *K*; *v. í I.* [10]) keypti, *I.* [11]) Geirlaugu, *I.* [12]) leysingi, *E, F.* [13]) bróðir Skorra; *b. v. E, F.* [14]) allan á milli Flókadalsár ok Geirsár, ok bjó í Hrísum, *b. v. E, F.* [15]) Ólafr, *E, F*; Olleifr, *K.*

Skallagríms milli Grímsár ok Geirsár, ok bjó at Varmalæk; hans synir voru þeir Ragi í Laugardal ok Þórarinn lögsögumaðr, er átti Þórdísi, dóttur Ólafs feilans; þeirra dóttir Vigdís, er átti Steinn Þorfinnsson. Son Raga var Guðþormr[1], faðir Gunnvarar, móður Þórunnar, móður Þorláks, föður Runólfs, föður Þorláks biskups.

Ketill blundr ok Geirr, son hans, kvámu til Íslands ok voru með Skallagrími hinn fyrsta vetr; þá fékk Geirr Þórunnar, dóttur Skallagríms. Um vorit eptir vísaði Grímr þeim til landa, ok námu þeir upp frá Flókadalsá til Reykjadalsár, ok túngu þá alla upp til Rauðsgils, ok Flókadal allan fur ofan Brekkur. Ketill bjó í Þrándarholti; við hann er kendt Blundsvatn, þar bjó hann síðan. Geirr enn auðgi, son hans[2], bjó í Geirshlíð, en átti annat bú at Reykjum enum efrum; hans synir voru þeir Þorgeirr blundr, ok Blundketill, ok Svarðkell á Eyri. Dóttir Geirs var Bergdís, er Gnúpr[3] átti Flókason í Hrísum; þeirrar ættar var Þóroddr Hrísablundr[4].

Önundr[5] breiðskeggr var son Úlfars Úlfssonar Fitjumskeggja[6], Þórissonar hláanda[7]. Önundr nam túngu alla milli Hvítár ok Reykjadalsár, ok bjó á Breiðabólstað; hann átti Geirlaugu, dóttur Þormóðar á Akranesi, systur Bersa[8]; þeirra

[1]) Guðbonn, *C;* Guðormr, *E, F.* [2]) er nam Reykjadal allan fyri sunnan Reykjadalsá, milli ok Geirsár, *b. o. E, F.* [3]) Gissur, *A-J.* [4]) Krömu-Oddr hèt maðr ágætr, er nam Reykjadal hinn nyrðra, ok alla túngu á milli Reykjadalsár ok Hvítár, ok upp til Deildargils; hans son var Önundr, er átti Þórlaugu Þormóðsdóttur; þeirra son var Túngu-Oddr, er bjó á Breiðabólstað, *b. o. E, F.* [5]) Ögmundr, *A-J.* [6]) Fitjaskeggja, *E, F;* Fæjumskeggja, *H, I, Sk.* [7]) blanda, *C;* hlæanda, *E, F, I.* [8]) *þannig öll hèr;* Bresa, *Kh.*

son var Túngu-Oddr, en þórodda[1] hèt dóttir þeirra; hennar fèkk Torfi, son Valbrands Valþjófssonar, Örlygssonar frá Esjubergi, ok fylgdi henni heiman hálfr Breiðabólstaðr ok Hálsaland með; hann gaf Signýju, systur sinni, Signýjarstaði, ok bjó hún þar. Torfi drap Kroppsmenn 12 saman, ok hann rèð mest fur drápi Hólmsmanna; ok hann var á Hellisfitjum, ok Illugi enn svarti, ok Sturla goði, þá er þar voru drepnir 18 Hellismenn, en Auðun Smiðkelsson. brendu þeir inni á þorvarðsstöðum[2]. Son Torfa var þorkell á Skáney. Túngu-Oddr átti Jórunni Helgadóttur; þeirra börn voru þau þorvaldr, er rèð brennu Blundketils, ok þóroddr, er átti Jófríði Gunnarsdóttur; þeirra dóttir Húngerðr, er átti Svertíngr Hafrbjarnarson. Dætr[3] Túngu-Odds voru þuríðr, [er átti Svarthöfði, ok Jófríðr[4], er þorfinnr Selþórisson átti, ok Hallgerðr, er Hallbjörn átti, son Odds frá Kiðjabergi. Kjölvör[5] var móðursystir Túngu-Odds, er bjó á Kjalvararstöðum, móðir þorleifar, móður þuríðar, móður þeirra Gunnhildar, er Koli[6] átti, ok Glúms, föður þórarins, föður Glúms at Vatnlausu.

21. Rauðr[7] hèt maðr, er nam land it syðra upp frá Rauðsgili til Gilja, ok bjó at Rauðsgili; hans synir voru þeir Úlfr á Úlfsstöðum, ok Auðr á Auðsstöðum fur norðan á, er Hörðr vo; þar hefst af saga Harðar Grímkelssonar ok Geirs.

---

[1]) Þórríðr, *A-J.* [2]) Þorvaldsstöðum, *E, F, I, K.* [3]) *þannig hin handr.*; dóttir, *A.* [4]) *frá* [ *v. í C.* [5]) Kjalvör, *E, F, St.* [6]) Kali, *E, F, I.* [7]) Auðunn, *K.*

Grímr hèt maðr, er nam land hit syðra upp frá Giljum til Grímsgils, ok bjó við Grímsgil; hans synir voru þeir Þorgils auga [á Augastöðum[1], ok Hrani [á Hranastöðum[2], faðir Gríms, er kallaðr var Stafn-Grímr[3], hann bjó á Stafngríms-stöðum[4], þar heitir nú á Sigmundarstöðum; þar gegnt fur norðan Hvítá, við ána sjálfa, er haugr hans, þar var hann veginn.

Þorkell kornamúli nam Ás enn syðra upp frá Kollslæk til Deildargils, ok bjó í Ási; hans son var Þorbergr kornamúli, er átti Álöfu Ellidaskjöld, dóttur Óseigs ok Ásgerðar, systur Þorgeirs gollnis[5]; börn þeirra voru þau Eysteinn ok Hafþóra, er átti Eiðr Skeggjason, er síðan bjó í Ási; þar dó[6] Miðfjarðar-Skeggi[7], ok er þar haugr hans fur neðan garð. Annar son Skeggja var Kollr, er bjó at Kollslæk. Synir Eiðs voru þeir Eysteinn ok Illugi.

Úlfr[8], son Gríms ens Háleyska ok Svanlaugar[9], dóttur Þormóðar af Akranesi[10], systur Bersa[11], hann nam land [á milli Hvítár ok suðrjökla[12], ok bjó í Geitlandi; hans synir voru þeir Hrólfr hinn auðgi, faðir Haldóru, er átti Gizur hvíti; þeirra dóttir Vilborg, er átti Hjalti Skeggjason. Annar son hans var Hróaldr, faðir Hrólfs ens yngra[13], er átti Þuríði Valþjófsdóttur, Örlygssonar ens gamla; þeirra börn voru þau Kjallakr at

---

[1]) ok Augasteinn, *H, I.* [2]) ok Hranasteinn, *H, I.* [3]) Stafagrímr, *H, I, K.* [4]) Stafrgrímsstöðum, *H;* Stafagríms-stöðum, *I, K.* [5]) gollins, *E;* gellirs, *I.* [6]) bjó, *Sk.* [7]) Finnr faðir Skeggja, *C.* [8]) Álfr, *E, F, á spáziunni eptir Landnámu.* [9]) Þórlaugar, *A-J.* [10]) Alptanesi, *H, I, Sk; hèr sleppr F um sinn.* [11]) Bessa, *E;* Bresa, *Kh.* [12]) fyrir ofan Deildargil, ok allt til jökla fyri sunnan Hvítá, *E.* [13]) auðga, *E milli [ ] eptir Landn.*

Lundi í syðra dal[1], faðir Kolls, föður Bergþórs; annar var Sölvi í Geitlandi, faðir Þórðar í Reykjaholti[2], föður Sölva, föður Þórðar, föður Magnúss, föður Þórðar, föður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona, [Sigvats, Þórðar ok Snorra. Son Sigvats var Sturla, faðir Þuríðar, er herra Hrafn[3] átti; þeirra börn Jón korpr[4], Hallkatla, Valgerðr ok Þorgerðr. Synir Hallkötlu ok Jóns Pètrssonar voru þeir Sturla ok Pètr, ok Steinun dóttir, er átti Guðmundr Þorsteinsson, Skeggjasonar[5]. Þriði son Hrólfs var Illugi enn rauði, er fyrst bjó í Hraunsási; hann átti þá Sigríði, dóttur Þórarins[6] hins illa, systur Músa-Bölverks; þann bústað gaf Illugi Bölverk; en hann fór þá at búa á Hofstöðum í Reykjardal, þvíat Geitlendíngar áttu at halda uppi hofi því at helmíngi við Túngu-Odd; síðarst bjó hann at Hólmi ytra á Akranesi, þvíat hann keypti við Hólm-Starra bæði löndum ok konum, ok [fè ok öllu[7]; þá fèkk Illugi Jórunnar, dóttur Þormóðar Þjóstarssonar af Álptanesi; en Sigríðr[8] hengdi sik í hofinu, þvíat hún vildi eigi mannakaupin. Hrólfr enn yngri gaf Þorlaugu gyðju, dóttur sína, Odda Yrarsyni[9], því rèðst hann vestr til Ballarár, ok bjó þar lengi, ok var kallaðr Hrólfr at Ballará.

---

1) Reykjadal, *E, G, Sk.* 2) Reykjahólum, *C.* 3) Oddsson, *b. v. B, C, E, Sk.* 4) Sturla, *H, Sk.* 5) *frá* [ *v. í C.* 6) Þórorms, *H, I.* 7) lausafè öllu, *K, Sk.* 8) sem hann átti áðr, *b. v. K, Sk.* 9) Irjarsyni, *E.*

# Annar Partr.

---

*Hèr hefr upp landnám í Vestfirðínga fjórðúngi, er margt stórmenni hefir bygðan.*

MAÐR[1] hèt Kalman, Suðreyskr at ætt, hann fór til Íslands ok kom í Hvalfjörð, ok sat við Kalmansá um vetrinn; þar drukknuðu synir[2] hans 2 á Hvalfirði[3]; en síðan nam hann land fur vestan Hvítá á millum[4] ok Fljóta, Kalmanstúngu alla, ok svå allt austr undir jökla, sem größ eru vaxin, ok bjó í Kalmanstúngu[5]; hann druknaði í Hvítá, er hann hafði farit suðr í hraun at hitta friðlu sína, ok er haugr hans á Hvítárbakka fur sunnan; hans son var Sturla goði[6], er furst bjó á Sturlustöðum uppi undir Túngufelli, upp frá Skáldskelmisdal[7], en síðan bjó hann í Kalmanstúngu; hans son var Bjarni, er deildi við Hrólf hinn yngra ok sonu hans um Túnguna litlu; þá hèt Bjarni at taka við kristni. Eptir þat braut Hvítá út farveg þann, er nú fellr hún; þá eignaðist Bjarni Túnguna[8], ok ofan um Grindr, ok Sölmundarhöfða.

Kylan hèt bróðir Kalmans, hann bjó fur neðan[9] Kollshamar; hans son var Kári, er deildi við Karla[10] Konálsson af Karlastöðum, leysíngja Hrólfs or Geitlandi, um uxa, ok reyndist svâ, at

---

1) *Hèr byrjar B aptr.* 2) bræðr, *K.* 3) fyri Dyrum, en þriði í Hvítá, *b. v. E á spáziunni eptir Landn.* 4) Hvítár, *b. v. E.* 5) áðr hafði hann búit í Katanesi við Hvalfjörð, *b. v. E.* 6) Bjarni, faðir Sturlu, *E á spáziunni eptir Landn.* 7) Skáldskilmisdal, *K;* Skáldskelnisdal, *I.* 8) litlu, *b. v. B, C, E, I, Sk.* 9) norðan, *E.* 10) Kala, *H;* eða Kala, *b. v. Sk.*

Karli átti; síðan eggjaði Kári þræl sinn til at drepa Karla; þrælinn lèt sem ærr væri, ok hljóp suðr um hraun; Karli sat á þreskildi, þrælinn hjó hann banahögg; síðan drap Kári þrælinn. Þjóðólfr, son Karla, drap Kýlan Kárason í Kýlanshólum; síðan brendi Þjóðólfr Kára inni, þar sem nú heitir á Brennu. Bjarni Sturluson tók skírn, ok bjó á Bjarnastöðum í Túngunni litlu, ok lèt þar gera kyrkju.

Brandr[1] nefja hèt maðr ágætr, faðir Þorsteins, er átti Lopthænu, dóttur Arinbjarnar[2] hersis or Fjörðum. Systir Lopthænu var Arnþrúðr, er átti Þórir[3] hersir Hróaldsson, ok var þeirra son Arinbjörn hersir. Móðir þeirra Arnþrúðar[4] var Ástríðr slækidrengr, dóttir Braga skálds ok Lopthænu, dóttur Erps lútanda. Son Þorsteins ok Lopthænu var Hrosskell, er átti Jóreiði Ölvisdóttur, Finnasonar, Möttulssonar[5] konúngs; Hallkell hèt son þeirra. Hrosskell fór til Íslands, ok kom í Grunnafjörð, ok bjó fyrst á Akranesi; þá ömuðust þeir Ketill bræðr við hann; síðan nam hann Hvítársíðu millum Kjarrár[6] ok Fljóta; hann bjó á Hallkelsstöðum[7], ok Hallkell son hans eptir hann, ok átti hann Þuríði dyllu, dóttur Gunnlögs or Þverárhlíð, ok Velaugar Örlygsdóttur frá Esjubergi. Hrosskell gaf land Þorvarði, föður Smiðkels, föður þeirra Þórarins ok Auðunnar, er rèðu fur Hellismönnum; hann bjó á Þorvarðsstöðum, ok átti Fljóts-

1) Þróndr, *C;* Þrándr, *E milli* [ ] *eptir Landn.* 2) *þannig B, C, I, Sk;* Arnbjarnar, *A, E, H;* Steinbjarnar, *G.* 3) Þórðr, *I.* 4) ok Lopthænu, *b. v. E.* 5) Finna, *b. v. E.* 6) Hvítár, *E;* Kársár, *K.* 7) Hrosskellsstöðum, *Eá spázíunni eptir Landn.*

dal allan upp með Fljótum. Hrafnkell gaf þorganti skipverja sínum land niðri í Síðu, hann bjó á þorgautsstöðum; hans synir voru Gíslar tveir. Börn þeirra Hallkels ok þuríðar voru þau. þórarinn ok Finnvarðr, Tindr ok Illugi enn svarti, ok Gríma, er átti þorgils Arason. þórarin vo Músa-Bölverkr[1], er hann bjó á Hraunsási; þá lèt hann gera þar virki, ok veitti Hvítá í gegnum ásinn, en áðr fèll hún um Melrakkadal ofan. Illugi ok Tindr sóttu Bölverk í virkit.

2. Ásbjörn hinn auðgi Harðarson keypti land fur sunnan Kjarrá[2] upp frá[3] Sleggjulæk til Hvítbjarga[4], hann bjó á Ásbjarnarstöðum; hann átti þorbjörgu, dóttur Miðfjarðar-Skeggja; þeirra dóttir var Ingibjörg, er átti Illugi [hinn svarti[5].

Örnólfr hèt maðr, er nam Örnólfsdal [ok Kjarradal[6] fur norðan upp til Hvítbjarga. Ketill blundr keypti land at Örnólfi allt fur norðan Klif, ok bjó í Örnólfsdal. Örnólfr gerði þá bú uppi í Kjarradal, þar er nú heita Örnólfsstaðir. Fur ofan Klif heitir Kjarradalr[7], þvíat þar voru hrískjörr[8] ok smáskógar millim Kjarrár[9] ok þverár, svâ at þar mátti eigi byggja. Blundketill var maðr stórauðigr; hann lèt ryðja víða í skógum, ok byggja þar[10].

Hrómundr hèt bróðir Gríms ens Háleyska[11],

---

1) Músabölverk, *C, I, Sk.* 2) Knararâ, *I;* Kjörá, *K;* Korná, *A-J.* 3) í, *C.* 4) Hítbjarga, *C.* 5) *v. í Sk;* Arnólfr hèt maðr, er nam Norðtúngu alla milli Kjarrár ok Þverár, ok bjó í Örnólfsdal; hans son var Blundketill, faðir Þorkels, er Hænsna-Þórir brendi inni; þaðan af gjörðist deild þeirra Þórðar gellis ok Túngu-Odds, *b. v, E.* 6) *v. í I.* 7) Kjarladalr, *C;* Kjarndalr, *I.* 8) hrisker, *Sk.* 9) Kjararár, *E, I.* 10) svâ margar jarðir, *b. v. Sk.* 11) son Þóris, Gunnlaugssonar, Hrólfssonar, Ketilssonar kjölfara, *b. v. B, Sk.*

hann kom skipi sínu í Hvítá; hann nam þverárdal ok þverárhlíð ofan til Hallarmúla ok fram til þverár; hann bjó á Hrómundarstöðum, þat er nú er kallat at Kallsbrekku; hans son var Gunnlaugr ormstúnga, er bjó á Gunnlaugsstöðum fur sunnan þverá; hann átti Velaugu, sem fyrr er ritat[1].

Högni hèt skipverì Hrómundar, hann bjó á Högnastöðum; hans son var Helgi at Helgavatni, faðir Arngríms[2] goða, er var at Blundketils brennu; Högni var bróðir Finns ens auðga.

Ísleifr ok Ísrauðr, bræðr tveir, námu land ofan frá Sleggjulæk millum Örnólfsdalsár ok Hvítár, hit efra[3] ofan til Rauðalækjar, en hit syðra ofan til Hörðahóla[4]. Ísleifr bjó á Ísleifsstöðum, en Ísrauðr á Ísrauðarstöðum, ok átti landit syðra með Hvítá; hann var faðir [þorbjarnar, föður[5] Ljóts á Veggjum, er fèll í Heiðarvígi.

Ásgeirr hèt skipverì Hrómundar, er bjó á Hamri[6] upp frá Helgavatni; hann átti Hildi stjörnu[7], döttur þorvalds þorgrímssonar brækis; þeirra synir voru þeir Steinbjörn hinn sterki ok hinn stórhöggvi, ok þorvarðr, faðir Mæfu[8], er Hrifla átti, ok þorsteinn enn þriði; fjórði Helgi, faðir þórðar, föður Skáldhelga.

3. Arnbjörg hèt kona, er bjó at Arnbjargarlæk[9]; hennar synir voru þeir Eldgrímr, er bjó

---

1) Eyrlygsdóttur frá Esjubergi; þeirra döttir Þuríðr, móðir Illuga hins svarta, föður Hermundar, föður Hreins, föður Styrmis, föður Hreins ábóta, föður Valdisar, móður Snorra á Melum, föður Hallberu, er Markús Þórðarson átti, *b. v. E.* 2) Ásgríms, *E.* 3) nyrðra, *B.* 4) Hörðhóla, *B.* 5) *v. í A-J.* 6) Hvömmum, *A-J.* 7) *eða* stjörnu; Hildistjörn, *C.* 8) Máfu, *E.* 9) Arnbjargarbrekku, *A-J.*

[á Hálsum[1] upp frá Arnbjargarlæk á Eldgrímsstöðum, ok þorgestr, er fèkk hanasár, þá er þeir Hrani börðust, þar er nú heitir Hranafall.

þórunn hèt kona, er bjó í þórunnarholti, hún átti land ofan til Víðilækjar ok upp til móts við þuríði spákonu, systur sína, er bjó í Gröf; við hana er kendr þórunnarhylr í þverá, ok frá henni eru Hamarbyggjar komnir.

þórbjörn, son [Arnbjarnar Óleifssonar lángháls[2], hann var bróðir Lýtíngs í Vopnafirði[3]. þorbjörn nam Stafaholtstúngu[4] millim Norðrár ok þverár, hann bjó í Arnarholti[5]; hans son var Teitr í Stafaholti, faðir Einars[6].

þorbjörn blesi nam land í Norðrárdal fur sunnan á, upp frá Króki, ok Hellisdal allan, ok bjó á Blesastöðum; hans son var Gísli á Melum[7] í Hellisdal; við hann er kendt Gíslavatn[8]. Annar son Blesa var þorfinnr á þorfinnsstöðum, faðir þorgerðar Heiðarekkju, móður þórðar erru, föður þorgerðar, móður Helga[9] at Lundi.

Geirmundr, son Gunnbjarnar gands[10], nam túnguna á millim Norðrár ok Sandár, ok bjó í Túngu; hans son var Bruni, faðir þorbjarnar á Steinum, er fèll í Heiðarvígi[11].

Örn hinn gamli nam Sanddal ok Mjófadal, ok svá Norðrárdal[12] ofan frá Króki til Arnarbælis, ok bjó á Háreksstöðum[13].

---

[1]) hálsinn, *B*, *E*; Háls, *H*; á Hálsi, *I*, *Sk*. [2]) Arnbjargar, dóttur Óleifs lángháls, *E*. [3]) föður Geitis, *b. v. E*. [4]) Stafaholtstúngur allar, *E*, *I*. [5]) Stafholti, *E milli* [ ] *eptir Landn*. [6]) ok Þorvalds, föður Þórkötlu, er átti Hyrningr Kleppjárnsson, *b. v. E*. [7]) Mellum, *B*. [8]) Gislavötn, *B*. [9]) Helgu, *C*, *E*. [10]) gauðs, *E*, *H*. [11]) sem ritat er í sögu Vígabarða, *b. v. E*. [12]) norðr at Dal, *C*. [13]) Hárzstöðum, *H*, *I*.

[Rauðabjörn nam Bjarnardal, ok þá dali, er þar gánga af, ok[1] átti annat bú niðr frá Mælifellsgili, en annat niðri í hèraði, sem ritat er.

Karl nam Karlsdal upp frá Helgavatni[2], ok bjó undir Karlsfelli; hann átti land ofan til Jamnaskarðs[3] til móts við Grím.

Grís ok Grímr hètu leysíngjar Skallagríms; þeim gaf hann land uppi við fjöll, Grísi Grísartúngu, en Grími Grímsdal[4].

4. Bálki hèt maðr, son Blængs[5] Sótasonar af Sótanesi; hann barðist á mót Haraldi konúngi í Hafrsfirði, hann fór því til Íslands, ok nam Hrútafjörð allan, ok bjó í Bæ[6]; hans son var Bersi goðlaus, er nam Lángavatnsdal, ok bjó á Torfhvalastöðum; hans systir var Geirbjörg[7], er átti Þorgeirr meldún[8] í Túngufelli; þeirra son var Veleifr hinn gamli, faðir Hólmgaungubersa. [Bersi goðlaus átti[9] Þórdísi Þórhaddsdóttur[10] or Hýtárdal, ok fylgdu henni heiman Hólmslönd, ok bjó hann þar síðan; þeirra son Arngeirr, er átti Þórdísi, dóttur Þorfinns ens stránga; þeirra son Björn Hýtdælakappi. Móðir Þórdísar[11] var Sæuðr[12], dóttir Skallagríms.

Sigmundr hèt einn leysíngi Skallagríms, hon-

1) Björn hèt maðr Norrænn, er kvám út síð landnámatíðar, ok nam Norðrárdal fyri norðan Norðrá, ok Bjarnadal allan, ok þá dali alla, er þar gánga af; hann bjó at Dalsmynni; hann blès fyrstr manna rauða á Íslandi, ok var hann af því kallaðr Rauða-Björn; hann, *í stað þess frá* [ *E.* 2) Hreðuvatni, *B, E, milli* [ ] *eptir Landn.* 3) Svínaskarðs, *E.* 4) Ormsdal, *G, H, I.* 5) Blæings, *E.* 6) á Bálkastöðum, *E milli* [ ] *eptir Landn.* 7) Geirlaug, *K.* 8) meldúnn, *C;* meldr, *I; v. í B.* 9) Bersi goðlaus undi eigi í Hrútafirði, ok nam Lángavatnsdal, hann átti þar annat bú lánga æfi; þá gekk hann at eiga, *E í stað þess frá* [. 10) Þóraddsdóttur, *G, K;* Þórhallsdóttur, *I;* Þorfinnsd., *A-J.* 11) *þannig leiðrètt:* Þórdísi, *E milli* [ ] *eptir Landn.;* Þuriði, *hin.* 12) Sæunn, *E.*

um gaf hann land millum Gljúfrár ok Norðrár, hann bjó at Haugum, áðr hann færði sik í Munaðarnes; við hann er kendt Sigmundarnes.

Rauðabjörn keypti land at Skallagrími millum Gljúfrár ok Gufár, hann bjó á Rauðabjarnarstöðum uppi frá Eskiholti; hans son var þorkell trefill í Skarði[1] ok Helgi í Hvammi [í Norðrárdal; ok er þar heygðr[2], ok Gunnvaldr[3]; faðir þorkels, er átti Helgu, dóttur þorgeirs af Víðimýri[4]

þorbjörn krumr ok þórðr[5] beigaldi hètu bræðr tveir; þeim gaf Skallagrímr lönd fur utan Gufá, ok bjó þorbjörn í Hólum, en þórðr[5] á Beigalda.

þórði[6] þurs ok þorgeiri[7] jarðláng, ok þorbjörgu staung, systur þeirra, gaf Skallagrímr lönd[8] fur sunnan Lángá; bjó þórðr á þursstöðum[9], en þorgeirr á Jarðlángsstöðum, en þorbjörg í Stángarholti.

Áni hèt maðr, er Skallagrímr gaf land millim Lángár ok Hafslækjar[10], hann bjó at Ánabrekku; hans son var Önundr sjóni[11], faðir Steinars ok Döllu, móður Kórmaks.

þorfinnr hinn strángi hèt merkismaðr þórólfs Skallagrímssonar; honum gaf Skallagrímr Sæunni, dóttur sína, ok land fur utan Lángá til Leirulækjar, ok upp til fjalls ok[12] til Alptár; hann bjó at Forsi; þeirra dóttir var þórdís, móðir Bjarnar Hýtdælakappa.

Íngvarr hèt maðr, faðir Beru, er Skallagrímr

1) þorgeirr reyðr, *b. v. E.* 2) *frá* [ *v. í B.* 3) Guðmundr, *A-J.* 4) Son Trefils var þormóðr, er orti Hrafnsmál um Snorra goða, *b. v. E.* 5) þórir, *C.* 6) þóri, *B.* 7) þórði, *C.* 8) upp með, *b. v. B.* 9) þusstöðum, *B.* 10) Hofslækjar, *H, I, Sk.* 11) ljómi, *A-J.* 12) út, *b. v. E*; ok til Alptár, *v. í B.*

átti; honum gaf Skallagrímr land millum Leirulækjar ok Straumfjarðar; hann bjó at Álptanesi; önnur dóttir hans var þórdís, er átti þorgeirr lambi á Lambastöðum, faðir þórðar, er þrælar Ketils gufu brendu inni; [hans son var Lambi hinn sterki[1].

Steinólfr hèt maðr, er nam Hraundal hvárntveggja allt [millum Álptár ok Hýtarár, ok upp[2] til Grjótár, at leyfi Skallagríms, ok bjó í hinum syðra Hraundal; hans son var þorleifr[3], er Hraundælir eru frákomnir[4]. [þórunn hèt dóttir Steinólfs, er átti þorbjörn Vífilsson, faðir þorgerðar, móður Ásmundar, föður Sveinbjarnar[5], föður Odds, föður Gró, móður Odds á Álptanesi[6].

þórhaddr hèt maðr ágætr, son[7] Steins mjöksiglanda, Vígbjóðssonar, Böðmóðssonar or Búlkarúmi; hann nam Hýtárdal allan ofan til Grjótár fur sunnan, ok fur norðan allt millim Hýtarár ok Kaldár til sjóvar; hans son var þorgeirr, faðir Hafþórs, föður Guðnýjar, móður þorláks ens auðga, [föður þorleifs beiskalda[8], föður[9] þorleiks, föður Ketils, föður Valgerðar, móður þeirra Narfasona, þorláks ok þórðar[10]. þorgeirssynir[11], bræðr Hafþórs, voru þeir Grímr í[12] Skarði, ok þórarinn, Finnbogi, Eysteinn, Gestr ok Torfi.

þorgils knappi[13], leysíngi Kolla Hróaldssonar,

---

[1]) *v. í C;* son þórðar var Lambi hinn sterki, *B,* [2]) *v. í B.* [3]) þorfinnr, *A-J.* [4]) ok bjó á hinum ytra Hraundal, *b. v. E.* [5]) Steinbjarnar, *Kh, Sk.* [6]) *frá* [ *v. í B.* [7]) faðir, *I.* [8]) breiðskalla, *E eptir Hauksbók.* [9]) ok, *Sk.* [10]) föður Ketils prests, föður Helgu, er átti Snorri Markússon á Melum, *í stað þess frá* [ *hefir E þetta eptir Landn.; v. í B.* [11]) þorgeirssuna, *G, Sk.* [12]) ok, *H, I, Sk.* [13]) knapi, *B.*

nam Knappadal; hans synir voru þeir Íngjaldr, Þórarinn [ok Þórir[1], er bjó at Ökrum, ok eignaðist allt land millum Hýtarár ok Álptár, ok upp til móts við Steinólf. Son Þóris[2] var Þrándr, er átti Steinunni, dóttur Hrúts af Kamsnesi[3]; þeirra synir Þórðr[4] ok Skúmr, faðir Torfa, föður Tanna; [hans son[5] var Hrútr, er átti Kolfinnu, dóttur Illuga hins svarta.

Nú eru þeir menn taldir, er bygt hafa í landnámi Skállagríms, [frá Hafnarfjalli ok híngat til[6]. [Son Skallagríms var Egill, faðir Þorsteins, föður Riflu, föður[7] Skúla, föður Þórðar, föður Böðvars, föður Þórðar prests, föður [Böðvars, föður Þórðar, föður Járngerðar[8], er herra Erlendr sterki átti; þeirra dóttir Valgerðr[9].

5. Grímr hèt maðr Íngjaldsson, Hróaldssonar or Haddíngjadal, bróðir Ála[10] hersis; hann fór til Íslands í landaleit, ok sigldi fur norðan landit; hann var um vetrinn í Grímsey á Steingrímsfirði; Bergdís hèt kona hans, en Þórir son þeirra. Grímr rèri til fiska um vetrinn

1) *v. í B.* 2) Þórarins, *B.* 3) Kambsnesi, *C, G, H, Sk.* 4) Þórir, *B, C, E, G, H, I, Sk.* 5) Son Þóris, *E.* 6) *frá* [ *v. í B, C.* 7) Þórólfr hèt maðr, er bjó í Naumudal, hann var Úlfs son, er kallaðr var Kvöld-Úlfr; Grímr hèt annar son Úlfs. Haraldr konúngr hinn hárfagri lèt drepa Þórólf, ok gerði engu bæta; en þess hefndi Grímr ok fór síðan til Íslands; en Úlfr andaðist í hafinu. Skallagrímr kom skipi sínu í Gufárós, ok nam land milli Norðrár ok Hýtarár, allt á milli fjalls ok fjöru, ok bjó at Borg; hann átti Beru Íngvarsdóttur. Synir þeirra Skallagríms voru þeir Þórólfr ok Egill; þeir áttu báðir Ásgerði Bjarnardóttur, ok var dóttir Þórólfs Þórdís, er átti Grímr at Mosfelli. Þórólfr fèll á Vindlandi í orrustu; en Egill fór til Íslands ok bjó at Borg, ok hans kynsmenn lánga tíma; hans son var Þorsteinn, faðir Hriflu, föður Egils, föður, *í stað þess frá* [ *hefir E þetta eptir Landn.* 8) Markúss á Melum ok Járngerðar, *í stað þess frá* [ *E.* 9) Þorgerðr, *I; frá fyrra* [ *v. í B.* 10) Ása, *B, C, E, G, H, I.*

með þrælum sínum, ok son hans var með honum[1]; ok er sveininn tók at kala, þá færðu þeir hann í selbelg, ok drógu at hálsinum. Grímr dró marmennil[2]; [Grímr mælti: segðu oss æfi vora ok lángléfi, ella komr þú eigi heim. Engu varðar yðr at vita, aðra enn sveininn í selbelginum, sagði marmennill, þvíat þú munt dauðr áðr vor komi, en son þinn skal[3] þar byggja ok land nema, sem Skálm, mer þín, leggst undir klyfjum. Eigi fengu þeir fleiri orð af honum. En síðar um vetrinn [andaðist Grímr, ok er þar heygðr[4]. Þau Bergdís[5] ok Þórir fóru um vorit or Grímsey, ok vestr yfir heiði til Breiðafjarðar. Skálm gekk fur allt sumarit, ok lagðist aldrí. Annann vetr voru þau á Skálmarnesi í Breiðafirði, en um sumarit eptir snèru þau suðr; þá gekk enn Skálm fur, þangtil er þau kvámu af heiðum suðr til Borgarfjarðar, þar sem sandmelar tveir rauðir voru, þar lagðist Skálm niðr undir klyfjum, undir hinum ytra melnum; þarnam Þórir land fur sunnan Gnúpá til Kaldár, fur neðan Knappadal [ok Laxár[6], allt millum fjalls ok fjöru; hann bjó at ytra Rauðamel, hann var höfðíngi mikill. Þá var Þórir gamall ok[7] blindr, er hann kom út síð um kveld, ok sá, at maðr reyri utan í Kaldárós á járnnökkva, mikill ok illiligr, ok gekk þar á land upp til bæar þess, er í Hripi[8] hèt, ok gróf þar í stöðulshliði;

[1]) Sveinninn Þórir lá í stafni, *b. v. Sk.* [2]) *þannig B, Sk*; margmelli, *A, C, E, G, H, I, K.* [3]) ok er hann kom upp, spurði Grímr: hvat spár þú oss um forlög vor: eða hvar skulu vær byggja á Íslandi? Marmennill svarar: ekki þarf ek at spá yðr, en sveininum, er liggr í selbelginum, hann skal, *í stað þess frá [ þannig B.* [4]) rèru þeir Grímr svá at sveinninn var á landi; þá týndust þeir allir, *B.* [5]) Herðís, *Sk.* [6]) *v. í B.* [7]) nær, *b. v. H, Sk.* [8]) Hript, *E.*

en um nóttina kom þar upp jarðeldr, ok brann þá Borgarhraun; þar var bærinn, sem nú er borgin. Son Selþóris var Þorfinnr, er átti Jófríði[1], dóttur Túngu-Odds; þeirra synir voru þeir Þorkell ok Þorgils[2], Steinn ok Galti, Ormr ok Þórormr ok Þórir; dóttir Þorfinns var Þuríðr, er átti Þorbrandr or Álptafirði. Þeir Selþórir frændr hinir heiðnu dó í Þórisbjörgum[3]. Þorgils ok Þorkell, synir Þorfinns, áttu báðir Unni[4], dóttur Álfs or Dölum[5]. Skálm, merr Þóris, dó í Skálmarkeldu.

[Kolbeinn klakkhöfði Atlason, or Atleyju af Fjölum, fór til Íslands, ok keypti lönd öll milli Kaldár ok Hýtarár[6], fur neðan Sandbrekku, ok bjó á Kolbeinsstöðum; hans son var Finnbogi í Fagraskógi ok Þórðr skáld[7].

6. Þormóðr goði[8] ok Þórðr gnúpa, synir Odds hins rakka[9], Þorviðarsonar, Freyviðarsonar[10], Álfssonar af Vors; þeir bræðr fóru til Íslands ok námu land millum Laxár[11] ok[12] Straumfjarðarár; hafði Þórðr Gnúpudal ok bjó þar, en síðan Skopti[13] son hans, faðir Hjörleifs goða[14] ok Finnu, er átti Refr hinn mikli; [þeirra son Dálkr[15], faðir Steinunnar, móður Skáldrefs[16]. Þormóðr bjó á Rauðkollsstöðum[17]; hann átti Gerði[18]

1) Oddfríði, *E á spázíunni eptir Landn.* 2) Gils, *Sk.* 3) Þórisbjörg, *C.* 4) Unu, *G, H, I, Sk.* 5) Steinn Þorfinnsson var faðir Arnóru, móður Hallbjargar, móður Oddnýjar, móður Geirlaugar, móður Snælaugar, móður Markúss á Melum, *b. v. E.* 6) Haffjarðarár, *Sk;* Hvitár, *K.* 7) *frá* [ *v. í B.* 8) *v. í B.* 9) rauða, *I.* 10) Eyviðarsonar, *B.* 11) Gnúpár, *B.* 12) Gnúpár, ok, *b. v. Sk.* 13) Skapti, *B, G, H, I, Sk.* 14) ok Þorviðar ok Þorgerðar, er átti Illhugi Arason, *b. v. E.* 15) *v. í B.* 16) Hofgarða-Refs, *B.* 17) hann var kallaðr Þormóðr goði, *b. v. B, Sk.* 18) Geirríði, *A-J.*

dóttur Kjallaks ens gamla; þeirra son var Guðlögr[1] enn auðgi; hann átti þórdísi, dóttur Svarthöfða, Bjarnarsonar gullbera, ok dóttur þuríðar Túngu-Oddsdóttur, er þá bjó í Hörgsholti[2]. Guðlögr enn auðgi sá at Rauðamels lönd voru betri enn önnur lönd suðr þar í sveit; hann skoraði á þorfinn til landa, ok bauð honum hólmgaungu; þeir [urðu báðir óvígir[3] á hólmi, en þuríðr Túngu-Oddsdóttir græddi þá báða, ok sætti þá síðan. Guðlögr nam síðan land frá Straumfjarðará til Furu, milli fjalls ok fjöru, ok bjó í Borgarholti; frá honum eru Straumfirðíngar komnir. Hans son var Guðleifr, er átti annann knör, en annann þórólfr, son Lopts hins gamla [af Eyrarbakka[4], þá er þeir börðust við Gyrð[5] jarl Sigvaldason [í Meðalfarssundi, ok hèldu fè sínu; þar um orti Guðleifr Gyrðsvísur[6]. Annar son Guðlaugs[7] var þorfinnr, faðir Guðlaugs[8], föður þórdísar, móður þórðar, föður Sturlu ens gamla í Hvammi. [Valgerðr hèt dóttir Guðlögs ens auðga[9].

Vali hinn sterki hèt hirðmaðr Haralds konúngs ens hárfagra; hann vá víg [í veum[10], ok varð útlægr; hann fór til Suðreyja[11] ok staðfestist þar, en synir hans þrír fóru til Íslands; Hlíf hestageldir[12] var móðir þeirra; einn hèt Atli, annar Alfvarinn[13], þriði Auðunn stoti[14]. Atli Valason[15]

1) Gunnlaugr, *E*, *Sk*. 2) Hróksholti, *E*. 3) fèllu báðir, *B*. 4) *v. í B*. 5) Gyrðir, *C*, *Sk*. 6) Gyrðsvísu, *E*; *frá* [ *v. í B*. 7) *þannig B, C, G*; Guðleifs, *A, H, I, Sk*. 8) Guðleifs, *E*; Gunnlögs, *Sk*. 9) *frá* [ *v. í C*. 10) í hofgriðum, *H, Sk*; *v. í I*. 11) litlu síðar enn Ketill flatnefr, *b. v. E*. 12) hestageld, *C*. 13) Úlfvarinn, *B*; Álfvarr, *C*; Alfarinn, *E, G, H, I*; Úlfarr, *A-J*. 14) stoði, *C, G, H, I*; staði, *E*; skoti, *E útá spáz*. 15) valz, *I*.

ok Ásmundr son hans námu land frá Funu til Lýsu. Ásmundr bjó á Lángaholti at Þórutóptum; hann átti Lángaholts-Þóru. En þá er Ásmundr eldist, skildi hann við Þóru fur mannkvæmd, ok fór í Öxl at búa til dauðadags; Ásmundr var heygðr þar, ok í skip lagðr, ok þræll hans með honum, sá er sèr banaði sjálfr, ok vildi eigi lifa eptir Ásmund, hann var lagðr í annann stafn skipsins. Litlu síðar dreymdi Þóru, at Ásmundr sagði sèr mein at þrælnum; þar heitir Ásmundarleiði, er hann var heygðr; vísa þessi var heyrð í haug hans.

Einn[1] byggi ek stöð[2] steina,
stafnrúms[3], at áls[4] hrafni[5];
erat of þegn á þiljum[6],
þraung bý ek á mar ránga[7];
rúm er böðvitrum[8] betra,
brimdýri kná[9] ek stýra,
lifa man þat með lofðum
lengr, enn[10] íllt ofgengi.

Eptir þat var leitat til haugsins, ok var þræll-inn rekinn[11] or skipinu. Þóra lèt gera skála um þjóðbraut þvera, ok lèt þar jamnan standa borð[12], en hún sat úti á stóli, ok bauð hverjum er mat vildi eta. [Atli var son Ásmundar, faðir[13] Surts, föður Guðleifs, föður Guðbrands, föður Surts smiðs, föður Eyjólfs prests, múnks[14].

---

1) Enn, *E*. 2) stað, *Sk*. 3) stafn rúmt, *B*; stafnrúm, *C*, *E*; stafr teins, *I*. 4) táls, *E*; Álfs, *I*; Atals, *K*. 5) hafni, *I*. 6) þróum, *I*, 7) raunga, *Sk*, 8) böðvitum, *B*, *Sk*; boðvitrum, *C*; böðvits, *E*; bandvitrum, *G*, *H*, *I*. 9) skal, *E*. 10) ef, *Sk*. 11) tekinn, *B*, *I*. 12) ok mat á, *b. v. E*. 13) eða föður. 14) *í stað þess frá [ hefir E eptir Landn.:* Synir þeirra Ásmundar ok Þóru voru Atli ok Surtr.

Rólfr[1] enn digri, son Eyvindar eykikróks[2], bróðir Illuga Fellegoða austan af Síðu, nam land frá Lýsu til Hraunhafnarár[3]; hans son var Helgi [í Hofgörðum[4], faðir Finnboga, ok Bjarnar, ok Hrólfs. Björn var faðir Gests, föður[5] Skáldrefs.

7. Sölvi hèt maðr, er nam land millum [Hellishrauns ok Sleggjubeinsár[6]; hann bjó í Brenningi fyrst, en síðan á Sölvahamri, þvíat hann þóttist þar vera fleiri manna gagn.

Sigmundr, son Ketils þistils, þess er numit hafði þistilsfjörð norðr, hann átti Hildigunni; hann nam land millim Hellishrauns ok Beruvíkurhrauns[7], hann bjó at Laugarbrekku, ok er þar heygðr; hann átti þrjá[8] syni, einn var Einarr, er síðan bjó at Laugarbrekku. þeir feðgar seldu Lónland Einari, er síðan bjó þar; hann var kallaðr Lón-Einarr; [hval rak á fjöru hans, ok skar hann af nökkvat[9]; hann sleit veðr út, ok rak hann á land Einars Sigmundarsonar; Lón-Einarr taldi fjölkýngi Hildigunnar því valda. En þá er hvalinn hafði útrekit frá Lón-Einari, fór hann at leita, ok kom svá, at Einarr Sigmundarson skar hvalinn með húskarla sína; hann hjó þegar einn þeirra banahögg. Laugarbrekku-Einarr bað nafna sinn fráfara: þvíat yðr mun eigi duga at at sækja. Lón-Einarr hvarf frá, þvíat hann var liðvana. Einarr Sigmundarson flutti heim hvalinn; ok einn tíma hann var eigi heima[10], fór Lón-Einarr

[1]) Kolr, *Sk.* [2]) eikkikropps, *B.* [3]) Hraunshafnar, *I, K*; Hraunsfjarðarár, *A-J.* [4]) er bjó at Hofstöðum, *E eptir Landn.* [5]) *b. v. hin; v. í A.* [6]) Hellis ok Hraunhafnar, *B.* [7]) Brunvíkrhrauns, *I.* [8]) 4, *II, I, Sk.* [9]) mikit, *Sk.* [10]) Eptir andlát Sigmundar, *B í stað þess frá* [.

til Laugarbrekku með [sjöunda mann[1], ok stefndi Hildigunni um fjölkýngi; hún var dóttir Beinis Móssonar, Naddoddssonar or Færeyjum. Einarr kom heim þá er Lón-Einarr var nýfarinn á braut; Hildigunnur sagði honum þessi tíðindi, ok færði honum kyrtil nýgjörvan. Einarr tók skjöld sinn, ok sverð, ok verkhest[2], ok reið eptir þeim; hann sprengði hestinn á þúfubjörgum; [þá rann Einarr sem hann mátti; en þá er hann kom hjá Draungum, sá hann tröllkarl sitja þar á uppi, ok láta róa fætr, svá at þeir tóku brimit, ok skeldi þeim saman, svá at sjódrif varð af, ok kvað vísu:

Var ek þar er[3] fèll af fjalli
flóð-korn[4] jötuns móðr[5],
hám bergrisa[6] or[7] himni[8],
Hèðins[9] anna leiðar[10];
gerir[11] fár jötun fleiri,
fold, í vinga moldu
hömlu[12] heiðar þrumlu[13],
hamvata[14] mèr bata.

Einarr gaf engan gaum at þessu. Þeir[15] fundust þar sem heita[16] Mánafallsbrekkur[17] ok börðust þar, en kyrtil Einars bitu eigi járn; fjórir menn fèllu af Lón-Einari, en tveir[18] flýðu frá honum. Þeir nafnar sóttust lengi áðr sundrgekk bróklindi[19] Lón-Einars; en er hann tók þar til[20], hjó

[1]) 7 menn, *C, G, I;* 8 menn, *Sk.* [2]) eikhest, *E á spáz. eptir Landn.* [3]) at, *E.* [4]) kom, *E, K.* [5]) móðar, *E.* [6]) berg sá, *G;* begrisa, *H, I.* [7]) *v. í Sk.* [8]) húmæ, *E.* [9]) heiðrs, *G;* heiðins, *A og hin, má lesast:* hèðins. [10]) *þannig Sk;* ána leiðar, *eða:* á ná leiðar, *A og hin.* [11]) gerek, *I.* [12]) hólmu, *G, H, I;* hólm á, *Sk.* [13]) þumlu, *C.* [14]) hamvati, *H, I, Sk.* [15]) nafnar, *b. v. E.* [16]) *í stað þess frá [hefir B:* en gat farit hjá, *o: s. frv.* [17]) *þannig A;* Mannafalls-brekkur, *E, G, H, I, Sk.* [18]) þrælar hans, *b. v. B.* [19]) lyndi, *Sk.* [20]) til bróklyndans, *Sk.*

nafni hans hann banahögg; en Hreiðarr, þræll Einars Sigmundarsonar, sá hann fara skyndiliga, ok hljóp eptir honum; þá sá hann þræla Lón-Einars flýja, ok rann hann þá eptir þeim, ok drap þá báða í þrælavík; fur þat gaf Einarr honum frelsi, ok land svâ mikit sem hann fengi [gerðt um[1] þrjá daga[2]; þat heitir nú Hreiðarsgerði; er hann bjó síðan. Einarr bjó síðan at Laugarbrekku, ok er heygðr skamt frá Sigmundarhaugi, ok er haugr hans jamnan grænn vetr ok sumar. Þorkell hèt son Lón-Einars; hann átti Grímu Hallkelsdóttur fyrr enn Þorgils[3] Arason[4]. Dóttir Laugarbrekku-Einars var Arnóra, er âtti Þorgeirr Vífilsson; þeirra dóttir var Íngvildr, er átti Þorsteinn, son Snorra goða; þeirra dóttir Ínguðr[5], er átti Ásgeirr[6] Arnórsson. [Finnvarðr hèt son Laugarbrekku-Einars. Einarr at Laugarbrekku átti Unni, dóttur Þóris, bróður Ásláks í Lángadal; Hallveig[7] var dóttir þeirra, er Þorbjörn Vífilsson átti[8]. Breiðr[9] hèt annar son Sigmundar, bróðir Einars; hann átti Gunnhildi, dóttur Ásláks or Lángadal; þeirra son var Þormóðr, er átti Helgu Önundardóttur, systur Skáldhrafns; þeirra dóttir Herþrúðr, er Símon átti; þeirra dóttir Gunnildr, er Þorgils átti; þeirra dóttir Valgerðr, móðir Finnboga hins fróða[10], Geirssonar. Þor-

---

1) gört um í, *Sk;* gert um (of, *C.*), *hin.* 2) dags sakir *E á spáziunni eptir Landn.* 3) Illugi, *E.* 4) Börn Þorkels ok Grímu voru Finnvarðr ok Hallveig, *b. v. E.* 5) Íngvöldr, *E, G.* 6) Ásbjörn, *B, C.* 7) Hallbjörg, *H, Sk.* 8) hún var móðir Guðríðar, móður Bjarnar, föður Steinunnar, móður Ketils, föður Þorláks, föður Ketils prests, föður Helgu, er Snorri Markússon átti, *b. v. E.* 9) Brandr, *H, Sk.* 10) ramma, *B.*

kell hèt enn Þriði son Sigmundar; hann átti Jóreiði[1], dóttur Tinds Hallkelssonar[2].

8. Grímkell hèt maðr, son [Úlfs kráku Hreiðarssonar[3], bróðir Gunnbjarnar, er Gunnbjarnarsker eru viðkend; hann nam land frá Beruvíkurhrauni [til Neshrauns[4], ok út um öndverðt nes, ok bjó at Saxahvoli[5]; hann rak á brott þaðan Saxa Alfarinsson, Valasonar, ok bjó hann síðan at Hrauni hjá Saxahvoli. Grímkell átti þorgerði, dóttur Valþjófs ens gamla; þeirra son var þórarinn korni, hann var hamramr mjök, ok liggr í Kornahaugi[6]. þórarinn korni átti Jórunni, dóttur Einars í Stafaholti; þeirra dóttir var Járngerðr, er átti Úlfr Uggason. Klængr[7] hèt annar son Grímkels; hann átti Oddfríði, dóttur Helga af Hvanneyri; þeirra son var Kolli, [er átti þuríði, dóttur Ásbrands frá Kambi; þeirra son var Skeggi, faðir þorkötlu, er átti Illugi, son þorvalds Tindssonar[8], föður Gils, er vá Gjafald[9]. Bárðr hèt annar son Kolla; hann átti Valgerði Viðarsdóttur[10]; Vigdís var dóttir þeirra, er átti þorbjörn enn digri; þeirra dóttir [þórdís, er átti þorbrandr at Ölvusvatni[11]; þórir var son þeirra, ok Bjarni á Breiðabólstað, ok

---

1) Jóríði, *I, Sk.* 2) þeirra dóttir var Ástríðr, er átti Óttarr Jófreiðarson, þórhóðarsonar, Kleppjárnssonar hins gamla, *b. v. E; frá* [ *hins vegar v. í C.* 3) Kráku-Hreiðars, *B.* 4) *v. í Sk.* 5) Saxhóli, *K.* 6) þetta kvað maðr, er brotit hafði hauginn:

Hljóp ek í hauginn forna,
hvílt hefik lengr of morna,
lèt ek á braut of borna
beltishringinn Korna., *b. v. E.*

7) Klángr, *E.* ) tinds, *E.* 9) Einarr var son Gils, *b. v. E.* 10) Viðrisdóttur, *G, H, I;* Viðriksdóttur, *Sk.* 11) þuríðr, er átti þróndr at Vatni, *E á spáz. eptir Landn.*

Torfi[1], en dóttir Valgerðr, er átti Runólfr Bússon[2]. Ásdís hèt önnur dóttir Bárðar; hana átti fyrr Þorbjörn Þorvaldsson, bróðir Mána-Ljóts sammæðri; börn þeirra: Þuríðr, er átti Þorgrímr Oddsson; börn þeirra: Geirmundr í Máfahlíð ok fjórtán önnur. Ásdísi átti síðar Skúli Jörundarson; Valgerðr at Mosfelli var dóttir þeirra[3].

Alfarinn[4] Valason hafði fyrst numit nesit á millim Beruvíkurhrauns ok Ennis; hans synir voru þeir Höskuldr, er bjó á Höskuldsám[5], ok Íngjaldr, er bjó á Íngjaldshvoli, en Goti á Gotalæk, en Hólmkell at Forsi við Hólmskelsá[6].

Ólafr belgr hèt maðr, er nam land fyr innan Enni til Fróðár, ok bjó í Ólafsvík.

9. Ormr[7] hinn mjófi hèt maðr, er kom skipi sínu í Fróðárós, ok bjó á Brimilsvöllum nokkura vetr; hann rak brott Ólaf belg, ok nam víkina gömlu alla milli Ennis ok Búlandshöfða, ok bjó síðan at Fróðá; hans son var Þorbjörn enn digri, [er barðist við Þórarinn svarta, ok fèll sjálfr ok þrír menn með honum[8]. Um þat orti Þórarinn

1) Tjörvi, *E eptir Landn.* 2) biskupsson, *E*; Björnsson, *E eptir Hauksbók*; rús, *I*; bús, *H*, *Sk.* 3) *frá fyrra* [ *v. í C*. 4) Úlfr, *K.* 5) Höskuldsá, *K*, *Sk.* 6) hans dóttir var Ketilríðr, er Víglundr átti, *b. v. E.* 7) Grimr, *B*, *K.* 8) hann átti fyrr Þuríði, dóttur Ásbrands frá Kambi, ok voru þeirra börn Ketill kappi, ok Halsteinn, ok Guðlögr, ok Þorgerðr, er átti Önundr sjóni. Þorbjörn átti síðar Þuríði Barkardóttur ens digra, (Þorsteinssonar þorskabíts, *b. v. Sk.*) ok Þórdísar Súrsdóttur. Þorbjörn enn digri stefndi Geirríði Bæifótsdóttur um fjölkýngi, eptir þat er Gunnlögr son hans dó í meini því, er hann tók, þá er hann fór at nema fróðleik af Geirríði; hún var móðir Þórarins í Máfahlíð. Um þá sök var Arnkell goði kvaddr tylftarkvöð, ok bar hann af því, at Þórarinn vann eið at stallahring, ok hratt svá málinu. En eptir þat hvurfu Þorbirni stóðross á fjalli, þat kendi hann Þórarni, ok fór í Máfahlíð, ok setti duradóm; þeir voru tólf; en þeir Þórarinn voru sjö

Máfhlíðíngavísur, eptir því sem segir í Eyrbyggja-sögu; þessi er ein:

> Kveðinn[1] man[2] Hropta[3] af heiptum
> hýrskerðir mèr verða;
> kunna ek áðr fur[4] einni[5]
> Yggs teiti[6] vel beita;
> ef hjaldr-gnár[7] hildar
> hýrsennu[8] mèr kenna[9],
> eggjumst hæfs at ek högga[10]
> hlín guðvefjar mína.

[Af þeim orðum börðust þeir annat sinn. Þorbjörn átti Þuríði Barkardóttur hins digra, Þorsteinssonar Þorskabíts; [þeirra son var Ketill kappi, ok var hann þá utanlands[11]; [hann var faðir Hroðnýjar, er átti Þorsteinn, son Vígastýrs[12].

---

fyrir: Algeirr Suðreyíngr, ok Nagli, ok Björn Austmaðr, ok húskarlar þrír; þeir hleyptu upp dóminum ok börðust þar í túninu. Auðr, kona Þórarins, hèt á konur at skilja þá. Einn maðr fèll af Þórarni, en tveir af Þorbirni. Þeir Þorbjörn fóru á brott, ok bundu sár sín hjá stakkgarði upp með Vogum. Hönd Auðar fannst í túni, því fór Þórarinn eptir þeim ok fann þá hjá garðinum; Nagli ljóp grátandi um þá, ok í fjall upp; þar vo Þórarinn Þorbjörn, ok særði Hallstein til ólífis. Fimm menn fèllu af Þorbirni, *í stað þess frá* [ *hefir B, Sk, þetta.*

1) kveðja, *E, Sk*; kveðju, *G, H.* 2) nam, *E.* 3) *þannig B, C, Sk*; hróps, *A, E, G, H.* 4) *v. í Sk.* 5) enni, *C, I.* 6) yggsveiti, *H.* 7) knár, *Sk.* 8) hýrsönnu, *I.* 9) kennir, *Sk.* 10) höggi, *H, Sk.* 11) þeir Arnkell ok Vermundr veittu Þórarni, ok höfðu setu at Arnkels. Snorri goði mælti eptir Þorbjörn, ok sekti þá alla, er at vígum höfðu verit, á Þórnesþingi; eptir þat brendi hann skip þeirra Algeirs í Salteyraósi; Arnkell keypti þeim skip í Dögurðarnesi ok fylgdi þeim út um eyjar. Af þessu gjörðist fjandskapr þeirra Arnkels ok Snorra goða, *í stað þess frá fyrra* [ *hefir B, Sk, þetta; en E í stað þess frá síðara* [ *þetta fylgjandi:* þeir synir Þorbjarnar voru Gunnlaugr, Hallsteinn, ok Ketill kappi; hann var utanlands þá bardaginn var í Máfahlíð. Þorbjörn átti fyrst Þuríði, dóttur Ásbrands frá Kambi, systur Bjarna Breiðvíkingakappa ok Arnbjarnar sterka. 12) *frá* [ *v. í Sk.*

[Sigurðr svínhöfði[1] var kappi mikill, hann bjó á Kvennvogaströnd[2]; Herjólfr son hans var þá átta[3] vetra, er hann drap skógarbjörn fur þat er hann hafði bitit geit hans; þar um er þetta kveðit:

Bessi brunninnrassi[4]
beit geit fur Herjólfi,
Herjólfr hólkinnrassi[5]
hefndi [geitar á[6] bersa.

Þá var Herjólfr tólf vetra er hann hefndi föður síns; hann var[7] hinn mesti afreksmaðr. Herjólfr[8] fór til Íslands í elli sinni, ok nam land millim Búlandshöfða ok Kyrkjufjarðar; hans son var Þorsteinn kolskeggr, faðir Þórólfs, föður Þórarins svarta Máfhlíðíngs, ok Guðnýjar[9], er átti Vemundr hinn mjófi; þeirra son var Brandr hinn örvi, [ok (dóttir) Þorfinna, er átti Þorsteinn Kuggason[10].

Vestarr, son Þórólfs blöðruskalla, hann átti Svönu[11] Herruðardóttur[12]; þeirra son var Ásgeirr. Vestarr fór til Íslands með föður sinn afgamlan, ok nam Eyrarland, ok [á millum Kyrkjufjarðar ok Kolgrafafjarðar[13], ok bjó á öndverðri Eyri. Þeir Þórólfr feðgar eru báðir heygðir á Skallanesi[14]. Ásgeirr Vestarsson átti Helgu, dóttur Kjallaks; þeirra son var Þorlákr; hans son var Steinþórr[15], ok Þórðr blýgr, er átti Ottkötlu Þor-

1) Sigurðr svíni, *E*; Sigmundr s., *A-J*. 2) Kvernvogaströnd, *B*; Kvennvogastað, *H*, *I*; Kvenná á Vogaströnd, *K*, *Sk*. 3) 12, *E*. 4) búinnrassi, *C*. 5) hokinnrassi, *C*; hólknirassi, *H*, *I*. 6) geit við, *C*. 7) varð, *E*. 8) hrokkinneysta, *b. v. E*. 9) *þannig hin*; Guðný, *A*. 10) *frá* [ *v. í B*. 11) Spönu, *C*. 12) Hervaðard., *B*; Hreiðarsd., *E eptir Landn*. 13) Kyrkjufjörð, *í stað þess frá* [ *B*. 14) Skálanesi, *H*, *I*, *Sk*. 15) ok þeirra Þuriðar, dóttur Auðunnar stota, *b. v. B*.

valdsdóttur, [þormóðarsonar goða[1], ok þormóðr, er átti þorgerði, dóttur þorbrands or Álptafirði; fjórði var Bergþórr, er fell á Vígrafirði. Steinþórr átti þórdísi[2], dóttur þorgils Arasonar; Gunnlaugr var son þeirra, er átti þuríði hina spöku, dóttur Snorra goða[3].

10. Kolr hèt maðr, er land nam utan frá Fjarðarhorni til Tröllaháls, ok út um Berserkseyri[4] til Hraunsfjarðar; hans son var þórarinn[5] ok þorgrímr; við þá er kendt Kolssonafell. þeir feðgar bjuggu allir at Kolgröfum; frá þeim eru Kolgreflíngar komnir.

Auðunn stoti[6] son Vala hins sterka, hann átti Mýrunnu, dóttur Bjaðmaks[7] Íra konúngs; hann nam [Hraunsfjörð allan fur ofan[8] Hraun á millim Svínavatns ok Tröllaháls, hann bjó í Hraunsfirði; hann var mikill fur sèr ok sterkr, [þaðan eru Straumfirðíngar komnir[9]. Auðunn sá um haust at hestr apalgrár ljóp ofan frá Hjarðarvatni[10] ok til stóðhrossa hans, sá hafði undir stóðhestinn. þá fór Auðunn til, ok tók hinn grá hestinn, ok setti fur tveggja yxna sleða, ok ók saman alla töðu sína; hestrinn var góðr meðferðar um hádegit, en er áleið, stè hann í völlinn harðan til hófskeggja, en eptir sólarfall sleit hann allan reiðíng, ok ljóp til vatnsins upp; hann sást eigi

1) *v. í C.* 2) Þuríði, *B, C.* 3) Helga hèt systir þeirra Steinþórs á Eyri, hana átti Ásmundr Þorgestsson; þeirra dóttir var Þuríðr, er átti Þorbjörn, son Þorleifs frá Hafragili; þeirra son var Þórðr Rúpeyrarskáld, er átti Helgu Þórhallsdóttur, Kálfssonar; þeirra son var Hrafnkell, er Skáld-Hrafn var kallaðr, *b. v. E.* 4) Borðeyri, *E.* 5) Kolgrímr, *A-J.* 6) sóti, *H, K, Sk.* 7) Maddaðar, *B; líka E eptir Landn.;* Bjoðmaks, *E.* 8) *frá [ v. í E.* 9) Hraunfirðingar komnir, *E; frá [ v. í B.* 10) Harðnsvatni, *C;* Hlíðarvatni, *I.*

síðan. Son Auðunnar var Steinn, faðir Helgu, er átti Án í Hrauni; þeirra son Már, faðir Guðríðar, móður Kjartans ok Ánar[1] í Kyrkjufelli. Ásbjörn hèt annar son Auðunnar, þriði Svarthöfði, en dóttir þuríðr, er Ásgeirr átti at Eyri; þeirra son þorlákr.

11. Björn hèt son Ketils flatnefs ok Ýngvildar, dóttur Ketils veðrs, hersis af Hríngaríki. Björn sat eptir at eignum föður síns þá er Ketill fór til Suðreyja. En er Ketill hèldt sköttum fur Haraldi konúngi enum hárfagra, þá rak konúngr Björn, son hans, af eignum sínum, ok tók undir sik. þá fór Björn vestr um haf, ok vildi þar eigi staðfestast, [ok eigi við kristni taka, sem önnur börn Ketils[2], því var hann kallaðr Björn enn austræni; hann átti Gjaflaugu Kjallaksdóttur, systur Bjarnar ens sterka. Björn enn austræni fór til Íslands, ok nam land millum Hraunsfjarðar ok Stafár, ok bjó í Bjarnarhöfn á Borgarholti, ok hafði selför upp til selja[3], ok átti rausnarbú; hann dó í Bjarnarhöfn, ok var heygðr við Borgarlæk, þvíat hann einn var óskírðr barna Ketils flatnefs. Son þeirra Bjarnar ok Gjaflaugar var Kjarlakr enn gamli, er bjó í Bjarnarhöfn eptir föður sinn, ok Óttarr, faðir Bjarnar, föður Vigfúss í Drápuhlíð, er Snorri goði lèt drepa. Annar son Óttars var Helgi; hann herjaði á Skotland, ok fèkk þar at herfángi Niðbjörgu[4], dóttur Bjólans konúngs ok Kaðlínar, dóttur Gaungu-Rólfs; hann fèkk hennar, ok var son þeirra Ósvífr hinn

---

1) Arnar, *Sk* *milli* [ ]. 2) *frá* [ *v. í B.* 3) fjalla, *E.* 4) Viðbjörgu, *Sk* *milli* [ ].

spaki, ok Einarr skálaglam, er drukknaði í Einarsskeri í Seljasundi, ok kom skjöldr hans í Skjaldey, en feldr á Feldarhólm. Einarr var faðir Þorgerðar, móður Herdísar, móður Steins skálds[1]. Ósvífr átti Þórdísi, dóttur Þjóðólfs or Höfn; þeirra börn voru Úspakr, faðir Úlfs stallara, [föður Jóns á Reirvelli[2], föður Erlends himalda[3], föður Eysteins erkibiskups[4], ok Þórólfr, Torráðr, Einarr, Þorkell, Þorbjörn, þeir urðu sekir um víg Kjartans Ólafssonar, ok Guðrún[5], móðir Gellis ok Bolla ok Þorleiks [ok Þórðar kattar[6]. Vilgeirr hèt son Bjarnar ens austræna. Kjarlakr enn gamli átti Ástríði, dóttur Hrólfs hersis ok Öndóttar, systur Ölvis barnakarls; þeirra son var Þorgrímr goði, [hann átti Yngvildi[7]; voru synir þeirra Vígastýrr, ok Vermundr mjófi, ok Brandr, faðir Þorleiks. Dætr Kjarlaks ens gamla voru Gerðr, er Þormóðr goði átti, ok Helga, er Ásgeirr á Eyri átti.

12. Þórólfr, son Örnólfs fiskreka, bjó í Mostr, því var hann kallaðr Mostrarskegg[8]; hann var blótmaðr mikill, ok trúði á Þór; hann fór fur ofríki Haralds konúngs hárfagra til Íslands, ok sigldi fur sunnan land; en er hann kom vestr fur Breiðafjörð[9], skaut hann öndvegissúlum sínum fur borð, þar var skorinn á Þórr; hann mælti svá fur, at Þórr skyldi þar á land koma, sem hann vildi at Þórólfr bygði, hèt hann því at helga Þór allt landnám sitt ok kenna við hann.

1) smiðs, *B; líka E eptir Landn.* 2) Reirjökli, *G, H, I, Sk.* 3) húnalda, *hin.* 4) *frá [ v. í B.* 5) Osvifrsdóttir, *b. v. Sk.* 6) *frá [ v. í C.* 7) *tekið úr E; eyða fyrir nafninu í A og fl.; frá [ v. í Sk.* 8) Mostraskegg, *E.* 9) Borgarfjörð ok Snæfellsnes, *E.*

þórólfr sigldi inná Breiðafjörð, ok gaf nafn firðinum; hann tók land fur sunnan fjörðinn[1], nær miðjum[2]; þar fann hann þór rekinn á nesi einu, þar heitir nú þórsnes. þeir lendu þàr innfrá í voginn, er þórólfr kallaði Hofsvog; þar reisti hann bæ sinn, ok gerði þár hof mikit, ok helgaði þór; þar heita nú Hofstaðir; fjörðr var þá nær eigi bygðr. þórólfr nam land frá Stafsá[3] inn til þórsár, ok kallaði þat allt þórsnes; hann hafði svâ mikinn átrúnað á fjalli því, er stóð í nesinu, er hann kallaði Helgafell, at þángat skyldi engi maðr óþvegiinn líta, ok svâ var þar mikil friðhelgi, at þar skyldi engu granda í fjallinu, hvârki fè nè mönnum, nema sjálft gengi brott. þat var trúa þeirra þórólfs[4] frænda, at [þeir dæi allir í fjallit[5]. þar á nesinu, sem þórr kom á land, hafði þórólfr dóma alla, ok þar var sett hèraðsþíng með ráði allra sveitarmanna; en er menn voru þar á þíngi, þâ skyldi eigi hafa álfreka á landi, ok var ætlat til þess sker eitt, þat er þeir kölluðu Dritsker, því at þeir vildu eigi saurga láta svâ helgan völl sem þar var. En þá er þórólfr var dauðr, en þorsteinn son hans var úngr, þá vildu þeir þorgrímr Kjallaksson ok Ásgeirr, mágr hans, eigi gánga í skerit örna[6] sinna, ok þoldu eigi þórsnesíngar þat, er þeir vildu saurga svâ helgan völl; því börðust þeir þorsteinn þorskabítr ok þorgeirr keingr við þá þorgrím ok Ásgeir þar á þínginu um skerit, ok fèllu þar nokkurir menn,

[1]) *b. v. B, Sk; v. í A og hin.* [2]) firðinum, *b. v. B, Sk.* [3]) Hofsá, *E.* [4]) ok hans, *b. v. B, C, G, H, I, Sk.* [5]) þá þeir dæi, mundi þeir í fjallit hverfa allir, *H, K, Sk.* [6]) eyerna, *C;* erinda, *E, K, Sk.*

en margir urðu sárir áðr þeir urðu skildir. Þórðr[1] gellir sætti þá; ok með því at hvárigir vildu láta af sínu máli, þá var völlrinn óheilagr af heiptar blóði; þá var þat ráð tekit at færa brott þaðan þíngit, ok inní nesit, þar sem nú er, var þar þá helgistaðr mikill, ok þar stendr enn Þórs steinn, er þeir brutu þá menn um, er þeir blótuðu, ok þar hjá er sá dómhríngr, er þeir dæmdu menn til blóta; þar setti Þórðr gellir fjórðúngsþíng með ráði allra fjórðúngsmanna[2]. Son Þórólfs Mostrarskeggs var Hallsteinn[3] Þorskafjarðar-goði, faðir Þorsteins surts, ens spaka; Ósk var móðir Þorsteins surts, dóttir Þorsteins rauðs. Annar son Þórólfs Mostrarskeggs var Þorsteinn þorskabítr; hann átti Þóru, dóttur Ólafs[4] feilans, systur Þórðar gellis; þeirra son var Þorgrímr, faðir Snorra goða, ok [Börkr hinn digri[5], er var faðir Sáms, er Ásgeirr vo[6].

13. Geirrauðr hèt maðr, er fór til Íslands, ok með honum Finngeirr, son Þorsteins[7] öndrs, ok Úlfarr kappi; þeir fóru af Hálogalandi til Íslands. Geirrauðr nam land inn frá Þórsá til Lángadalsár, hann bjó á Eyri. Geirrauðr gaf land Úlfari skipverja sínum tveim megin Úlfarsfells ok fur innan fjall. Geirrauðr gaf Finngeiri land uppi um Álptafjörð; hann bjó þar, er nú heitir á Kársstöðum[8]; hann var faðir Þorfinns, föður Þorbrands í Álptafirði, er átti Þorbjörgu, dóttur

---

1) ok, *b. v. Sk.* 2) hèraðsmanna, *K.* 3) Hafrsteinn, *E eptir Lundn.* 4) Óleifs, *C.* 5) Barkar ens digra, *B.* 6) en af sonum Snorra goða var Haldórr, faðir Snorra, föður Guðrúnar, móður Hreins ábóta, föður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús á Melum, *b. v. E.* 7) Þórðar, *rángt Kh.* 8) Karlsstöðum, *H, I.*

þorfinna Selþórissonar. Geirríðr hèt systir Geirrauðar, er átt hafði Björn, son Bölverks blindíngatrjónu; þórólfr hèt son þeirra. þau Geirríðr fóru til Íslands eptir lát Bjarnar, ok voru hinn fyrsta vetr á Eyri; um vorit gaf Geirrauðr[1] systur sinni bústað í Borgardal, en þórólfr fór utan ok lagðist í víkíng. Geirríðr sparði eigi mat við menn, ok lèt gera skála sinn um þjóðbraut þvera; hún sat á stóli, ok laðaði úti gesti, en borð stóð inni jamnan ok matr á. þórólfr fór til Íslands eptir andlát Geirríðar; hann skoraði á Úlfar til landa, ok bauð hólmgaungu; Úlfarr var þá gamall ok barnlaus; hann fèll á hólmi, en þórólfr varð sárr á fæti, ok gekk jamnan haltr síðan, því var hann kallaðr bægifótr. þórólfr tók sum lönd eptir Úlfar, en sum þorfinnr í Álptafirði, ok setti á leysíngja sína, Úlfar ok Örlyg. Geirrauðr á Eyri var faðir þorgeirs kéings, er bæinn færði or eyrinni upp undir fjallit; hann var faðir þórðar, föður Atla. þórólfr bægifótr var faðir Arnkels goða, ok Geirríðar, er átti þórólfr í Máfahlíð, faðir þórarins. [Synir þorbrands í Álptafirði, þorfinnssonar[2], voru þeir þorleifr kimbi ok þóroddr, Snorri, þorfinnr, Illugi, þormóðr[3]; þeir deildu við Arnkel goða um arf leysíngja sinna, ok voru at vígi hans með Snorra goða á Örlygstöðum. Eptir þat fór þorleifr kimbi utan;

---

1) Geirr, *H, I;* Geirriðr, *Sk.* 2) *v. í B.* 3) *í stað þess frá [ hefir E þetta:* Úlfarr kappi hafði numit land inn frá Þórsá, Álptafjörð ok Eyrarfell allt til Oss, ok bjó at Úlfarsfelli; hans son var Vebrandr, faðir Þorbrands í Álptafirði, er átti Þorbjörgu Þorfinnsdóttur; þeirra börn voru Snorri ok Kárr, Þorleifr kyınbi, Þorfinnr, Skíði, Illugi, Þorgerðr högginkinna, Þóroddr, Þorınóðr.

þá laust Arnbjörn hann, son Ásbrands or Breiðavík, með grautarþvöru; Kimbi brá á gaman; þórðr blýgr brá honum því á þórnesþíngi, er hann bað Helgu, systur hans. þá lèt Kimbi ljósta Blýg með sandtorfu; af því gjörðust deilur þeirra Eyrbyggva ok þorbrandssona ok Snorra goða; þeir börðust í Geirvör, ok í Álptafirði, ok á Vigrafirði[1].

þorbergr hèt maðr, hann fór or Íafirði[2] til Íslands, ok nam Lángadal hvorntveggja, ok bjó í hinum ytra; hans son var Áslákr, er átti Arnleifu, dóttur þórðar gellis; þeirra börn Illugi enn rammi, ok Gunnhildr, er Breiðr átti fyrr, en síðar Haldórr á Hólmslátri. Illugi enn rammi átti Guðleifu, dóttur Ketils smiðjudrumbs; þeirra synir Eyjólfr ok Kollr, [Eindriði ok Gellir[3], en dætr: Herþrúðr, er þorgrímr átti, Vermundarson ens mjófa, ok Friðgerðr, er Oddr Drablason átti[4], [ok Guðríðr, er Bergþórr[5], son þormóðar þorlákssonar, átti fyrr, en síðar Jörundr í Skorradal[6], ok Jódís, er átti Már[7], son Illuga Arasonar, ok Arnleif, er átti Kollr, son þórðar blýgs. Frá Illuga eru Lángdælir[8] komnir.

Steinn mjöksiglandi Vígbjóðsson[9], bróðir þóris haustmyrkrs, nam Skógarströnd til móts við þorberg, ok inn til Laxár; hann bjó á Breiðabólstað; hans son var þórhaddr, er nam Hýtardal, ok þorgestr, er átti Arnóru, dóttur þórðar gell-

[1]) sem segir í Eyrbyggju, *b. v. E.* [2]) *þannig B, C, Sk;* Jafndi, *A;* Jófirði, *E;* Jamfirði, *G, H;* Jafnfirði, *I.* [3]) *frá* [ *v. í C.* [4]) fyrr, en siðar Jörundr í Skorra, *b. v. E.* [5]) Bergr, *C.* [6]) *frá* [ *v. í E.* [7]) Mák, *C.* [8]) Laugdælir, *B.* [9]) Viðbjóðsson, *B, I, Sk;* Vigbrandsson, *E.*

is; synir þeirra: Steinn lögsögumaðr ok Ásmundr, Hafliði ok Þórhaddr.

*Hèr hefr Grænalands landnám.*

14. Þorvaldr son Ásvalds Úlfssonar[1], Yxna-Þórissonar, ok Eiríkr rauði, son hans, fóru af Jaðri fur vígasakir (til Íslands,) ok námu land á Hornströndum, ok bjuggu á Draungum, þar andaðist Þorvaldr. Eiríkr fèkk þá Þjóðhildar[2], dóttur Jörundar Atlasonar ok Þorbjargar knarrarbríngu, er þá átti Þorbjörn hinn Haukdælski; rèðst Eiríkr þá norðr[3] ok ruddi lönd í Haukadal; hann bjó á Eiríksstöðum hjá Vatnshorni. Þá feldu þrælar Eiríks skriðu á bæ Valþjófs á Valþjófsstöðum; en Eyjólfr saurr[4], frændi hans, drap þrælana hjá Skeiðsbrekkum upp frá Vatnshorni; fur þat vá Eiríkr Eyjólf saur[4], hann vá ok Hólmgaungu-hrafn at Leikskálum. Geirsteinn ok Oddr á Jörva, frændr Eyjólfs, mæltu eptir hann, var þá Eiríkr gjörr or Haukadal; hann nam þá Brokey ok Yxney, ok bjó hann[5] at Tröðum[6] í Suðrey[7]; enn fyrsta vetr lèði hann Þorgesti setstokka; síðan fór Eiríkr í Öxney, ok bjó á Eiríksstöðum; þá heimti hann setstokka sína, ok náði eigi. Eiríkr sótti setstokkana á Breiðabólstað, en Þorgestr fór eptir honum; þeir börðust skamt frá garði at Draungum, þar fèllu tveir synir Þorgests ok nokkurir menn aðrir; hèr eptir höfðu hvârirtveggju setu[8]. Styrr veitti Eiríki, ok Eyjólfr or Svíneyju, ok synir Þorbrands or Álptafirði,

1) Úlfarssonar, *H, I.* 2) Þórhildar, *K.* 3) norðan, *B, C, H, I, K.* 4) surtr, *K.* 5) á Eiríkstöðum ok, *b. v. E.* 6) Töðum, *B, C, E, K.* 7) Suðey, *H, Sk.* 8) setur fjölmennar, *E.*

ok þorbjörn Vífilsson; en þorgesti veittu synir þórðar gellis, ok þorgeirr or Hýtardal, Áslákr or Lángadal, ok Illugi son hans. þeir Eiríkr urðu sekir á þórnessþíngi; hann bjó skip í Eiríksvogi, en Eyjólfr leyndi honum í Dímunarvogi, meðan þorgestr leitaði hans um eyjarnar. þeir þorgeirr, Eyjólfr ok Styrr[1], fylgdu Eiríki út um eyjar; hann sagði þeim, at hann ætlaði at leita lands þess, er Gunnbjörn, son Úlfs kráku, sá, er hann rak vestr um Ísland, þá er hann fann Gunnbjarnarsker, hann kvaðst aptr mundu leita til vina sinna, ef hann fyndi landit. Eiríkr sigldi undan Snæfellsjökli, ok kom utan at Miðjökli, þar sem Bláserkr heitir[2]; [hann sigldi vestr um Hvarf[3], ok var hinn fyrsta vetr í Eiríksey nær eystri[4] bygð; um vorit eptir fór hann til Eiríksfjarðar[5] ok gaf víða örnefni; hann var annann vetr í Eiríkshólmum[6] við Hvarfsgnýpu; en hit þriðja sumar fór hann allt norðr til Snæfells, ok inní Rafnsfjörð, þá lèzt hann kominn fur botn Eiríksfjarðar, hvarf hann þá aptr, ok var hinn þriðja vetr í Eiríksey fur Eiríksfjarðarmynni; eptir um sumarit fór hann til Íslands í Breiðafjörð; hann var þann vetr á Hólmslátri með Íngólfi. Um vorit börðust þeir Eiríkr ok þorgestr, ok fèkk Eiríkr ósigr; eptir þat voru þeir sættir. þat sumar fór Eiríkr at byggja land þat, er hann hafði fundit, ok hann kallaði Grænaland, þvíat

1) ok fleiri, *b. v. Sk.* 2) hann fór þaðan suðr með landi, at leita þess, ef þannig var byggjandi, *b. v. B, Sk.* 3) *frá* [ *v. í B.* 4) miðri enni vestri, *B, Sk.* 5) ok tók sèr þar bústað; hann fór þat sumar í hina vestari óbygð, *b. v. B, Sk.* 6) Eiríkshólum, *B.*

hann sagði þat menn mundu mjök fýsa þángat, at landit hèti vel. Svá segir Ari þorgilsson, at þat sumar fóru tuttugu ok fimm skip til Grænalands af Borgarfirði ok Breiðafirði, en fjórtán komust út, sum rak aptr, en sum týndust; þat var fimtán[1] vetrum fyrr enn kristni væri lögtekin á Íslandi.

Herjólfr hèt maðr, Bárðarson, Herjólfssonar, frændi Ingólfs landnámamanns; þeim Herjólfi gaf Ingólfr land á milli Vogs ok Reykjaness. Herjólfr enn yngri fór til Grænalands, þá er Eiríkr enn rauði bygði landit; með honum var á skipi Suðreyskr maðr kristinn, sá er orti Hafgerðíngadrápu; þar er þetta stef í:

[Mína bið[2] ek[3] múnkareyni[4]
[meinalausa för at beina[5];
heiðis haldi hárrar[6] foldar
hallar drottinn yfir mèr stalli!

Herjólfr nam Herjólfsfjörð, ok bjó á Herjólfsnesi, hann var enn göfgasti maðr. Eiríkr rauði nam síðan Eiríksfjörð, ok bjó í Brattahlíð, en Leifr son hans eptir hann. þessir menn námu lönd á Grænalandi, er þá fóru út með Eiríki: Herjólfr, Herjólfsfjörð, hann bjó á Herjólfsnesi: Ketill Ketilsfjörð: Hrafn Hrafnsfjörð: Sölvi Sölvadal[7]: Helgi[8] þorbrandsson[9] Álptafjörð: þorbjörn glóra Siglufjörð: Einarr Einarsfjörð: Hafgrímr Hafgrímsfjörð ok Vatnahverfi: [Arnlaugr Arnlaugsfjörð[10], en sumir fóru til vestri bygðar.

---

[1]) 16, *C*; 18, *Sk.* [2]) minar bið, *B*; minar biðr, *Sk.* [3]) at, *b. v. B.* [4]) mjúka reyni, *G, H*; mjúka drengi, *I.* [5]) meinalausan farar beina, *B, C, K.* [6]) hattar, *K*; haddar, *Sk.* [7]) Sölvafjörð ok dalinn, *H, Sk.* [8]) Snorri, *C, Sk.* [9]) þorbjarnarson, *G.* [10]) Örlygr Örlygsfjörð, *Sk.*

Maðr hèt Þorkell farserkr, systrúngr Eiríks rauða, hann fór til Grænlands með Eiríki; hann nam Hvalseyjarfjörð[1], ok víðast milli Eiríksfjarðar ok Einarsfjarðar, ok bjó í Hvalseyjarfirði, frá honum eru Hvalseyjarfirðíngar komnir; hann var rammaukinn mjök; hann lagðist eptir geldíng gömlum út í Hvalsey, ok flutti utan á baki sèr, þá er hann vildi fagna Eiríki, frænda sínum, en eigi var sæfært skip heima; þat er laung hálf vika. Þorkell var dysjaðr í túni í Hvalseyjarfirði, ok hefir jamnan síðan gengit þar um sýslur eðr hýbýli[2].

15. Íngólfr hinn sterki [ok Þorvaldr, synir Anar[3] Ávaldssonar Öngt-í-brjósti[4], námu land inn frá Laxá til Skraumuhlaupsár[5], ok bjó á Hólmlátri[6]. [Son Þorvalds var Þorleifr, faðir Haldórs, er átti Gunnhildi síðar, dóttur Ásláks Hróarssonar ór Lángadal; þeirra son Þórir, er átti Hallveigu Tindsdóttur, Hallkelssonar; þeirra son Brandr, er átti Þorgerði Brandsdóttur; þeirra son Haldórr, er átti Þorkötlu Þorgrímsdóttur; þeirra son Brandr príor hinn fróði, er mest hefir skrifat Breiðfirðínga kynslóð[7].

Óleifr hinn hvíti hèt herkonúngr, hann var son Íngjalds konúngs, Helgasonar, Ólafssonar, Guðrauðarsonar, Hálfdánarsonar hvítbeins, Upplendínga konúngs. Óleifr enn hvíti herjaði í vestrvíking, ok vann Dyflinni á Írlandi ok Dyfl-

1) Hvalseyjar, *C*; Hvalseyrarfjörð, *G*. 2) síðan, *b. v. C, Sk*. 3) Ána, *C*; Arnar, *Sk*. 4) *frá* [ *v. í B*. 5) Skrámuhlaupár, *C*; Skrumuhlaupsár, *L*. 6) *þannig B, E, Sk*; Hvallátri, *A og hin*. 7) *í stað þess frá* [ *hefir B*: hans bróðir var Þorvaldr, faðir Þorleifs, er þar bjó síðan.

innarskíði[1], ok gerðist þar konúngr yfir; hann fèkk Auðar ennar djúpauðgu, dóttur Ketils flatnefs; þorsteinn rauðr hèt son þeirra. Óleifr fèll á Írlandi í orrostu, en Auðr ok þorsteinn fóru þá í Suðreyjar; þar fèkk þorsteinn þurîðar, dóttur Eyvindar Austmanns[2], systur Helga ens magra, þau áttu mörg börn; Óleifr[3] feilan hèt son þeirra, en dætr: Gróa ok Álöf, Ósk ok þórhildr, þorgerðr ok Vigdís. þorsteinn gerðist herkonúngr, ok rèðst til liðs ok fèlags með Sigurði jarli enum ríka, syni Eysteins glumru; þeir unnu Katanes ok Suðrland, Ros ok Mærhæfi[4], ok meir enn hálft Skotland; var þorsteinn þar konúngr yfir áðr Skotar sviku hann, ok fèll hann þar í orrostu. Auðr var þá á Katanesi, er hún spurði lát þorsteins; hún lèt gera knör í skógi á laun, en er hann var búinn, hèldt hún út í Orkneyjar; þar gipti hún Gró, dóttur þorsteins rauðs; hún var móðir Grèlaðar[5], er þorfinnr hausakljúfr átti. Eptir þat fór Auðr at leita Íslands; hún hafði á skipi með sèr tuttugu[6] karla frjálsa.

16. Kollr hèt maðr Veðragrímsson[7], Ásasonar[8] hersis, hann hafði forráð með Auði, ok var virðr mest af henni; Kollr átti þorgerði, dóttur þorsteins rauðs. Erpr hèt leysíngi Auðar, hann var son Meldúns[9] jarls af Skotlandi, þess er fèll fur Sigurði jarli enum ríka; móðir Erps var Mýrgjöl[10], dóttir Gljómals Íra konúngs; Sigurðr jarl tók þau at herfángi ok þjáði. Mýr-

[1]) Dýflinskíði, *B*; Dýflinarskiri, *C*; Dýflinarskeiði, *I*. [2]) Vestmanns, *C*. [3]) Ólafr, *G*, *H*, *I*, *Sk*. [4]) Merræfi, *C*. [5]) Gjaflaðar, *E*. [6]) 30, *E*, *G*, *H*, *I*, *Sk*. [7]) Veðrargrimss., *B*, *C*, *H*, *I*. [8]) Alasonar, *B*. [9]) Mildings, *I*. [10]) Mýrgjöll, *E*, *I*.

gjöl var ambátt konu jarls, ok þjónaði henni trúliga, hún var margkunnandi; hún varðveitti barn drottníngar óborit[1], meðan hún var í laugu; síðan keypti Auðr hana dýrt, ok hèt henni frelsi, ef hún þjónaði svá [þuríði, konu[2] þorsteins rauðs, sem drottníngu. þau Mýrgjöl ok Erpr, son hennar, fóru til Íslands með Auði. Auðr hèldt fyrst til Færeyja, ok gaf þar Ólufu, dóttur þorsteins rauðs; þaðan eru Götuskeggjar komnir; síðan fór hún at leita Íslands, ok kom á Víkarskeið, ok braut þar; (þaðan) fór hún á Kjalarnes til Helga bjólu, bróður síns, hann bauð henni þar með helmíng liðs síns; en henni þótti þat varboðit, ok kvað hann lengi lítilmenni vera mundu; hún fór þá vestr í Breiðafjörð til Bjarnar, bróður síns; hann gekk móti henni með húskarla sína, ok lèzt kunna veglyndi systur sinnar, ok bauð hann henni (heim) með alla sína menn, ok þág hún þat. Eptir um vorit fóru þau Auðr í Breiðafjörð inn í landaleitun; þau átu dögurð[3] fur sunnan[4] Breiðafjörð, þar sem nú heitir Dögurðarnes; síðan fara þau inn um Eyjarsund[5]; þau lendu við nes þat, er Auðr tapaði kambi sínum, þat kallaði hún Kambsnes. Auðr nam öll Dalalönd[6] í innanverðum firðinum frá Dögurðará til Skraumuhlaupsár; hún bjó í Hvammi við Örriðaárós, þar heita Auðartóptir; hún hafði bænahald sitt á Krosshólum, þar lèt hún reisa krossa, þvíat hún var skírð ok vel trúuð; þar höfðu frændr hennar síðan mikinn

1) óskýrt, *E.* 2) Guðrúnu, dóttur, *I.* 3) dagverð, *I, Sk.* 4) *þannig A, C, G, H, I, Sk*; norðan, *hin.* 5) Eyrarsund, *Sk.* 6) *hèr sleppr C um sinn.*

átrúnað á hólana[1]; var þar þá gerð hörg, er blót tóku til, trúðu þeir því, at þeir dæi í hólana, ok þar var Þórðr gellir leiddr í, áðr hann tók mannvirðíng, sem segir í sögu hans.

17. Auðr gaf lönd skipverjum sínum ok leysíngjum.

Ketill hèt maðr, er hún gaf lönd frá Skraumuhlaupsá til Hörðadalsár, hann bjó á Ketilsstöðum; hann var faðir Vestliða ok Einars, föður Klepp-járns ok Þorbjarnar, er Styrr vo, ok Þórdísar, móður Þorgests.

Hörðr hèt skipverì Auðar, honum gaf hún Hörðadal; hans son var Ásbjörn, er átti Þorbjörgu, dóttur Miðfjarðarskeggja; þeirra börn: Hnaki, hann átti Þorgerði, dóttur Þorgeirs[2] höggvinnkinna, ok Íngibjörg, er Illugi hinn svarti átti.

Vífill hèt leysíngi Auðar[3]; hann spurði þess Auði, hví hún gaf honum engan bústað sem öðrum mönnum; hún kvað þat eigi skipta, kvað hann þar göfgan mundu þykkja, er hann væri; honum gaf hún Vífilsdal, þar bjó hann, ok átti deilur við Hörð. Son Vífils var Þorbjörn, faðir Guðríðar, er átti Þorsteinn, son Eiríks ens rauða, en síðar Þorfinnr karlsefni[4]; frá þeim eru biskupar komnir: Björn, Þorlákr ok Brandr. Annar son Vífils var Þorgeirr, er átti Arnóru, dóttur Lón-Einars; þeirra dóttir Yngvildr, er átti Þorsteinn, son Snorra goða.

---

[1]) hólunum, *E.* [2]) Þorgrims, *H, Sk.* [3]) kynsæll ok ríkr, *b. v. E.* [4]) þeirra son var Björn, faðir Steinunnar, móður Ketils, föður Þorláks, föður Ketils prests, föður Helgu, er Snorri Markússon átti. Þorbjörn Vífilsson átti Hallveigu Einarsdóttur, Sigmundarsonar frá Laugarbrekku, *b. v. E.*

Hundi hèt leysíngi Auðar, Skotskr, honum gaf hún Hundadal, þar bjó hann lengi[1].

Sökkólfr[2] hèt leysíngi Auðar, honum gaf hún Sökkólfsdal; hann bjó á Breiðabólstað, ok er margt manna frá honum komit.

Erpi, syni Meldúns[3] jarls, er fyrr var getit, gaf Auðr frelsi ok Sauðafellslönd; frá honum eru Erplíngar komnir. Ormr hèt son Erps, annar Gunnbjörn, faðir Arnóru, er átti Kolbeinn þórðarson, þriði Ásgeirr, faðir þórönnu, er átti Sumarliði Hrappsson; dóttir Erps var Halldís, er átti Álfr í Dölum. Dúfnall var enn son Erps, faðir þorkels, föður Hjalta, föður Beinis. Skati var enn son Erps, faðir þórðar, föður Gísla, föður þorgerðar.

þorbjörn hèt maðr, er bjó á Vatni í Haukadal; hann átti [þorbjörgu knarrarbríngu[4], ok var þeirra dóttir Hallfríðr, er átti Höskuldr í Laxárdal, þau áttu mörg börn; Bárðr var son þeirra, ok þorleikr, faðir Bolla, er átti Guðrúnu Ósvífrsdóttur; þeirra synir voru þeir þorleikr[5] ok Höskuldr, Surtr ok Bolli, Herdís ok þorgerðr dætr þeirra. þórðr Íngunnarson átti fyrr Guðrúnu (Ósvífrsdóttur), ok voru þeirra börn þórðr köttr ok Arnkatla. þorkell Eyjólfsson átti Guðrúnu síðarst; þeirra börn: Gellir ok Rjúpa. Bárðr Höskuldsson var faðir Hallbjargar, er átti Hallr, son Vígastýrs. Hallgerðr snúinbrók var dóttir Höskuldar, ok þorgerðr, ok þuríðr.

---

[1]) en eigi er getit manna af honum komit, *b. v. E.*
[2]) Sauðkólfr, *B.* [3]) Moldúngs, *I.* [4]) *þannig ágizk. samkv. 2 P. 14, 18 og 23 K.; hèr er bil rúmliga fyrir einu orði í öllum handritunum.* [5]) þorleifr, *E.*

18. Kollr nam Laxárdal allan, ok allt til Haukadalsár, hann var kallaðr Dala-Kollr; hann átti þorgerði, dóttur þorsteins rauðs; börn þeirra voru þau Höskuldr, ok Gróa, er átti Veleifr hinn gamli, ok þorkatla, er þorgeirr goði átti. Höskuldr átti Hallfríði, dóttur þorbjarnar frá Vatni; þorleikr var son þeirra; hann átti þuríði, dóttur Arnbjarnar Sléttubjarnarsonar; þeirra son var Bolli. Höskuldr keypti Melkorku, dóttur Mýrkjartáns Íra konúngs; þeirra son var Ólafr pá, ok Helgi. Dætr Höskulds: þuríðr ok þorgerðr, ok Hallgerðr snúinbrók. Ólafr átti þorgerði, dóttur Egils Skallagrímssonar; þeirra son Kjartan ok Haldórr, Steinþórr ok þorbergr. Dætr Ólafs: þuríðr, þorbjörg digra ok Bergþóra. Kjartan átti Hrefnu, dóttur Ásgeirs æðikolls; þeirra synir Ásgeirr ok Skúmr.

Herjólfr[1], son Eyvindar elds, fékk síðar þorgerðar, dóttur þorsteins rauðs; Hrútr var son þeirra; hónum galdt Höskuldr í móðurarf sinn Kambsnesland milli Haukadalsár ok hryggjar þess, er gengr or fjalli ofan í sjó. Hrútr bjó á Hrútsstöðum; hann átti Hallveigu, dóttur þorgríms or þykkvaskógi, systur Arnóðs hins gamla; þau áttu mörg börn; þeirra son var þórhallr, faðir Haldóru, móður Guðlaugs, föður þórdísar, móður þórðar, föður Sturla[2] í Hvammi. Grímr var ok son Hrúts ok Már; Indriði ok Steinn, þórljótr ok Jörundr, þorkell, Steingrímr, þorbergr, Atli, Arnórr, Ívarr, Kári, Kúgaldi; en dætr: Bergþóra, Steinuðr[3], Rjúpa, Finna ok Ástríðr.

[1]) Hjörleifr, *Sk.* [2]) Stullu, *B.* [3]) Steinunn, *B, E, H, Sk.*

Auðr gaf dóttur þorsteins rauðs, þórhildi, Eysteini meinfret, syni Álfs or Ostu; þeirra son var þórðr, faðir Kolbeins, föður þórðar skálds, ok Álfr í Dölum; hann átti Halldísi, dóttur Erps; þeirra son var Snorri, faðir þorgils Höllusonar. Dætr Álfs í Dölum voru þær þorgerðr, er átti Ari Mársson, ok þórelfr, er átti Hávarr, son Einars Kleppssonar; þeirra [son þorgeirr. þórólfr refr var ok son Eysteins[1], er fèll á þíngnessþíngi[2] or liði þórðar gellis, þá er þeir Túngu-Oddr börðust. Hrappr hèt enn fjórði Eysteins son. Auðr gaf Ósk, dóttur þorsteins rauðs, Hallsteini goða; þeirra son var þorsteinn surtr. Vigdísi þorsteinsdóttur gaf Auðr Kampagrími[3]; þeirra dóttir Arnbjörg, er Ásólfr Flosason[4] átti í Höfða; þeirra börn Oddr, ok Vigdís, er átti þorgeirr Kaðalsson.

19. Auðr fæddi[5] Óláf feilan, son þorsteins rauðs; hann fèkk Ásdísar ennar Bareysku, dóttur Konáls Steinmóðarsonar, Ölvissonar barnakarls. Son Konáls var Steinmóðr, faðir Haldóru, er átti Eylífr, son Ketils ens einhenda; þeirra börn: þórðr gellir, ok þóra, móðir þorgríms, föður Snorra goða; hún var ok móðir Barkar ens digra, ok Márs Hallvarðssonar[6]. Íngjaldr ok Grani voru synir Ólafs feilans, Vigdís hèt [ok ein hans dóttir[7]. Helga hèt en þriðja dóttir Ólafs, hana átti Gunnarr Hlífarson; þeirra dóttir Jófríðr, er þóroddr Túngu-Oddsson átti, en síðar þorsteinn Egils-

---

[1]) synir: Þorgeirr, Þorólfr ok Refr, *H*, *Sk*. [2]) Þórnessþingi, *B*. [3]) Kaðagrími, *E*. [4]) flosi, *B*; Flókason, *I*, *Sk*. [5]) upp, *b*, *v*. *E*, *H*, *Sk*. [6]) Hávarðssonar, *E*. [7]) *þannig hin*; d. Ól. f., *A*.

son; þórunn var önnur dóttir Gunnars, er Hersteinn Blundketilsson átti. Rauðr ok Höggvandill[1], voru synir Gunnars. þuríðr hèt en fjórða dóttir Ólafs feilans; hana átti þórarinn Ragabróðir; þeirra dóttir var Vigdís, er Steinn þorfinnsson átti at Rauðamel.

Auðr var vegskona mikil; þá er hún var ellimóð, bauð hún til sín frændum sínum ok mágum, ok bjó dýrliga veizlu; en er þrjár nætr hafði veizlan staðit, þá valdi hún gjafir vinum sínum, ok rèð þeim heilræði, sagði hún, at þá skyldi standa veizlan enn þrjár nætr, hún kvað þat vera skyldu erfi sitt; þá nótt eptir andaðist hún, ok var grafin í flæðarmáli, sem hún hafði fur sagt, því hún vildi eigi liggja í óvígðri moldu, er hún var skírð; eptir þat spiltist trúa frænda hennar.

Kjallakr hèt maðr, son Bjarnar ens sterka, bróður Gjaflaugar, er átti Björn enn austræni; hann fór til Íslands, ok nam land frá Döguröará[2] til Klofnínga ok bjó á Kjallaksstöðum; hans son var Helgi hrogn, ok þorgrímr þaungull undir Felli, Eylífr prúði, Ásbjörn vöðvi á Orrastöðum, Björn hvalmagi í Túngarði, þorsteinn þynníng[3], Gizr glaði í Skorravík, þorbjörn skrofuðr[4] á Ketilsstöðum, Æsa í Svíney, móðir Eyjólfs ok Tinforna. Ljótólfr[5] hèt maðr, honum gaf Kjallakr bústað á Ljótólfsstöðum inn frá Kaldakinn; hans synir voru þorsteinn ok Björn,

---

1) Höggvarðill, *I.* 2) Dagverðarnesi, *I.* 3) Þunneyingr, *E á spáz.*; þyring, *I*; þynningr, *K.* 4) skörðuðr, *E á spáz.* 5) Ljótr keypti land at sonum Kjallaks, *E á spáz.*

ok Hrafsi[1], hann var ása ættar at móðerni. Ljótólfr var járnsmiðr. Þeir rèðust út í Fellsskóga á Ljótólfsstaði, ok Vífill, vin þeirra, er bjó á Vífilstóptum. Þórunn at Þórunnartóptum, hún var móðir Oddmars, ok fóstra Kjallaks, sonar Bjarnar hvalmaga. Óluf dóttir Þorgríms undir Felli, tók æsl[2]; þat kendu menn Hrafsa; en hann tók Oddmar hjá hvílu hennar, ok sagði hann [sik valda[3]; þá gaf Þorgrímr honum Deildarey; Hrafsi kveðst mundu höggva Oddmar[4] á Birni[5], áðr[6] hann bætti fur hann; eigi vildi Kjallakr láta eyna; Hrafsi tók fè þeirra or torfnausti; Kjallakssynir fóru eptir, ok náðu eigi; eptir þat stukku þeir Eylífr[7] ok Hrafsi í eyna; [ör kom í [þarminn Eylífs í grás[8], ok hamaðist hann[9]. Björn hvalmagi vo Björn Ljótólfsson, at leik. Þeir Ljótólfr keyptu at Oddmari, at hann kvæmi Birni í færi; [Kjallakr son hans rann[10] eptir honum; eigi varð Björn sóttr fyrr enn þeir tóku sveininn, [ok vógu hann[11] á Kjallakshól, [hann var þá sjö[12] vetra[13]. Eptir þat sóttu Kjallakssynir Ljótólf ok Þorstein í jarðhús í Fellsskógum, ok fann Eyólfr[14] annann munna, gekk hann á bak þeim, ok vo þá báða. Hrafsi gekk inn á Arastöðum, er Kjallakr sat við eld at heimboði; Hrafsi var í kvennklæðum, hann hjó til Kjallaks; en

1) Hrafli, *E á spáz.*; Rafn, *Sk.* 2) ærsl, *H*, *Sk.* 3) Sigvalda, *B*, *H*, *Sk.* 4) Oddmarar, *B.* 5) brimi, *I.* 6) eðr, *B.* 7) *þannig B*, *Sk*; Eyjólfr, *hin.* 8) *þannig frá síðara* [ *leiðr. eptir ágizk.*; þaninn (þarmn, *I.*) Eylífs í gras; *A*, *E*, *G*, *H*, *I*; Þórarinn Eylífssun grás, *Kh.* 9) *frá fyrra* [ *v. í B*, *Sk.* 10) *þannig frá* [ *leiðr. að ágizk*; Kjallakss., h. rann, *A*, *G*, *H*, *I*; Kjallakssyni; Kjallakr úngi rann; *B*; Kjallakss., þeir runnu, *E.* 11) Kjallak vógu þeir, *K.* 12) 12, *H*, *I.* 13) *frá* [ *v. í B.* 14) *þannig A*; Eylífr, *hin.*

hann kastaði yfir sik skildi sínum, ok gekk sundr handleggr hans, en hann varð eigi sárr; Hrafsi gekk um dyr þær, er á veggnum voru, ok vóg Ásbjörn[1], ok komst hann síðan brott. Kjallakssynir keyptu at Þórði Vífilssyni at koma Hrafsa í færi við þá; hann sagði Hrafsa, at uxi hans lægi í keldu; Þórðr bar skjöld hans, ok er hann sá Kjallakssonu, kastaði hann skildinum til þeirra. Hrafsi greip Þórð, ok kastaði honum ofan fur kleyfina, ok var þat hans bani; eigi gátu Kjallakssynir sótt hann, fyrr enn þeir feldu at honum viðu; Eylífr sat hjá meðan þeir sóttu hann.

Hjörleifr[2] Hörða[3] konúngr, [er kallaðr var hinn kvennsami[4], hann átti Æsu hina ljósu; þeirra son Ótryggr, faðir Óblauðs, föður Högna ens hvíta, föður Úlfs ens skjálga. Annar son Hjörleifs var Hálfr[5] konúngr, er réð Hálfsrekkum[6]; hans móðir var Hildr en mjófa, dóttir Högna í Njarðey. Hálfr konúngr var faðir Hjörs konúngs, þess er hefndi föður síns með Sölva Högnasyni. Hjörr konúngr herjaði á Bjarmaland; hann tók þar at herfángi Ljúfvinu, dóttur Bjarma konúngs; hún var eptir á Rogalandi þá er Hjörr konúngr fóri í hernað, þá ól hún sonu tvo, hèt annar Geirmundr, en annar Hámundr, þeir voru svartir mjök; þá ól ambátt hennar son, sá hèt Leifr, son Loðhattar þræls; Leifr var hvítr[7], því skipti drottníng sveinum við ambáttina, ok eignaði sèr Leif. En er konúngr kom heim var hann[8] illa við Leif, ok kvað hann vera smá-

1) banahögg, bl. v. B. 2) Herjólfr, G; hèr byrjar C aptr. 3) Heiða, E. 4) frá [ v. í B. 5) Álfr, Sk. 6) þannig C; Álfsrekkum, A og hin. 7) hörundshvitr, E. 8) honum, E.

mannligari. Næst er konúngr fór í víkíng bauð dróttníng heim Braga skáldi, ok bað hann skynja[1] um sveinana, þá voru þeir þrèvetrir; hún byrgði þá í stofu hjá Braga, en fal sik í pallinum. Bragi kvað þetta:

Tveir eru inni,
trúi ek báðum vel,
Hámundr ok Geirmundr
Hjörvi bornir,
en Leifr þriði
Loðhattarson,
[fæðat þú[2] þann, kona!
[fáir mann verri[3].

Hann laust sprota á pallinn þann, er dróttníng var í. Þá er konúngr kom heim, sagði hún honum þetta, ok sýndi honum sonu sína; hann lèzt eigi slík heljarskinn sèt hafa, því voru þeir svá kallaðir báðir bræðr síðan. Geirmundr heljarskinn var herkonúngr, hann herjaði í vestrvíkíng, en átti ríki á Rogalandi; en er hann kom or hernaði, er hann hafði lengi á brott verit, þá hafði Haraldr konúngr hárfagri barizt í Hafrsfirði við Eirík Hörða konúng, ok Súlka konúng af Rogalandi, ok Kjötva hinn auðga, ok fengit sigr; hann hafði þá lagt undir sik allt Rogaland, ok rekit þar marga menn af óðulum sínum, sá þá Geirmundr engi sinn kost at fá þar sæmdir; hann tók þá þat ráðs at leita Íslands; til ferðar rèðst með honum Úlfr hinn skjálgi, frændi hans, ok Steinólfr hinn lági, son

[1]) skoða, *C.* [2]) fæð, *C*; fæddir eigi, *E*, *H*, *I*, *á spáz.* [3]) fjórðar man hann verri, *C*; í fjörð mun hann væri; *E ept. Landn.*

Hrólfs hersis af Ögðum, ok Öndóttar, systur Ölvis barnakarls. þeir [þrándr mjóbeinn[1] þeir höfðu samflot, ok stýrði hvåru skipi hvårr þeirra[2]; þeir tóku Breiðafjörð, ok lágu við Elliðaey; þá spurðu þeir at fjörðrinn var bygðr hit syðra, en litt eða eigi hit vestra. Geirmundr hèldt inn á Meðalfellsströnd, ok nam land [frá Fábeinsá til Klofasteina[3]; hann lendi í Geirmundarvogi, ok var hinn fyrsta vetr í Búðardal. Steinólfr nam land inn frá Klofasteinum, en Úlfr fur vestan fjörð[4], sem enn mun sagt verða. þrándr nam eyjar[5] fur vestan Bjarneyjarflóa, ok bjó í Flateyju, hann átti dóttur Gils skeiðarnefs; þeirra son var Hergils hnappráss[6], er bjó í Hergilsey; dóttir Hergils var þorkatla, er átti Már á Reykjahólum. Hergils átti þórörnu[7], dóttur Ketils ilbreiðs; Íngjaldr var son þeirra, er bjó í Hergilsey, ok veitti Gísla Súrssyni, ok fur þat gerði Börkr hinn digri af honum eyjarnar, en hann keypti Hlíð í þorskafirði; son hans var þórarinn, er átti þorgerði, dóttur Glúms Geirasonar, ok var þeirra son Helgusteinarr[8]; þórarinn var með Kjartani í Svínadal, þá er hann fèll. þá bjó þrándr mjóbeinn í Flatey, er þeir Oddr skrauti[9] ok þórir, son hans, kvåmu út; þeir námu land í þorskafirði, bjó Oddr í Skógum, en þórir fór útan, ok var í hernaði; hann fèkk gull mikit á Finnmörk; með honum [voru synir[10] Halls á Hofstöðum,

[1]) Geirmundr, *B.* [2]) Þrándr var ættaðr af Ögðum, *b. p. Sk.* [3]) á milli Búðardalsár ok Fábeinsár, *E. eptir Landn.* [4]) Bjarneyjarfjörð, *I.* [5]) land, *Sk,* [6]) napprass, *C.* [7]) Þórunni, *E.* [8]) Steinnarr, *B*; Helgi-Steinarr, *E.* [9]) skraumi, *G*; skrauki, *J.* [10]) var son, *C,*

en er þeir komu til Íslands, kallaði Hallr til gullsins, ok urðu þar um deilur miklar; af því gerðist þorskfirðínga-saga. Gull-þórir bjó á þórisstöðum; hann átti Íngibjörgu, dóttur Gils skeiðarnefs, ok var þeirra son Guðmundr[1]. Þórir var et mesta afarmenni.

20. [Geirmundi þótti landnám sitt oflítit, er hann hafði rausnarbú ok fjölmennt, svá at hann hafði áttatígi[2] frelsíngja; hann bjó á Geirmundarstöðum undir Skarði[3]. Geirmundr fór vestr á Strandir, ok nam land frá Rítagnúp vestan til Horns, en þaðan austr til Straumness, þar gerði hann fjögr bú: eitt í Aðalvík, þat varðveitti ármaðr hans: annat í Kjarransvík, þat varðveitti Kjarran, þræll hans; þriðja á almenníngum enum vestrum, þat varðveitti Björn, þræll hans, er sekr varð um sauðatöku, þá er Geirmundr var allr; hans sektarfè urðu almenníngar; fjórða bú átti Geirmundr í Barðsvík, þat varðveitti Atli, þræll hans, ok hafði hann tólf[4] þræla undir sèr. En er Geirmundr fór meðal búa sinna, þá hafði hann jamnan áttatígi manna; hann var stórauðigr at lausafè, ok hafði of kvikfjár; svá segja menn, at svín hans gengi á Svínanesi, en sauðr á Hjarðarnesi[5], en hann hafði selför í Bitru; sumir segja at hann hafi ok bú átt í Selárdal á Geirmundarstöðum í Steingrímsfirði. Þat segja vitrir menn, at hann hafi göfgastr verit allra landnámsmanna á Íslandi, en lítt átti hann hèr deilur við menn, því hann kom heldr gamall út. Þeir Kjallakr

[1]) Sigmundr, C. [2]) 60, K. [3]) frá [ v. í C. [4]) 14, B.
[5]) Sauðanesi, Sk.

deildu um land þat, er var meðal Klofnínga ok Fábeinsár, ok börðust á ekrunum fur utan Klofnínga, þar vildu hvárirtveggju sá; þar veitti Geirmundi betr. Þeir Björn enn austræni ok Vestarr af Eyni sættu þá. Þá lendi Vestarr í Vestarsnesi, er hann fór til fundarins. Geirmundr fal fè mikit í Andarkeldu[1] undir Skarði; hann átti Herríði[2], dóttur Gauts Gautrekssonar hins örva; þeirra dóttir Ýr[3], [er átti Ketill; þeirra synir: Þórhallr, ok Oddi, faðir Hallvarar, er átti Börkr, son Þormóðs þjóstarssonar[4]. [Síðan átti Geirmundr Þorkötlu, dóttur Ófeigs Þórólfssonar; þeirra börn: Örn, Geirríðr ok Gunnhildr[5]. Geirmundr andaðist á Geirmundarstöðum, ok er hann heygðr, ok lagðr í skip þar úti skóginn frá garði. [Geirmundr gaf Hrólfi Kjallakssyni, vin sínum, bústað at Ballará; hans son var Illugi enn rauði, ok Sölvi, faðir Þórðar, [föður Sölva, föður Þórðar[6], föður Magnúss, föður Sölva, föður Páls prests í Reykjaholti[7].

21. Steinólfr, hinn lági, son Hrólfs hersis af Ögðum[8], nam land [inn frá Klofasteinum til Grjótvallarmúla[9], ok bjó í Fagradal á Steinólfshjalla[10]; hann gekk þar inn á fjallit, hann sá þar fur

---

[1]) Auðarkeldu, *E, G, H.* [2]) *þannig B, C;* Herri, *A;* Herdísi, *hin.* [3]) Yri, *B.* [4]) *frá* [ *v. í B.* [5]) *b. v. E; frá* [ *v. í C; eyða fyri nafn. í handr.;* dóttir Geirmundar ok Þorkötlu var Yri (*eða* Uri,) móðir Odda, föður Þorbjarnar, föður Þorgerðar, móður Odda, föður Þórálfs, föður Hallberu, móður Halls, föður Þuríðar, móður Haldóru, er átti Markús Þórðarson, *b. v. E.* [6]) *frá* [ *v. í C.* [7]) *frá fyrra* [ *v. í B.* [8]) ok Öndóttar, systur Ölvis barnakarls, *b. v. E.* [9]) milli Búðardalsár ok Tjaldaness, *E eptir Landn.;* Grjótármúla, *A-J.* [10]) þaðan eru Fagrdælar komnir, *b. v. E eptir Landn.*

innan dal mikinn, vaxinn allan viði; hann sá eitt rjóðr í dal þeim, þar lèt hann bæ gera, ok kallaði Saurbæ, þvíat þar var mýrlendt mjök, ok svá kallaði hann allan dalinn; þat heitir nú Torfnes, er bærinn [var gjörr[1]. Steinólfr átti Eyrnýju Þiðrandadóttur; Þorsteinn búandi var son þeirra, en Arndís en auðga var dóttir þeirra, móðir Þórðar; föður Þorgerðar, er Oddr átti; þeirra son var Hrafn Hlymreksfari[2], er átti Vigdísi, dóttur Þórarins fílsennis; þeirra son var Snortr[3], faðir Jódísar, er átti Eyjólfr Hallbjarnarson; [þeirra dóttir Halla, er Atli átti Tannason; þeirra dóttir Yngvildr, er átti Snorri Húnbogason[4]. Steinólfi hurfu svín þrjú; þau fundust tveim vetrum síðar í Svínadal, ok voru þá þrjátígi saman[5]. Steinólfr nam ok Steinólfsdal í Króksfirði[6].

Slèttubjörn hèt maðr, hann átti Þuríði, dóttur Steinólfs ens lága; hann[7] nam með ráði Steinólfs enn vestra dal í Saurbæ upp frá Þverfelli, hann bjó á Slèttubjarnarstöðum; hans son var Þjóðrekr[8], er átti Arngerði, dóttur Þorbjarnar Skjaldabjarnarsonar; þeirra son var Vígasturla, er bæinn reisti á Staðarhóli, ok Knöttr, faðir Ásgeirs, ok Þorbjörn, ok Þjóðrekr, er borgin er viðkend á Kollafjarðarheiði[9]. Þjóðreki Slèttubjarnarsyni þótti ofþraunglendt í Saurbæ, því rèðst hann til Ísafjarðar; þar gerðist saga þeirra Þorbjarnar ok Hávarðar ens halta.

---

1) stóð á, *E.* 2) Hlynrekafari, *E.* 3) Snörtr, *B*; Teitr, *E*; Svartr, *I*, og *E á spáziunni.* 4) *frá* [ *v. í C.* 5) svína, *B.* 6) Kallsfirði, *G.* 7) hún, *E.* 8) er ungr kom til Islands; hann nam Saurbæ allan milli Tjaldaness ok Múlafells, ok bjó undir Hóli, *b. v. E.* 9) Son Sturlu var Þórðr, faðir Þuriðar, *b. v. E.*

Ólafr belgr, er Ormr enn mjóbi rak á brott or Ólafsvík, nam Belgsdal, ok bjó á Belgsstöðum[1]; þeir Þjóðrekr ráku hann brott; síðan nam hann inn frá Grjótvallarmúla[2], ok bjó í Ólafsdal; hans son var Þorvaldr, sá er sauðatöku sök seldi á hendr Þórarni gjallanda Ögmundi Völusteinssyni; fur þat vó hann Ögmund á Þorskafjarðarþíngi.

Gils skeiðarnef nam Gilsfjörð millim Ólafsdals ok Króksfjarðarmúla[3], hann bjó at Kleifum; hans son var Hèðinn, faðir Haldórs Garpsdalsgoða, föður Þorvalds í Garpsdal, er átti Guðrúnu Ósvífrsdóttur.

22. Þórarinn krókr nam Króksfjörð[4] til Hafrafells frá Króksfjarðarnesi; hann deildi um Steinólfsdal við Steinólf hinn lága, ok rèri eptir honum við tíu[5] menn, er hann fór or seli[6] við sjöunda[7] mann; þeir börðust við Fagradalsárós á eyrinni; þá kvâmu menn til frá húsi at hjálpa Steinólfi; þar fèll Þórarinn krókr ok þeir fjórir, en sjö menn af Steinólfi, þar eru kuml þeirra.

Ketill ilbreiðr nam Berufjörð, son Þorbjarnar tálkna; hans dóttir var Þórarna, er átti Hergils hnapprass[8], son Þrándar mjóbeins; Íngjaldr hèt son þeirra, sem fyrr segir. [Hergils var faðir Þórarins, er átti Þorgerði, dóttur Glúms Geirasonar; þeirra son var Helgu-Steinarr[9]. Þrándr mjóbeinn átti dóttur Gils skeiðarnefs; þeirra

[1]) áðr, *b. v. B, C.* [2]) Grjótvarðarmúla, *I.* [3]) Krossfjarðarmúla, en fyrr norðan til móts við Úlf enn skjálga, *E.* [4]) Króksdal, *C.* [5]) 20, *C.* [6]) sel, *B.* [7]) 8da, *Sk.* [8]) napprass, *C*; hnaptrass, *H.* [9]) Hellu-Steinarr, *I.*

dóttir var Þórarna, er átti Hrólfr, son Helga ens magra. Þorbjörg knarrarbrínga var önnur[1] dóttir Gils skeiðarnefs[2]; Herfinnr hèt son hans, er bjó í Króksfirði[3].

Úlfr hinn skjálgi, son Högna ens hvíta, [nam Reykjanes, allt millim Þorskafjarðar ok Hafrafells[4]; hann átti Björgu, dóttur Eyvindar Austmanns, systur Helga ens magra; þeirra son var Atli enn rauði, er átti Þorbjörgu, systur[5] Steinólfs ens lága; þeirra son var Már á Hólum[6], er átti Þorkötlu, dóttur Hergils hnapprass; þeirra son var Ari[7]; hann varð sæhafi[8] til Hvítra-manna-lands, þat kalla sumir Írland et mikla, þat liggr vestr í haf nær Vínlandi[9] hinu góða, þat er kallat sex dægra siglíng vestr frá Írlandi; þaðan náði Ari eigi brott at fara, ok var þar skírðr. Frá þessu sagði fyrst Hrafn Hlymreksfari[10], er lengi hafði verit í Hlymreka[11] á Írlandi. Svá kvað Þorkell Gellisson segja Íslenzka menn, þá er heyrt höfðu segja Þorfinn jarl í Orkneyjum, at Ari hafði kendr verit á Hvítra-manna-landi, ok náði eigi brott at fara, en var þar vel virðr. Ari átti Þorgerði, dóttur Álfs í Dölum; þeirra son[12] var Þorgils, ok Guðleifr, ok Illugi; þat er Reyknesínga kyn[13]. [Jörundr hèt[14] son Úlfs ens skjálga;

---

1) þeirra, *H, I, Sk.* 2) hana átti Jörundr, *b. v. E.* 3) *frá* [ *v. í C.* 4) fór af Rogalandi fyrir úfriði Haralds hins hárfagra til Íslands, ok nam land á milli Berufjarðar ok Þorskafjarðar, *E.* 5) dóttur, *E.* 6) Reykhólum, *H, Sk.* 7) er Reyknesíngar eru frákomnir, *b. v. E.* 8) sæfari, *C;* sæmhafi, *I.* 9) Irlandi, *B;* Vindlandi, *C.* 10) Hlymreksfari, *E.* 11) Hlymrek, *E;* Hlinreku, *I.* 12) synir, *E.* 13) Þorgils var faðir Ara, föður Hallberu, móður Þorgils, föður Hallberu, móður Haralds, föður Þuríðar, móður Hallbera, er Markús Þórðarson átti, *b. v. E.* 14) var annar, *E.*

hann átti Þorbjörgu knarrarbríngu; þeirra dóttir var Þjóðhildr, er átti Eiríkr rauði[1]; þeirra son Leifr enn heppni á Grænlandi[2]. Jörundr hèt son Atla ens rauða, hann átti Þórdísi, dóttur Þorgeirs[3] suðu; þeirra dóttir var Ottkatla, er átti Þorgils Kollsson; Jörundr var ok faðir Snorra[4].

23.[5] Hallsteinn, son Þórólfs Mostrarskeggs, nam Þorskafjarðarströnd[5], ok bjó á Hallsteinsnesi; hann blótaði þar til þess, at Þórr sendi honum öndvegissúlur, [ok gaf þar til son sinn[6]; eptir þat kom trè á land hans, þat var sextígi ok þriggja[7] álna lángt, ok tveggja faðma digrt, þat var haft til öndvegissúlna, ok þar voru afgjörvar [öndvegissúlur nær[8] á hverjum bæ um Þvertfjörðu; þar heitir nú Grenitrèsnes, er trè kom á land. Hallsteinn hafði herjat á Skotland, ok tók þar þræla þá, er hann hafði út; [þá sendi hann til saltgjörðar í Svefneyjar, þar höfðu þeir Hallsteins[9] þrælahag fram[10]. Hallsteinn átti Ósku[11], dóttur Þorsteins rauðs; þeirra son var Þorsteinn, er fann sumarauka. [Þorsteinn surtr átti ...[12]; þeirra son var Þórarinn, en dóttir Þórdís, er átti Þorkell trefill, ok Ósk, er átti Steinn mjöksiglandi; Þorsteinn hvíti hèt son þeirra. Sámr hèt son Þorsteins surts óskilgetinn; hann deildi um arf

1) er nam Grænland, *b. v. E.* 2) síðar átti Þorbjörgu Þorbjörn enn Haukdælski, bróðir Jórunnar Bjarnadóttur, er átti Höskuldr í Laxárdal, *b. v. E.* 3) Þorgils, *E.* 4) *frá* [ *v. í C.* 5) hina nyrðri til móts við Úlf, *b. v. E.* 6) *frá* [ *v. í B.* 7) fjögra, *E.* 8) öndvegissúlurnar, *I, Sk.* 9) *þannig A, E;* Hallsteinn, *hin.* 10) við, *G, H, I, Sk; frá* [ *v. í C.* 11) Ösku, *B.* 12) *hèr er eyða í öllum handritum, svo sem fyrir einu orði.*

þorsteins við Trefil, því at hann vildi halda í hendr börnum þórarins[1].

þorbjörn loki hèt maðr, son Böðmóðs [or Skut[2], hann fór til Íslands, ok nam Djúpafjörð ok Grónes[3], til Gufufjarðar; hans son var þorgils á þorgilsstöðum í Djúpafirði, faðir Kolls, er átti þuríði þórisdóttur, Hallaðarsonar jarls, Rögnvaldssonar Mærajarls; þorgils var son þeirra, er átti Ottkötlu, dóttur Jörundar Atlasonar ens rauða[4]; þeirra son var Jörundr[5]; hann átti Hallveigu, dóttur Odds [Ýrarsonar ok Ketils gufu[6]. Snorri[7] var Jörundarson, er átti Ásnýju, dóttur Vígasturlu; þeirra son var Gils, er átti þórdísi Guðlögsdóttur, ok dóttur[8] þorkötlu Haldórsdóttur, Snorrasonar goða; en son Gils var þórðr, er átti Vigdísi Svertíngsdóttur[9]; þeirra son var Hvamm-Sturla.

24. Ketill gufa hèt maðr, Örlygsson, Böðvarssonar, Vígsterkssonar. Örlygr átti Signýju Óblauðsdóttur, systur Högna ens hvíta. Ketill, son þeirra, kom út síð landnámatíðar; hann hafði verit í vestrvíking ok haft af Írlandi þræla Írska, hèt einn þormóðr, annar Flóki, þriði Kóri, fjórði Svartr, ok Skorrar[10] tveir. Ketill tók Rosmhvalanes, sat hann þar hinn fyrsta vetr at Gufuskálum, en um vorit fór hann inn á Nes, ok sat á Gufunesi. Annann vetr þá ljópu þeir Skorri hinn eldri ok Flóki [í brott[11] með konur tvær

---

1) *frá* [ *v. í C.* 2) útskuts, *E.* 3) til móts við Hallstein ok Gufu, *b. v. E.* 4) Jörundr átti þórdísi þorgeirsdóttur; *b. v. E.* 5) Jómundr, *B.* 6) Yrjarsonar, Ketilssonar gufu, *E.* 7) hinn kynsæli, er átti margt barna, *b. v. E.* 8) *v. í E, Sk.* 9) Svelingsdóttur, *I.* 10) Skorar, *C, H, L.* 11) frá honum, *B.*

ok fè mikit, þeir voru á laun[1] í Skorraholti, en þeir voru drepnir í Flókadal ok Skorradal. Ketill fèkk engan bústað á Nesjum[2], ok fór hann inní Borgarfjörð[3], ok sat hinn þriðja vetr at Gufuskálum við Gufá; hinn fjórða vetr sat hann á Snjófjallsnesi at Gufuskálum; snemma um vorit fór hann vestr í Breiðafjörð[4] at leita sèr lands, þá var hann á Geirmundarstöðum, ok bað Ýrar, dóttur Geirmundar, ok gat[5]; vísaði Geirmundr þá Katli til landa fyrir vestan fjörð. Þrælar Ketils ljópu brott af Snjófjallsnesi, ok kvâmu fram um nótt á Lambastöðum; þar bjó þá Þórðr, son Þorgeirs lamba ok Þórdísar Yngvarsdóttur, systur[6] Egils Skallagrímssonar; þrælarnir báru þar eld at húsum, ok brendu Þórð inni ok hjón hans öll; þeir brutu þar upp gervibúr, ok tóku vöru mikla ok[7] lausafè; síðan ráku þeir heim hross ok klyfjuðu, ok snèru á leið til Álptaness. Lambi hinn sterki, [son Þórðar[8], kom af þíngi um morgininn, þá er þeir voru nýfarnir í brott; hann fer eptir þeim, ok [menn með honum[9]; en er þrælarnir sá þat, ljóp sinn veg hverr þeirra. Þeir tóku Kóra í Kóranesi[10], en sumir gengu á sund; Svart tóku þeir í Svartsskeri, en Skorra í Skorrey fur Mýrum, en Þormóð útí Þormóðsskeri, þat er vika undan landi. Ketill gufa nam Gufufjörð ok Skálanes til Kollafjarðar. Þau Ketill ok Ýr áttu tvo sonu, annar var Þórhallr, faðir Hallvarar, er átti Börkr,

---

1) í Skorradal, *b. v. B, Sk.* 2) Nesinu, *G, H, I, Sk.* 3) at leita sèr at bústað, *b. v. C.* 4) Borgarfjörð, *I.* 5) fèkk hennar, *C, G, Sk.* 6) móðursystur, *E.* 7) í, *C.* 8) *b. v. hin; v. í A.* 9) drifa, þá menn til af bæjum, *B.* 10) Kórunesi, *E.*

son þormóðar þjóstarsonar; annar var Oddi, er átti þórlaugu, dóttur Hrólfs frá Ballará, ok þuríðar, dóttur Valþjófs Örlygssonar frá Esjubergi.

25. Hof-Kolli[1] Hróaldsson nam Kollafjörð [ok Kvígandanes[2] ok Kvígandisfjörð, ok seldi ýmsum mönnum landnám sitt, en hann fór í Laxárdal á Höskuldsstaði[3]; hann var kallaðr Dala-Kollr; hans son var Höskuldr, er átti Hallfríði, dóttur Bjarnar, er nam Bjarnarfjörð fyrir norðan Steingrímsfjörð; þeirra son var þorleikr[4], faðir Bolla, er átti Guðrúnu Ósvífrsdóttur.

Knjúkr[5], son þórólfs sparar, er út kom með Örlygi, er kallaðr var Nesja-Knjúkr[5], hann nam [nes öll til Barðastrandar frá Kvígandafirði[6], ok bjó [í Kollsvík[7]; hann átti Eyju, dóttur Íngjalds Helgasonar hins magra; þeirra börn: Einarr, faðir Steinólfs birtíngs, föður Salgerðar, móður Bárðar ens svarta, ok Eyjólfr, er var [stjúpfaðir[8] þorbjargar kolbrúnar Glúmsdóttur, er[9] þormóðr orti um[10], þorgrímr var ok Eyjólfsson, faðir Yngvildar, er átti Úlfheðinn á Víðimýri, ok[11] þóra, móðir Mýra-Knjúks[12] í Dýrafirði; hann var faðir þorgauts, föður Steinólfs, föður [þorkels ok[13] Höllu, móður Steinunnar, móður Rafns Sveinbjarnarsonar, ok Herdísar, er átti Hallr Gizurar-

1) Kolli, *B.* 2) *frá* [ *v. í G.* 3) er hann kvongaðist, *b. v. E.* 4) Þorlákr, *C, G, I.* 5) *þannig leiðr. hèr;* Knútr, (Nefja-Knútr, *Sk*), *A, C, G, H, I, Sk.* 6) allt á milli Kvigandafjarðar ok Kjálkafjarðar, *E.* 7) *tekið úr E; eyða í hinum.* 8) faðir, *G, H, I.* 9) faðir Þorgeirs Kötlusonar; stjúpdóttir Eyjólfs var Þorbjörg Glúmsd., er kölluð vár Kolbrún ok, *í stað þess frá* [ *E.* 10) Kolbrúnarskáld, *b. v. E.* 11) Dóttir Nesja-Knjúks var, *E.* 12) Mýra-Knúks, *C;* Mýra-Knúts, *Sk.* 13) *v. í E.*

son lögmaðr. Dóttir Rafns var Steinunn, móðir herra Rafns, ok Herdís, er Svarthöfði Dugfússson[1] átti; þeirra son Óli, er átti Salgerði Jónsdóttur; þeirra dóttir Steinunn, er Haukr Erlendsson átti[2].

Geirsteinn kjálki nam Kjálkafjörð ok Hjarðarnes[3] með ráði Knjúks[4]; hans son var þorgils, er átti þóru, dóttur Vestars af Eyri; þeirra son var Steinn enn Danski, hann átti Hallgerði Örnólfsdóttur, Ármóðssonar ens rauða. Örnólfr átti Vigdísi, dóttur þorgils[5]. Vigdís hèt dóttir Steins ens Danska ok Hallgerðar, er átti Illugi Steinbjarnarson; þeirra dóttir var þórunn, móðir þorgeirs[6] lánghöfða, [föður þorfinns ábóta[7].

Geirleifr, son Eiríks Högnasonar ens hvíta, nam Barðaströnd milli Vatnsfjarðar ok Berglíða[8]; hann var faðir þeirra Oddleifs ok Helga skarfs. Oddleifr var faðir Gests[9] ens spaka, ok þorsteins, ok Æsu, er átti þorgils, son[10] Gríms or Grímsnesi; [þeirra synir voru þeir Jörundr í Miðengi ok þórarinn at Berufelli[11]. Börn Gests voru þau

1) *þannig C, E, Sk;* Dufgússon, *A, H, I;* Dufgersson, *G.* 2) *í stað þess frá byrjun grein. hefir B þannig:* Knjúkr hèt son Þórólfs sparar, er út kom með Örlygi, hann var kallaðr Nesja-Knjúkr; hann nam nes öll til Barðastrandar frá Kvígandafirði, ok bjó ... Annar son Knjúks var Einarr, faðir Steinólfs, föður Salgerðar, móður Bárðar svarta. Þóra hèt dóttir Knjúks, er átti Þorvaldr, son Þórðar Víkingssonar; þeirra son var Mýra-Knjúkr, faðir Þorgauts, föður Steinólfs, föður Höllu, móður Steinunnar, móður Hrafns á Eyri. Knjúkr átti Eyju, dóttur Ingjalds Helgas. magra; þeirra son var Eyjólfr, faðir Þorgríms Kötlusonar. Glúmr átti fyrr Kötlu, ok var þeirra dóttir Þorbjörg kolbrún, er Þormóðr orti um. Steingrímr hèt son Þorgríms, föður Yngvildar, er átti Úlfheðinn á Viðimýri. 3) Herðísarnes, *E.* 4) Knúts, *H.* 5) *tekið úr E; v. í hin.* 6) Þorgils, *E.* 7) *frá [ v. í B.* 8) Berghlýða, *E, Sk.* 9) Gets, *C.* 10) faðir, *I, Sk.* 11) *frá [ v. í G.*

þórðr, ok Halla, er Snorri[1] Dala-Álfsson átti; þorgils var son þeirra. Önnur dóttir Gests var þórey, er þorgils átti; þórarinn var son þeirra, faðir Jódísar, móður Illuga, [föður Birnu, móður[2] [Eyvindar, föður Steingríms, föður Helgu, móður Jórunnar, móður Hauks Erlendssonar [lögmanns; þeir voru ok synir Birnu[3] Illugi ok Arnórr[4]. Helgi skarfr[5] var faðir þorbjargar[6] kötlu, er átti þorsteinn Sölmundarson; þeirra synir Befr í Brynjudal, ok þórðr, faðir Illuga, föður Hroðnýjar, er þorgrímr[7] sviði átti. þórdís hèt önnur[8] dóttir Helga skarfs, er átti þorsteinn Ásbjarnarson or Kyrkjubæ austan; þeirra son var Surtr, faðir Sigvats lögsögumanns[9]. Geirleifr átti Jóru[10], dóttur Helga. þorfinnr hèt hinn þriði son Geirleifs, hann átti Guðrúnu Ásólfsdóttur; [Ásmundr hèt son þeirra, hann átti Hallkötlu, dóttur Bjarnar Mársonar, Ásmundarsonar; Hlenni hèt son þeirra, hann átti Ægileifu[11], dóttur þorsteins Kröflusonar; þorfinnr var son þeirra, faðir þorgeirs lánghöfða[12]. þorsteinn Oddleifsson var faðir Ísgerðar, er átti Bölverkr, son Eyjólfs hins grá; þeirra son Gellir lögsögumaðr. Vený var enn dóttir þorsteins, móðir þórðar krákunefs; [þaðan eru Krákunefslíngar komnir[13].

---

1) Skori, *B.* 2) móðurföður, *Sk.* 3) *frá fyrra* [ *v. í B.* 4) Gróa hin kristna var dóttir Geirleifs, móðir Helga, föður Ósvífrs, föður Guðrúnar, móður Bolla, föður Herdísar, móður Koðráns, föður Herdísar, móður Álfeyðar, móður þorláks, föður Ketils prests, föður Helgu, er átti Snorri Markússon, *b. v. E.* 5) skrápr, *B alstaðar.* 6) móður, *b. v. B, Sk.* 7) Steingrímr, *E.* 8) ein, *E.* 9) *frá sitara* [ *v. í C.* 10) Jórunni, *E.* 11) Æsileifu, *B.* 12) lýnghöfða, *H, I; frá* [ *v. í C.* 13) *frá* [ *v. í C.*

26. Ármóðr hinn rauði Þorbjarnarson, fósturfaðir[1] Geirleifs, nam Rauðasand; hans synir voru þeir Örnólfr, ok Þorbjörn, faðir Hrólfs ens Rauðsendska.

Þórólfr spör kom út með Örlygi, ok nam Patreksfjörð fur vestan, ok Víkur[2] fur vestan[3] Barð, nema Kollsvík; þar bjó Kollr, fóstbróðir Örlygs. Þórólfr nam ok Keflavík fur sunnan Barð, ok bjó at Hvallátrum. Þeir Nesja-Knjúkr, ok Íngólfr hinn sterki, ok Geirþjófr, voru synir Þórólfs sparar. Þórarna var dóttir Íngólfs, er Þorsteinn Oddleifsson átti.

Þorbjörn tálkni ok Þorbjörn skúma, synir Böðvars[4] blöðruskalla, komu út með Örlygi; þeir námu Patreksfjörð hálfan, ok Tálknafjörð allan til Kópaness.

Ketill ilbreiðr, son Þorbjarnar tálkna, nam dali alla frá Kópanesi til Dúfansdals[5]; hann gaf Þórörnu, dóttur sína, Hergilsi hnapprass[6]; rèðst Ketill þá suðr í Breiðafjörð, ok nam Berufjörð hjá Reykjanesi.

Örn hèt maðr ágætr, [hann var frændi Geirmundar heljarskinns[7], hann fór af Rogalandi fur ofríki Haralds konúngs[8]; hann nam Arnarfjörð allan svâ vítt sem hann vildi[9]; hann sat um vetrinn á Tjaldanesi, þvíat þar gekk eigi sól af[10] um skammdegi.

Án rauðfeldr, son Gríms loðinkinna or Hrafnistu, ok Helgu, dóttur Ánar bogsveigis,

---

1) fóstbróðir, *C, E.* 2) 4, *b. v. E.* 3) norðan, *E.* 4) *v. í C.* 5) Dúfgansdals, *E.* 6) Hnapparssyni, *G.* 7) *frá* [ *v. í C.* 8) hann var missáttr við Hákon jarl Grjótgarðsson, ok fór af því til Íslands, *b. v. E á spás.* 9) áðr Örlygr kvæmi út, *b. v. E.* 10) fjöllum, *b. v. A-J.*

varð missáttr við Harald konúng enn hárfagra, ok fór því or landi í vestrvíkíng; hann herjaði á Írland, ok fèkk þar Grèlaðar[1], dóttur Bjartmars jarls; þau fóru til Íslands, ok kvámu í Arnarfjörð vetri síðar enn Örn. Án var hinn fyrsta vetr í Dúfansdal; þar þótti Grèlöðu illa ilmat[2] or jörðu. Örn spurði til Hámundar heljarskinns, frænda síns, norðr í Eyjafirði, ok fýstist þángat, því seldi hann Áni rauðfeld lönd öll milli Lánganess ok Stapa. Án gerði bú á Eyri, þar þótti Grèlöðu[3] hunángsilmr or grasi. Dúfans[4], þræli[5] sínum, (gaf) Án Dúfansdal; hann bjó þar eptir. Bjartmarr[6] var son Anar, faðir Vegesta tveggja, ok Helga, föður Þuríðar[7] arnkötlu, [er átti Helgi[8] Eyþjófsson[9]. Þórhildr var dóttir Bjartmars, er átti Vesteinn Vegeirsson[10]; Vesteinn ok Auðr voru börn þeirra. Hjallkarr var leysíngi Ánar; hans son var Björn, þræll Bjartmars, hann gaf Birni frelsi, þá græddi hann fè; en Vegestr[11] vandaði um, ok lagði hann spjóti í gegnum, en Björn laust hann með grefi til bana.

Geirþjófr Valþjófsson nam land í Arnarfirði, Forsfirði[12], Reykjarfirði, Trostansfirði, Geirþjófsfirði, ok allt til Lánganess, ok bjó í Geirþjófsfirði; hann átti Valgérði[13], dóttur Úlfs hins skjálga; þeirra son var Högni, [faðir Atla, föður Höskulds, föður Atla, föður Bárðar svarta, föður

---

1) Gèlaðar, *E alstaðar.* 2) ilma, *C.* 3) Geirlaugu, *hèr B.* 4) Dufan, *B, C.* 5) leysingja, *B, Sk.* 6) Bjarmarr, *C.* 7) ok, *b. v. C, H, Sk.* 8) Hergils, *hin*; þeirra dóttir var Þuriðr arnkatla, er átti Helgi, *b. v. B, E, Sk.* 9) *frá* [ *u. i C.* 10) Vegestsson, *I.* 11) Vegeirr, *Sk.* 12) Fupsfjörð, *E; getr og lesizt*: Forsfjörð, Reykjarfjörð, *e. s. frv.* 13) Salgerði, *C, E, I.*

Sveinbjarnar, föður Hrafns, föður Steinunnar, móður herra Hrafns[1]. Högni átti Auði, dóttur Ólafs hrafnakolls[2] ok Þóru Gunnsteinsdóttur. Atli, son Högna, átti Þuríði Þorleifsdóttur, Eyvindarsonar knès[3], ok Þuríðar rýmgiltu. Þorleifr átti Gró, dóttur Þórólfs brækis[4].

27. Eiríkr hèt maðr, er nam Keldudal[5], Dýrafjörð, ok Slèttunes til Stapa [í Arnarfirði[6], en[7] til Háls ens ytra í Dýrafirði; hann var faðir Þorkels, föður Þórðar, föður Þorkels, föður Steinólfs, föður Þórðar, föður Þorleifar, móður Þorgerðar, móður Þóru, móður Guðmundar gríss. [Þorleif var móðir Línu, móður Sessilju, móður Bárðar, ok Þorgerðar, er átti Björn enn Enski; þeirra börn voru þau Arnís ábóti, ok Þóra, er átti Ámundi, Þorgeirsson[8]. [Guðmundr grís átti Solveigu, dóttur Jóns Loptssonar; þeirra börn voru Magnús goði, ok Þorlákr, faðir Árna biskups, ok Þóra, móðir Gizurar jarls[9].

Vesteinn, son Vegeirs, bróðir Vebjarnar Sygnakappa, nam land milli Hálsa í Dýrafirði, ok bjó í Haukadal; hann átti Þórhildi Bjartmarsdóttur[10]; [þeirra börn Vesteinn ok Auðr[11].

Þorbjörn súrr kom út at[12] albygðu landi, honum gaf Vesteinn hálfan Haukadal; hans börn voru þau Gísli, er átti Auðr Vesteinsdóttir[13], ok Þorkell, er átti Sigríði Slettubjarnardóttur, ok Ari var þriði son Þorbjarnar; dóttir hans var

1) *frá* [ *v. í B.* 2) jafnakolls, *B, Sk*; kolls, *G, H, I.* 3) kyns, *E.* 4) Höskuldr var son Atla, faðir Bárðar ens svarta, *b. v. B.* 5) *v. í B*; fyri sunnan, *b. v. C, Sk.* 6) *v. í B.* 7) inn, *Sk.* 8) Þorgrímsson, *E*: *frá* [ *v. í C.* 9) *frá* [ *v. í B.* 10) Bjarmarsdóttur, *E.* 11) *frá* [ *v. í C.* 12) nær, *b. v. E.* 13) *þannig C*; Vestmarsd., *A og hin.*

þórdís, er átti þorgrímr þorsteinsson; þeirra son Snorri goði. [Síðan átti þórdísi Börkr enn digri; þeirra dóttir þuríðr, er átti þorbjörn digri, en síðar þóroddr[1] skattkaupandi; þeirra son var Kjartan at Fróðá[2].

Dýri hèt maðr ágætr, hann fór af Sunnmæri til Íslands, at ráði Rögnvalds jarls, [en fur ofríki Haralds konúngs hárfagra[3]. Dýri nam Dýrafjörð, ok bjo at Hálsum; hans son var Rafn, er bjó á Ketilseyri, faðir þuríðar, er átti Vesteinn Vesteinsson; þeirra synir Bergr ok Helgi.

þórðr hèt maðr Víkíngsson, er flestir kalla verit hafa son Haralds konúngs hárfagra, hann fór til Íslands; [honum gaf Dýri[4] land millum þúfu á Hjallanesi ok Jarðfallsgils; hann bjó í Alviðru; hann átti þjóðhildi[5], dóttur Eyvindar Austmanns, systur Helga ens magra; þeirra son var þorkell Alviðrukappi hinn auðgi, er þar bjó síðan; hann átti * * *[6]; þórðr hèt son þeirra örvöndr[7], annar Eyjólfr, faðir Gísla, er átti Hallgerði, dóttur Vermundar ens mjófa; þeirra son var Brandr, faðir Guðmundar prests í Hjarðarholti, [föður Magnúss prests[8], [en dóttir þóra, er átti Brandr þórhaddsson; þeirra dóttir Steinvör, móðir Rannveigar, móður Sæhildar, er Gizur átti. Helgi hèt annar son Eyjólfs; hans börn vóru þau Ólafr, ok Guðleif, er Fjarskafinnr[9] átti[10]. þorvaldr hvíti hèt annar son þórðar Víkíngssonar, hann átti þóru, dóttur Nesja-Knjúks; þeirra son [var

1) þorbjörn, *G, H, I, Sk.* 2) *frá* [ *v. í C.* 3) *frá* [ *v. í C.* 4) ok nam, *B.* 5) þórhildi, *Sk.* 6) *hèr er eyða fyrir einu orði í handritunum.* 7) örvönd, *C; v. í B.* 8) *frá* [ *v. í B.* 9) Fiskafinnr, *E.* 10) *frá* [ *v. í C.*

Mýra-Knjúkr, faðir Þorgauts, föður Steinólfs, er átti Herdísi Tindsdóttur; þeirra börn voru þau Þorkell á Mýrum, ok Halla, er átti Þórðr Oddleifsson[1]. Þórðr hvíti eða örvöndr, son Þorvalds, hann átti Ásdísi Þorgrímsdóttur[2], Harðrefssonar[3]; móðir Ásdísar var Rannveig, dóttir Grjótgarðar Hlaðajarls; Ásdís var moðir Úlfs stallara, en systir Ljóts ens spaka, ok Halldísar, er Þorbjörn Þjóðreksson átti. Dóttir þeirra Þórðar örvandar var Ottkatla, er átti Sturla Þjóðreksson; þeirra son Þórðr, er átti Hallberu, dóttur Snorra goða; [þeirra dóttir Þuríðr, er átti Hafliði Másson. Snorri var son Þórðar Sturlusonar, er átti Oddbjörgu, dóttur Gríms Loðmundarsonar; þeirra börn voru þau Flugu-Grímr, ok Hallbera, er [Mágsnorri átti[4]. Dætr Sturlu voru sex, ein var Ásný, er Snorri Jörundarson átti; þeirra dóttir Þórdís, móðir Höskulds læknis. [Son þeirra Snorra ok Ásnýjar var Gils, faðir Þórðar, föður Sturlu í Hvammi. [Höskuldr læknir var faðir[5] Margrètar, móður Þorfinns ábóta[6].

28. Íngjaldr Brúnason nam Íngjaldssand milli Hjallaness ok Ófæru; hann var faðir[7] [Harðrefs[8], föður[9] Þorgríms[10], föður þeirra Ljóts ens spaka, sem áðr var ritat. Ljótr enn spaki bjó á Íngjaldssandi, son Þorgríms Harðrefssonar, en moðir hans var Rannveig, dóttir Grjótgarðar

1) *frá* [ *v. í C.* 2) Þormóðsdóttur, *C.* 3) Hörðrefssonar, *E.* 4) átti Magnús. Snorri átti Óleif, *E*; *frá fyrra* [ *v. í C.* 5) föður, *C í stað þess frá fyrra* [. 6) *frá síðara* [ *v. í B.* 7) son, *E.* 8) Harðreks, *G.* 9) *frá* [ *v. í C.* 10) föður Þorbjarnar skúmu, *b. v. C, Sk.*

jarls; þorgrímr gagrarr var son Ljóts. Halldísi[1], systur Ljóts, átti þorbjörn þjóðreksson, en Ásdísi, aðra systur Ljóts, nam[2] Óspakr Ósvífrsson; um þá sök sótti Ljótr Óspak til sektar; Úlfr hèt son þeirra, hann fæddi Ljótr. Grímr kögr bjó á Brekku; hans synir voru þeir Sigmundr[3], ok þorkell, litlir menn ok smáir. þórarinn hèt fóstrson Ljóts. Ljótr kaupir slátur at Grími til tuttugu hundraða, ok galdt lækk, er fèll meðal landa þeirra, sá hèt Ósómi; Grímr veitti hann á eng[4] sína, ok gróf land Ljóts, en hann gaf sök á því, ok var jafnan fátt með þeim. Ljótr tók við Austmanni í Vaðli, sá lagði hug á Ásdísi. Gestr Oddleifsson sótti haustboð til Ljóts; þá kom þar Egill Völusteinsson, ok bað Gest at hann legði ráð til, at föður hans bættist helstríð, er hann bar um Ögmund, son sinn; Gestr orti upphaf Ögmundardrápu. Ljótr spurði Gest, hvat manna þorgrímr gagrarr mundi verða. Gestr kvað þórarinn, fóstra hans, frægra mundu verða, ok bað þórarinn viðsjá, at eigi vefðist hár þat um höfuð honum, er lá á túngu hans; óvirðíng þótti Ljóti þetta, ok spurði um myrginninn, hvat fur þorgrími lægi. Gestr kvað Úlf, systurson hans, frægra mundu verða. þá varð Ljótr reiðr, ok reið þó á leið með Gesti, ok spurði: hvat mun mèr at bana verða? Gestr kvaðst eigi sjá örlög hans, en bað hann vera vel við nábúa sína. Ljótr spurði: munu jarðlýsnar, synir Gríms kögrs, verða mèr at bana? Sárt

---

[1]) Halldísi, systur Ingjalds, f. þorgríms, f. þorbjarnar skúmu, f. Ljóts, *E.* [2]) átti, *I*, *Sk.* [3]) Sigurðr, *kin.* [4]) eign, *E.*

bítr soltin lús, kvað Gestr. [Hvar mun þat verða? kvað Ljótr. Hèðra nær, kvað Gestr[1]. Austmaðr reiddi Gest á heiði upp, ok studdi Gest á baki, er hestr rasaði undir honum; þá mælti Gestr: happ sótti þik nú, en brátt mun annat, gættu at þèr verði þat eigi at óhappi. Austmaðrinn[2] fann grafsilfr, er hann fór heim, ok tók af tuttugu peninga, ok ætlaði at hann mundi feta til síðar; en er hann leitaði, fann hann eigi; en Ljótr fèkk tekit hann, er hann var at grefti, ok gerði af honum þrjú hundruð fur hvern peníng; þat haust var veginn þorbjörn þjóðreksson. Um vorit sat Ljótr at þrælum sínum á hæð einni; hann var í kápu, ok var höttrinn lerkaðr um hálsinn, ok ein ermur á; þeir Kögrssynir ljópu á hæðina, ok hjuggu til hans báðir senn, eptir þat snaraði þorkell höttinn at[3] höfði honum; Ljótr bað þá láta gott í búsifjum sínum, ok hröpuðu þeir af hæðinni á götu þá, er Gestr hafði [riðit; þar[4] dó Ljótr. þeir Grímssynir fóru til Hávarðar halta; Eyjólfr grái veitti þeim öllum, ok Steingrímr, son hans[5].

29. Önundr Víkingsson, [bróðir þórðar í Alviðru[6], nam Önundarfjörð allan[7], ok bjó á Eyri.

Hallvarðr[8] súgandi var í orrustu mót Haraldi konúngi í Hafrsfirði; hann fór [af þeim ófriði[9] [af Sætrum af Hörðalandi[10] til Íslands, ok

[1]) *frá* [ *v. í Sk.* [2]) snèri aptr ok, *b. v. E.* [3]) af, *Sk.* [4]) verit með Ljóti; þá, *E.* [5]) *frá orðunum í öndverðum þessum kap:* Ljótr enn spaki bjó, *v. í C.* [6]) *frá* [ *v. í H, I.* [7]) *v. í B, Sk.* [8]) Hávarðr, *I.* [9]) *frá* [ *v. í C.* [10]) *frá* [ *v. í B.*

nam Súgandafjörð, ok Skálavík[1] [til Stigagnúps[2], ok bjó þar[3].

Þuríðr sundafyllir ok Völusteinn, son hennar, fóru af Hálogalandi til Íslands, ok námu Bolúngarvík, ok bjuggu í Vatnsnesi; hún var því kölluð sundafyllir, at hún seyddi til þess í hallæri á Hálogalandi, at hvert sund var fullt af síld[4]; hún setti ok Kvíarmið á Ísafjarðardjúpi, ok tók til á kollótta af hverjum bónda í Ísafirði. Synir Völusteins voru þeir Ögmundr ok Egill.

Helgi hèt son Hrólfs or Gnúpufelli, [hann var getinn austr[5], ok Upplenzkr at móðurætt, [ok vóx þar upp[6]; hann fór til Íslands at vitja frænda sinna; hann kom í Eyjafjörð, ok var þar þá albyggt; eptir þat vildi hann utan, ok varð aptrreka í Súgandafirði[7]; hann var um vetrinn með Hallvarði[8], en um vorit fór hann at leita sèr bústaðar; hann fann fjörð einn, ok hitti þar skutil í flæðarmáli, þat kallaði hann Skutilsfjörð, ok bygði þar síðan. Hans son var Þorsteinn ógæfa, hann fór utan, ok vóg hirðmann Hákonar jarls Grjótgarðssonar, en Eyvindr, ráðgjafi jarlsins, sendi hann til Vebjarnar Sygnatrausta; hann tók við honum, en Vedís, systir hans, latti þess; fur þat seldi Vebjörn eignir sínar, ok fór til Íslands, [er hann treystist eigi at halda manninn[9].

Þórólfr[10] brækir nam suman[11] Skutilsfjörð ok Skálavík, ok bjó þar.

---

1) Skúlavík, *E.* 2) Stiga, *B.* 3) *frá* [ *v. í C.* 4) fiskum, *B.* 5) *frá* [ *v. í C.* 6) *frá* [ *v. í B.* 7) Súgandafjörð, *B, C, Sk.* 8) Haraldi, *Sk.* 9) *frá* [ *v. í C.* 10) Þórormr, *E.* 11) sunnan, *G, I, S.*

Eyvindr knè fór af Ögðum til Íslands, ok þuríðr rúmgilta[1], kona hans, þau námu Álptafjörð ok Seiðisfjörð, ok bjuggu þar; þeirra son var þorleifr, er fyrr var getit, ok Valbrandr, [faðir Hallgríms ok Gunnars[2], ok Bjargeyjar[3], er átti Hávarðr[4] halti; þeirra son var Ólafr[5].

Geirr hèt maðr ágætr í Sogni, hann var kallaðr Ve-Geirr, þvíat hann var blótmaðr mikill, hann átti mörg börn; Vebjörn[6] Sygnakappi[7] var elztr sona hans, enn Vesteinn ok Veðormr, Vemundr ok Vegestr ok Veörn[8], en Vedís dóttir. [Eptir andlát Vegeirs varð Vebjörn ósáttr við Hákon jarl, sem fyrr var getit, því[9] fóru þau syzkin til Íslands; þau höfðu útivist lánga ok harða, þau tóku um haustit Hlöðuvík fur vestan Horn; þá fèkk Vebjörn at blóti miklu, ok kvað Hákon jarl blóta þann dag til óþurftar þeim; en er hann var at blótinu, eggjuðu bræðr hans hann til brottfarar, ok gáði hann[10] eigi blótsins, ok lètu þeir út; þeir brutu þann sama dag skip sitt undir hömrum miklum í illviðri, þar kvámust þau nauðuliga upp, ok gekk Vebjörn fur; þat er nú kölluð Sygnakleyf. En um vetrinn tók við þeim öllum Atli [í Fljóti[11], þræll Geirmundar heljarskinns, [ok bað þau engu launa vistina, sagði Geirmund eigi vanta mat. En (er) Atli fann Geirmund, spurði Geirmundr, hví hann varð svâ djarfr, at taka slíka menn uppá kost

[1]) rýmgilta, *E.* [2]) *frá* [ *v. í C.* [3]) Bjargey *C*, *Sk.* [4]) Hallvarðr, *E.* [5]) bjarnylr, *b. v. E.* [6]) Veblindr, *A-J*; *v. í C.* [7]) Svignakappi, *B.* [8]) Ve-þorn, *B*, *C*; Vebjörn, *A-J.* [9]) *frá* [ *v. í C.* [10]) þeir, *C.* [11]) *v. í C.*

hans. Atli sagði, at þat mun uppi meðan Ísland er byggt, hversu mikilsháttar sá maðr mundi vera, at einn hans þræll þorði at gera slíkt utan hans orðlof. Geirmundr svarar: fur þetta þitt tiltæki[1] skalt þú þiggja frelsi, ok bú þetta, er þú hefir varðveitt, ok varð Atli síðan mikilmenni[2]. Vebjörn nam um vorit eptir land millum Skötufjarðar ok Hestfjarðar, svâ vítt sem hann gengi um á dag, ok því meir, sem hann kallaði Folafót. Vebjörn var vígamaðr mikill, ok er saga mikil frá honum; hann gaf Vedísi, systur sína, Grímólfi í Unaðsdal; þeir urðu missáttir, ok vo Vebjörn hann hjá Grímólfsvötnum; fur þat var Vebjörn veginn [á fjórðúngsþíngi á Þórsnesi[3], ok þrír[4] menn aðrir.

Gunnsteinn ok Haldórr hètu synir Gunnbjarnar, Úlfssonar kráku, er Gunnbjarnarsker eru viðkend; þeir námu Skötufjörð[5] ok Laugardal, ok Ögrsvík til Mjóvafjarðar. Bersi var son Haldórs, faðir Þormóðar Kolbrúnarskálds. Þar í Laugardal bjó síðan Þorbjörn Þjóðreksson, er vo Ólaf[6], son Hávarðar halta ok Bjargeyjar[7] Valbrandsdóttur; þar af gjörðist saga Ísfirðínga ok víg Þorbjarnar[8].

30. Snæbjörn, son Eyvindar Austmanns, bróðir Helga magra, nam land millum Mjóvafjarðar ok Lángadalsár, ok bjó í Vatnsfirði; hans son var Hólmsteinn[9], faðir Snæbjarnar[10] galta;

---

1) viðtæki, *C.* 2) en er Geirmundr vissi orlausn Atla, þá gaf hann honum frelsi, ok bú þat, er hann varðveitti; hann varð siðan mikilmennr, *i stað þess frá* [ *B.* 3) á Þingeyrarþingi i Dýrafirði, *C; E milli* [ ]. 4) 4, *I;* 2, *A-J.* 5) Skutufjörð, *E.* 6) bjarnyl, *b. v. E.* 7) Borgeyjar, *C, G.* 8) ok þeirra bræðra, *b. v. E.* 9) Hallsteinn, *E.* 10) Gunnbjarnar, *B.*

móðir Snæbjarnar var Kjalvör, ok voru þeir Túngu-Oddr systrasynir. Snæbjörn var fóstraðr í þíngnesi með þóroddi, en stundum var hann með Túngu-Oddi, eða móður sinni. Hallbjörn, son Odds frá Kiðjabergi[1], Hallkelssonar, bróður Ketilbjarnar hins gamla, fèkk Hallgerðar, dóttur Túngu-Odds, þau voru með Oddi hinn fyrsta vetr; þá var Snæbjörn galti þar; óástúðigt[2] var með þeim hjónum. Hallbjörn bjó ferð sína um vorit í fardögum; en er hann var at búnaði, fór Oddr frá húsi til laugar í Reykjaholt, þar voru sauðahús hans; vildi hann eigi vera við er Hallbjörn færi, þvíat hann grunaði, hvort Hallgerðr mundi fara vilja með honum; Oddr hafði jamnan umbætt með þeim. þá er Hallbjörn hafði lagt á hesta þeirra gekk hann til dýngju, ok sat Hallgerðr á palli, ok kembdi sèr; hárit fèll um alla hana ok niðr á gólfit; hún hefir kvenna bezt verit hærð á Íslandi með Hallgerði snúinbrók[3]. Hallbjörn bað hana uppstanda ok fara; hún sat ok þagði; þá tók hann til hennar, ok lyptist hún lítt[4]; þrisvarsinnum fór svâ; Hallbjörn nam staðar fur henni, ok kvað:

Ölkarma[5] lætr arma[6]
eyk, firrumst[7] þar[8] leika
lofn, fur lesnis stofni[9]
línbundin[10] mik sínum;
bíða mun ek of[11] brúði,
böl gjörir mik fölvan,

1) Kiðabergi, *G.* 2) óástugt, *C.* 3) lángbrók, *C.* 4) ekki, *B*; upp, *C.* 5) otkorma, *E.* 6) arman, *B.* 7) firrum, *B*; firrnust, *Sk.* 8) þat, *B.* 9) stafni, *H*, *I*, *Sk.* 10) línbörvar, *B*; línbörvan, *Sk.* 11) ef, *B*; of, *Sk.*

[snertr mèr[1] harmr við[2] hjarta
hrót[3], aldregi bótir[4].

Eptir þat snaraði hann hárit um hönd sèr, ok vildi kippa henni af pallinum, en hún sat, ok veiket eigi; eptir þat brá hann sverði, ok hjó af henni höfuðit, gekk þá út, ok reið í brott. Þeir voru þrír[5] saman, ok höfðu tvö klyfjahross. Fátt var manna heima, ok var[6] þegar sendt at segja Oddi. [Oddr svarar: segi þèr Snæbirni á Kjalvararstöðum, en eigi mun ek eptir þeim ríða[7]. Snæbjörn[8] reið eptir þeim með tólfta mann. En er þeir Hallbjörn sá eptirreiðina, báðu förunautar hans hann undan at ríða, en hann vildi þat eigi. Þeir Snæbjörn kvâmu eptir þeim við hæðir þær, er nú heita Hallbjarnarvörður. Þeir Hallbjörn fóru á hæðina, ok vörðust þaðan; þar fèllu þrír[9] menn af Snæbirni, ok bâðir förunautar Hallbjarnar. Snæbjörn hjó þá fót af Hallbirni í ristarlið; þá hnekti[10] hann á hina syðri hæðina, ok vo þar tvo menn af Snæbirni [áðr hann fèll[11]; því eru þrjár vörður á þeirri hæðinni, en fimm á hinni[12]. Síðan fór Snæbjörn aptr. Snæbjörn átti skip í Grímsárósi, þat keypti hálft Hrólfr enn Rauðsendski; þeir voru tólf hvârir; með Snæbirni voru þeir Þorkell ok Sumarliði, synir Þorgeirs rauðs, Einarssonar Stafhyltíngs. Snæbjörn tók

[1]) svertumk, *C;* setr mèr, *E.* [2]) í, *B;* of, *C.* [3]) hans rót, *E.* [4]) *þannig leiðr.*; bötir, *B, C*; bót er, *A og hin.* [5]) 4, *C.* [6]) þó, *b. v. E.* [7]) Snæbjörn var á Kjalvararstöðum, ok sendi Oddr honum mann, bað hann sjá fyri reiðinni, en hvergi kveðst hann fara mundu, *í stað þess frá* [ *B.* [8]) brá við ok, *b. v. E.* [9]) 4, *C.* [10]) hlekti, *C;* hrekti, *I.* [11]) ok þar fèll Hallbjörn, *B.* [12]) eptir manntali, *b. v. Sk.*

við þóroddi or þíngnesi, fóstra sínum, ok konu hans; en Hrólfr tók við Styrbirni, er þetta kvað eptir draum sinn:

Bana sè ek okkarn
beggja tveggja,
allt ámorligt[1]
útnorðr í haf:
frost ok kulda,
feikn hvörskonar,
[veit ek[2] af slíku
Snæbjörn veginn.

þeir fóru at leita Gunnbjarnarskerja, ok fundu land; eigi vildi Snæbjörn kanna láta um nóttina. Styrbjörn fór af skipi, ok fann fèsjóð í kumli, ok leyndi; Snæbjörn laust hann með exi, þá fèll sjóðrinn niðr. þeir gerðu skála, ok lagði hann í fönn; þorkell, son Rauðs, fann at vatn var á forki, er út stóð í skálaglugginn, þat var um góe[3]; þá grófu þeir sik út. Snæbjörn gerði at skipi, en þau þóroddr voru at skála af hans hendi, en þeir Styrbjörn af Hrólfs hendi; aðrir fóru at veiðum. Styrbjörn vo þórodd, en þeir Hrólfr báðir Snæbjörn. Rauðssynir[4] svörðu eiða, ok allir aðrir, til lífs sèr; þeir tóku Hálogaland, ok fóru þaðan til Íslands, ok kvâmu í Vaðil. þorkell trefill gat sem farit hafði fur Rauðssonum. Hrólfr gerði virki á Straudarheiði[5]. þorkell trefill sendi Sveinúng til höfuðs Hrólfi, fór hann fyrst á Mýri til Hermundar, þá til Ólafs at Draungum, þá til Gests í Haga; [hann sendi

[1]) auðornligt, *H*, *Sk*. [2]) fæs mek, *C*, *Sk*. [3]) gie, *C*. [4]) Auðssynir, *Sk*. [5]) Randarheiði, *Sk*.

hann til Hrólfs, vinar síns. Sveinúngr vo Hrólf ok Styrbjörn; þá fór hann í Haga[1]; Gestr skipti við hann sverði ok öxi, ok fèkk honum hesta tvo hnökkótta, ok lèt mann ríða um Vaðil, ok allt í Kollafjörð; hann senði þorbjörn hinn sterka at heimta hestana; hann vo hann á Sveinúngseyri[2], þvíat sverðit brotnaði undir hjöltunum. því hældist Trefill við Gest, þá er saman var jafnat viti þeirra, at hann hefði því komit á Gest, at hann sendi sjálfr mann til höfuðs vin sínum.

31. Ólafr jamnakollr nam land frá Lángadalsá[3] til Sandeyrarár[4], ok bjó í Unaðsdal; hann átti þóru[5] Gunnsteinsdóttur[6]; þeirra son Grímólfr, er átti Vedísi, systur Vebjarnar[7].

þórhrólfr fasthaldi hèt maðr ágætr í Sogni, hann varð ósáttr við Hákon jarl Grjótgarðsson; hann fór til Íslands [með ráði Haralds konúngs[8]; hann nam land fra Sandeyrará til Gýjarsporsár [í Hrafnsfirði[9], hann bjó á Snæfjöllum; hans son var Ófeigr, [er átti[10] Ottkötlu.

Örlygr, son Böðvars Vígsterkssonar, fór til Íslands fur ofríki Haralds konúngs; hann var hinn fyrsta vetr með Geirmundi heljarskinn, en um vorit gaf Geirmundr honum bú í Aðalvík, ok lönd þau, sem þar lágu til. Örlygr átti Signýju, dóttur [Óblauðs, systur[11] Högna ens hvíta; þeirra son var Ketill gufa, er átti Ýri Geirmundar-

---

1) *frá* [ *v. í E.* 2) Sveinúngsheiði, *E.* 3) Laugardalsá, *G.* 4) Sandeyrar, *Sk.* 5) Þuríði, *C, I;* Þórörnu, *Sk.* 6) Steinsdóttur, *H, I, Sk.* 7) er fyrr var getit, *b. v. E.* 8) *frá* [ *v. í C.* 9) ok Hrafnfjörð, *E.* 10) faðir, *C.* 11) *frá* [ *v. í C.*

dóttur. Örlygr eignaðist Slèttu ok Jökulsfjörðu; [ok taka nú til landnám Geirmundar, sem fyrr er ritat, allt til Straumness fur austan Horn[1].

Hellabjörn[2], son Herfinns ok Höllu, var víkíngr mikill, hann var jamnan óvin Haralds konúngs; hann fór til Íslands, ok kom í Bjarnarfjörð með alskjölduðu skipi; síðan var hann Skjalda-Björn kallaðr; hann nam land frá Straumsnesi til Dránga, ok Skjaldabjarnarvík, ok bjó þar, en átti annat (bú) á Bjarnarnesi; þar sèr miklar skálatóptir hans. Son hans var Þorbjörn, faðir Arngerðar, er átti Þjóðrekr Slèttubjarnarson; þeirra synir: Þorbjörn, Sturla, ok Þjóðrekr.

Geirólfr[3] hèt maðr, er braut skip sitt við Geirólfsgnúp; hann bjó síðan undir gnúpinum at ráði Bjarnar[4].

[Þorvaldr Ásvaldsson, Úlfssonar, Yxnaþórissonar, nam Dráṅgaland, ok Drángavík til Engi-ness, ok bjó at Draungum alla æfi; hans son var Eiríkr rauði, er bygði Grænland, sem fyrr segir[5].

Herrauðr hvítaský[6] var göfigr maðr, hann var drepinn af ráðum Haralds konúngs; en synir hans þrír fóru til Íslands, ok námu land á Ströndum: Eyvindr Eyvindarfjörð, Ófeigr Ófeigsfjörð, Íngólfr Íngólfsfjörð; þeir bjuggu þar síðan.

Eiríkr snara[7] hèt maðr, er land nam frá Íngólfsfirði til Veiðilausu, ok Trèkyllisvík, [ok bjó þar[8]; hann átti Ólufu, dóttur Íngólfs or Íngólfsfirði; þeirra son var Flosi, er bjó í Vík,

---

1) *frá* [ *v. í C.* 2) Höllubjörn, *E.* 3) Geirleifr, *E.* 4) Skjalda-Bjarnar, *E.* 5) *frá* [ *v. í C.* 6) hvikatimbr, *C.* 7) snari, *E.* 8) *frá* [ *v. í C.*

þá er Austmenn brutu þar skip sitt, ok gerðu or hræinum[1] skip þat, er þeir kölluðu Trèkylli; á því fór Flosi utan, ok varð aptrreka í Öxarfjörð; þaðan af gerðist saga Böðmóðs [gerpis ok Grímólfs[2].

32. Önundr trèfótr, son Ófeigs burlufótar, Ívarssonar[3] beitils, var í móti Haraldi konúngi í Hafrsfirði, ok lèt þar fót sinn; eptir þat fór hann til Íslands, ok nam frá Kleifum til Ófæru, Kaldbaksvík[4], Kolbeinsvík, Birgisvík, ok bjó í Kaldbak[5] til elli; hann var bróðir Guðbjargar, móður Guðbrands kúlu, föður Ástu, móður Ólafs konúngs ens helga. Önundr átti fjóra sonu, einn hèt Grettir, annar þorgeirr flöskubak, þriði Ásgeirr æðikollr, faðir Kálfs, ok Hrefnu, er Kjartan átti, ok þuríðar, er þorkell kuggi átti, en síðar Steinþórr[6] Ólafsson pá; enn fjórði var þorgrímr hærukollr, faðir Ásmundar, föður Grettis hins sterka.

Björn hèt maðr, er nam Bjarnarfjörð, hann átti Ljúfu; þeirra son var Svanr, er bjó â Svanshóli[7].

Steingrímr nam Steingrímsfjörð allan, ok bjó í Tröllatúngu; hans son var þórir, faðir Haldórs, föður þorvalds örgoða, föður Bitru-Odda, föður Steindórs, föður Odds, föður Há-Snorra[8], föður Odds múnks, ok þórhrólfs[9], ok þórarins tosta[10].

Kolli hèt maðr, er nam Kollafjörð ok Skriðnisenni[11], ok bjó undir Felli meðan hann lifði.

---

1) brotunum, *C.* 2) *frá* [ *v. í C.* 3) í Vors, sonar, *E, H, I.* 4) Kallbaksvík, *B, C, E, H, I.* 5) Kallbak, *B, C, E, H, I.* 6) Steinmóðr, *B.* 7) er þar bjó síðan, ok druknaði á firðinum, ok gekk þar inni fjallit at sýn, *b. v. E.* 8) Snorra, *Sk.* 9) Þorláks, *C;* Þórólfs, *H, I, Sk.* 10) rosta, *C;* torsta, *Sk.* 11) Skriðinsenni, *B;* Skriðingsenni, *E;* Skriðnesenni, *G, Sk.*

Þorbjörn bitra hèt maðr, hann var víkíngr mikill ok illmenni; hann fór til Íslands með skuldalið sitt, ok nam fjörð þann, er nú heitir Bitra, ok bjó þar. Nokkuru síðar braut Guðlögr, bróðir Gils skeiðarnefs, skip sitt þar út við höfða þann, er nú heitir Guðlögshöfði. Guðlögr komst á land, kona hans ok dóttir, en aðrir menn allir týndust; þá kom til Þorbjörn bitra, ok myrði þau bæði, en tók meyna ok fæddi upp. En er þessa varð varr Gils skeiðarnef, fór hann til, ok hefndi bróður síns, ok drap Þorbjörn bitru ok enn fleiri menn aðra. Við [Guðlög er kend[1] Guðlögsvík.

Bálki hèt maðr Blængsson[2], Sótasonar af Sótanesi, [hann var á móti Haraldi konúngi í Hafrsfirði; eptir þat[3] fór hann til Íslands [fur ofríki Haralds konúngs[4], ok nam Hrútafjörð allan, ok bjó á Bálkastöðum hvorutveggjum, en síðast í Bæ, ok dó þar; hans son var Bersi goðlaus, er fyrst bjó á Bersastöðum í Hrútafirði, en síðan nam hann Lángavatnsdal, [ok átti þar annat bú, áðr hann fèkk Þórdísar, dóttur Þórodds[5] or Hýtardal, ok tók með Hólmsland; þeirra son var Arngeirr, faðir Bjarnar Hýtdælakappa. Geirbjörg var dóttir Bálka, móðir Veleifs ens gamla[6].

Arndís hin auðga, dóttir Steinólfs hins lága, nam síðan land í Hrútafirði út frá Borðeyri, hún bjó í Bæ; hennar son var Þórðr[7], er bjó fur[8] Múla í Saurbæ.

---

1) *frá [ v. í I.* 2) Klængsson, *B, C, G;* Blæingsson, *Sk.* 3) *frá [ v. í C.* 4) *frá [ v. í B.* 5) Þórhadds, *B, Sk.* 6) sem fyrr er ritat, *í stað þess frá [ C.* 7) kornamúli, *b. v. A-J.* 8) fyrr í, *B, C, Sk;* í, *E.*

33. þröstr ok Grenjuðr[1], synir Hermundar hokins[2], námu land í Hrútafirði inn frá Borðeyri, ok bjuggu at Melum. [Frá Grenjaði var kominn Hestagellir prestr[3], en Ormr frá þresti[4]. Son þrastar var ok þorkell á Kjörseyri[5], faðir Guðrúnar, er átti þorbjörn þynna[6], son Hrómundar halta; þeir bjuggu[7] at Fagrabrekku; þorleifr Hrómundarfóstri var son þeirra; Hásteinn hèt son Hrómundar; þeir voru allir um eitt ráð. þórir hèt son þorkels þrastarsonar, hann bjó at Melum; Helga hèt dóttir hans. Í þann tíma kom Slettu-Helgi[8] út á Borðeyri, ok Jörundr, bróðir hans; þeir voru víkíngar tólf frjálsir, ok sveinar umfram; þeir fóru allir til Mela; þá fèkk Helgi Helgu þórisdóttur. þeim Hrómundi hurfu stóðhross; þat kendu þeir þeim Helga, ok stefndi Miðfjarðar-Skeggi þeim um stuld til alþíngis, en þeir Hrómundr skyldu gæta hèraðs, ok höfðu virki gott á Brekku. Austmenn bjuggu skip sitt. þat var einn morgin, er hrafn kom á ljóra á Brekku, ok gall hátt, þá kvað Hrómundr:

Úti heyri ek svan sveita
sáraþorns, er mornar,
bráð vekr borginmóða
bláfjallaðan[9], gjalla;
svá gól fyrr þá er feigir
fólknárúngar[10] váru

---

1) *þannig hin;* Geirmundr, *hèr A.* 2) hólkins, *C.* 3) *v. í Sk.* 4) *frá* [ *v. í C.* 5) Korseyri, *B;* Kerseyri, *C.* 6) þýna, *B;* þyrna, *H, I, Sk.* 7) allir, *b. v. Sk.* 8) Sleitu-Helgi, *B, Sk, alstaðar.* 9) bláfjallanda, *B.* 10) fólkmarglingar, *E.*

gunnarhaukr[1], er gaukar[2]
Gauts bragða spá sögðu.

Þorbjörn kvað:

Hlakkar hagli stokkinn
hræs er kemr at[3] sævi
móðr, krefr morgin-bráða[4],
már valkastar báru;
svå gól endr, þá er unda,
eiðs af[5] fornum meiði
hrævagaukr, er haukar
hildínga mjöð vildu.

Í þann tíma kvâmu Austmenn í virkit, þvíat verkmenn höfðu eigi aptr látit. Þeir bræðr gengu út; en konur sögðu Hrómund ofgamlan, en Þorleif ofúngan, at gánga út, hann var fimtán[6] vetra. Þá ljóp Hrómundr[7] út með vâpnum sínum, ok kvað:

Varat mèr í dag dauði,
draugr flatvallar bauga!
búumst við ilmar[8] jálmi[9],
áðr nè[10] geir ofráðinn;
ræki ek lítt þó at leiki
litvöndr[11] Hèðins fitjar,
oss var áðr ummarkaðr
aldr við rauða skjöldu.

Austmenn fèllu sex í virkinu, en aðrir sex[12] stukku brott. En þá er Þorbjörn vildi lúka aptr virkinu, skaut Jörundr atgeir í gegnum hann; Þorbjörn tók atgeirinn or sárinu, ok setti á milli

1) gunnhaukar, *Sk.* 2) góku, *Sk.* 3) af, *C.* 4) bráðar, *B, C.* 5) á, *C.* 6) 19, *C.* 7) ok Þorleifr, *b. v. C.* 8) álmar, *C.* 9) álmi, *Sk.* 10) enn, *Sk.* 11) litvörðr, *E, I.* 12) menn, *C.*

herða Jörundi, svå at útkom um brjóstit, [ok fèllu þeir báðir dauðir á jörð. Helgi greip upp Jörund, ok[1] kastaði honum á bak sèr, ok rann svâ; Hásteinn rann eptir þeim, þartil er Helgi kastaði honum niðr af baki sèr dauðum; þá hvarf hann aptr. Hrómundr var fallinn, en þorleifr sárr til ólífis. Konur spurðu tíðinda. Hásteinn[2] kvað:

Hèr hafa sex, þeir er sævast
sútlaust, bana, úti,
svipnjörðúngar[3] sverða
sárteins, á brústeinum[4];
hygg at hálfir[5] liggi
heptendr laga eptir,
eggskeindar lèt[6] ek undir
óbíðendum[7] svíða.

Konur spurðu, hve margir þeir væri. Hásteinn[8] kvað:

Varka ek furs[9] með fleiri
fetla[10] stígs at vígi,
[fur voru[11] þar fjórir
frendr ofstopa vendir;
en tólf [af glað[12] gylva
gunnþíngs hvatir runnar
köld ruðu vopn, þeir er vildu
vors fundar til skunda.

Konur spurðu, hve margir fallnir væri af víkíngum. Hásteinn[13] kvað:

---

1) Helgi, *í stað þess frá* [ *B.* 2) Hallsteinn, *I, Sk.* 3) svipnjórungar, *G, H, I.* 4) brásteinum, *Sk.* 5) hálfdauðir, *H; Sk.* 6) læt, *B*; leit, *G.* 7) óbiðingum, *B, C.* 8) Hallsteinn, *Sk,* 9) fyrr, *B, Sk.* 10) ferla, *G.* 11) fyri vorum, *B, C, Sk.* 12) á glað, *Sk.* 13) Hallsteinn, *Sk.*

Sjö hafa[1] sækitívar[2]
Svolnis[3] garðs til jarðar,
blóð fèll varmt[4] á vera[5]
valdögg, þösum höggvit[6];
manu[7] [furviðir[8] fleiri[9]
Fjölnis-þíngs[10], enn híngat,
út um ekkils brautir
jálkmærar[11] ske færa.

Hèr megu hæliborvar
hljóm daltángar skjóma
dýrs, hvat drýgðu fjórir,
dagverkis sjá merki;
en ek[12] hýrbrigði hugða,
hrafn sleit af ná beitu,
gunnarræfs[13] at gæfum
griðbítum[14] frið lítinn.

Unnum auðimönnum,
á ek þunnan hjör gunnar,
drógumst[15] vær at vígi,
verk, dreiruga serki;
höfðu herðilofðar[16]
hildar borðs[17] und skildi,
þvarr Hángr[18]-völum[19], hengi[20],
húngr, vesæri[21] túngur.

---

1) hvurfu, *Sk.* 2) sæki rifat, *B.* 3) Sofnis, *Sk.* 4) varð, *C.* 5) vira, *B;* vala, *C;* vea, *I.* 6) höggvin, *Sk.* 7) munað, *C;* runnu, *Sk.* 8) fur undir, *B;* fjörviðir, *H, Sk.* 9) færa, *B.* 10) flug svíns, *Sk.* 11) jaldi mæra, *E;* áluuniæringar, *Sk.* 12) ef, *H, I.* 13) gunnarraks, *Sk.* 14) griðbit um, *B, G.* 15) drögnust, *E, I.* 16) heiðilofðar, *I.* 17) bör, *B;* barðs, *E;* bör, *Sk.* 18) *þannig B, E, G;* haugr, *A og hin.* 19) vals, *Sk.* 20) hángi, *B.* 21) ve sæti, *G, H, I.*

Harðr var gnýr, þá er gjörðum
grjótvarps lotu[1] snarpa,
gengu sverðs at saungvi
sundr grá klæði þundar;
áðr á hæl[2] til hvíldar[3],
hlutu þeir bana fleiri,
hjaldrs kom hríð á skjöldu,
hækíngsviðir æki.

Heyri svan[4], þeir er sárir
sigrstalls viðir[5] falla,
benskári[6] drekkr báru
blóðfall[7], of ná gjallar;
þar fèkk örn, en erni
eru[8] greipr[9] [hræum sveipaðar[10],
sylg, er Slettu-Helgi
segðauðigr fellr[11] rauðu[12].

Báru upp af ára
allþakkligum blakki
ítar oss á móti
álmsþíngssamir[13] hjálma;
en á braut þeir[14] er báru
beiðendr, goðum leiðir[15],
hliða herðimeiðar
hauðmens[16] skarar[17] rauðar[18].

---

1) lautu, *B.* 2) hul, *B, Sk.* 3) hildar, *Sk.* 4) svar, *E, I.* 5) viðar, *Sk.* 6) *þannig B;* benskár i, *A, E, G, H;* benskor i, *I.* 7) blóðfalls, *Sk.* 8) *þannig B, E, G, H, I;* ern, *A, Sk.* 9) *þannig B, E, G, H, I, Sk;* greppr, *A.* 10) *þannig leiðr.;* hræum sveipaðr, *A, H, I;* ræum sveipaði, *B;* hræ sveipaðr, *E, G;* hr. sveipað, *Sk.* 11) *v. í Sk;* fellt, *hin.* 12) rauða, *E.* 13) álmþings saman, *Sk.* 14) þá, *Sk.* 15) leiðar, *B, G, Sk.* 16) hauðrmens, *B;* handarmens, *Sk.* 17) skar, *B;* skornar, *Sk.* 18) randir, *Sk; 4 seinustu vísurnar v. í C.*

þeir Helgi lètu út enn sama dag, ok týndust allir á Helgaskeri fur Skriðnisenni[1]. þorleifr varð græddr, ok bjó at Brekku, en Hásteinn[2] fór utan, ok fèll á Orminum lánga með Ólafi konúngi Tryggvasyni.

[Nú eru ritut landnám flest í Vestfirðíngafjórðúngi, eptir því sem fróðir menn hafa sagt; má þat nú heyra, at þann fjórðúng hefir margt stórmenni byggt, ok frá þeim eru margar göfgar ættir komnar, sem nú mátti heyra[3].

þessir landnámsmenn eru göfgastir í Vestfirðíngafjórðúngi: Hrosskell, Skallagrímr, Selþórir, Björn hinn Austræni, þórólfr Mostrarskegg, Auðr djúpauðga, Geirmundr heljarskinn, Úlfr skjálgi, þórðr Víkíngsson, þótt lángfeðri[4] haldist stærra[5] í sumum ættum. En þá er bændr voru taldir á Íslandi, þá voru níu hundruð bónda í þessum fjórðúngi.

---

[1]) Skriðinsenni, *B*; Skriðnesenni, *G*, *H*; Skriðníngsenni, *Sk.* [2]) Hallsteinn, *Sk.* [3]) *frá* [ *v. í C.* [4]) *þannig leiðr.*; lángfeðr, *öll.* [5]) stærri, *F*, *H*, *I*.

# Þriði Partr.

*Nú hefr upp landnám í Norðlendingafjórðúngi, [er fjölbygðastr hefir verit af öllu Íslandi, [ok stærstar sögur hafa gerzt, bæði at fornu ok nýju, sem enn mun ritat verða ok raun ber á*[1].

Gunnsteinn[2] meinfretr, son Álfs [or Östu[3], nam Hrútafjarðarströnd hina eystri næst eptir Bálka, ok bjó þar nokkura vetr, áðr hann fèkk Þórhildar, dóttur Þorsteins rauðs; þá rèðst hann norðan[4] í Dali, ok bjó þar; þeirra synir voru þeir Álfr í Dölum, Þórðr ok Þórhrólfr, Refr ok Hrappr[5].

Þóroddr hèt maðr, er land nam í Hrútafirði[6], ok bjó á Þóroddsstöðum; hans son var Arnórr hýnefr, er átti Gerði, dóttur Böðvars or Böðvarshólum; þeirra synir voru þeir Þorbjörn, er Grettir vo, ok Þóroddr drápustúfr[7], faðir Valgerðar, er átti Skeggi[8] skammhöndúngr [Gamlason, Þórðarsonar, [Eyjólfssonar, Eyjarssonar[9], Þórhrólfssonar fasthalda frá Snæfjöllum. Son Skeggja skammhöndúngs[10] var Gamli, faðir Álfdísar, móður Odds múnks[11].

---

[1]) ok er engi stærri ættbogi, enn sá, eð frá þeim mönnum er, er þar hafa byggt, hafa þar ok flestar sögur gjörzt ok stærstar í þeim hèröðum, ok eigi eldist þat enn á vorum dögum, þótt vèr eldumst, ok landit hrörni at sínum kosti; nú væri af slíkum hlutum í skyldasta kyni at vita hið sanna um landabygðir, ok at reka fornar ættartölur frá þeim mönnum, er þann fjórðúng hafa byggt, *í stað þess frá síðara* [ *E; frá fyrra* [ *v. í C.* [2]) Eysteinn, *C.* [3]) or Rostu, *C;* orrostu, *hin.* [4]) norðr, *I, Sk.* [5]) Hrafn, *E.* [6]) Hrútafjarðardal, *E.* [7]) er orti Ófeigsvísur, *E.* [8]) helgi, *b. v. C.* [9]) Einarssonar, *Sk.;* Einarssonar, *í stað þess frá* [ *E.* [10]) hans son, *í stað þess frá fyrra* [ *I.* [11]) *frá fyrra* [ *v. í C.*

Skútaðar-Skeggi[1] hèt maðr ágætr í Noregi; son hans var Björn[2], er kallaðr var Skinna-Björn, þvíat hann var Hólmgarðsfari; ok er honum leiddust kaupferðir, fór hann til Íslands, ok nam Miðfjörð ok Línakradal; hans son var Miðfjarðar-Skeggi, hann var[3] garpr mikill ok farmaðr[4]; hann herjaði í Austrveg, ok lá í Danmörk við Sjóland, er hann fór austan; þar gekk hann upp, ok brauzt í haug Hrólfs konúngs kraka, ok tók hann þar or Sköfnúng, sverð Hrólfs konúngs, ok öxi Hjalta, ok mikit fè annat, en hann náði eigi [Laufa, þvíat[5] Böðvarr vildi at honum, en Hrólfr konúngr varði. Skeggi fór til Íslands síðan, ok bjó at Reykjum í Miðfirði. Börn Skeggja voru þau Eyðr, [er átti Hafþóru, dóttur Þorbergs kornamúla ok Álöfar Elliðaskjaldar[6], systur Þorgeirs gollnis[7]; þau áttu mörg börn. Annar son Skeggja var[8] Kollr, faðir Haldórs, föður þeirra Þórdísar, er Skáldhelgi átti, ok Þorkötlu. Dætr Skeggja voru þær Hroðný[9], er átti Þórðr gellir, ok Þorbjörg, er átti Ásbjörn enn auðgi Haraldarson[10]; dóttir þeirra var Ingibjörg, er átti Illugi hinn svarti; [þeirra synir: Gunnlaugr ormstúnga, Hermundr ok Ketill[11].

---

1) Skautaðar-Skeggi, *C, E.* 2) hann var farmaðr mikill ok kaupmaðr, fór opt í Austrveg, ok hafði betri skinnavöru, enn aðrir kaupmenn flestir, ok var, *b. v. E.* 3) vitr maðr ok, *b. v. E.* 4) ok vel að sèr gjörr, ok hinn mesti fullhugi, *b. v. E.* 5) brandinum Laufa af Böðvari, því hann gat eigi sveigt armleggi hans, *Sk.* 6) dóttur, *b. v. E.* 7) gellins, *B.* 8) ok, *í stað þess frá* [ *C.* 9) Hildr, *H, I.* 10) Harðarson, *C.* 11) á Gilsbakka, *í stað þess frá* [ *C*; son Eyðar einn hèt Þórhallr, faðir Eyðs, föður Þóralds, föður Oddnýjar, móður Geirlaugar, móður Snælaugar, móður Markúss á Melum, *b. v. E.*

Haraldr hríngr hèt maðr ættstórr[1]; hann kom skipi sínu í Vestrhóp, ok sat hinn fyrsta vetr þar nær, sem hann hafði lendt, ok nú heita Hríngsstaðir; hann nam Vatnsnes allt utan til Ambáttarár fur vestan, en fur austan inn til Þverár, ok þar yfir um þvert til Bjargaóss[2], ok allt þeim megin Bjarga út til sjófar, ok bjó at Hólum; hans son var Þorbrandr, faðir Ásbrands, föður Sölva ens prúða á Ægissíðu [ok Þorgeirs, er bjó at Hólum; hans dóttir var Ástríðr, er átti Arnmóðr[3] Hèðinsson; Sveinn[4] var son þeirra. [Önnur dóttir Þorgeirs var Þorgerðr[5], er átti Þorgrímr, son Pètrs frá Ósi[6].

Sóti hèt maðr, er nam Vestrhóp, ok bjó undir Sótafelli.

Lundasteinarr[7] hèt jarl á Englandi, hann átti Álöfu, dóttur Ragnars loðbrókar; þeirra börn voru þau Björn, faðir Auðunnar skökuls, ok Eiríkr, faðir Sigurðar bjóðaskalla, ok Ísgerðr, er átti Þórir jarl á Vermalandi[8]. Auðunn skökull fór til Íslands, ok nam Víðidal, ok bjó at Auðunnarstöðum; með honum kom út Þorgils gjallandi, fèlagi hans, faðir Þórarins goða. Auðunn skökull var faðir Þóru moshálს, móður Úlfhildar, móður Ástu, móður Ólafs konúngs ens helga. Son Auðunnar skökuls var Ásgeirr at Ásgeirsá; hann átti Jórunni, dóttur Ingimundar ens gamla; þeirra

---

[1]) í Noregi, *b. v. E.* [2]) Bragaóss, *B, C.* [3]) Ármóðr, *E, G, H.* [4]) Hèðinn, *B, E.* [5]) ok Þorgerðr, *í stað þess frá* [ *E.* [6]) *frá fyrra* [ *v. í C.* [7]) Lundasteinn, *G, Sk.* [8]) son Sigurðar var Víkingakári, faðir Eiríks á Ofrustöðum, ok Böðvars, ok Vigfúss, föður Ástríðar, móður Vígaglúms. Dóttir Eiríks á Ofrustöðum var Ástríðr, móðir Ólafs konúngs Tryggvasonar. Dóttir Böðvars var Ólöf, móðir Gizurar ens hvíta, *b. v. E.*

börn voru þau Þorvaldr, faðir Döllu, móður Gizurar biskups, ok Auðunn, faðir Ásgeirs, föður Auðunnar, föður Egils, er átti Úlfheiði, dóttur Eyjólfs Guðmundarsonar, ok var þeirra son Eyjólfr, er veginn var á alþíngi, faðir Orms, kapelláns[1] Þorláks biskups ens helga. Annar son Auðunnar skökuls var Eysteinn, faðir Þorsteins, föður Helga, föður Þórorms[2], föður Odds, föður Hallbjarnar, föður Sigvats prests. Dóttir Ásgeirs at Ásgeirsá var Þorbjörg bæjarbót[3].

Ormr hèt maðr, er nam Ormsdal, ok bjó þar; hann var faðir Odds, föður Þórodds[4], föður Helga[5], [föður Harra[6], föður Jóru, móður Þórdísar, móður Tanna, [föður Skapta[6].

2. Ketill raumr[7] hèt hersir ágætr í Raumsdal í Noregi; [hann var son Orms skeljamola Hrossbjarnarsonar, [Raumssonar, Jötunbjarnarsonar[8] norðan or Noregi[9]. Ketill átti Mjöll[10], dóttur Ánar bogsveigis; Þorsteinn hèt son þeirra; hann vo á skóginum til Upplanda, af eggjun föður síns, Jökul, son Íngimundar jarls af Gautlandi[11]; Jökull gaf honum líf; síðan fèkk Þorsteinn Þórdísar, systur hans; þeirra son var Íngimundr hinn gamli, hann var fæddr í Hefni [með Þóri, föður Gríms ok Hrómundar[12]. Heiðr völva spáði þeim öllum at byggja á því landi, er þá var úfundit vestr í haf; Íngimundr[13]

1) capalins, *hin.* 2) Þórarins, *E, G, H, Sk.* 3) bekkjarbót, *B.* 4) Þorvalds, *C.* 5) Háreks, *E.* 6) *þannig A, B, C;* Haka, *hin; frá báðum* [ *v. í E.* 7) Þrymr, *B.* 8) *frá síðara* [ *v. í E.* 9) *frá fyrra* [ *v. í C.* 10) Moldu, *C.* 11) ok Vigdísar, *b. v. C, Sk.* 12) á Hálogalandi með Ingjaldi, föður þeirra Gríms hins hvíta Háleyska, ok Hrómundar í Þverárhlið, *E.* 13) Íngimundi þótti þat reiðimál, ok, *b. v. E.*

kveðst við því skyldu gera; völvan sagði þat eigi mundu mega, ok kvað þat til jarteigna, at þá mundi lutr horfinn or pússi hans, ok kvað hann þá mundu finna, er hann græfi fur öndvegissúlum sínum á landinu. Íngimundr var víkíngr mikill, ok herjaði í Vestrvíkíng jafnan; Sæmundr hèt fèlagi hans Suðreyskr. Þeir kvâmu or hernaði í þann tíma er Haraldr konúngr gekk til lands (í Noregi), ok lagði til orrustu í Hafrsfirði við þá Þóri hakláng. Íngimundr vildi veita konúngi, en Sæmundr eigi, ok skildi þar[1] fèlag þeirra. Eptir orrustuna gipti Haraldr konúngr Íngimundi Vigdísi, dóttur Þóris jarls þegjanda; þau Jörundr háls voru frillubörn hans. Íngimundr undi hvörgi, því fýsti Haraldr konúngr hann at leita forlaga sinna til Íslands; en Íngimundr lèzt þat eigi ætlat hafa, en þó sendi hann þá Finna tvo í hamförum til Íslands eptir hlut sínum, þat var Freyr, ok gjörr af silfri. Finnarnir kvâmu aptr, ok höfðu fundit lutinn, ok náð eigi, vísuðu þeir Íngimundi til í dal einum millum holta tveggja[2], ok sögðu honum allt landsleg, hversu háttat var, þar er hann skyldi byggja. Eptir þat byrjar Íngimundr för sína til Íslands, ok með honum Jörundr háls[3], mágr hans, ok Eyvindr sörkvir, ok Ásmundr, ok[4] Hvati, vinir hans, ok þrælar hans: Friðmundr ok Böðvarr, Þórir refskegg[5] ok Úlfkell. Þeir tóku Grímsárós[6] fur sunnan land[7], ok voru allir um vetr-

[1]) þat, *E.* [2]) þriggja, *C.* [3]) Hallsson, *E eptir Landn.* [4]) hinn, *C.* [5]) rofskegg, *C.* [6]) *v. í B.* [7]) hann kvâm skipi sínu í Leyruvog, *b. v. E eptir Landn.*

inn á Hvanneyri með Grími, fóstbróður Íngimundar; en um vorit[1] fóru þeir norðr um heiðar. Þeir kvâmu í fjörð þann, er þeir fundu hrúta tvo, þat kölluðu þeir Hrútafjörð; síðan fóru þeir norðr um hèruð, ok gáfu víða örnefni. [Hann var um vetr í Víðidal í Íngimundarholti[2]; þeir sáu þaðan fjöll snælaus í landsuðr[3], ok fóru þángat um vorit; þar kèndi Íngimundr lönd þau, er honum var tilvísat; [Þórdís, dóttir hans, var alin í Þórdísarholti[4]. Íngimundr nam Vatnsdal allan upp frá Helgavatni [ok Urðarvatni[5] fur austan[6]; hann bjó at Hofi[7], ok fann hlut sinn, þá er hann gróf fur öndvegissúlum sínum. Þorsteinn var son þeirra Vigdísar, ok Jökull, ok Þórir hafrsþjó, ok Högni. Smiðr hèt ambáttar son ok Íngimundar, en dætr hans Jórunn ok Þórdís.

3. Jörundr háls[8] nam út frá Urðarvatni til Mógilslækjar, ok bjó at Grund undir Jörundarfelli; hans son var Már á Mársstöðum[9]. [Hvati nam út frá Mógilslæk til Giljár, ok bjó á Hvatastöðum[10]. Ásmundr nam út frá Helgavatni um Þíngeyrasveit, ok bjó undir Gnúpi. Friðmundr nam Forsæludal. Eyvindr sörkvir nam Blöndu-

---

1) fór hann at leita sèr bústaðar þess, er honum var tilvísat, *b. v. E.* 2) At vetri kom Ingimundr í dal þann, er var viði vaxinn, ok kallaði þat Viðidal, ok var þar annann vetr, ok gjörði sèr þar skála, er nú heitir Ingimundarholt, *í stað þess frá* [ *E.* 3) er þar var hríð mikil, *b. v. E.* 4) en er þau komu at Vatnsenda, þá var Vigdis lèttari at mey, er Þórdis var nefnd, ok heitir þar Þórdisarholt síðan, *í stað þess frá* [ *E.* 5) Eiðarvatn, *G.* 6) en Þormóðslækr fellr or vatninu í einn foss, lækr fellr austan í Urðarvatn, *í stað þess frá* [ *E.* 7) ok reisti þar hof hundrað fóta lángt, *b. v. E.* 8) *v. í B*; son Þóris þegjanda jarls, mágr Ingimundar, *b. v. E.* 9) faðir Höllu, m. Vigdisar, m. Sveinbjarnar, f. Þorsteins, f. Bótólfs, f. Þórdisar, m. Helgu, m. Þórðar, f. Markúss á Melum, *b. v. E.* 10) *frá* [ *v. í C.*

dal; hans son var Hermundr, ok Hrómundr enn halti. Íngimundr fann á vatni einu beru, ok húna tvo hvíta með henni, þat kallaði hann Húnavatn; eptir þat fór Íngimundr útan, ok gaf Haraldi konúngi dýrin, eigi höfðu menn í Noregi fyrr sèt hvítabjörn; þá gaf Haraldr konúngr Íngimundi [skipit Stíganda[1] með viðarfarmi; ok sigldi hann tveim skipum til Íslands, ok sigldi fur norðan vestr um Skaga fyrstr manna, ok hèlt upp í Húnavatn; þar heitir nú Stígandahróf hjá þíngeyrum[2]. Eptir þat var Hrafn Austmaðr með Íngimundi, ok hafði sverð gott; þat bar hann í hof; því tók Íngimundr þat af honum. Hallormr ok þórormr, bræðr, kvâmu út, ok voru með Íngimundi; þá fèkk Hallormr[3] þórdísar, dóttur [hans, ok fylgdi henni heiman Kornsárland[4]; þeirra son var þorgrímr Kornsárgoði[5]. þórormr bjó í þórormstúngu. Íngimundi hurfu svín tíu, ok fundust annat haustit í Svínadal, ok voru þá saman hundrað svína; göltr hèt Beigaðr, hann ljóp á Svínavatn, ok svam þartil er afgengu klaufirnar; hann sprakk á Beigaðarhvoli[6].

4. Hrolleifr hinn mikli ok Ljót, móðir hans, kvâmu út í Borgarfirði; þau fóru norðr um sveit-

---

1) skip, *B.* 2) hann gaf öll örnefni þar í nánd, sem nú eru, *b. v. E.* 3) Þórormr, *H, I, Sk.* 4) Karnsárland, *B, C;* Ingimundar), sem fyrr var sagt, *í stað þess frá* [ *E.* 5) Karnsárgoði, *B, C, E;* faðir Þorkels kröflu. Jórunni átti Asgeirr æðikollr; þeirra dóttir var Þorbjörg bekkjarbót. Þorkell krafla var faðir Arnórs, föður Ragneiðar, móður Orms, föður Þorleiks, föður Þorleifs beiskalda, föður Álfheiðar, móður Þorláks prests ok Ketils, föður Helgu, er Snorri átti Markússon, *b. v. E.* 6) Sauðadalr er fyrir austan Vatnsdal, ok þar liggr Svínavatn ok Beigaðarhóll, *b. v. E eptir Landn., og ennfremr sjálf þessu:* Þórólfr heljarskinn nam Forsæludal, ok gjörði virki þar sem mættust Friðmundará ok Vatnsdalsá; hann blótaði mönnum.

ir, ok fengu engan ráðstafa, áðr þau kvâmu í Skagafjörð til Sæmundar; Hrolleifr var son Arnalds, bróður[1] Sæmundar; því vísaði hann þeim norðr á Höfðaströnd til Þórðar, en hann fèkk honum land í Hrolleifsdal, ok bjó hann þar. Hrolleifr fífldi[2] Hroðnýju, dóttur Una or Unadal[3]; Oddr Unason sat fur honum, ok vo Ljót, systrúng hans, en særði hann á fæti, þvíat kyrtil hans bitu eigi járn. Hrolleifr vó Odd ok tvó menn aðra, en tveir komust undan. Fur þat gerði Höfða-Þórðr þau hèraðssek, svâ vítt sem [vatnföll deildu til sjófar í Skagafirði[4]. Þá sendi Sæmundr Hrolleif til Íngimundar ens gamla; Íngimundr setti hann niðr í Oddsás gegnt Hofi; hann átti veiði í Vatnsdalsá á við Íngimund, ok skyldi hann gánga or á fur Hofsmönnum, en hann vildi eigi or gánga fur sonum Íngimundar, ok börðust þeir um ána. Þá var sagt Íngimundi, ok var hann þá blindr, ok lèt hann smalasvein leiða undir sèr hestinn á ána millim þeirra; Hrolleifr skaut spjóti gegnum hann; [þeir fóru þá heim[5]. Íngimundr sendi sveininn at segja Hrolleifi, en hann var dauðr í öndvegi þá er synir hans kvâmu heim. Hrolleifr sagði móður sinni; hún kvað þá reyna mundu hvârt meira mætti, gipta Íngimundarsona, eða kunnosta hennar, ok bað hann þá fyrst í brott fara. Þorsteinn skyldi reyna[6] eptir Hrolleifi, ok hafa kostgrip af arfi; eigi settust þeir í öndvegi[7] föður síns. Íngimundarsynir fóru norðr til Geirmundar[8], ok (gaf)

[1]) bróðir, *G, I, Sk.* [2]) fylgdi, *Sk.* [3]) Unaðsdal, *C.* [4]) vötn fèllu til Skagafjarðar, *C.* [5]) hann fór þá heim, ok lèt eigi á merkja, *H á spáz.* [6]) renna, *Sk.* [7]) hásæti, *B.* [8]) Sæmundar, *C, H, Sk.*

þorsteinn hohum sextígi silfrs til, at hann skyti Hrolleifi á brott; þeir röktu spor hans norðan[1] um hálsa til Vatnsdals. þorsteinn sendi húskarl sinn í Ás á njósn; hann kvað kveðnar tólf vísur áðr til dura var gengit, ok sá fatahrúgu á bröndum, ok kom undan rautt klæði; þorsteinn kvað þat verit hafa Hrolleif: ok mun Ljót hafa blótat til lánglífis honum. þeir fóru í Ás, ok vildi þorsteinn sitja yfir dyrum, ok náði því eigi fur Jökli, þvíat hann vildi þar vera. Maðr gekk út ok sást um; þá leiddi annar Hrolleif eptir sèr. Jökull brást við, ok feldi ofan skíðahlaða, en gat þó kastat kefli til bræðra sinna; hann rèð á Hrolleif, ok ultu þeir báðir ofan fur brekkuna, ok varð Jökull efri; þá kom þorsteinn at, ok neyttu þeir þá vâpna. þá var Ljót út komin, ok gekk öfug, hún hafði höfuðit milli fóta sèr, en klæðin á baki sèr. Jökull hjó höfuð af Hrolleifi, ok rak í andlit Ljótu; þá kvaðst hún ofsein vorðit hafa: nú mundi umsnúast jörðin fur sjónum mínum, en þèr munduð allir ærzt hafa. Eptir þat kaus þorsteinn Hofs-land, en Jökull hafði sverðit, ok bjó í Túngu. þórir hafði goðorð, ok bjó at Undirfelli[2], ok gekk berserksgáng. Högni hafði Stíganda, ok var farmaðr. Smiðr bjó á Smiðsstöðum. þorsteinn átti þuríði[3] gyðju, dóttur Sölmundar í Ásbjarnarnesi; þeirra son var Íngólfr hinn fagri ok Guðbrandr. Jökull var son Bárðar Jökulssonar, er Ólafr konúngr hinn helgi lèt drepa; þat sagði Jökull stigamaðr, at lengi

[1]) norðr, *Sk.* [2]) *þannig Sk;* Undunfelli, *B, C;* Undinfelli, *A og hin.* [3]) þórdisi, *E.*

mundu glápvíg[1] haldast í ætt þeirri. [Þorgrímr Kornsárgoði var faðir Þorkels kröflu[2].

[1]) glæpvig, *E.* [2]) *frá* [ *o. í B, en E hefir í stað þess þat fylgjanda:* Þorgrímr bjó á Hjallalandi. Þeir synir Ingimundar ok Jörundarsynir börðust um Hjallaland, ok fèll þar Högni, ok leysingi Þorsteins, en úr Márs liði dóttursson Jörundar ok fimm menn aðrir; Jökull hjó Þorgrím á þjó, ok flýðu á braut. Már galdt áttatigi silfrs, ok hafði Hjalla. Þeir Þorsteinn ok Jökull drápu Þórólf heljarskinn ok tvo menn aðra.

Þórólfr sleggja bjó á Sleggjustöðum upp frá Helgavatni; hann elti á kaf Hallvarð Austmann Þorsteins í fen fyri þeim bræðrum, ok banaði þeim báðum. Bergr inn rakki (var) systurson Finnboga hins ramma frá Borg; Þorgrímr fèkk dóttur Skíða af Skíðastöðum í Vatnsdal; þar sló Jökull Berg með sverðshjöltum at brúðlaupi; fyri því skyldi Þorsteinn gánga undir jarðarmen þrjú á Húnavatnsþingi, ok vildi eigi; þá skoraði Finnbogi á Þorstein til hólmgaungu, en Bergr á Jökul. Faxa-Brandr bjó fyrir ofan Hóla, hann fór til hólms með þeim Þorsteini í Víðidalsey; þar reisti Jökull níð Finnboga. Gró ok Þórey kvámu út; Gró bjó á Gróustöðum hjá Hofi; Þórey bjó í Vestrhópi at Þóreyjargnúpi; þá gjörði Gró haustboð Þorsteini ok þeim bræðrum; Þorstein dreymdi þrisvar, at hann skyldi eigi fara; þá hleypti Gró skriðu á þá menn alla, er þar voru, af fjölkýngi. Þá hèt Þorsteinn á þann, sem sólina skapaði, at berserkjagángr hyrfi af Þóri, at hann fæddi upp Þorkel kröflu frá Karnsá, ok komst svá at goðorði. Ingólfr orti um Valgerði Ottarsdóttur mansaungsdrápu; þá sótti Ottarr Ingólf, ok ónýttist þat; þá andaðist Þórir, en Ottarr rèðst á braut. Guðbrandr bjó á Guðbrandsstöðum. Þórir varð sekr um konu; hann var flugumaðr til Ingólfs, at ráði Ottars; hann ljóp til Guðbrands, en Guðbrandr vá hann; þá vildu þeir gjöra til Ottars, ok náðu ei; Ottarr galdt fimm hundruð silfrs; en Svartr kom út á Myndakseyri úr Suðreyjum brotnu skipi; hann var flugumaðr; hestar voru í dýngju; Ingólfr varaðist; Guðbrandi (vann hann bana) meðal sels ok vetrarhúsa, þar lá ok Svartr eptir á Svartsmýri; þá galdt Ottarr þrjú hundruð silfrs. Þá fèkk Ingólfr Hildar Ólafsdóttur frá Haukagili. Ingólfr vá tvo menn í einu höggi af Hellismönnum í seli í Miklagili, ok vá þrjá menn aðra; þar fèll förunautr hans, en hann varð sárr mjök, ok dó litlu síðar.

Þorgils gjallandi bjó at Svínavatni, er út kvám með Auðunni skökli; hans synir voru þeir Digrormr, er vógu Skarphèðin Vefreðarson á Vatnsskarði, ok Þorkell; Glæðir var bróðurson hans, en systurson Guðmundar ens ríka. Þorkell vá Þorkel frá Helgavatni á manna fundi at Karnsá, ellifu vetra gamall; síðan fór Þorkell utan, ok var með Sigurði Hlöðverssyni. Þorkell Þorgilsson fèkk Hildar, dóttur Þórorms frá Þórormstúngu; at því brúðlaupi vá Þorkell Glæði; Hildr Hermundardóttir Eyvindarsonar fylgdi honum; hann falst í Kröfluhelli

5. Eyvindr auðkúla hèt maðr, hann nam Svínadal, ok bjó á Auðkúlustöðum[1]; [en þorgils gjallandi bjó at Svínavatni, er útkom með Auðunni skökli; hans synir voru þeir Digrormr, er vógu Skarphèðin Vefreiðarson í Vatnsskarði[2].

þorbjörn kolkan hèt maðr; hann nam Kolkumýrar, ok bjó þar meðan hann lifði.

[Eyvindr sörkvir nam Blöndudal; hans son var Hrómundr enn halti, er vo Högna Íngimundarson, þá er þeir Már ok Íngimundarsynir börðust um Deildarhjalla, því var hann gjörr or Norðlendínga fjórðúngi; hans synir voru þeir þorbjörn ok Hásteinn, er börðust við Slettu-Helga í Hrútafirði. Annar son Eyvindar sörkvis var Hermundr, faðir Hildar, er átti Ávaldí Íngjaldsson; þeirra börn voru þau Kolfinna, er átti Grís Semíngsson, ok Brandr, er vo Galta Óttarsson á Húnavatnsþíngi fur níð Hallfreðar[3].

Ævarr[4] hèt maðr, son Ketils helluflaga, ok þuríðar[5], dóttur Haralds konúngs gullskeggs or

---

undir forsi í Vatnsdalsá. Þórdís spákona rèð ráð til, at Þorkell skyldi ljósta sprota hennar í höfuð Guðmundi at dómi, er Hegnöðr hèt, ok mundi hann þá ekki at mæla, en tóku tvö hundruð silfrs. Þá tók Þorkell við Hofs-landi ok goðorði, ok hafði meðan hann lifði; hann fèkk Vigdísar, dóttur Ólafs frá Haukagili. Í þann tíma kom út Friðrekr biskup með Þorvaldi Koðránssyni, ok var at Giljá með þeim Ormi Koðránssyni, feðgum. Biskup var at haustboði at Ólafs, ok vígði biskup þar elda; þar voru ok berserkir tveir, ok hèt Haukr hvorutveggi; þeir váðu eldinn, ok brunnu báðir, ok heitir þar síðan Haukagil. Þá tók Þorkell skírn ok allir Vatnsdælar; hann lèt kyrkju gjöra at Hofi, ok veitti þar gröft öllum þíngmönnum sínum.

Skeggj-Ávaldr bjó at Eyju, ok átti Hildi Hermundardóttur; þeirra dóttir var Kolfinna, er átti Grímr Semíngsson; Hermundr vá Galta á leið fyri níð Hallfreðar.

1) Rauðkúlustöðum, *C.* 2) *frá* [ *v. í E.* 3) *Innihald þess frá* [ *er á spáz. í E.* 4) Evarr, *H, I, Sk, alstaðar.* 5) Þórdísar, *A-J.*

Sogni. Synir Ævars voru þeir Vefreiðr[1], skírgetinn, Karli, þorbjörn strúgr[2], ok þórðr mikill. Ævarr fór til Íslands or víkíngu, ok synir hans þessir laungetnu, en Vefreiðr var eptir í víkíngu; með honum fór út Gunnsteinn, frændi hans, ok Auðólfr ok Gautr. Ævarr kom skipi sínu í Blönduós; þá voru numin lönd fur vestan Blöndu. Ævarr fór upp með Blöndu at leita sèr landa, ok kom þar, sem heita Móbergsbrekkur; þar setti hann niðr staung háfa, ok kvaðst þar taka Vefreiði, syni sínum, bústað; síðan nam hann Lángadal allan upp þaðan[3], ok svå þar fur norðan háls; þar skipti hann löndum með skipverjum sínum. Ævarr bjó[4] í Ævarsskarði. Vefreiðr kom út síðar í Gaunguskarðsárósi, ok gekk norðan[5] til föður síns, ok kendi Ævarr hann eigi; þeir glímdu, svå at uppgengu stokkar allir í húsinu, áðr Vefreiðr sagði til sín; hann gerði bú at Móbergi, sem ætlat var, en þorbjörn strúgr at Strúgsstöðum, en Gunnsteinn at Gunnsteinsstöðum, Karli á Karlastöðum, þórðr á Mikilsstöðum, Auðólfr á Auðólfsstöðum; Gautr bygði Gautsdal, hann var einhendr. þeir Eyvindr sörkvir fóru sèr sjálfir, ok vildu eigi lifa eptir Ingimund hinn gamla. Haukr bjó þar, sem Haukstaðir[6] heita. Vefreiðr átti Gunnhildi, dóttur Eiríks or Goðdölum, systur Hólmgaungustarra; þeirra synir voru þeir Úlfhèðinn, er þeir þjóstólfr [ok þrjótólfr[7] vógu við Grindalæk, ok Skarp-

---

[1]) Vefreyr, *B.* [2]) stigr, *G, H, I;* strjúgr, *Sk*, *alstaðar.* [3]) fyrir austan Blöndu ofan til Ævarsskarðs, *b. v. E.* [4]) dó, *C.* [5]) norðr, *Sk.* [6]) Hauksgrafir, *B.* [7]) Þróttólfr, *C; v. í B.*

heðinn, er þeir Digrormr vógu í Vatnsskarði, ok Húnrauðr, faðir Márs, föður Hafliða[1].

Holti[2] hèt maðr[3], er nam Lángadal ofan frá Móbergi, ok bjó á Holtastöðum; hann var faðir Ísrauðar, föður Ísleifs, föður Þorvalds, föður Þórarins hins spaka[4]. Dóttir Þorvalds var Þórdís, er átti Haldórr, son Snorra goða; þeirra dætr voru þær Þorkatla, er átti Guðlögr Þorfinnsson í Straumfirði; þaðan eru Sturlúngar komnir ok Oddaverjar; önnur var Guðrún, er átti Kjartan Ásgeirsson or Vatnsfirði; þeirra börn Þorvaldr, ok Íngiríðr, er Guðlögr prestr átti[5].

Hólmgaungu-Máni hèt maðr, er nam Skagaströnd fur vestan inn til Fossár, en fur austan til Mánaþúfu, ok bjó í Mánavík; hans dóttur átti Þorbrandr í Dölum, faðir Mána, föður Kálfs skálds.

6. Eylifr örn hèt maðr, son Atla Skíðasonar ens gamla, Bárðarsonar [í Ál[6]. Eylifr nam land inn frá Mánaþúfu til Gaunguskarðsár, ok Laxárdal, ok bjó þar; hann átti Þórlaugu, dóttur Sæmundar or Hlíð[7]; þeirra synir voru þeir Söl-

1) Haldóra hèt dóttir Húnrauðar, móðir Vigdísar, móður Úlfheðins, föður Rafns, föður Hallberu, móður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum, *b. v. E.* 2) Galti, *E* *ó spáz. eptir Landn.* 3) son Ísrauðar, *b. v. E.* 4) ráðgjafa Vigabarða, *b. v., A, E á spáz.* 5) Fóstólfr ok Þjóstólfr bjuggu í Engihlíð í Lángadal; þeir tóku við sekum manni, þeim er Þorgrímr hèt; þann vógu þeir Húnrauðr ok Þorólfr leikgoði á Kili. Eptir þat vógu þeir Fóstólfr ok Þjóstólfr Úlfheðin, bróður Húnrauðar, hjá Grindalæk; þeir bjuggu þá í Holti; en Finnr Jörundsson á Breiðabólstað í Vestrhópi, frændi Fóstólfs, barg þeim; en Þorkell krafla kom þeim utan. Úlfheðinn leyndi sári sínu, ok bað eigi til hefnda at leita, kvað engum þat auðit mundi verða. Síðan vógu þeir Fóstólfr austr í Noregi Skúm, leysingja Húnrauðar, vellauðigan at fè, en sendu allt fèit út Húnrauði, ok þá sættust þeir heilum sættum, *b. v. E.* 6) jarls, *E.* 7) Sæmundarhlíð, *E.*

mundr, faðir Guðmundar, föður Vígabarða ok bræðra hans; annar var Atli hinn rammi, er átti Herdísi, dóttur Þórðar frá Höfða; þeirra börn voru þau: Þórlaug, er átti Guðmundr hinn ríki[1], ok Þórarinn, er átti Höllu, dóttur Jörundar háls; þeirra son var Styrbjörn, er átti Yngvildi, dóttur Steinröðar Hèðinssonar frá Hèðinshöfða; þeirra dóttir Arndís, er átti Hamall Þormóðarson, Þorkelssonar mána. Son Eylífs arnar var Koðrán at Giljá[2], faðir Þorvalds víðförla, ok Þjóðólfr goði at Hofi á Skagaströnd, ok Eysteinn, faðir Þorvalds tinteins, [ok Þorsteins Heiðmennings, ok Arnar í Fljótum[3].

Sæmundr enn Suðreyski, fèlagi Íngimundar ens gamla, sem ritat er, hann kom skipi sínu í Gaunguskarðsárós. Sæmundr nam Sæmundarhlíð alla til Vatnsskarðs fur ofan Sæmundarlæk, ok bjó á Sæmundarstöðum[4]; hans son var Geirmundr, er þar bjó síðan. Dóttir Sæmundar var Reginleif, er átti Þóroddr[5] hjálmr; þeirra dóttir Hallbera, móðir Guðmundar ens ríka, föður Eyjólfs, föður Þóreyjar[6], móður Sæmundar ens fróða[7]. Arnaldr hèt annar son Sæmundar, faðir Rjúpu, er átti Þorgeirr, son Þórðar frá Höfða; þeirra son var Haldórr frá Hofi.

Skefill hèt maðr, er skipi sínu kom í Gaunguskarðsárós á hinni sömu viku ok Sæmundr; en meðan Sæmundr fór eldi um landnám sitt, þá

---

1) faðir Eyjólfs halta, föður Þorsteins, föður Guðmundar gás, föður Eyjólfs, föður Guðlaugar, móður Ketils prests, föður Helgu, er átti Snorri Markússon á Melum, *b. v. E.* 2) Gili, *Sk.* 3) *frá* [ *v. í C.* 4) Geirmundarstöðum, *C, E.* 5) Þórólfr, *H.* 6) Þornýjar, *I, Sk.* 7) föður Lopts, föður Jóns í Odda, *b. v. E.*

nam Skefill land allt fur utan Sandá[1]; hann tók þat af landnámi Sæmundar at ólofi hans, ok lèt Sæmundr þat svá búit vera.

Álfljótr hèt maðr, hann nam Lángaholt allt fur neðan Sæmundarlæk.

Þorkell víngnir[2] [Atlason, Skíðasonar[3], hins gamla, hann nam land um Vatnsskarð allt, ok Svartárdal; hans son var Arnmóðr[4] hinn skjálgi, faðir Galta, föður Þorgeirs, [föður Styrmis, föður Halls, föður Kolfinnu[5].

Álfgeirr hèt maðr, er nam land um Álfgeirsvöllu ok upp til Mælifellsár, ok bjó at Álfgeirsvöllum.

Þórviðr hèt maðr, sá er land nam upp frá Mælifellsá til Giljár.

Hrosskell hèt maðr, er nam Svartárdal allan, ok Ýrarfells-lönd öll með ráði Eiríks, hann nam ofan til Gilhaga, ok bjó at Ýrarfelli; hann átti þræl þann, er Hrærekr[6] hèt; hann sendi hann upp eptir Mælifellsdal í landaleitan suðr á fjöll[7]; hann kom til gils þess, er suðr verðr frá Mælifellsdal[8], ok nú heitir Hrærekssgil[9]; þar sètti hann niðr staf nýbirktan[10], er þeir kölluðu landkönnut, ok eptir þat hvarf hann aptr heim.

7. Vekell[11] hèt maðr hinn hamrammi, er land nam ofan frá Giljá til Mælifellsár, ok bjó at Mælifelli, hann spurði ferð Hræreks; þá fór hann litlu

[1]) Sauðá, *B, C, E, H.* [2]) vignir, *B, I.* [3]) son Skíða, *frá* [ *B.* [4]) Arinmóðr, *E;* Ármóðr, *H, I, Sk.* [5]) föður Kolfinnu, móður Döllu, móður Gizurar biskups. Þorgeirr var ok faðir Styrmis, föður Halls, föður Kolfinnu, móður Hallberu, móður Halls, föður Þuríðar, móður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum, *í stað þess frá* [ *E.* [6]) Roðrekr, *B;* Hræðrekr, *C.* [7]) Kjöl, *C.* [8]) Mælifelli, *B.* [9]) Roðreksgil, *B.* [10]) þríbryddan, *Sk.* [11]) Ketill, *B.*

síðar suðr á fjöll í landaleitan; hann kom til hauga þeirra, er nú heita Vekelshaugar, hann skaut millum hauganna; hann hvarf þaðan aptr. En er þetta spurði Eiríkr í Goðdölum, sendi hann þræl sinn suðr á fjöll, er hèt Raunguðr, fór hann enn í landaleitan, ok kom suðr til Blöndukvísla, ok fór síðan upp með á þeirri, er fellr fur vestan Vínverjadal[1], ok vestr á hraunit milli Reykjavallar ok Kjalar, ok kom þar á manns spor, ok skildi, at þau lágu sunnan at; hann hlóð þar vörðu þá, er nú heitir Rángaðarvarða; þaðan fór hann aptr, ok gaf Eiríkr honum frelsi fur ferð sína, ok þaðan af tókust upp ferðir um fjallit millum Sunnlendíngafjórðúngs ok Norðlendínga.

Eiríkr hèt maðr ágætr, hann fór af Noregi til Íslands; hann var son Hróalds[2] Geirmundarsonar, Eiríkssonar örðigskeggja. Eiríkr nam land frá Gilá[3] um Goðdali alla ok ofan til Norðrár; hann bjó at Hofi í Goðdölum; hann átti þuríði, dóttur þórðar skeggja, systur Helgu, er Ketilbjörn hinn gamli átti at Mosfelli. Börn þeirra Eiríks voru þau þorkell ok Hróaldr, þorgeirr ok Hólmgaungustarri[4], ok Gunnildr. þorgeirr Eiríksson átti Yngvildi þorgeirsdóttur; þeirra dóttir Rannveig, er átti Bjarni Broddhelgason. [Gunnildi Eiríksdóttur átti Vefreiðr Evarsson[5].

Kráku-Hreiðarr hèt maðr, son Ófeigs lafskeggs[6], Yxnaþórissonar; þeir feðgar sigldu til Íslands; en er þeir kvâmu í landssýn gekk Hreiðarr til siglu,

1) Hvínverjadal, *H, Sk, alstaðar;* Húnverjadal, *I alstaðar.*
2) Haralds, *A-J.* 3) Giljá, *E, Sk.* 4) Hólmgaungusteinn, *I.*
5) *frá* [ *v. í C.* 6) lafskess, *B.*

ok sagðist eigi mundu kasta öndvegissúlum sínum fur borð, kveðst þat þykkja ómerkiligt at gjöra ráð sitt eptir því, kveðst heldr mundu heita á Þór, at hann vísaði honum til landa, ok sagðist þar mundu berjast til landa, ef áðr væri numit; en hann kom í Skagafjörð, ok sigldi upp á Borgarsand til brots. Hávarðr hegri kom til hans, ok bauð honum til sín, ok þar var hann um vetrinn í Hegranesi. Um vorit spurði Hávarðr, hvat hann vildi ráða sinna; en hann kveðst ætla at berjast við Sæmund [Suðreyska í Sæmundarhlíð[1] til landa; en Hávarðr latti, ok kvað þat illa gefizt hafa; bað hann fara á fund Eiríks í Goðdölum, ok taka ráð af honum: [því hann er vitrastr maðr í hèraði þessu[2]. Hreiðarr gerði svâ; en er hann fann Eirík, latti hann þessa ófriðar, ok kvað þat óhendt[3], at menn deildi, meðan svâ væri mannfátt á landinu, kveðst heldr vilja gefa honum túnguna alla niðr frá Skálamýri, ok kvað Þór hafa þángat vísat honum, ok þar hafa horft á stafn hans, þá er hann sigldi á Borgarsand, [kvað honum ærit þat landnám ok hans sonum[4]. Þenna kost þekktist Hreiðarr, ok bjó á Steinsstöðum; hann kaus at deyja í Mælifell; hans son var Ófeigr þunnskeggr, faðir Bjarnar, föður Túngu-Steins.

8. Önundr vís hèt maðr, er land nam upp frá Merkigili enn eystra dal allt fur austan; en þá er Eiríkr vildi tilfara at nema land um dalinn allan allt fur vestan, þá feldi Önundr blótspón til, at hann skyldi verða vís, hvenær Eiríkr

---

[1]) *b. v.* Sk; *v. í A og hin.* [2]) *frá* [ *v. í C.* [3]) óheyrt, *B.* [4]) *frá* [ *v. í C.*

mundi tilfara at nema dalinn, ok varð þá Önundr skjótari, ok skaut með tundrör yfir ána, ok helgaði sèr svá landit fur vestan, ok bjó millum á.

Kári hèt maðr, er nam land á millum Norðrár ok Merkigils, ok bjó í Flatatúngu; hann var kallaðr Túngu-Kári; frá honum eru Silfrstæðíngar komnir.

Þorbrandr aurrekr[1] nam upp frá Bólstaðará, Silfrastaðahlíð alla, ok Norðrárdal allan fur norðan, ok bjó á Þorbrandsstöðum, ok lèt þar gera eldhús svá mikit, at allir þeir menn, er þeim megin fóru um dalinn, skyldu þar bera klyfjar í gegnum, ok vera öllum matr heimill; við hann er kend Örreksheiði[2] upp frá Haukustöðum; hann var hinn göfgasti maðr ok enn kynstærsti.

Maðr hèt Hjálmólfr, er land nam ofan um Blönduhlíð; hans son var Þorgrímr kuggi, faðir Odds í Axlarhaga, föður Selakálfs; þaðan eru Axlhægíngar komnir.

Þórir[3] dúfunef var leysíngi Yxnaþóris, hann kom skipi sínu í Gaunguskarðsárós; þá var byggt hèrað allt fur vestan; hann fór norðr yfir Jökulsá at Landbroti, ok nam land á milli Glóðafeykisár ok Djúpár, ok bjó á Flugumýri. Í þann tíma kom út skip í Kolbeinsárósi, hlaðit kvikfè; en þeim hvarf í Brymnesskógum únghryssi eitt, en Þórir dúfunef keypti vonina, ok fann; þat var allra hrossa skjótast, ok hèt Fluga. Örn hèt maðr, hann fór landshorna á millum, hann var fjölkunnigr; hann sat fur Þóri í Vínverjadal, er

[1]) aurrek, *B*; otrekr, *C*. [2]) Eireksheiðr, *B*, *C*. [3]) Þórðr, *C*.

hann skyldi fara suðr um Kjöl, ok veðjaði við þóri, hvors þeirra hross mundi vera skjótara, þvíat hann átti allgóðan hest, ok lagði hvorr þeirra við hundrað silfrs. þeir riðu báðir suðr um Kjöl, þartil er þeir komu á skeið þat, er síðan er kallat Dúfunefsskeið; en eigi varð minni skjótleiksmunr hrossa, enn þórir kom á móti Erni á miðju skeiði. Örn undi svá illa við fèlát sitt, at hann vildi eigi lifa, ok fór upp undir fjallit, er nú heitir Arnarfell, ok týndi sèr þar sjálfr; en Fluga stóð þar eptir, þvíat hún var mjök móð. En er þórir fór af þíngi, fann hann hest föxóttan grán hjá Flugu, við þeim hafði hún fengit; undan þeim var alinn Eiðfaxi, er utan var færðr, ok varð sjö manna bani við Mjörs[1] á einum degi, ok lèzt hann þar sjálfr. Fluga týndist í feni á Flugumýri.

Kollsveinn hinn rammi hèt maðr, er land nam millum þverár ok Gljúfrár, ok bjó á Kollsveinsstöðum upp frá þverá; hann hafði blót á Hofstöðum.

9. Gunnólfr[2] hèt maðr, er nam land millum þverár ok Glóðafeykisár, ok bjó í Hvammi.

Görmr hèt hersir ágætr í Svíþjóð, hann átti þóru, dóttur Eiríks konúngs af Uppsölum; þorgils[3] hèt son þeirra; hann átti Elínu, dóttur Búrizlafs konúngs, or Görðum austan, ok Ingibjargar[4], systur Dagstyggs Risakonúngs; synir þeirra voru þeir Hergrímr, ok Hersinnr, er átti Höllu, dóttur Heðins ok Arndísar Heðinsdóttur.

---

1) Mors, *C.* 2) Sunnólfr, *B*, *G.* 3) þorgeirr, *E.* 4) Ingigerðar, *B.*

Gróa hèt dóttir Herfinns ok Höllu, hana átti Hróarr; þeirra son var Slèttubjörn. Slèttubjörn nam fyrstr land á millum Grjótár ok Deildarár, áðr þeir Kolbeinn[1] ok Hjalti kvâmu út[2], hann bjó á Slèttubjarnarstöðum; hans son var Örnólfr, er átti þórljótu, dóttur Hjalta Skálpssonar, ok Arnbjörn, er átti þórlaugu þórðardóttur frá Höfða, ok Arnoddr, er átti þórnýju, dóttur Sigmundar þorkelssonar, er Glúmr[3] vo. Arnfríðr hèt dóttir Slèttubjarnar, er Spakböðvarr átti, son Öndótts. Öndóttr kom út í Kolbeinsárósi, ok kaupir land at Slèttubirni ofan frá Hálsgröf inum eystra megin, ok út til Kolbeinsáróss, en hinum vestra veg ofan frá læk þeim, er verðr út frá Nautabúi, ok inn til Gljúfrár, ok bjó í Viðvík.

Sigmundr á Vestfold átti Íngibjörgu, dóttur Rauðs ruggu í Naumudal, systur þorsteins svörfuðar; þeirra son var Kolbeinn; hann fór til Íslands, ok nam land í millum Grjótár ok Deildarár, Kolbeinsdal ok Hjaltadal.

10. Hjalti, son þórðar skálps, kom til Íslands[4], ok nam Hjaltadal at ráði Kolbeins, ok bjó at Hofi[5]; hans synir voru þeir þorvaldr[6] ok þórðr, ágætir menn; þat hefir erfi verit ágætast á Íslandi, er þeir erfðu föður sinn; þeir buðu öllum höfðíngjum á Íslandi, ok voru þeir tólf hundruð boðsmanna, ok voru allir virðíngamenn með gjöfum brott leiddir; at því erfi færði Oddr Breiðfirðíngr drápu þá, er hann hafði ort

---

1) *þannig hin;* Kolbjörn, *A.* 2) í Kolbeinsárós, *b. v. Sk.* 3) Grimr, *C.* 4) nokkru síðar enn Kolbeinn, *b. v. E.* 5) Hólum, *E;* hjá Villingadal, *b. v. A-J.* 6) þorvarðr, *II, I, Sk.*

um Hjalta. Áðr hafði Glúmr Geirason stefnt Oddi til þorskafjarðarþíngs [um ányt[1]. þá um vorit fóru Hjaltasynir norðan skipi til Steingrímsfjarðar, ok gengu norðan um heiðina, þar sem nú er kallat Hjaltdælalaut; en er þeir gengu á þíngit, voru þeir svâ vel búnir, at menn hugðu at Æsir væri þar komnir; þar um er þetta kveðit:

Mangi hugði manna
morðkannaðar[2] annat
ísarnmeiðr, enn Æsir
almærir þar færi;
þeir[3] er á þorskafjarðar
þíng með ennitýnglum,
holt varla[4] rís, Hjalta[5]
harðfengs synir gengu.

Frá Hjaltasonum er mikil ætt komin ok göfug.

þórðr hèt maðr ágætr, hann var son Bjarnar[6] byrðusmjörs, Hróaldssonar[7] hryggs, Ásleikssonar[8], Bjarnarsonar járnsíðu, Ragnarssonar loðbrókar. þórðr fór til Íslands, ok nam Höfðaströnd í Skagafirði á millum Unadalsár ok Hrolleifsdalsár, ok bjó at Höfða. Höfða-þórðr átti Friðgerði, dóttur þóris hýmu[9], ok Friðgerðar, dóttur Kjarvals Íra konúngs; þau áttu nítján börn; Björn var son þeirra; hann átti þuríði, dóttur Refs frá Barði, ok voru þeirra börn Arnórr kerlíngarnef, ok þórdís, móðir Orms, föður þórdísar, móður Bótólfs, föður þórdísar, móður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona[10]. þorgeirr

[1]) *v. í B.* [2]) morð kannar þat, *B*; morðkannaðir, *Sk.* [3]) þá, *C.* [4]) varta, *B, C.* [5]) hjarta, *C.* [6]) Bjarkar, *E.* [7]) Hróarssonar, *E á spás.* [8]) *v. í B.* [9]) hyrnu, *B, H, Sk.* [10]) Sturlúnga, *E.*

hèt annar son þórðar; hann átti Rjúpu, dóttur Arnalds[1] Sæmundarsonar; þeirra son Haldórr at Hofi. Snorri var hinn þriði; hann átti þórhildi rjúpu, dóttur þórðar gellis; þeirra son var þórðr hesthöfði, [faðir Karlsefnis, er fann Vínland[2] hit góða, föður Snorra, föður Steinunnar, móður þorsteins ránglàts, föður Guðrúnar, móður Höllu, móður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends sterka[3]. þorvaldr holbarki[4] var hinn fjórði son þórðar; hann kom um haust eitt á þorvaldsstaði[5] í Síðu til Smiðkels[6]; þá fór hann upp til hellisins Surts, ok færði þar drápu þá, er hann hafði ort um jötuninn í hellinum; síðan fèkk hann dóttur Smiðkels, ok var þeirra dóttir Jórunn, móðir þorbrands í Skarfsnesi[7]. Bárðr var enn fimti son þórðar; hann átti þórörnu, dóttur þórodds hjálms; þeirra son var Daði[8] skáld. Söxólfr var inn sjötti son þórðar, sjöundi þorgrímr, áttundi Hróarr, níundi Knörr, tíundi þormóðr skalli, ellefti Steinn. Dætr þórðar voru þær þórlaug, er átti Arnbjörn Slèttubjarnarson; þeirra dóttir Guðlaug, er átti þorleikr Höskuldsson; þeirra son Bolli. Herdís var önnur dóttir þórðar; hana átti Atli hinn rammi; þorgríma skeiðarkinn var hin þriðja, fjórða Arnbjörg, fimta Arnleif, [sjötta Ásgerðr[9], sjöunda þuríðr, áttunda Friðgerðr í Hvammi[10].

---

1) Arnhalds, *B, E.* 2) Vindland, *C.* 3) *frá* [ *v. í B.* 4) holbarkr, *B*; helbarki, *I.* 5) Þorvarðsstaði, *B, C, H, I, Sk,* 6) ok dvaldist þar um hríð, *b. v. C.* 7) Skarfanesi, *C.* 8) Daga, *C.* 9) *frá* [ *v. í C.* 10) Son Arnórs Björnssonar, Þórðarsonar, var Eldjárn, faðir Halls, föður Ragnhildar, móður Rafns, föður Hallberu, móður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum, *b. v. E.*

Hrolleifr hinn mikli bygði í Hrolleifsdal, sem ritat er, áðr Þórðr gerði hann norðan fur víg Odds Unasonar; þá fór hann í Vatnsdal.

11. Friðleifr hèt maðr, Gauzkr at föðurætt, en Bryngerðr hèt móðir hans, ok var hún Flæmsk. Friðleifr nam Slèttuhlíð alla, ok Friðleifsdal millum Friðleifsdalsár[1] ok Stafár, ok bjó í Holti; hans son var Þjóðarr, faðir Ara ok Bryngerðar, móður Túngu-Steins[2].

Flóki, son Vilgerðar[3] Hörðakáradóttur, fór til Íslands, ok nam Flókadal millum Flókadalsár ok Reykjarhóls[4], hann bjó á Mói. Flóki átti Gró, systur Þórðar frá Höfða; þeirra son var Oddleifr stafr, er bjó á Stafshóli, ok deildi við Hjaltasonu. Dóttir Flóka var Þjóðgerðr, móðir Koðráns, föður Þjóðgerðar, móður Koðráns, föður Kárs í Vatnsdal.

Þórðr knappr hèt maðr Sygnskr[5], son[6] Bjarnar at Haugi, en annar hèt Nafarhelgi[7]; þeir fóru samskipa til Íslands, ok kvâmu til Haganess. Þórðr nam land upp frá Stíflu til Túnguár, ok bjó á Knappstöðum; hann átti Æsu, dóttur Ljótólfs goða; þeirra son var Hafr, er átti Þuríði, dóttur Þorkels or Guðdölum; þeirra son var Þórarinn[8], faðir Ófeigs.

Nafarhelgi nam land fur austan upp frá Haganesi til Flókadalsár, fur neðan Barð ok upp til Túnguár, ok bjó á Grindli[9]; hann átti Gró ena snarskygnu[10]; þeirra börn voru þau Þór-

---

1) Flókadalsár, *A-J.* 2) Túngu Oddsteins, *B.* 3) Valgerðar, *E.* 4) Reykjarholts, *G.* 5) Svenskr, *C.* 6) systurson, *C.* 7) Nafrhelgi, *E;* Nafr, *I.* 8) Hafr, *E.* 9) Grilli, *E eptir Landn.* 10) skygnu, *B, C;* Sygnsku, *E eptir Landn.*

ólfr [karlhöfði, ok annar Aron[1], er barðist á Stafshóli við Friðleif, ok Þorgerðr, er átti Geirmundr Sæmundarson, ok Úlfhildr[2], er átti Arnórr Skefilsson í Gaunguskarði; þeirra son var Þorgeirr ófláti, er vo Blótmá at Móbergi; Þórunn[3] blákinn var ein[4].

Bárðr Suðreyíngr nam land upp frá Stíflu[5] til Mjófadalsár; hans son var Hallr Mjófdælíngr[6], faðir Þuríðar, er átti Arnórr kerlíngarnef.

Brúni hinn hvíti [hèt maðr ágætr[7], son Háreks Upplendínga jarls; hann fór til Íslands af fýsi sinni, ok nam land milli Mjófadalsár ok Úlfsdala, hann bjó á Brúnastöðum; hann átti Arnóru, dóttur Þorgeirs ens óða, Ljótólfssonar goða; þeirra synir voru þeir Ketill, ok Úlfhèðinn, ok Þórðr, er Barðverjar eru frá komnir.

Úlfr víkíngr ok Ólafr bekkr fóru samskipa[8] til Íslands; Úlfr nam Úlfsdali ok bjó þar.

Ólafr bekkr var son Karls or Bjarkey af Hálogalandi, hann vo Þóri hinn svarta, ok [varð fur þat útlægr[9]. Ólafr nam alla dali fur vestan, ok Ólafsfjörð sunnan[10] til móts við Þormóð, ok bjó at Kvíabekk; hans synir voru þeir Steinmóðr[11], faðir Bjarnar, ok Grímólfr[12], ok Arnoddr, faðir Vilborgar, móður Karls hins rauða.

Þormóðr hinn rammi hèt maðr Svenskr[13], hann vo Girð, móðurföður Skjálgs á Jaðri, ok varð fur þat landflótti [fur Birni konúngi at Haugi[14];

---

1) ok Arnórr, *B í stað þess frá* [ ; Örn, *E eptir Landn.* 2) Ölhildr, *B, líka E eptir Landn.*; Álfhildr, *H, I, Sk.* 3) Þórarinn, *E.* 4) einn, *E.* 5) Stafá, *A-J.* 6) mjöðglingr, *B.* 7) *frá* [ *v. í C.* 8) samflota, *C, H, I, Sk.* 9) gjörði Björn at Haugi hann því landflótta, *í stað þess frá* [ *E.* 10) suman, *B.* 11) Steinólfr, *C.* 12) Gunnólfr, *E á spáz.* 13) *v. í B.* 14) *frá* [ *v. í B.*

hann fór til Íslands, ok kom skipi sínu í Siglufjörð, ok sigldi inn á þormóðseyri, ok kallaði af því Siglufjörð ok Siglunes; hann nam Siglufjörð allan á millim Úlfsdala [ok Hvammsdala[1], hann bjó á Siglunesi; hann deildi um Hvanndali við Ólaf bekk, ok varð seytján[2] manna bani áðr þeir sættust, en þá skyldi sitt sumar hvorr þeirra hafa. þormóðr var son Haralds víkíngs, en hann átti Arngerði, dóttur[3] Skíða [or Skíðadal[4]; þeirra synir voru þeir Arngeirr[5] hinn hvassi, ok Narfi, faðir þrándar, föður Hríseyjar-Narfa, ok Álrekr[6], er barðist í Slèttahlíð við Knör þórðarson.

Gunnólfr enn gamli, son þorbjarnar þjóts[7] or Sogni, hann vo Vegeir, föður Vebjarnar Sygnakappa, ok fór síðan til Íslands, ok nam Ólafsfjörð[8] fur austan[9] upp til Reykjaár ok út til Vomúla, ok bjó at Gunnólfsá; hann átti Grô, dóttur þorvarðs frá Urðum; þeirra synir voru þeir Steinólfr, þórir[10] ok þorgrímr[11].

12. Björn hèt maðr ágætr á Gautlandi, hann var son Hrólfs frá Áni[12]; Björn átti Hlíf, dóttur Hrólfs, Íngjaldssonar, Fróðasonar konúngs[13]; [Starkaðr hinn gamli var skáld beggja þeirra[14]; Eyvindr hèt son þeirra. Björn varð ósáttr um jörð við Sigfast[15], mág Sölvars[16] Gauta konúngs; Sigfastr gaf dóttur sína Sölvari jarli; hann hèlt[17]

1) Hvanndala, *Sk; frá [ v. í B.* 2) 16, *B;* 18, *E á spáz.;* 12, *H, I, Sk.* 3) systur, *B, E.* 4) er Skíðadalr er viðkendr, *E.* 5) Arngrímr, *E.* 6) Álfrekr, *G, H, I;* Álrekkr, *Sk.* 7) þjóta, *B.* 8) Álfossfjörð, *H, I.* 9) vestan, *B, G.* 10) Þórr, *E; v. í C.* 11) Árngrímr, *E.* 12) Ánit, *B, G, H, I, Sk.* 13) af Danmörk, *b. v. E.* 14) *frá [ v. í B, G, H; A, E, hefir þar eptir orðið:* Áni. 15) Sigvat, *hèr C.* 16) Salgarðs, *E.* 17) studdi, *E.*

jarlinn Sigfast svá fast, at hann hèlt með ofríki öllum jörðum Bjarnar. Þá seldi Björn í hönd Hlífu, konu sinni, allt sitt góts, ok Eyvindi, syni sínum, í Gautlandi, en Björn bar austan á tólf hestum silfr; síðan brendi hann Sigfast inni með þrjátígi manna næstu nótt áðr hann fór or landi; þá fór hann til Noregs [með tólfta mann[1]; hann kom vestr á Agðir í Hvíni til Gríms hersis, Kolbjarnarsonar[2] sneipis, bróður Íngjalds hins tryggva, frænda Arinbjarnar í Fjörðum, ok tók hann allvel við honum. Björn ok förunautar hans voru um vetrinn með Grími; en er áleið um vorit eina nótt, varð Björn varr við þat, at maðr stóð yfir honum með brugðit sverð, ok vildi leggja á honum; hann tók hann höndum, ok hafði sá fè tekit af Grími til höfuðs honum; eigi drap hann hann; Grímr vildi svíkja hann til fjár; því fór Björn brott til Öndótts kráku í Hvínisfirði[3] á Ögðum, hann var son Erlíngs[4] knýtis. Öndóttr[5] átti Signýju Sigvatsdóttur or Líðum or Vík austan. Björn fór í Vestrvíkíng á sumrum, en var með Öndótti um vetrum. Þá andaðist Hlíf á Gautlandi. Björn fèkk þá Helgu, systur Öndótts; þeirra son var Þrándr mjöksiglandi. Síðan kom Eyvindr austan til föður síns Bjarnar, hann var son Hlífar; hann tók við herskipum föður síns, ok þeirri yðn, er hann hafði haft, þá er honum leiddist hernaðr. Eyvindr[6] fèkk síðan á Írlandi Rafförtu, dóttur Kjarvals Íra konúngs; [hún ól svein

[1]) *frá* [ *v. í C.* [2]) Bjarnasonar, *G;* Kolbeinssonar, *Sk.* [3]) Húmi, *E.* [4]) Erlends, *G, H, I, Sk.* [5]) Öndoddr, *hèr C.* [6]) fór þá í Vestrvíking, ok, *b. v. B, og ennfremr:* hafði útgjörðir fyrir Írlandi, ok, *b. v. B, E.*

í Suðreyjum ok seldi þar til fóstrs[1]. Eyvindr var því kallaðr Austmaðr, at hann kom austan af Svíaríki vestr um haf[2]. Tveim vetrum síðar komu þau aptr til eyjanna at vitja sveinsins, ok sá þar svein, eygðan vel, ok eigi hold á, þvíat hann var sveltr[3]; þau kölluðu sveininn Helga hinn magra af því, hann var síðan fóstraðr á Írlandi. Björn andaðist at Öndótts, mágs síns, en Grímr taldi konúng eiga at taka allan arf hans, fur því at hann var útlendr, en synir hans fur vestan haf. Öndóttr hèlt fènu til handa þrándi, systursyni[4] sínum. [Helgi fæddist upp á Írlandi[5]; hann fèkk þórunnar hyrnu, dóttur Ketils flatnefs or Suðreyjum ok Yngvildar, dóttur Ketils veðrs af Hríngaríki.

Helgi hinn magri fór til Íslands með konu sína ok börn, Hrólf ok Íngjald, ok Íngunni, er átti Hámundr heljarskinn; hann fylgdi enn út Helga. En er Helgi sá land[6], gekk hann til frètta við þór, hvar hann skyldi land taka; en frèttin vísaði honum til Eyjafjarðar, ok lofaði honum hvârki at halda austr nè vestr þaðan. þá spurði Hrólfr, son hans, áðr firðinum lauk upp, ef þórr vísaði honum í Dumbshaf til vetrvistar, hvârt hann mundi [þat hafa[7] eðr eigi, [þvíat skipverjum þótti mál or hafi, er áliðit var mjök sumarit[8]. Helgi tók land fur utan Hrísey ok fur

[1]) ok fór burt síðan, *b. v. E.* [2]) ok staðfestist þar; því var hann kallaðr Eyvindr Austmaðr. Þau Ráförta áttu son þann, er Helgi hèt; hann seldu þau til fóstrs í Suðreyjar, *í stað þess frá* [ *B.* [3]) svâ at þau máttu trautt kenna hann; þá höfðu þau hann burt með sèr, *b. v. E.* [4]) sonarsyni, *C, G, H, I.* [5]) hann var fæddr á Írlandi; en er hann var roskinn geyrðist hann virðingamaðr mikill, *í stað þess frá* [ *B.* [6]) til suðrs, *b. v. E eptir Landn.* [7]) þángat halda, *E.* [8]) *frá* [ *v. í C.*

innan Svarfaðardal; hann var hinn fyrsta vetr á Hámundarstöðum; þeir fengu vetr mikinn, svâ at við sjálft var, at kvikfè þeirra mundi deyja, þat er þeir höfðu. Um vorit gekk Helgi uppá Sólarfjall, ok sá at svartara var at sjá miklu inn til fjarðarins, [er þeir kölluðu Eyjafjörð af eyjum þeim, er þar lágu úti fur[1]; eptir þat bar Helgi á skip allt þat, er hann átti, [en Hámundr bjó þar eptir[2]. Helgi lendi þá við Galtarhamar; þar skaut hann svínum tveim á land, gelti þeim, er Sölvi hèt, ok giltu; þau fundust þrem vetrum síðar í Sölvadal, ok voru þá saman sjötígi svína. Þann vetr bjó Helgi at Bíllsá[3]; en um sumarit kannaði hann hèrað allt, ok nam alla Eyjafjörðu millím Sigluness ok Reynísness, ok gerði eld mikinn við hvern vatnsós[4] við sjó, ok helgaði sèr svâ allan fjörð nesja í millum; [en um vorit færði Helgi bú sitt[5] í Kristnes, ok bjó þar til dauðadags. Helgi trúði á Krist, ok [kendi því við hann bæ sinn[6], var þó mjök blandinn í trúnni; hann trúði á Krist, en þó hèt hann á Þór til sæfara ok harðræða, ok alls þess, er honum þótti mestu varða. Í búfærslu Helga varð Þórunn hyrna lèttari í Þórunnarey í Eyjafjarðar[7]-kvíslum, ok var þá fædd Þorbjörg Hólmasól. Síðan skipti Helgi landi með sonum sínum ok mágum, ok tóku menn þá at byggja í hans landnámi at hans ráði[8].

---

1) *frá [ v. í C.* 2) *frá [ v. í C.* 3) Billiá, *B*; Gilsá, *I*; Bildsá, *Sk.* 4) árós, *H.* 5) einum vetri síðar, *í stað þess frá [ C.* 6) *frá [ v. í C.* 7) Eyjafjarðará, *B*; Eyjafjarðarárkvíslum, *C, E.* 8) *Hèr hefir C 5tu grein 16da kap.; Kh og Sk hafa hana af vangá á báðum stöðum; í þessum kapít. er frásögnin styttri, en þó sama innihalds í B.*

13. Maðr hèt þorsteinn svarfaðr, [son Rauðs ruggu í Naumudal[1]; hann átti Hildi dóttur þráins svartaþurs[2]. þorsteinn fór til Íslands, ok nam Svarfaðardal at ráði Helga; börn hans voru þau Karl enn rauði, er bjó at Karlsá[3], ok Guðrún, er átti Hafþórr víkíngr; þeirra börn voru þau Klaufi[4], ok Gróa, er átti Grís[5] gleðill. Atli illíngr[6] hèt maðr; hann drap Hafþór, en setti Karl í járn hinn rauða; þá kom Klaufi á óvart ok drap Atla, en tók Karl or járni. Klaufi átti Ýngvildi rauðkinn, dóttur Ásgeirs rauðfeldar, systur þeirra Ólafs völubrjóts [ok þorleifs skálds[7]; fur þeim hjó hann jafna[8]-belg[9], er þeir tóku í landi hans; þá kvað þorleifr þetta:

Belg hjó fur mèr
Böggver[10] snöggvan,
en fur Ólafi
ál ok verju;
svå skal verða,
ef vèr lifum,
við böl búinn
Böggver höggvinn[11].

þar af gerist Svarfdælasaga.

Karl hèt maðr[12], er nam Strönd alla út[13] frå Upsum til Mígandi.

Hámundr heljarskinn, [son Hjörs konúngs[14], eignaðist Gálmaströnd[15] alla, ok á milli Svarfaðardals [ok Hörgárdals[16], ok bjó þar sem Helgi hafði

1) *frá* [ *v. í C.* 2) svartaþjórs, *E*; svarta, *I.* 3) Kársá, *C.* 4) böggnir, *b. v. E.* 5) Gisl, *E eptir Landn.* 6) illvigr, *E.* 7) *frá* [ *v. í B.* 8) jamna, *C.* 9) bagga, *E.* 10) Böggnir, *E alstaðar.* 11) höggvum, *G, Sk.* 12) Steinrauðarson, *b. v. E.* 13) upp, *Sk.* 14) *frá* [ *v. í C.* 15) Gamlaströnd, *C.* 16) *v. í H, I, Sk.*

fyrst búit, ok nú heitir síðan á Hámundarstöðum. Hámundr gaf Erni, frænda sínum, er numit hafði Arnarfjörð fyrr, lönd þau, er voru fur utan Reistará; Örn bjó í Arnarnesi; en Hámundr seldi Þorvaldi þær jarðir allar, er liggja á milli Reistarár ok Hörgárdalsár; við hann er Þorvaldsdalr kendr, þar bjó hann. Helgi hinn magri gaf þá Hámundi jarðir á millim Merkigils ok Skjálgsdalsár, ok bjó hann á Espihóli; Þórir var son hans, er þar bjó, faðir Þorvalds króks, föður Ketils, föður Einars, föður Þorsteins tángláts, föður Guðrúnar, móður Höllu, móður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends, föður herra[1] Hauks lögmanns[1]. Þórunn[2] hèt dóttir Arnar, or Arnarnesi, er átti Ásgeirr rauðfeldr, son Herjólfs þess, er nam Breiðdal. Ásgeirr var bróðir Böðmóðs gerpis[3], Grímólfssonar af Ögðum. Móðir þeirra Ásgeirs var Hjálmgerðr, systir þeirra Brodds[4] ok Boga. Narfi hèt enn son Arnar or Arnarnesi; hann átti Úlfeiði[5] Íngjaldsdóttur[6], Helgasonar ens magra; við hann eru Nárfasker kend; þeirra son Ásbrandr, faðir Hellunarfa; [bróðir Ásbrands, son Narfa, var ok Eyjólfr, faðir Þorvalds[7] í Haga, ok Helgi, faðir Gríms á Kálfskinni[8].

1) *v. í C.* 2) Iðunn, *B.* 3) gervis, *C;* greipis, *I.* 4) *þannig Sk;* Broz, *C;* Brotz, *A og hin.* 5) Ulfhildi, *A-J.* 6) or Gnúpufelli, *b. v. B, E.* 7) Þorkels, *B.* 8) *Í þessari grein er öll frásögnin styttri í B; frá [ v. í C; E bætir hèr við þessu:* er átti Helgu Þórðardóttur frá Stokkahlöðum, Rafnssonar. Þorvaldr úr Haga myrði Grím, bræðrúng sinn; þá sök sókti Einarr Eyjólfsson á Vöðlaþingi, en Vigaglúmr varði, ok Már, son hans, stjúpfaðir Þorvalds, er átti Haldóru Skapböðvarsdóttur, ok bjó þá í Hrísey; í þeirri deild stökk Glúmr af þinginu fyri mel ofan, allt at sjó; um þat orti Einarr;

Gálmarr[1] hèt maðr, er nam Gálmansströnd[2] á millum Þorvaldsdalsár ok Reistarár; hans son var [Þorvaldr, faðir Orms, föður Bárnaþórodds[3], föður Þórunnar, móður Dýrfinnu, móður Þorsteins smiðs Skeggjasonar. Þorvaldi gaf Hámundr[4] land millum Reistarár ok Hörgár, en hann hafði áðr búit í Þorvaldsdal[5].

Geirleifr[6] hèt maðr, er[7] nam Hörgárdal upp til Myrkár, hann var Hrappsson, ok bjó í Haganum forna; hans son var Björn hinn auðgi, er Auðbrekkumenn eru frá komnir.

14. Maðr hèt Þórðr slítandi, hann nam Hörgárdal upp frá Myrká, ok ofan til Dránga öðrumegin; hans son var Örnólfr, er átti Yngvöldi allrasystur; þeirra synir voru þeir Þórðr ok Þorvarðr[8] í Kristnesi, ok Steingrímr at Kroppi[9].

---

Þreyngvir varð á þingi
þremjalins at renna,
varat í ála èli
auðlattr, fyri mel brattan;
þá er mástèttar mättið
Mæfils við þröm sæfar
geiranjótr á grjóti
Gestils klauf of festa.

En Einarr stóð eptir ok lið hans; þá kvað Glúmr vísu:

Lattist herr með höttu (hætti)
Hángatýrs at gánga,
þóttist þeim-at hætta
þekkiligt fyri brekku;
þá er dynfúsar dýsir
dreyra márs á eyri,
bráð vóx borginmóða
blóð, skjaldaðir stóðum.

Glúmr skaut í hönd Einari; en Einarr skaut til bana Grím, bróður Haldóru, er Glúmr átti; en Þorvaldr varð sekr á þinginu.

1) Gálmr, *B, C, E, G, I.* 2) Gálmarsströnd, *E, Sk.* 3) Ormr, faðir Þorvalds, föður Bjarna, föður Þórodds, *C.* 4) Helgi, *C.* 5) sem fyrr er ritat, *b. v. E.* 6) Gunnleifr, *A-J.* 7) fór af Sjónafirði til Íslands ok, *b. v. E.* 8) Þorvaldr, *H, I, Sk.* 9) er Vemundr kögr lèt ljósta með sauðarhöfði, ok

þórðr slítandi gaf þorgeiri[1] skálm, frænda sínum, af landnámi sínu; [hans son var þórólfr[2] hinn sterki, er bjó á Myrká[3].

þórir þussasprengr[4] hèt maðr, hann var fæddr í Ömd á Hálogalandi, ok varð [missáttr við Hákon jarl Grjótgarðsson[5], ok fór af því til Íslands; hann nam Yxnadal allan ok bjó á Vatnsá; hans son var Steinrauðr enn rammi, er mörgum manni vann bót, þeim er aðrar meinvættir gerðu mein. Geirhildr hèt fjölkunnig kona ok meinsöm; þat sá ófreskir[6] menn, at Steinrauðr kom at henni óvarri[7], en hún brá sèr í nautsbelgs líki vatnsfulls[8]; Steinrauðr var járnsmiðr, hann hafði járngadd mikinn í hendi; um fund þeirra er þetta kveðit:

Fork lèt[9], á[10] sem orkar
at[11], glamrandi[12] hamra
á glotkylli[13] gjalla
Geirhildar hvímeira[14];
járnstafr skapar ærna[15],
eru sollin rif trölli,
hár á Hjaltaeyri
hríð kerlíngar[16] síðu.

———

lèzt mundi fá þeim vetrvist, er þat gjörði, en sá hèt Þorgeirr smjörkeingr; en þat endist, þvíat Steingrímr drap þann þegar, ok kvaðst þess höggs skyldi hefna meðan hann lifði, *b. v. E.*

1) *v. í B.* 2) Þórálbr, *B.* 3) *frá* [ *v. í E.* 4) þursasprengir, *B, C, G, H, I.* 5) landflæmdr fyrir Hákoni j. Grjótgarðss., *C.* 6) úfreskr maðr, *C, E.* 7) óvígri, *E.* 8) vatnsfullum, *B, G, H, I.* 9) lætr, *B, Sk.* 10) æ, *B, C, Sk;* ey, *E á spáz. eptir Landn.* 11) á, *H, I;* allrammr, *E á spáz. eptir Landn.* 12) jöfr, *E á spáz. eptir Landn.* 13) glotkulli, *B;* glatkylli, *H, I;* glegkylli, *Sk.* 14) hvineyra, *H, I.* 15) örna, *E á spáz.* 16) *þannig hin;* kerlinga, *A.*

Dóttir Steinrauðar var þórljót, er átti þorvarðr[1] í Kristnesi.

Auðólfr hèt maðr, hann fór af Jaðri til Íslands, ok nam Hörgárdal[2] niðr frá þverá til Bægisár, ok bjó at hinni syðri Bægisá; hann átti þórhildi, dóttur Helga hins magra; þeirra dóttir var Yngvildr, er átti þóroddr hjálmr, faðir Arnljóts[3], föður Haldórs, [föður Einars, föður Jórunnar, móður Halls, föður Gizurar, föður þorvalds, föður Gizurar jarls[4].

Eysteinn Rauðúlfsson[5], Öxnaþórissonar, nam land niðr frá Bægisá [til Kræklíngahlíðar[6], ok bjó at Lóni; hans son var Gunnsteinn, er átti Hlíf, dóttur Hèðins or Mjólu[7]; þeirra börn voru þau Haldóra, er Vígaglúmr átti, ok þorgrímr, ok Grímr Eyrarleggr.

Eyvindr hani hèt göfugr maðr, [hann kom út síð landnámatíðar[8], hann átti skip við þorgrím Hlífarson[9]; hann var frændi Öndóttssona; þeir gáfu honum land, ok bjó hann í Hanatúni, ok var kallaðr Túnhani, þar er nú kallat Marbæli[10]; hann átti þórunni[11], dóttur Stórólfs Öxnaþórissonar; hans son var Snorri Hlíðmanna-goði.

15. Öndóttr kráka, er fyrr var getit, gerðist ríkr maðr[12]; en er Björn [mágr hans[13] andaðist, [vildi Grímr hersir at konúngr skildi taka alla eigu hans[14], þvíat hann var útlendr, en synir hans fur

---

1) Örnúlfsson, *b. v. E.* 2) Öxnadal, *E.* 3) Örnúlfs, *E eptir Landn.* 4) *frá* [ *v. í B.* 5) Ráðúlfsson, *C, E.* 6) *frá* [ *v. í C.* 7) Múla, *E, I.* 8) *frá* [ *v. í C.* 9) er þeir fóru til Íslands, *b. v. E.* 10) Margbýli, *E eptir Landn.* 11) Þórnýju, *B, líka E eptir Landn.* 12) ok ættstórr, *b. v. E.* 13) magri, *B.* 14) þá kallaði Gr. h. konúngi allan arf hans, *B.*

vestan haf: [Eyvindr Austmaðr ok Þrándr mjöksiglandi[1]; en Öndóttr gát haldit fènu til handa Þrándi systursyni[2] sínum. En er Þrándr frá andlát föður síns, sigldi hann or Suðreyjum svá mikla sigling, at fur þat var hann kallaðr Þrándr mjöksiglandi, ok tók þá við föðurerfð sinni, ok fór til Íslands[3], sem [síðar mun sagt verða[4]. [Bær Öndótts stóð nær sjó, ok skamt á meðal ok Íngjalds bæjar. Grímr bjó skamt frá Íngjaldi; hann fór at Öndótti um nótt, er hann viðaði í skógi til ölhitu litlu fur jól, ok vo hann í trausti konúngs ok þá fjóra saman[5]; en á sömu nótt bar Signý á lángskip allt lausafè Öndótts, ok fór með sonu sína tvo, þá Ásmund ok Ásgrím[6], [ok alla húskarla sína[7] til Sigvats, föður síns, en sendi sonu sína til Hèðins, fóstra síns, í Sóknadal [til fulltíngs ok fylsnis[8], þvíat hún vætti, at Grímr mundi eptir þeim leita; en hann kom eptir þeim með tvö skip fur austan Líðandisnes, ok rannsakaði skip hennar, ok fann eigi sveinana. Steinarr[9] hèt maðr, er sveinunum fylgdi til Hèðins; þángat fór Grímr at leita þeirra; þeir fundu Örnólf, son Hèðins, í skógi; hann gerði sèr órar[10], ok lèt sem hann fèlli í brottfall, þvíat hann vildi eigi segja; þá fundu þeir annann son Hèðins, er Úlfr hèt, er geymdi fjár föður síns; hann tók hálft[11] hundrað silfrs af Grími at segja til

[1]) *frá* [ *v. í B, E.* [2]) sonarsyni, *H.* [3]) ok nam fyri sunnan land, *b. v. B.* [4]) fyrr var frá sagt, *E.* [5]) en fyri þá sök vo Grimr Öndótt, er hann náði eigi fènu í konúngs trausti, *í stað þess frá* [ *B.* [6]) Ásgeir, *B.* [7]) *frá* [ *v. í B.* [8]) til fylsknis, *í stað þess frá* [ *C.* [9]) Steinn, *E, I.* [10]) óra, *E;* örvar, *Sk.* [11]) þriðja, *b. v. I.*

sveinanna; hann færði föður sínum fèit, ok sagði þetta, en kom eigi til Gríms. Eigi treystist Grímr heim at sækja Hèðin, þvíat hann grunaði trúleik sveinsins, ok fór hann heim[1]. En sveinar voru í jarðhúsi til þess er haust kom, þá leyndust þeir brott[2], ok vildu til[3] Sigvats, móðurföður síns, ok urðu villir á hvora hönd þeim sjór skyldi liggja; frost var mikit á, en þeir skólausir; at bæ kvámu þeir þá. Ásmundr mælti: kennir þú bæ þenna, bróðir? Eigi, sagði Ásgrímr. Ok er þeir kvámu at, kendu þeir svefnskemmu þá, er faðir þeirra hafði gera látit; þeir þóttust þá illa komnir, ok snèru til Íngjalds ens tryggva [í Hvíni[4], þá var jóla aptan; þeir duldust þar; Gyða[5] kendi þá fyrst, ok minnti Íngjald á vingæði þeirra Öndótts, ok bað þeim viðtöku; þar voru þeir þann vetr, ok höfðu eigi nöfn sín[6]. En um sumarit eptir gerði Grímr veizlu í mót Auðunni, jarli Haralds konúngs; en þá nótt, er [hann hafði verit at ölheitu[7], þá brendu synir Öndótts hann inni, ok tóku síðan bát Íngjalds[8], ok reyru brott [til eyjar, er liggr á Hvíni; þeir sögðu áðr Gyðu ok Íngjaldi hvat í var vorðit; hann bað þá verða í brottu ok koma aldrí í augsýn sèr. Þeir settu upp bát sinn, ok gengu til húss; þeir heyrðu mannatal [í húsunum, at þeir hefði[9] verit um nóttina í ferð með Auðunni jarli;

---

1) við svá búit, *b. v. E.* 2) ok námu þar eigi yndi, *b. v. E.* 3) vitja móður sinnar ok, *C.* 4) *v. í C.* 5) kona Ingjalds, *b. v. E.* 6) en þeir undu þar eigi, ok vildu fara til móður sinnar, ok komu at jólum til Ingjalds tryggva í Hvíni; hann tók við þeim at áeggjan Gyðu, konu sinnar, *í stað þess frá öðru fyrirf.* [ *B.* 7) ölheita var at Gríms, *í stað þess frá* [ *B.* 8) fóstra síns, *b. v. B, E.* 9) þeirra er höfðu, *E.*

þeir gengu til bátsins, er þeir höfðu þetta heyrt, ok reyru til lands[1]; þeir sá hvar flaut snekkja jarlsins tjölduð[2]; [þeir gengu til þess herbergis, er þeim var sagt at jarlinn svæfi í, en hans menn voru á skipi[3], en tveir menn hèldu vörð yfir jarlinum; Ásmundr greip þá báða ok hèlt þeim[4]. Ásgrímr gekk[5] at jarli, ok setti spjótsodd sinn fur brjóst[6] jarlinum, ok bað hann reiða sèr föðurgjöld; þá seldi jarlinn fram gullhringa þrjá ok guðvefjarskikkju; en Ásgrímr gaf honum nafn, ok kallaði hann Auðun geit. [Öndóttssynir ljópu til bátsins, ok rèru út eptir firðinum, [ok í röst, er var í firðinum[7], ok breiddu þar á sjóinn skikkjuna, fur því at þeir sá at jarlsmenn rèru at þeim, ok mundu þeir eigi undan komast. Þeir jarlsmenn fundu skikkjuna, ok sögðu[8] þá mundu vera drukknaða. En[9] Öndóttssynir fóru í Súrnadal[10] [norðr um Straum[11] til Eiríks ölfus, lends manns, [ok tók hann við þeim[12]; þar bjó Hallsteinn herstr[13] annar lendr maðr; þeir áttu jóladrykkju[14], ok veitti Eiríkr vel fyrri; [en Hallsteinn laust Eirík með dýrshorni, þá, er þeir voru at hans; [því svâ segist, at Eiríkr veitti fyrst vel ok

[1]) meginlands, *E.* [2]) Auðunn kom til veizlu, sem ætlat var (því hann ætlaði at sækja veitzluna at Gríms, *E*), en hann misti þar vinar í stað. Þá komu Öndóttssynir þar snemma um morguninn at svefnbúri því, er Auðunn lá (hvíldi, *E*) í, ok skutu stokki á hurð, (ok báru stokk á, því menn hans voru á skipi, *E*), *í stað þess frá fyrra* [ *B; b. v. E.* [3]) *frá* [ *v. í E.* [4]) Ásmundr varðveitti húskarla jarls tvo, *í stað þess frá* [ *B.* [5]) inn ok, *b. v. E.* [6]) flagbrjósk, *E.* [7]) *frá seinna* [ *v. í Sk.* [8]) hugðu, *C.* [9]) *frá fyrra* [ *v. í B.* [10]) Sonadal, *E eptir Landn.;* Svínadal, *Sk.* [11]) Stymni, *C;* straumu, *G, H, Sk;* Straumudal, *I; frá* [ *v. í B.* [12]) *frá* [ *b. v. hin; v. í A..* [13]) hestr, *B, E, G;* samtýnis, *b. v. E.* [14]) saman, *b. v. B, E.*

trúliga, en Hallsteinn síðar óvingjarnliga[1]. En er Eiríkr var heimfarinn[2], en Hallsteinn sat eptir[3], þá kom Ásgrímr einn inn, ok veitti Hallsteini mikit sár, [ok ljóp út síðan ok til skógar, en þeir eptir honum. Ásgrímr lagðist á sund í[4] á eina í frosti, en húskarlar Hallsteins særðu hann mjök með skotum; hann komst til kerlíngar einnar í skógi; hún skar kálf sinn ok lagði garnár kálfsins hjá Ásgrími; svá þótti þeim, sem inn komu, at hans iðr lægi þar, en hann væri þar dauðr; þeir fóru heim, en kerlíng græddi hann á laun í jarðhúsi[5]. Þat sumar fór Ásmundr til Íslands, ok hugði Ásgrím, bróður sinn, dauðan; þá gaf Helgi hinn magri honum [land at nema í[6] Kræklíngahlíð[7]; [þá fór út með honum Böðólfr[8] or Hyíni; hans son var Skeggi ok Þórir keilismúli; síðar átti Böðólfr Þorbjörgu Hólmasól; þeirra dóttir Þorgerðr, er Ásmundr átti Öndóttsson. Hallsteinn dó hit sama vor or sárum. Þá gaf Eiríkr ölfus Ásgrími[9] lángskip þrítugt at rúmatali, ok hèlt hann því í hernað, ok hafði hann þá iðn [nokkura hríð[10]. Haraldr[11] setti Þorgeir[12], systurson Gríms, til höfuðs Ásgrími, ok fèkk honum herskip tvö; hann fann hann aldri.

[1]) ok trúliga, en Hallsteinn veitti síðar óvingjarnliga (óvinveitliga, *E*); hann laust Eirík með dýrshorni (þá er þeir voru at hans, *b. v. E*), *í stað þess frá fyrra* [ *B, E; frá síðara* [ *v. í C.* [2]) skyndiliga, *b. v. E.* [3]) með húskarla sina, *b. v. B, E.* [4]) á, *C.* [5]) en þeir þóttust veita Ásgrími bana; en hann komst út, ok til skógar, ok græddi kona hann í jarðhúsi, svá at hann varð heill, *í stað þess frá* [ *B.* [6]) *frá* [ *v. í B.* [7]) Kraklingahlíð, *alstaðar, E, Sk.* [8]) Bjóðólfr, *hèr C;* Bröndólfr, *G.* [9]) Ásmundi, *E.* [10]) nokkr sumur, *C, E, G, H, I, Sk;* en er því linnti fèkk Ásmundr Geirhildar, dóttur Eiríks, ok fór eptir þat til Íslands; en önnur bók segir svá: *b. v. E.* [11]) konúngr, *b. v. C.* [12]) hinn Hvinverska, *b. v. B, E.*

þá fór þorgeirr til Íslands, ok ætlaði at drepa Ásmund, ok kom á Eyrar, ok var í Hvínverjadal um vetrinn. þat sumar eptir kom Ásgrímr[1], ok átti skip hálft við þóri keilismúla, ok voru fjórir menn ok tuttugu á; þeir voru ósamþykkir, ok leysti Ásgrímr skip til sín. þórir reið norðr með hálfa[2] skipverja, ok kom í Hvínverjadal, ok sagði til fara Ásgríms, ok reið heim síðan. Ásgrímr reið hálfum mánaði síðar frá skipi, ok gisti at þrándar mjöksiglanda í þrándarholti; hann bauð honum vetrvist, ok kvað honum eigi mundu óhætt vera norðr at ríða fur þorgeiri. Ásgrímr fór þó norðr með tólfta mann, ok höfðu tólf hesta klyfjaða ok töskur[3] á; þann dag, er þeir riðu um Kjöl, bað hann þá í brynjum ríða, ok hafa kufla yfir utan, ok segja, ef þeir þorgeirr fyndust, at þórir keilismúli færi þar, en Ásgrímr væri norðr farinn. þeir voru tvær nætr at þorgeirs, þvíat hann hugði þá þóri vera, hann hafði fur þrjátígi manna; hann reið á götu með þeim, ok sofnaði, er hann kom heim, ok dreymdi, at kona kvæmi at honum, ok segði honum hverir gestir með honum hefði verit; síðan riðu þeir eptir[4]. þeir Ásgrímr biðu á Vekilshaug[5] enum syðra, ok þar kom Ásmundr, bróðir hans, til móts við hann með fjörutígi manna; hann sætti þá þorgeir [enn Hvínverska ok Ásgrím[6]. Fám vetrum síðar fór Ásgrímr utan, ok fèkk Geirríðar Eiríksdóttur ölfus; þeirra son var Elliða-

[1]) út á Eyrum, *b. v. E.* [2]) helft, *G, Sk.* [3]) á þeim, *b. v. E.* [4]) á, *b. v. C, E, G, Sk.* [5]) Vekelshaug, *C, Sk.* [6]) *frá* [ *v. í C.*

grímr; þau fóru síðan til Íslands, ok gaf Helgi [hinn magri Ásgrími[1] landnám í Kræklíngahlíð, ok áttu þeir bræðr alla hlíðina, ok var af því kölluð Kræklíngahlíð, at þeir voru synir Öndótts kráku[2]. Ásmundr bjó at Glerá enni syðri, en Ásgrímr at hinni nyrðri[3]. Son Ásgríms var Elliðagrímr, faðir Ásgríms, föður[4] Sigfúss, föður Þorgerðar[5], móður Gríms, föður Svertíngs, föður Vigdísar, móður Hvamm-Sturlu.

16. Helgi hinn magri gaf Hámundi, mági sínum, land[6] milli Merkigils[7] ok Skjálgdalsár, ok bjó hann á Espihóli enum syðra; hans son var Þórir, er þar bjó síðan, hann átti Þórdísi Kaðalsdóttur[8]; þeirra son var Þórarinn á Espihóli enum nyrðra, ok Þorvaldr krókr á Grund, en Þorgrímr í Möðrufelli [var eigi hennar son; Vigdís var dóttir þeirra[9].

Helgi gaf Þóru, dóttur sína, Gunnari syni Úlfljóts, er lög hafði út, [ok land[10] upp frá Skjálgdalsá til Háls[11], hann bjó í Djúpadal; þeirra börn voru þau Þorsteinn, Ketill[12] ok Steinmóðr[13], [en dætr Yngvildr ok Þórlaug[14].

---

1) honum, mágr Gríms (Ásgríms, *H, I,*) *H, I, Sk.* 2) En þá er Ásgrímr varð heill, gaf Eirekr honum lángskip, ok herjaði hann vestr um haf; en Hallsteinn dó or sárum. En er Ásgrímr kom or hernaði, gipti Eirekr honum Geirhildi, dóttur sína; þá fór Ásgr. til Íslands, *þannig í stað þess frá 4ða fyrir.* [ *B.* 3) Haraldr konúngr sendi Þorgeir enn Hvínverska til Íslands at drepa Ásgrím; hann var of vetr á Kili í Hvínverjadal, ok kom aungvu fram um hefndina, *b. hér v. B.* 4) ok, *B.* 5) Þóru, *E.* 6) jörð, *C;* jarðir, *E.* 7) ár, *b. v. I, Sk.* 8) Kaðólfsd., *G, H, I, Sk.* 9) ok Vigdís, *í stað þess frá* [ *C;* Þórarinn var faðir Fálka, föður Þórarins, föður Sigríðar, móður Þórðar, föður Böðvars, föður Þórðar, föður Markúss á Melum, *b. v. E.* 10) nám, *b. v. E, I, Sk.* 11) Þóru fylgdu heiman Djúpadalslönd á milli Skjálgdalsár ok Háls, *í stað þess frá* [ *E eptir Landn.* 12) *v. í C.* 13) Steinólfr, *C.* 14) ok Yngvildr, *í stað þess frá* [ *C.*

Helgi gaf Auðunni rotin, syni Þórólfs smjörs, Þorsteinssonar skrofa, Grímsonar kambans, Helgu dóttur sína, ok land[1] upp frá Hálsi til Villíngadals, hann bjó í Saurbæ; þeirra börn voru þau Einarr, faðir Eyjólfs Valgerðarsonar[2], [föður Guðmundar ens ríka[3], ok Vigdís, móðir Halla ens hvíta, föður Orms, föður Gellis, föður Orms, föður Halla, föður Þorgeirs, föður Þorvarðs[4], föður[5] Ara, föður Guðmundar biskups[6]. Hámundr heljarskinn fèkk Helgu Helgadóttur eptir andlát Íngunnar, systur hennar, ok var þeirra dóttir Ýngvildr allrasystir, er Örnólfr átti.

Helgi gaf Hrólfi, syni sínum, öll lönd fur austan Eyjafjarðará frá Arnarhvoli[7] upp, ok bjó hann í Gnúpufelli, ok reisti þar hof mikit; hann átti Þórörnu, dóttur Þrándar mjóbeins; þeirra börn voru þau Hafliði hinn örvi ok Valþjófr, [Viðarr ok Grani[8], Böðvarr, Íngjaldr ok Eyvindr, en

1) nám, *b. v. E.* 2) *v. í C.* 3) *v. í B.* 4) Þorvalds, *G, H, I, Sk.* 5) ok, *B.* 6) Einarr Auðunnarson átti Valgerði Runólfsdóttur; þeirra son Eyjólfr átti Hallberu Þórólfsdóttur hjálms, ok bjuggu þau á Jórunnarstöðum lánga æfi, en síðan á Möðruvöllum. Hallfriðr var dóttir Einars Eyjólfssonar, móðir Haldórs, föður Snorra, föður Guðrúnar, móður Hreins ábóta, föður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson. Vigfús Vigaglúmsson vo Bárð, son Halla ins hvíta, ok er um hann ort Bárðardrápa, er þetta er stef í:

Bar óðr of ristr báru
braut landvarar andra.

En Brúsi, bróðir Bárðar ok Orms, orti vísu þessa, þá er Glúmr stökk af þínginu:

Höfum vèr vágs or vígum
váið herinn þótt lög þverri
stóðs við stýrimeiða
stafn fær hart jafnan;
þó hygg ek fyri víðu
fleygarðs enn mik varði
beiðihlökk fyri brekku
bliks hárðara miklu; *b. v. E.*

7) Hvoli, *C.* 8) Viðargrani, *B, E.*

dóttir Guðlaug, er þorkell enn svarti átti. Valþjófr var faðir Helga, föður þóris, föður Arnórs, föður þuríðar, móður þórdísar, móður Vigdísar, móður Hvamm-Sturlu[1].

Helgi enn magri gaf Íngjaldi syni sínum land [upp frá þverá hinni ytri fur austan Eyjafjarðará til Arnarhvols[2], hann bjó á þverá enni efri, ok reisti þar hof mikit; hann átti Salgerði, dóttur Steinólfs [ens lága or Hrísey, Ölvissonar barnakarls[3]; þeirra son var Eyjólfr[4], [er átti Ástríði Vigfússdóttur af Vors, Víkíngakárasonar; þeirra synir Vigfús, ok Vígaglúmr, ok þorsteinn. Son Vígaglúms var Vigfús, faðir Bergs, föður Steinunnar, móður þorsteins rángláta[5]. [Son Eyjólfs var[6] ok Steinólfr, faðir þórarins illa ok Arnórs ens góða Rauðæíngs[7]. Vígaglúmr var faðir Márs, föður þorkötlu, móður þórðar, föður Sturlu[8].

Helgi gaf Hlíf[9], dóttur sína, þorgeiri syni þórðar bjálka[10], ok land[11] út frá þverá til Varðgjár, þau bjuggu at Fiskilæk; börn þeirra voru þau þórðr ok Helga.

---

1) Þuriði, dóttur Helga, sonar Dálks, sonar Þóris, sonar Helga, sonar Valþjófs, átti Ásgeirr Kvistsson; börn voru Ásgeirr ok Arnriðr, móðir Salbjargar, móður Kolfinnu, er átti Þorvaldr í Vatnsfirði. Dóttir Ásgeirs var Dís, ok Þórey, móðir Ófeigs, Gunnars, Helga, Kolbjarnar, Bóteyjar, Helgu, Járngerðar, móður Ljóts prests, Gizurar, Jóns. Hafliði hinn örvi bygði fyrstr Möðruvelli, ok seldi í elli sinni Eyjólfi Valgerðarsyni. Böðvarr vo Svörfuð saklausan. Ingjaldr bjó í Gnúpufelli eptir Rólf, föður sinn, *b. v. E.* 2) út frá Arnarhvoli ok (til) Þverár ennar ytri, *í stað þess frá* [ *B*; allt fyri neðan Arnarhvol til Þverár, *í stað þess frá* [ *E.* 3) *frá* [ *v. í B.* 4) hrúga, *b. v. E.* 5) föður Ketils, föður Þorláks, föður Ketils prests, föður Helgu, er átti Snorri Markússon á Melum, *b. v. E.* 6) faðir Vígaglúms, *í stað þess frá fyrra* [ *B.* 7) rauðkinns, *E eptir Landn.* 8) *frá* [ *v. í C.* 9) Salgerði, *A-J.* 10) kjálka, *G.* 11) lönd öll, *E.*

Skagi Skoptason[1] hèt maðr ágætr[2], hann varð ósáttr við Eystein glumru, ok fór af því til Íslands; hann nam at ráði Helga Eyjafjarðarströnd ena eystri[3] út frá Varðgjá til Fnjóskadalsár[4], ok bjó í Sigluvík; hans son var þorbjörn, faðir Hèðins hins milda, er Svalbarð lèt gjöra sextán vetrum fur kristni; hann átti Ragneiði, dóttur Eyjólfs Valgerðarsonar.

17. þórir snepill hèt maðr son Ketils brimils, [Örnólfssonar, Björnólfssonar, Grímssonar loðinkinna. Ketill brimill átti Jórunni, dóttur þorgnýs[5] lögmanns af Svíaríki. Ketill brimill var víkíngr mikill; hann fór til Hjaltlands með Torf-Einari; en er[6] hann bjóst til Íslands, hèt Gautr skipveri hans einn; en er þeir lágu til hafs, kvâmu at þeim víkíngar, ok vildu ræna þá, en Gautr laust skipverja[7] þeirra með hjálmunveli, [ok stafnbúann[8] til bana[9]; við þat lögðu víkíngar ífrá; síðan var hann kallaðr Hjálmun-Gautr. þeir þórir fóru til Íslands, ok kvâmu skipi sínu í Skjálfandafljótsós. þórir nam Kaldakinn millim Skuggabjarga ok Ljósavatnsskarðs; hann nam þar eigi yndi, ok fór á brott; þá kvað hann þetta:

Hèr liggr, kjölakeyrir[10]!
Kaldakinn um aldr,
en við förum heilir,
Hjâlmun[11]-Gautr! á brautu.

þórir nam síðan Hnjóskadal allan til Ódeilu, ok

---

1) Skaptason, *Sk*; Loptsson, *A-J*. 2) á Mæri, *b. v. B, C.* 3) nerðri, *C.* 4) Hnjóskadalsár, *E.* 5) Þorgeirs, *G.* 6) *frá* [ *v. í B.* 7) stafnbúann, *B.* 8) *frá* [ *v. í C, G.* 9) *frá* [ *v. í B.* 10) keyri, *E.* 11) hèðan, *b. v. E, G, H.*

bjó at Lundi; hann blótaði lundinn. Ormr töskubak var son Snepils, faðir Hlenna[1] ens gamla, ok þorkell svarti í Hleiðrargarði[2], hann átti Guðlaugu Hrólfsdóttur; þeirra son [Öngull enn svarti, ok Hrafn[3], faðir þórðar at Stokkahlöðum[4], ok Guðríðr[5], er átti þorgeirr goði at Ljósavatni.

þengill mjöksiglandi fór af Hálogalandi til Íslands, hann nam land at ráði Helga út frá[6] Hnjóská[7] til Grenivíkr, hann bjó í Höfða; hans synir voru þeir Vemundr[8], faðir Ásólfs í Höfða[9], ok Hallsteinn, er þetta kvað, þá er hann sigldi af hafi, ok frá andlát föður síns:

Drúpir Höfði,
dauðr er þengill,
hlæja hlíðir
við Hallsteini.

þormóðr hèt maðr[10], er nam Grenivík ok Hvallátr, ok Strönd alla út til þorgeirsfjarðar; hans son var Snörtr, er Snertlíngar eru frá komnir.

þorgeirr hèt maðr, er nam þorgeirsfjörð ok Hvalvatnsfjörð.

Loðinn aungull hèt maðr, [hann var fæddr í Aungley[11] á Hálogalandi, hann fór fur ofríki Hákonar jarls Grjótgarðssonar til Íslands. [Í Aungli

---

1) Helga, *E eptir Landn.* 2) Hleinargarði, *A-J.* 3) Aungulhamr á Aungulstöðum, *A-J.* 4) *þannig hin.*; Stakkahlöðum; *A*; er var á Hrisategi með Esphælingum, ok töldu Þveræingar hann hafa völl viðan, en Esphælingar kvóðu hann flesta særa úr Glúms liði, *b. v. E.* 5) Guðriðar, *Sk*; Þuriðr, *A-J.* 6) *þannig hin*; til, *A.* 7) Hnjóskadalsá, *E.* 8) Vermundr, *C.* 9) föður Odda, föður Grims, föður Haldóru, móður Markúss, föður Valgerðar, móður Böðvars, föður Þórðar, föður Markúss á Melum, *b. v. E.* 10) Þorleifsson, *b. v. E.* 11) Aungli, *C*; hann var svá kallaðr, því hann var fæddr i eyju þeirri, er Aungull heitir, *í stað þess frá [ E.*

[hafði búit[1] Sigarr[2] konúngr á Steig, ok þar er Signýjarbrúðr[3] [í Hagbarðshólmi[4]. [Loðinn aungull[5] dó í hafi; en Eyvindr son hans[6] nam Flateyjardal upp til Gunnsteina, ok blótaði þá; þar liggr Ódeila á millum ok landnáms þóris snepils. Ásbjörn dettiás var son Eyvindar, faðir Finnboga hins ramma[7].

18. Bárðr, son Heyángrs-Bjarnar, kom skipi sínu í Skjálfandafljótsós, ok nam Bárðardal allan, upp frá Kálfborgará [ok Eyjardalsá[8], ok bjó at Lundarbrekku[9] um hríð; þá markaði hann [af veðrum[10], at landviðri voru betri enn hafviðri, ok ætlaði af því betri lönd[11] fyr sunnan heiðar; hann sendi sonu sína suðr um gói, þá fundu þeir góibeitla ok annann gróðr. En annat vor eptir þá gerði Bárðr kjálka hverju kvikvendi, því er gengt var, ok lèt hvat draga sitt fóðr, ok fjárlut; hann fór Vonarskarð, þar er síðan heitir Bárðargata; hann nam síðan Fljótshverfi, ok bjó at Gnúpum, þá var hann kallaðr Gnúpa-Bárðr; [hann átti mörg börn[12]; hans son var Sigmundr, faðir þorsteins, er átti Æsu, dóttur Hrólfs rauðskeggs; þeirra dóttir þórunn, er átti þorkell leifr, ok var þeirra son þorgeirr goði at Ljósavatni. Annar son Bárðar var þorsteinn, faðir þóris, er var á Fitjum með Hákoni konúngi,

[1]) bjó, *Kh.* [2]) Siggeirr, *H.* [3]) Signýjarbúðir, *E.* [4]) ok Hagbarðshólmr, *C;* ok Hagbarðshólmr, þar bjó Nikolás Sigurðarson, *E.* [5]) ok, *í stað þess frá 4ða fyrif.* [ *B.* [6]) hann, *í stað þess frá* [ *C.* [7]) föður Narfa, föður Yngvildar, móður Jódisar, móður Höllu, móður Yngvildar, móður Þorgilsar, föður Geirnýjar, móður Valgerðar, móður Helgu, er átti Snorri Markússon á Melum, *b. v. E.* [8]) til Eyjadalsár, *H, I, Sk.* [9]) Lundarbrekkum, *B, C.* [10]) *v. í C.* [11]) landskosti, *C, E.* [12]) *frá* [ *v. í C.*

ok skar rauf á uxahúð, ok hafði þá hlíf, því var hann kallaðr leðrháls; hann átti Freyleifu Eyvindardóttur; þeirra synir voru þeir Hávarðr í Fellsmúla, ok Herjólfr[1] at Mývatni, ok Ketill í Húsavík, ok Vemundr[2] kögr, er átti Haldóru, dóttur Þorkels svarta, ok Áskell, ok Háls, hann bjó at Helgastöðum[3].

Þorfiðr[4] máni hèt maðr, son Áskels[5] tjörfa[6], hann nam land fur neðan Eyjardalsá til Landamóts, ok sumt[7] um Ljósavatnsskarð, ok bjó at Öxará[8]; hans son var Þorkell leifr hinn hái, faðir Þorgeirs goða. Þorgeirr átti fyrr Guðrúnu[9], dóttur Þorkels svarta; þeirra son Þorkell hákr ok Höskuldr [hinn væni[10], Tjörfi[11] ok Kollgrímr, Þorsteinn ok Þorvarðr, ok Sigríðr; síðan átti hann Salgerði[12], dóttur Arngeirs[13] hins Austræna; hann átti ok Þorkötlu Dalakollsdóttur; synir hans ok þeirra kvenna voru: Þorgrímr, Óttarr, Þorgils; þessir voru laungetnir: Þorgrímr, ok[14] Finni[15] hinn draumspaki, hans móðir hèt Lækný[16], útlend.

[Þórir[17], son Gríms[18] gráfeldarmúla af Rogalandi, nam land um Ljósavatnsskarð[19].

Hèðinn ok Höskuldr, synir Þorsteins þurs, fóru til Íslands, ok námu land fur innan[20] Túngu-

1) Örnúlfr, *A-J.* 2) Vermundr, *G.* 3) Kampagrímr fór or Suðreyjum til Íslands, ok velkti þá úti allt sumar, ok braut skip sitt við Skjálfandafljótsós; hann nam Kaldakinn í annat sinn, ok seldi ýmsum mönnum síðan; hans dóttir var Arnbjörg, er Ásólfr í Höfða átti, *b. v. E.* 4) Þróndr, *E.* 5) Oddkels, *E.* 6) torfa, *B, E;* tjófa, *H, Sk;* trafa, *I.* 7) *v. í C, E.* 8) *hèr setr B inn eptirfylgjandi grein.* 9) Guðríði, *B, C.* 10) *frá* [ *v. í B, C.* 11) Torfi, *H, Sk.* 12) Álfgerði, *B.* 13) Arngríms, *E.* 14) Óli, *C.* 15) Finnr, *B.* 16) Lekný, *B, H, I, Sk;* Leikný, *G.* 17) faðir Þorkels leifs, *b. v. H eptir Landn.* 18) Glúms, *H.* 19) *frá* [ *v. í C.* 20) ofan, *C;* sunnan, *Sk.*

heiði[1]. Hèðinn bjó at Hèðinshöfða, ok átti Guðrúnu; þeirra dóttir Arnríðr, er Ketill Fjörleifarson átti, en Guðrún var dóttir þeirra, er Hrólfr átti [í Gnúpufelli[2].

Höskuldr nam lönd öll fur austan Laxá, ok bjó í Skörðuvík[3]; við hann er kendt Höskuldsvatn, þvíat hann drukknaði þar; í þeirra landnámi er Húsavík, er Garðarr átti vetrsetu. Son Höskulds var Hróaldr, er átti Ægileifu, dóttur Hrólfs Helgasonar ens magra.

19. Vestmarr[4] ok Úlfr, fóstbræðr, fóru á einu skipi til Íslands, ok námu Reykjadal allan fur vestan Laxá upp til Vestmannsvatns[5]; Vestmarr átti Guðlaugu. Úlfr bjó undir Skrattafelli[6]; hans[7] son var Geirólfr, er átti Vigdísi Konálsdóttur síðar enn þorgrímr; þeirra son var Hallr.

þorsteinn höfði hèt maðr, hann var hersir á Hörðalandi; hans synir voru þeir Eyvindr ok Ketill Hörðski. Eyvindr fýstist[8] til Íslands [eptir andlát föður síns, en Ketill bað hann nema báðum þeim land, ef honum sýndist síðar at fara. Eyvindr [fór til Íslands, ok[9] kom í Húsavík skipi sínu[10], ok nam Reykjadal upp frá Vestmannsvatni, ok bjó á Helgastöðum, ok er þar haugr hans; hans son var Áskell goði, er [banasár fèkk við Eyjafjarðará gegnt Kroppi, þá er Steingrímr vildi hefna sauðarhöfuðshöggs. Áskell[11] átti dóttur Grenjaðar; þeirra [synir þorsteinn ok[12] Vígaskúta.

1) Túngu, *C, E.* 2) *frá* [ *v. í B.* 3) Skörðum, *C, E*; Saurvík, *A-J.* 4) Vestmaðr, *B, H, I, Sk, alstaðar*; Vestarr, *A-J.* 5) Vestannmannsvatns, *B*; Vestmarsv., *E, Sk*; Vestarsvatn, *A-J.* 6) Skaptafelli, *E.* 7) hann átti * * *; þeirra, *B.* 8) fór, *C.* 9) *frá* [ *v. í B.* 10) *frá fyrra* [ *v. í C.* 11) *frá* [ *v. í B*; var vinsæll ok vel at sèr; hann, *b. v. E.* 12) son, *C.*

Fjörleif hèt dóttir Eyvindar, [er Þórir leðrháls átti[1]. Náttfari, er með Garðari hafði[2] útfarit, eignaði sèr áðr Reykjadal, ok hafði merkt á viðum, en Eyvindr rak hann á brott, [ok lèt hann hafa Náttfaravík[3]. Ketill[4] [fór út at orðsendíngu Eyvindar, hann[5] bjó á Einarsstöðum; hans son var Konáll, er[6] átti Oddnýju Einarsdóttur, systur Eyjólfs Valgerðarsonar; þeirra börn voru þau Einarr, [er átti sex sonu, ok dóttur Þóreyju, er átti Steinólfr Másson, ok önnur Eydís, er Þorsteinn[7] goði átti or Ásbjarnarvík[8]. Þórðr var annar son Konáls, hann var faðir Sokka á Breiðamýri, föður Konáls. [Dóttir Konáls var Vigdís, er átti Þorgrímr, son Þorbjarnar skaga, ok var þeirra son Þorleifr[9].

Grenjaðr hèt maðr Hrappsson, bróðir Geirleifs, hann nam Þegjandadal, Hraunaheiði[10], Þorgerðarfell, ok Laxárdal neðan, [hann bjó á Grenjaðarstöðum[11]; hann átti Þorgerði, dóttur Helga hests; þeirra son var Þorgils vomúli, faðir Önundar, föður Hallberu, [móður Haldóru[12], móður Þorgerðar, móður Halls ábóta, ok Hallberu, er átti [Hreinn Styrmisson[13].

Böðólfr[14] hèt maðr, son Gríms Grímólfssonar af Ögðum, bróðir Böðmóðs; hann átti Þórunni,

1) *frá* [ *v. í B;* Þorsteinsson, Gnúpa-Bárðarsonar; synir þeirra voru: Hávarðr, Herjólfr, Vemundr kögr, Háls, Ketill, Áskell, *b. v. E.* 2) fyrst, *b. v. E.* 3) *frá* [ *v. í C.* 4) Hörðski, bróðir Eyvindar, *b. v. E.* 5) bróðir hans, *í stað þess frá* [ *C.* 6) (ok) Þorsteinn, faðir Einars, er þar bjó síðan; Konáll, *b. v. B.* 7) Þorbjörn, *A-J.* 8) *frá* [ *v. í C.* 9) Geirólfsson gnúpr, *b. v. B;* Geirólfs stjúpr, *b. v. E;* *frá* [ *v. í C.* 10) Kraumaheiði, *B.* 11) *frá* [ *v. í B.* 12) *frá* [ *v. í C.* 13) Reinn Stymsson, *C;* móður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum, *b. v. E.* 14) Búðólfr, *hèr C;* Rauðólfr, *A-J.*

dóttur Þórólfs hins fróða; þeirra son var Skeggi; þau fóru öll til Íslands, ok brutu skip sitt við Tjörnes, ok voru at Auðólfsstöðum[1] hinn fyrsta vetr; hann nam Tjörnes allt á milli Túnguár ok Óss[2]. Böðólfr[3] átti síðar Þorbjörgu Hólmasól, dóttur Magr-Helga; þeirra dóttir var Þorgerðr, er átti Ásmundr Öndóttsson; [þeirra son Þorleifr, faðir Þuríðar, er átti Valla-Ljótr[4].

Skeggi Böðólfsson[5] nam Kelduhverfi upp til Kelduness, ok bjó í Miklagarði, hann átti Helgu, dóttur Þorgeirs[6] at Fiskilæk; þeirra son var Þórir, farmaðr mikill[7]; hann lèt gera knör[8] [í Sogni[9], þann vígði Sigurðr biskup [enn ríki, er var með Ólafi konúngi Tryggvasyni, en skírði Þóri[10]; af þeim knerri eru brandar fyrir dyrum [lengi síðan[11] í Miklagarði veðrspáir mjök, [allt fram um daga Brands biskups. Ormr var son Þóris, hann myrði Grettir Ásmundarson[12]; um Þóri orti Grettir þetta:

Ríðkat ek rækimeiðum
[randar hóts at[13] móti,
sköpuð er þessum þegni
þraut, fer ek einn[14] á[15] brautu;
vilkat ek Viðris bálka[16]
vinnendr spaka finna,
ek mun þèr eigi þykkja
ær, leita ek mèr færis.

---

1) Böðólfs skytju, *C*; Bótólfs skytju, *E*; Rauðúlfsstöðum, *A-J.* 2) Hafnaróss, *E.* 3) Bótólfr, *hèr E.* 4) *frá* [ *v. í B.* 5) eða Bótólfsson, *b. v. E.* 6) Þórirs, *A-J.* 7) *v. í B.* 8) í skógi, *b. v. E.* 9) á Ögðum, *A-J.* 10) *frá* [ *v. í B.* 11) *frá* [ *v. í B.* 12) *frá* [ *v. í B.* 13) randa hóti á, *E.* 14) villr, *E.* 15) at, *C.* 16) blakka, *C.*

Hnekki ek frá [þar et[1] flokkar
fara Þóris mjök stórir,
[er eigi[2] mèr í þys þeirra
þersíligt at hverfa;
forðumst frægra virða
fund, á ek veg til Lundar;
verð ek Heimdala[3] at hirða
hjör, björgum svá fjörvi.

Án hêt son Þóris, faðir Arnar, föður Íngibjargar, móður Skúms, föður Þorkels ábóta[4].

20. Máni hèt maðr, hann var fæddr[5] í Ömd (á Hálogalandi), hann fór til Íslands, ok braut við Tjörnes, ok bjó at Máná nokkura vetr, síðan rak Böðólfr hann brott þaðan, ok nam hann þá fur neðan [Kálfborgará[6], milli Fljóts[7] ok Rauðaskriðu, ok bjó at Mánafelli; hans son var Ketill, er átti Valdísi Þorbrandsdóttur, er[8] keypti Rauðaskriðulönd at Mána; hans dóttir var Dalla, systir Þorgeirs Galtasonar, hana átti Þorvaldr Hjaltason[9].

Ljótr óþveginn hèt maðr, er nam Kelduhverfi upp frá Keldunesi; hans son var Grís, faðir Galta í Ási, [hann var vitr maðr ok vígamaðr mikill[10].

Önundr[11] nam ok Kelduhverfi upp frá Keldunesi[12], ok bjó í Ási, hann var son Blængs[13] Sótasonar, bróðir Bálka í Hrútafirði. Dóttir Ön-

---

1) þótt, *E.* 2) era, *C.* 3) Heimdals, *Sk.* 4) *frá síðara [ í vís. v. í B.* 5) *v. í Sk.* 6) Kolborgará, *B.* 7) Kálfborgarár, Fljótshlíð, *í stað þess frá [ E.* 8) ok, *E.* 9) at Hofi í Hjaltadal; *b. v. K.* 10) *frá [ v. í C.* 11) hèt annar, er, *b. v. E.* 12) Keldú, *Sk.* 13) Klængs, *B;* Blæings, *hin.*

undar var þorbjörg, er átti Hallgils[1] þorbrandsson or Rauðaskriðu.

þorsteinn, son Sigmundar Gnúpa-Bárðarsonar, bjó fyrst[2] at Mývatni; hans son var þorgrímr, faðir Arnórs í Reykjahlíð, er átti þorkötlu, dóttur Böðvars Hrólfssonar or Gnúpufelli; Böðvarr var son þeirra.

þorkell hinn hávi kom úngr til Íslands[3] ok bjó fyrst at Grænavatni, er gengr at[4] Mývatni; hans son var Sigmundr, er átti Vigdísi, dóttur þóris af Espihóli, hann vo Glúmr á akrinum Vítisgjafa[5]. Dóttir þorkels var Arndís, er átti Vigfús, bróðir[6] Víga-Glúms. þorkell gat son í elli sinni, sá hèt Dagr, [hann var faðir þórarins[7], er átti Yngvildi, dóttur Halls á Síðu, síðar enn Eyjólfr enn halti[8].

Geiri[9] hèt maðr Norrænn[10], er fyrst bjó fur sunnan Mývatn á Geirastöðum[11]; hans son var Glúmr Geirason skáld[12], ok þorkell. þeir feðgar börðust við þorgeir[13] höggvinnkinna, ok feldu þorstein, son hans; fur þat víg voru þeir gjörvir [norðan or sveitum[14]. Geiri sat um vetr á Geirastöðum við Húnavatn; síðan fóru þeir í Breiðafjörð, ok bjuggu [í Geiradal[15] í Króksfirði. Glúmr

---

1) þorgils, *Sk.* 2) fyrstr, *E.* 3) or Norvegi, *b. v. E.* 4) af, *hin.* 5) *v. í. B*; Vitugjafi, *C*; Vitugjafa, *E*; Sigmundarakri, *E eptir Landn.* 6) son, *E.* 7) *frá* [ *v. í C.* 8) Guðmundsson, *b. v. E.* 9) Geirr, *H, I, Sk.* 10) *v. í C, G, Sk.* 11) Geirólfsstöðum, *E eptir Landn.* 12) er orti Gráfeldardrápu, er þetta er stef í:

Víg, svá tekr vísa
valfall, Haralds, alla, *b. v. E.*

13) þorberg, *B.* 14) landflótta fyri víga sakir, *E eptir Landn.* 15) á Geirastöðum, *C.*

fèkk Íngunnar, dóttur Þórólfs Veleifssonar; þeirra börn voru þau Þórðr, er átti Guðrúnu Ósvífrsdóttur, ok Þorgerðr, er átti Þórarinn Íngjaldsson[1]; þeirra son Helgu-Steinarr.

Torf-Einarr jarl gat dóttur í æsku sinni[2], sú hèt Þórdís, hana fæddi Rögnvaldr jarl, ok gipti hana Þorgeiri klaufa; þeirra son var Einarr, hann fór til Orkneyja at finna frændr sína, þeir vildu eigi taka við frændsemi hans; þá [kaupir Einarr í skípi[3] með bræðrum tveim, Vestmanni[4] ok Vemundi; þeir [fóru til Íslands, ok[5] sigldu fur norðan landit, ok vestr um Slèttu á fjörðinn; þeir settu öxi í Reistargnúp, ok kölluðu því Öxarfjörð; þeir settu örn upp fur vestan, ok kölluðu þar Arnarþúfu; en í þriðja stað settu þeir kross, þar kalla þeir Krossás; svá helguðu þeir sèr[6] allan Öxarfjörð. Börn Einars voru þau Eyjólfr, er Galti Grísarson[7] vo, ok Ljót, móðir Hróa ens skarpa, er hefndi Eyjólfs, ok vo Galta. Synir Glýru-Halla, Brandr ok Bergr, voru dóttursynir Ljótar, þeir fèllu í Böðvarsdal[8].

Reistr hèt maðr, son Bjarneyja-Ketils ok Hildar, systur Ketils þistils, föður[9] Arnsteins goða; hann nam land millum Reistargnúps ok Rauðagnúps, ok bjó í Leyrhöfn.

Arngeirr hèt maðr, er nam Slèttu alla [á milli Hávararlóns ok[10] Sveinúngsvíkr; hans börn voru

1) Hergilsson, *E eptir Landn.* 2) við ambátt, *b. v. E.* 3) fór hann til Islands, *C.* 4) Vestmari, *E, Sk.* 5) *frá* [ *v. í C.* 6) land fyrir austan Jökulsá; þá höfðu þeir numit, *b. v. E.* 7) Grísson, *C;* Geirsson, *H, I.* 8) or liði Bjarna Broddhelgasonar, þá er hann barðist við Þorkel Geitisson, *b. v. E.* 9) *eða:* faðir. 10) fyri norðan Hávararlón til, *E.*

þau þorgils, Oddr, ok þuríðr, er Steinólfr í þjórsárdal átti. [Oddr var eldsætr í æsku ok seinligr, ok var kallaðr kolbítr[1]. [þeir Arngeirr ok þorgils gengu heiman í fjúki at leita fjár, ok kvámu eigi heim[2]; Oddr fór at leita þeirra, [ok fann þá báða örenda, ok hafði hvítabjörn drepit þá, ok lá þá á pasti[3], er hann kom at[4]. Oddr [drap björninn ok færði[5] heim, ok [segja menn at hann æti[6] allan, ok kallaðist þá hefna föður síns, er hann drap björninn, en þá bróður síns, er hann át hann. Oddr var síðan illr[7] ok ódæll við at eiga; hann var hamrammr svâ mjök, at hann gekk heiman or Hraunhöfn um kvöldit, en kom um morgininn eptir í þjórsárdal til liðs við þuríði, systur sína, er þjórsdælir vildu [grýta hana í hel fur fjölkýngi ok tröllskap[8].

Sveinúngr ok Kolli námu [víkr þær[9], er við þá eru kendar[10], Sveinúngsvík ok Kollavík[11].

Ketill[12] þistill[13] [hèt maðr, illr ok ódæll, hann[14] nam þistilsfjörð á milli Hundsness ok Sauðaness[15]; hans son var Sigmundr, [er land nam í Snjófjallsnesi[16]; hann var faðir Laugarbrekku-Einars[17].

---

[1]) *frá* [ *v. í B.* [2]) Hvítabjörn drap þá báða Arngeir ok Þorgils, *í stað þess frá* [ *C;* en sem seinkaði heimkomu þeirra, þá fór, *b. v. E.* [3]) *þannig Sk*; fasti, *A og hin.* [4]) ok var björninn at, ok só or þeim blóðit, *í stað þess frá* [ *C.* [5]) veitti skaða birninum, hafði, *E.* [6]) át, *í stað þess frá* [ *C.* [7]) ok æfr, *b. v. E.* [8]) berja grjóti í hel, *B.* [9]) fyri vestan Hundsnes, *b. v. E.* [10]) *frá* [ *v. í B.* [11]) ok bjó þar hvorr, sem við hann er kendt síðan, *b. v. B.* [12]) Þorkell, *I.* [13]) er fyrr var getit, *b. v. E.* [14]) *frá* [ *v. í B.* [15]) ok bjó þar, *b. v. E.* [16]) *frá* [ *v. í B.* [17]) föður Hallveigar, móður Guðríðar, móður Bjarnar, föður Steinunnar, móður Ketils, föður Þorláks, föður Ketils prests, föður Helgu, er átti Snorri Markússon á Melum, *b. v. E.*

Nú eru ritut landnám í Norðlendíngafjórðúngi, ok eru þessir þar ágætastir landnámsmenn: Auðunn skökull, Íngimundr gamli, *Ævarr*[1], Sæmundr, Eiríkr or Goðdölum, Höfða-Þórðr, Helgi hinn magri, [Eyvindr Þorsteinsson[2]; [en þar voru tólf hundruð bændr þá er talit var[3].

---

1) Eyar-, *Sk.* 2) Gnúpa-Bárðr, Eyvindr ok Ketill Hörðski, *E.* 3) *greinina v. hér í C, en kemr við niðrlag sögunnar;* en þá er talit var bændaval á Íslandi, voru þar 12 hundruð bænda, *í stað þess frá* [ *E.*

# Fjórdi Partr.

*[Þessir menn hafa land numit í Austfirðíngafjórðúngi, er nú munu upptaldir, ok fer[1] hvat af[2] hendi norðan til fjórðúngamóts, frá Lánganesi á Sólheimasand[3], ok er þat sögn manna, at þessi fjórðúngr hafi fyrst albygðr vorðit.*

Gunnólfr kroppa[4] hèt maðr, son Þóris haukness hersis, hann nam Gunnólfsvík ok Gunnólfsfell, ok Lánganes allt fur utan Helkunduheiði, ok bjó í Fagravík[5]; hans son var Skúli herkja, [faðir Geirlaugar[6].

Finni hèt maðr, er nam Finnafjörð [ok Viðfjörð[7]; hans son var Þórarinn, faðir Sigurðar, föður Glýru-Halla[8].

Hróðgeirr hinn hvíti Hrappsson nam Sandvík fur norðan Digranes, allt til Viðfjarðar, ok bjó á Skeggjastöðum; hans dóttir var Íngibjörg, er átti Þorsteinn enn hvíti[9]. Álrekr[10] var bróðir Hroðgeirs, er út kom með honum; hann var faðir Ljótólfs goða í Svarfaðardal[11].

Eyvindr vopni ok Refr hinn rauði, synir Þorsteins þjokkubeins, bjuggust til Íslands [af Strind[12] or Þrándheimi, þvíat þeir urðu missáttir[13] við

1) segir, *E.* 2) at, *E.* 3) Nú hefir hèr upp landnám í Austfirðingafjórðúngi, *i stað þess frá [ C.* 4) kreppa, *A-J.* 5) Fagranesi, *A-J.* 6) *frá [ v. i C.* 7) ok Miðfjörð, *E; frá [ v. i C, G, I, Sk.* 8) hans tveir synir voru i Böðvarsdal með Broddhelga, syni Bjarnar, ok fèllu þar, *b. v. E.* 9) hún var móðir Þorgils, föður Helga, föður Bjarnar, föður Yngvildar, móður Ámunda, föður Guðrúnar, móður Þórdísar, móður Helgu, móður Þórðar prests, föður Markúss á Melum, *b. v. E.* 10) Aslákr, *E.* 11) föður Valla-Ljóts, *b. v. E.* 12) *v. í C.* 13) afsáttir, *C.*

Harald konúng, ok hafði sitt skip hvárr þeirra[1]. Refr varð aptrreka, ok lèt konúngr drepa hann; en Eyvindr kom í Vopnafjörð, ok nam fjörðinn allan frá[2] Vestradalsá, ok bjó í Krossavík enni iðri; hans son var þorbjörn. Steinbjörn kortr[3], son Refs[4] hins rauða, hann fór til Íslands, ok kom í Vopnafjörð; Eyvindr, föðurbróðir hans, gaf honum land allt millim Vopnafjarðarár ok Vestradalsár, hann bjó at Hofi; hans synir voru þeir þormóðr stikublígr, er bjó í Sunnudal, annar Refr á Refsstöðum, þriði Egill á Egilsstöðum, faðir þórarins ok þrastar, Hallbjarnar, ok Hallfríðar, er átti þorkell Geitisson[5].

Hróaldr bjóla var fóstbróðir Eyvindar vopna, hann nam land fur vestan Vestradalsá, dalinn hálfan, ok Selárdal allan út til Digraness, hann bjó á Torfastöðum; hans son var Ísrauðr, faðir Gunnhildar, er átti [Oddi, son Ásólfs í Höfða[6].

Ölver hinn hvíti hèt maðr, son Ölvis[7] Öxnaþórissonar, hann var lendr maðr ok bjó í Álmdölum; hann varð ósáttr við Hákon jarl Grjótgarðsson, ok fór hann á Yrjar, ok dó þar; en þorsteinn hinn hvíti, (son hans), fór til Íslands, ok kom skipi sínu í Vopnafjörð eptir landnám; hann keypti land at Eyvindi[8] vopna, ok bjó at Tóptavelli nokkura vetr, fur utan[9] Síreksstaði, áðr hann komst at Hofslöndum, með því

[1]) ok vildu hafa samflot; en, *b. v. E.* [2]) fyrir austan, *E.* [3]) köttr, *B.* [4]) Úlfs, *E.* [5]) bræðr Hallfriðar voru í liði með Þorkatli í Böðvarsdal, í móti Bjarna Broddhelgasyni, *b. v. E.* [6]) Ásólfr í Höfða, *C*; Gunnhildr var móðir Haldóru, móður Markúsar, föður Valgerðar, móður Böðvars, föður Þórðar prests, föður Markúsar á Melum, *b. v. E.* [7]) Ósvalds, *B, E.* [8]) *v. í C, E.* [9]) austan, *H, I, Sk.*

móti at, hann heimti leigufè sitt [at Steinbirni kort[1], en hann hafði eigi til at gjálda nema landit; þar bjó Þorsteinn sextígi[2] vetra síðan, ok var vitr [maðr ok góðráðr[3]; hann átti Íngibjörgu, dóttur Hróðgeirs hins hvíta; þeirra börn voru þau Þorgils ok Þórðr, Önundr[4], Þorbjörg[5] ok Þóra. Þorgils átti Ásvöru, dóttur Þóris Grautatlasonar; þeirra son var Broddhelgi; hann átti fyrr Höllu Lýtíngsdóttur, Arnbjarnarsonar; þeirra son var Vígabjarni, hann átti Rannveigu, dóttur Eiríks í Goðdölum; þeirra son var Skeggbroddi, en dóttir Yngvildr, er átti Þorsteinn Hallsson. Skeggbroddi átti Guðrúnu, dóttur Þórarins[6] sælíngs[7] ok Haldóru Einarsdóttur; þeirra börn Þórir ok Bjarni húslángr. Þórir átti Steinunni, dóttur Þorgríms ens háfa; þeirra dóttir var Guðrún, er átti Flosi Kolbeinsson; þeirra son Bjarni, faðir Bjarna, er átti Höllu Jörundardóttur; þeirra börn voru þau Flosi prestr, (ok Torfi prestr), ok Einarr brúðr[8], ok Guðrún, er Þórðr Sturluson átti, ok Guðrún, er Einarr Bergþórsson átti, ok Helga, móðir Sigríðar Sigvatsdóttur. [Flosi prestr átti Ragnhildi, dóttur Barkar á Baugsstöðum; þeirra börn: Bjarni ok Einarr, Halla, móðir herra Kristoffórus, ok Þórdís, móðir frú Íngigerðar, móður frú Guðrúnar ok Hallberu[9]. Valgerðr[10] var dóttir Flosa, móðir herra Erlends sterka; föður [herra Hauks lögmanns[11] ok Valgerðar[12].

---

1) undan Þorbirni krot, *E.* 2) meir enn fimmtigi, *E.* 3) góðr, *B; frá [ v. í C.* 4) Ámundr, *G.* 5) Þorbjörn, *G, Sk.* 6) Einars, *C.* 7) Sælendings, *C.* 8) prúðr, *B.* 9) Haldóru, *E.* 10) Salgerðr, *E eptir Hauksbók.* 11) Hauks, *í stað þess frá [ C.* 12) *frá fyrra [ v. í B.*

2. Þorsteinn torfi ok Lýtíngr, [bræðr tveir[1], fóru til Íslands. Lýtíngr nam Vopnafjarðarströnd alla hina eystri, Böðvarsdal ok Fagradal, ok bjó í Krossavík, [ok lifði hèr fá vetr[2]; frá honum eru Vopnfirðíngar komnir. [Geitir[3] var son Lýtíngs, faðir Þorkels[4].

Þorfiðr[5] hèt maðr, er fyrst bjó á Skeggjastöðum at ráði Þórðar hálma; hans son var Þorsteinn fagri, er vo Einar, son Þóris Grautatlasonar, [ok bræðr hans tveir[6]: Þorkell[7] ok Héðinn, er vógu Þorgils, föður Broddhelga.

Þorsteinn torfi nam hlíð alla utan frá Ósfjöllum[8] ok upp til Hvannár[9], ok bjó á Fossvelli; hans son var Þorvaldr, faðir Þorgeirs, föður Hallgeirs[10], föður Hrapps á Fossvelli.

Hákon hèt maðr, er nam Jökulsdal[11] allan fur vestan Jökulsá ok fur ofan Teigará, ok bjó á Hákonarstöðum; hans dóttir var Þorbjörg, er áttu synir Brynjólfs ens gamla, Gunnbjörn[12] ok Hallgrímr. Teigr lá óvunninn[13] milli Þorsteins torfa ok Hákonar, þann lögðu þeir til Hofs, ok heitir sá nú Hofsteigr.

Skjöldólfr[14] Vemundarson, bróðir Berðlukára, nam Jökulsdal fur austan Jökulsá ok upp frá Knefilsdalsá[15], ok bjó á Skjöldólfsstöðum; hans börn voru þau Þorsteinn, er átti Fastnýju Bryn-

1) *frá* [ *v. í C;* Ásbjarnarsynir, *b. v. E.* 2) *frá* [ *v. í B.* 3) Geirr, *H, I, Sk.* 4) *frá* [ *v. í B;* föður Ragneiðar, móður Höllu, móður Bótólfs, föður Þórdísar, móður Helgu, móður Þórðar prests, föður Markúsar á Melum, *b. v. E.* 5) Þorviðr, *G, Sk.* 6) tvo, *B, G, H, I, Sk.* 7) Þórir, *B;* Þorkel, *G, H, I, Sk;* en bróðir hans var Þorkell, *í stað þess frá* [ *E.* 8) Úlfsfjöllum, *A-J.* 9) Hvammsár, *C.* 10) Hálfgeirs, *B.* 11) Fljótsdal, *A-J.* 12) *eða:* Gullbjörn, *C.* 13) únuminn, *C, Sk.* 14) Vermundr, *A-J.* 15) Kefilsdalsá, *C, I;* Hnefisdalsá, *E.*

jólfsdóttur hins gamla, ok Sigríðr, [er átti Özur Brynjólfsson; þeirra son Bersi, er Bersastaðir eru viðkendir[1].

Þórðr þvari hèt maðr, son Þórólfs hálma, bróðir Helga bunhauss, hann nam Túngulönd öll millim Lagarfljóts ok Jökulsár fur utan Rángár; hans son var Þórólfr hálmr[2], er átti Guðríði Brynjólfsdóttur [hins gamla[3]; þeirra son var Þórðr þvari, faðir Þórodds, föður Brands, föður Steinunnar, móður Rannveigar, móður Sæhildar, er *Gizzur*[4] Hallsson[5] átti.

Özur[6] slagakollr nam land milli Ormarsár[7] ok Rángár, hann átti [Guðnýju Brynjólfsdóttur[8]; þeirra son var Ásmundr, faðir Marðar[9].

Ketill ok Grautatli, synir Þóris þiðranda[10], fóru or Veradal til Íslands, ok námu land í Fljótsdal fyrr enn Brynjólfr kvæmi út. Ketill nam Lagarfljótsstrandir báðar fur vestan Fljótsá[11], milli Hengifossár ok Ormsár[12]. Ketill fór utan, ok var með Veðormi, syni Vemundar ens gamla; þá keypti hann at Veðormi[13] Arneiði, dóttur Ásbjarnar jarls[14] skerjablesa, er Hólmfastr, son Veðorms, hafði hertekit, þá er þeir Grímr, systurson Veðorms, drápu Ásbjörn jarl [í Suðreyjum[15]. Ketill þrymr keypti Arneiði tveim hlutum dýrra enn Veðormr mat hana í fyrstu; [en áðr þau

---

1) móðir Bersa Özurars., *í stað þess frá* [ *B.* 2) hálmi, *B, C.* 3) *v. í B.* 4) Gestr, *E á spáz.* 5) *v. í B.* 6) Gizur, *A-J.* 7) Ormsár, *B, C, Sk.* 8) Guðrúnu Brunnólfsdóttur, *E.* 9) *þannig öll;* Narfa, *Kh.* 10) þrándar, *A-J.* 11) fljót, *C.* 12) Ormarsár, *E.* 13) jarli, *b. v. C.* 14) Haralds konúngs hárfagra, er auknefndist, *b. v. E.* 15) *frá* [ *v. í B;* ok tóku þar Olöfu, konu hans, ok Arneiði dóttur hans, *b. v. E.*

Ketill fóru til Íslands; fann Arneiðr silfr[1] mikit[2] undir viðarrótum, [ok leyndi Ketil, til þess er hann fèkk hennar[3]; þau fóru út ok bjuggu á Arneiðarstöðum; þeirra son var Þiðrandi, faðir Ketils í Njarðvík[4].

3. Grautatli, nam hina eystri strönd Lagarfljóts allt á milli Giljár ok Vallaness, fur vestan Uxalæk[5]; hans synir voru þeir Þorbjörn ok Þórir, er átti Ásvöru Brynjólfsdóttur.

Þorgeirr Vestarsson hèt maðr göfugr, hann átti þrjá sonu, var einn Brynjólfr[6] enn gamli, annar Ævarr hinn gamli, þriði Herjólfr[7]; þeir fóru allir til Íslands, ok á sínu skipi hverr þeirra. Brynjólfr kom skipi sínu í Eskifjörð, ok nam land fur ofan fjall, Fljótsdal allan fur ofan Hengiforsá[8] fur vestan, en fur ofan Gilsá fur austan, ok Skriðudal allan, ok svá völluna út til Eyvindarár, ok tók mikit af landnámi Una Garðarssonar, ok bygði þar frændum ok mágum sínum; hann átti þá[9] tíu börn; en síðan fèkk hann Helgu, er átt hafði Herjólfr, bróðir hans, ok áttu þau þrjú börn; þeirra son var Özurr, faðir Bersa, [föður Hólmsteins[10], föður Órækju, föður Hólmsteins, föður Helgu, móður Hólmsteins, föður

---

1) en er kaupit var vorðit, þá geyrði Ketill brúðkaup til Arneiðar; eptir þat fann hún grásilfr, *í stað þess frá* [ *B.*
2) fólgit, *b. v. E.* 3) þá bauð Ketill at flytja hana til frænda sinna, en hún kaus þá honum at fylgja, *í stað þess frá* [ *B; b. v. Sk;* þá seldi hún honum silfrit, *b. v. E.* 4) Jóreiðr var dóttir Þiðranda, móðir Þorsteins, föður Guðríðar, móður Rannveigar, móður Salgerðar, móður Guðrúnar, móður Hreins ábóta, föður Valdísar, móður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum, *b. v. E.* 5) Öxnalæk, *B.* 6) Brunnólfr, *E hèr og frv.* 7) í Breiðdal, *b. v. E.* 8) Hengifors ok, *C.* 9) *v. í C, G, H, I, Sk.* 10) *frá* [ *v. í C.*

Hallgerðar, móður Þorbjargar, er átti Loptr biskupsson.

Ævarr [hèt maðr[1] hinn gamli, bróðir Brynjólfs, hann kom út á Reyðarfirði, ok fór upp um fjall; honum gaf Brynjólfr Skriðudal allan[2] fur ofan Gilsá, hann bjó á Arnaldsstöðum[3]; [hann átti tvo[4] sonu ok dætr þrjár[5].

Ísrauðr[6] hèt maðr, er fèkk Ásvarar Herjólfsdóttur, bróðurdóttur Brynjólfs ok stjúpdóttur; henni fylgdi heiman öll lönd í milli Gilsár ok Eyvindarár; þau bjuggu á Ketilsstöðum; þeirra son var Þorvaldr holbarki, faðir Þorbergs, föður Hafljóts, föður Þórhadds[7] skálar. Dóttir Holbarka var Þórunn, er átti Þorbjörn Grautatlason, önnur Ástríðr, móðir Ásbjarnar loðinhöfða, föður Þórarins í Seyðarfirði, föður Ásbjarnar, föður Kolskeggs[8] ens fróða, ok Íngileifar, móður Halls, föður Finns lögsögumanns.

Hrafnkell hèt maðr Hrafnsson, hann kom út síð landnámatíðar; hann var hinn fyrsta vetr í Breiðdal, en um vorit fór hann upp um fjöll; hann áði í Skriðudal, ok sofnaði; þá dreymdi hann at maðr kom at honum, ok bað hann uppstanda, ok fara brott sem skjótast; hann vaknaði, ok fór á brott; en er hann var skamt kominn, þá ljóp ofan fjallit allt, ok varð undir göltr ok griðúngr, er hann átti; síðan nam hann

---

1) *v. í B.* 2) *v. í Sk.* 3) Arnhaldsstöðum, *E.* 4) níu, *E.* 5) *frá* [ *v. í O;* Yngvildr hèt ein, hún var móðir Þorsteins, föður Ámunda, föður Guðrúnar, móður Þórdísar, móður Helgu, móður Þórðar prests, föður Markúss á Melum, *b. v. E.* 6) *eða:* Ásrauðr, *A; í B, C, v. upphafsstafinn;* Ásbrandr, *A-J.* 7) Þóraz, *C;* Þórðar, *E.* Skolskeggs, *C.*

Hrafnkelsdal, ok bjó á Steinkelsstöðum[1]; hans son var Ásbjörn, faðir Helga, ok Þórir, faðir Hrafnkels goða, föður Sveinbjarnar[2].

4. Uni [hinn Danski eða hinn óborni[3], son Garðars, er[4] fann Ísland[5], fór til Íslands með ráði Haralds konúngs hins hárfagra, ok ætlaði at leggja undir sik landit, en síðan hafði konúngr heitit honum at gera hann jarl sinn. Uni tók land þar, sem nú heitir Unaós, ok húsaði þar; hann nam sèr land til eignar fur sunnan Lagarfljót, allt hèrað til Unalækjar; en er landsmenn vissu ætlan hans, tóku þeir at ýfast við hann, ok vildu eigi selja honum kvikfè eðr vistir, ok mátti hann þar eigi viðhaldast. [Uni fór[6] brott, ok kom í Álptafjörð enn syðra, hann náði þar eigi at staðfestast; þá fór hann austan með tólfta mann, ok kom at vetri[7] til Leiðólfs kappa í Skógahverfi, hann tók við þeim[8]. Uni þýddist[9] Þórunni, dóttur Leiðólfs kappa, ok [var hún með barni um vorit; þá vildi Uni laupast á brott með menn sína, en Leiðólfr reið eptir honum, ok fundust þeir hjá Flángastöðum[10], ok börðust þar, þvíat Uni vildi eigi aptr fara með Leiðólfi; þar fèllu nokkurir menn af Una, en aptr fór hann nauðigr, þvíat Leiðólfr vildi at hann fengi konunnar, ok stað-

1) Steinrauðarstöðum, *B*, *C*, *E*, *H*, *I*, *Sk*; Steinstöðum, *G*. 2) Steinbjarnar, *Sk*; föður Þorsteins, föður Bótólfs, föður Þórdísar, móður Helgu, móður Þórðar prests, föður Markúsar á Melum, *b. v. E*. 3) *frá* [ *ó. í B*. 4) fyrst, *b. v. B*, *E*. 5) ok, *b. v. Sk*. 6) Um vorit fór hann, *G*. 7) Veri, *B*. 8) Uni Danski Garðarsson vildi leggja Ísland undir sik, eða Harald konúng hárfagra; hann bjó at Ósi, ok nam þar eigi yndi, ok fór at kanna víðara landit, ok þág vetrvist at Leiðólfi, *E á spáz. eptir Landn. í stað þess frá byrjun kap.* 9) elskaði, *C*. 10) *þannig B*, *C*, *G*, *H*, *I*, *Sk*; Flavgastöðum, *A*; Flagast., *E*.

festist[1], ok tæki arf eptir hann. Nokkuru síðar ljóp Uni í brott, þá er Leiðólfr var eigi heima, en Leiðólfr reið eptir honum, þá er hann vissi, ok fundust þeir hjá Kálfagröfum, var hann þá svå reiðr at hann drap Una ok förunauta hans alla[2]. Son Una ok þórunnar var Hróarr Túngugoði, hann tók arf Leiðólfs allan, ok var [hit mesta afarmenni[3]; hann átti [dóttur Hámundar[4], systur Gunnars frá Hlíðarenda; þeirra son var Hámundr enn halti, er var hinn mesti vígamaðr. Tjörfi hinn háðsami[5] ok Gunnarr voru systursynir[6] Hróars. Tjörfi bað Ástríðar mannvitsbrekku Móðólfsdóttur, en bræðr hennar, Ketill ok Hrólfr, synjuðu honum konunnar, en þeir gáfu hana þóri Ketilssyni; þá dró Tjörfi líkneski þeirra á kamars vegg, en hvert kveld, er þeir Hróarr gengu til kamars, þá hrækti hann í andlit líkneski þóris, en kysti á hennar líkneski, áðr Hróarr skóf af. Eptir þat skar Tjörfi þau á hnífsskepti[7] sínu, ok kvað þetta:

[Vèr höfum þar[8] sem[9] þóri,
þat var sett við glettu[10],
auðar únga brúði
áðr á veggjum[11] fáða;

1) þar, *b. v. C.* 2) vildi hafa í burt með sèr; en Leiðólfr reið eptir honum, ok börðust þeir við Kálfagrafir, ok fèllu menn or hvorstveggja liði; þá skildu þeir. En Uni fór skamt undan áðr Leiðólfr kom eptir honum, ok börðust þá í annat sinn, ok fèll þar Uni ok förunautar hans, *í stað þess frá [ E eptir Landn.* 3) hinn mesti hermaðr, *C*; hann bjó í Ási, *b. v. E.* 4) *frá [ v. í C.* 5) hásami, *B.* 6) *þannig C*; synir, *A og hin.* 7) knífshepti, *C.* 8) þat, *C.* 9) með, *E.* 10) Hafðek hára lofða, hyrjar ness til þessa, *í stað þess frá [ E á spáz. eptir Landn.* 11) vegg of, *B*; vegg um, *C, E.*

nú hefik rasta karms[1] ristit[2],
rèð ek[3] [ein[4] fur því meini[5],
hauka skopts[6] á hepti
hlín ölbækis[7] mínu[8].

[Hèraf gerðust víg þeirra Hróars ok systursona hans[9].]

Þorkell fullspakr hèt maðr, er nam Njarðvík alla, ok bjó þar; hans dóttir var Þjóðhildr[10], er átti Ævarr hinn gamli, ok var þeirra dóttir Ýngvildr, móðir Ketils í Njarðvík Þiðrandasonar.

Vetrliði hèt maðr, son Arnbjarnar[11] Ólafssonar lánghals, bróðir þeirra Lýtíngs ok Þorsteins torfa[12] [ok Þorbjarnar[13] í Arnarholti[14]. Ólafr lánghals var son Bjarnar reiðarsíðu. Vetrliði nam Borgarfjörð, ok bjó þar.

Þórir lína hèt maðr, er nam Breiðavík, ok bjó þar; hans synir voru þeir Gunnsteinn ok Sveinúngr[15].

*Nú hefir Kolskeggr[16] fur sagt hèðan[17] um landnám.*

5. Þorsteinn kleggi nam fyrst Húsavík, ok bjó þar; hans son var Án, er Húsvíkíngar eru frá komnir.

Loðmundr hinn gamli hèt maðr, en annar Bjólfr, fóstbróðir hans, þeir fóru til Íslands af

1) *þannig B, H, Sk;* rastakarins, *A, G;* rastakarms, *C, E.* 2) ristna, *E.* 3) *v. í Sk.* 4) einn, *B.* 5) margt við sýn bjarta, *E eptir Landn.* 6) skapts, *H.* 7) *eða:* ölbókis, *C.* 8) *vís. v. í I.* 9) Hèraf gjörðist fjandskapr þeirra meiri, ok vógu þeir synir Móðólfs, Ketill ok Hrólfr, ok Brandr frá Gnúpum, föðurbróðir þeirra, ok Þórir Ketilsson, er átti Ástríði, Hróar goða, ok Tjörfa, ok Kolbein, *í stað þess frá [ E.* 10) Þórhildr, *C, I, Sk.* 11) Arinbjarnar, *C.* 12) tjörfa, *E.* 13) Þiðrandasonar, *b. v, H, Sk.* 14) *frá [ v. í E.* 15) Sæmundr, *A-J.* 16) Ásbjarnarson, *b. v. E.* 17) hèðan frá, *B;* hèðan af, *Sk; v. í C, E.*

Vors af Þuluncsi. Loðmundr var [mjök tröllaukinn[1]; hann skaut öndvegissúlum sínum fur borð í hafi, ok kvaðst þar byggja skyldu, sem þær ræki á land; en þeir fóstbræðr tóku Austfjörðu, ok nam Loðmundr Loðmundarfjörð, ok bjó þar þrjá[2] vetr, þá frá hann til öndvegissúlna sinna fur sunnan land; eptir þat bar hann á skip öll faung sín; en er segl var undit[3], lagðist hann niðr, ok bað engan mann [vera svâ djarfan at hann nefndi[4] sik; en er hann hafði skamma stund legit, varð gnýr mikill; þá sá menn at skriða mikil ljóp á bæ þann, er Loðmundr hafði átt ok ábúit; eptir þat settist hann upp, ok tók til orða: þat er álag mitt, at þat skip skal aldri heilt af hafi koma hèðanaf[5], er hèr siglir út; hann hèlt suðr fur Horn, ok vestr [með landi allt[6] fur Hjörleifshöfða, ok lendi nokkuru vestar; hann nam þar land, sem súlurnar höfðu á land komit, á milli Hafrsár ok Fúlalækjar, þat er nú Jökulsá á Sólheimasandi; hann bjó í Loðmundarhvammi, [þat heitir nú Sólheimar[7]. Þá [er Loðmundr var gamall[8] bjó Þrasi í Skógum, [hann var ok fjölkunnigr[9] [ok var íllt í bygð þeirra[10]. Þat var eitt sinn at Þrasi sá um morgin vatnalaup mikit ofan, en þau vötn veitti hann með fjölkýngi austr fur Sólheima, en þræll Loðmundar sá, ok kvað falla sjó norðan yfir landit at þeim. Loðmundr var þá blindr, ok mælti við þrælinn: færðu mèr

[1]) rammaukinn mjök ok fjölkunnigr, *B.* [2]) þenna, *B.* [3]) dregit, *B.* [4]) nefna, *C.* [5]) *v. í B.* [6]) *frá* [ *v. í C.* [7]) ok kallaði þar Sólheima, *B.* [8]) *frá* [ *v. í C.* [9]) *frá* [ *v. í C.* [10]) *frá* [ *v. í B.*

í dælukeri litlu þat, er þú kallar sjó vera; þrællinn gerði svá; Loðmundr segir: eigi þykki mèr þetta sjór vera; síðan bað hann þrælinn fylgja sèr til vatnsins: ok stikk stafsbroddi mínum í vatnit; [þrællinn gerði svá[1]; hríngr var í stafnum; Loðmundr hèlt um stafinn [tveim höndum[2], ok beit í hrínginn[3]; því næst tóku vötnin at falla[4] aptr vestr fur Skóga. Síðan veitti hvárr þeirra vötnin frá sèr[5], þartil er þeir fundust við gljúfr nokkur, þá sættust þeir á þat, at áin skyldi falla þar til sjóvar sem skemst er; [í þeim vatnagángi varð Sólheimasandr, þar er fjórðúngamót, ok Jökulsá á miðjum sandi. Son Loðmundar var Sumarliði, faðir Þorsteins hólmuns, föður Þóru, móður Steins Brandaxsonar, föður Þóru, er átti Skapti lögmaðr[6].

6. Bjólfr[7], fóstbróðir Loðmundar, nam Seyðisfjörð allan, ok bjó þar alla æfi; hann gaf Helgu dóttur sína Áni[8] hinum ramma[9], ok fylgdi henni heiman öll hin neyrðri strönd Seyðisfjarðar til Vestdalsár[10]. Ísólfr hèt son Bjólfs, er[11] Seyðfirðíngar eru frákomnir.

Eyvindr hèt maðr, er út kom með Brynjólfi[12], ok færði síðan bygð sína í Mjóafjörð, ok bjó þar; hans son var Rafn, er seldi Mjóafjarðarland Þorkeli blöku[13], er þar bjó síðan; frá honum er Blökuætt[14] komin.

---

1) *frá* [ *v. í B.* 2) *frá* [ *v í C.* 3) ákafliga, *b. v. E.* 4) hægja rás sinni, ok um síðir fèll renslan, *E.* 5) sem búinn var, *b. v. E.* 6) sú er nú kölluð Jökulsá, ok skilr landsfjórðúnga, *í stað þess frá* [ *B.* 7) Eyjólfr bjálfi, *A-J.* 8) Önn, *E.* 9) rauða, *H.* 10) Vestradalsár, *E.* 11) þar bjó síðan ok, *b. v. B.* 12) ok nam fyrst Eyvindardal, *b. v. E.* 13) klöku, *B.* 14) Klökuætt, *B.*

Egill[1] hinn rauði hèt maðr, er nam Norðfjörð[2], ok bjó á Nesi út; hans son var Ólafr, er Nesmenn eru frákomnir.

Freysteinn hinn fagri hèt maðr, hann nam Sándvík, ok [Barðsnesvík[3], ok Hellisfjörð, ok Viðfjörð, [hann[4] bjó á Barðsnesi við fjörðinn; frá honum eru Sandvíkíngar ok Viðfirðíngar ok Hellisfirðíngar komnir[5].

Þórir hinn háfi[6] ok Krumr, þeir fóru af Vors til Íslands, ok þá er þeir kvâmu ok tóku land, nam Þórir Krossavík[7] á milli Gerpis ok Reyðarfjarðar[8]; þaðan eru Krossvíkíngar komnir; en Krumr nam land á Hafranesi, ok allt til Þèrnuness[9], ok allt hit ytra, bæði Skrúðey[10] ok aðrar úteyjar, ok þrjú lönd öðrum megin [gegnt Þernunesi[11]; þaðan eru Krymlíngar komnir.

Ævarr var fyrst í Reyðarfirði, áðr hann fór upp um fjall, en Brynjólfr í Eskifirði, áðr hann fór upp at byggja í Fljótsdal, sem áðr var ritat.

Vemundr[12] hèt maðr, er nam Fáskrúðsfjörð allan, ok bjó þar alla æfi; hans son var Ölmóðr, er Ölmæðlíngar[13] eru frákomnir.

Þórhaddr[14] hinn gamli var [höfðíngi ok[15] hofgoði í Þrándheimi á Mærinni; hann fýstist til Íslands, ok tók áðr ofan hofit, ok hafði með sèr hofsmoldina ok súlurnar; en hann kom í

---

1) Eyjólfr, *A-J.* 2) Norðrfjörð, *B.* 3) Barðsnes, *C, E.* 4) *frá fyrra* [ *v. í B.* 5) *frá síðara* [ *v. í C.* 6) hvíti, *G, H, I.* 7) ok, *b. v. C.* 8) Reiðarfjalls, *E.* 9) Þórunness, *A-J.* 10) Skrúð, *C, E;* Suðrey, *A-J.* 11) Þernuness, *C.* 12) Frá Sæmundi, *fyrisögn kap. í C; má því vera* V *sè rángt viðsett fyri* S *í B, C, er upphafsstafinn v. í.* 13) Ölmóðlingar, *E.* 14) Þórhaldr, *A-J.* 15) *v. í B, C.*

Stöðvarfjörð, ok lagði Mærina-helgi á allan fjörðinn, ok lèt engu tortýna þar, nema kvikfè heimilu[1], hann bjó þar alla æfi síðan; frá honum eru Stöðfirðíngar komnir.

7. Hjalti hèt maðr, er nam Kleyfarlönd ok allan Breiðdal [þar upp frá[2]; hans son var Kolgrímr, er margt manna er frákomit[3].

Herjólfr[4] hèt maðr, er nam land allt út til Hvalsnesskriðna; hans son var Eyvindr[5] vopni, er Vopnlíngar[6] eru frákomnir.

Herjólfr[7], bróðir[8] Brynjólfs, nam Heydalalönd fur neðan Tinnudalsá ok út til Ormsár; hans son var Özur, er Breiðdælir eru frákomnir.

Skjöldólfr hèt maðr, er nam stræti[9] allt fur utan Gnúp, ok inn öðrum megin til Óss ok til Skjöldólfsness hjá Fagradalsá, [ok Breiðdali[10]; hans son var Háleygr, er þar bjó síðan; frá honum er Háleygjaætt komin.

Þjóðrekr[11] hèt maðr, hann nam fyrst Breiðdal[12] allan, en hann stökk brott þaðan fur Brynjólfi ok ofan í Berufjörð, ok nam þar alla ena neyrðri strönd Berufjarðar, ok fur sunnan um[13] Búlandsnes ok inn til Rauðaskriðna öðrum megin, ok bjó þar þrjá vetr er nú heitir Skáli[14]; síðan keypti Björn hinn háfi jarðir at honum, ok eru frá honum Berufirðíngar komnir.

Björn sviðinnhorni hèt maðr, er nam Álpta-

---

1) heimölu, *C*; á heimili sinu, *E*. 2) *frá* [ *v. í C*. 3) ok hans eptirkomendr bygðu Hest, *b. v. E*. 4) Bergólfr, *A-J*. 5) *v. í B*. 6) Væpnlíngar, *B*, *C*; Vopneyíngar, *E*; Vopnafirðíngar, *I*, *Sk*. 7) Bergólfr, *A-J*. 8) son, *A-J*. 9) Streiti, *C*. 10) í Breiðdal, *B*, *C*, *E*. 11) Þórir, *A-J*. 12) Fljótsdal, *E*. 13) ok, *C*. 14) *þannig B, C, Sk*; Þjóðreksskáli, *E*; Skó á, *A-J*; Skaði, *A og hin*.

fjörð hinn nyrðra inn frá Rauðaskriðum, ok Sviðinnhornadal.

Þorsteinn trumbuheinn hèt frændi Böðvars ens hvíta, ok fór með honum til Íslands, hann nam fur utan Leyruvòg til Hvalsnesskriðna; hans son var Kollr enn grái, faðir Þorsteins, föður Þorgríms í Borgarhöfn, föður Steinunnar, er átti Gizur biskup.

Böðvarr enn hvíti var son Þorleifs miðlúngs[1], Böðvarssonar snæþrymu, Þorleifssonar hvalaskúfs, Ánssonar, Arnarsonar[2] hyrnu[3], Þórissonar konúngs, Svínaböðvarssonar, Kaunssonar konúngs, Sölvasonar[4] konúngs, Hrólfssonar konúngs[5] or Bergi, [Svasasonar[6] jötuns norðan af Dofrum. Hrólfr kónúngr átti Gó, er gói-mánaðr er viðkendr, [systur þeirra Gors, ok Nors, er Noregr er viðkendr; þeir[7] [Brand-Önundr, frændi hans[8], fóru af Vors til Íslands, ok kvâmu í Álptafjörð enn syðra. Böðvarr nam inn frá Leyruvogi dali þá alla, er þar liggja, ok út öðrum megin til Múla, ok bjó at Hofi, ok reisti þar hof mikit. Son Böðvars var Þorsteinn, er átti Þórdísi, dóttur Özurar keiliselgs, Hrollaugssonar; þeirra son var Síðu-Hallr, er átti Jóreiði[9] Þiðrandadóttur, ok er þaðan mikil ætt komin; son þeirra var Þorsteinn, faðir Ámunda, föður Guðrúnar, móður Þórdísar, móður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona[10].

---

1) miðlutigs, *E.* 2) Árnar, *hèr og frv. C.* 3) konúngs, *b. v. B.* 4) Saugasonar, *B.* 5) *v. í B.* 6) Svafasonar, *E;* Svaðas., *Sk.* 7) *þannig Kh;* ok, *A, C, G, H, I, Sk;* ok, *í stað þess frá fyrra* [ *B;* ok, *í stað þess frá síðara* [ *E.* 8) Bröndúlfr, bróðir hans, *E.* 9) Þórdísi, *G, I.* 10) Helga var ok móðir Þórðar prests, föður Markúss á Melum, *b. v. E.*

Brand-Önundr nam land fur norðan Mála, Kambsdal ok Melrakkanes, ok inn til Hamarsár, ok er margt manna frá honum komit.

Þórðr skeggi, [son Hrapps, Bjarnarsonar bunu, hann átti Vilborgu Ósvaldsdóttur ok Úlfrúnar Játmundardóttur. Þórðr skeggi fór til Íslands, ok[1] nam lönd öll í Lóni fur norðan Jökulsá, á milli ok Lónsheiðar, ok bjó í Bæ tíu vetr [eðr lengr[2]; en er hann frá til öndvegissúlna sinna fur neðan heiði í Leyruvogi, þá [réðst hann vestr þannig[3], ok bjó á Skeggjastöðum sem fyrr er ritat. Dóttir Þórðar var Helga, er Ketilbjörn enn gamli átti at Mosfelli. Þórðr skeggi[4] seldi [lönd sín[5] Úlfljóti lögmanni, er [þar kom út í Lóni[6], [syni Þóru, dóttur Ketils Hörða-Kárasonar, Aslákssonar, Bifru-Kárasonar, Ánarsonar[7], Arnarsonar hyrnu; bjó[8] Þórðr nokkura vetr síðan í Lóni, er hann spurði til öndvegissúlna sinna. En er Úlfljótr var sextugr[9] at aldri, fór hann til Noregs, ok var þar þrjá vetr; þar settu[10] þeir Þorleifr enn spaki, móðurbróðir hans, lög þau, er síðan[11] voru köllut Úlfljótslög; en er hann kom út, var sett alþíng, ok höfðu menn síðan eín lög á landi hèr[12]. Þat var upphaf enna heiðnu laga, at menn skyldu eigi hafa höfuðskip í haf, en ef þeir hefði, þá skyldi aftaka höfuð áðr þeir kæmi í landssýn, ok sigla eigi at landi með

1) *frá* [ *v. í C.* 2) *frá* [ *v. í C.* 3) þaðan, *I;* þannag, *Sk.* 4) *frá* [ *v. í C.* 5) Lón-lönd, *B;* land allt fyri austan Jökulsá, *E í niðrl.* 6) lög flutti út hingat, *B.* 7) *v. í. H, I, Sk.* 8) þó, *b. v. E.* 9) nær hálfsextugr, *E í niðrl.* 10) samanskrifuðu, *E í niðrl.* 11) hann hafði út, ok þá, *E í niðrl.* 12) ok voru þau nokkurn veg samin eptir Gulaþingslögum, *b. v. E í niðrl.*

gapandi höfðum eða gínandi trjónum, svâ at landvættir fældist við[1]. Baugr tvíeyríngr, eða meiri, skyldi liggja í hverju höfuðhofi á stalla, þann baug skyldi hverr goði hafa á hendi sèr til lögþínga allra, þeirra er hann skyldi sjálfr heyja, ok rjóða hann þar áðr í roðru[2] nautsblóðs[3] þess, er hann blótaði þar sjálfr[4]; hverr sá maðr, er þar þurfti lögskil af hendi at leysa at dómi, skyldi áðr eið vinna at þeim baugi, ok nefna sèr vátta tvo eða fleiri: nefni ek[5] þat vætti, skyldi hann segja, at ek vinn eið at baugi, lögeið, hjálpi mèr svâ Freyr, ok Njörðr, ok hinn almáttki Áss[6], sem ek mun svá sök þessa sækja eða verja, [eða vitni bera, kviðu eða dóma[7], sem ek veit rèttast ok sannast ok helzt at lögum, ok öll lögmæt skil af hendi leysa, þau er undir mik koma, meðan ek er á þessu þíngi[8].

---

1) *það sem eptir er kapitulans hefir E, með þeim orðamun sem tilfærðr er, í sèrílagi kap. við niðrlag sögunnar, ítrekast og í konum með framangreindum orðamun undanfarin frásögn um Ulfljót.* 2) rjóðrn, *C*; rauðu, *E*; roðnu, *G, H, I, Sk.* 3) blótnauts, *E.* 4) dómhringr var á þingstaðnum, er þeir menn voru í skipaðir, er þat straff höfðu, at þeir voru dæmdir til blóts, *b. v. E.* 5) ykkr í, *b. v. E.* 6) Óss, *C.* 7) vitni eða vætti eða kviðu bera, eða dóm dæma, *E.* 8) Svâ sagði vitr maðr, Þormóðr, er allsherjargoði var á Íslandi, at með þessum orðum ok þingmörkum helguðu lángfeðgar hans alþíngi. Böðvarr hinn hvíti af Noð or Noregi bygði fyrstr at Hofi; hann reisti þar hof, ok gjörðist þar hofgoði; hann var faðir Þorsteins, föður Halls á Síðu. Hof í Vatnsdal ok Hof á Kjalarnesi hafa hèr á landi stærst verit einkum, stórt hundrað fóta á lengd; þat syðra var ok 60 fóta breitt. Kór eða goðastúka var hjá hvörju hofi, þar voru í goðin; Þórr eða Júppiter var æðstr ok mest göfgaðr, þá Freyr, son Óðins, sá er fyrst bygði Uppsali í Svíaríki; ok þó eigi sè glöggt at skilja hvat mörg goð, eða með hvörju nafni þau hafi verit hèr dýrkut at sèrhvörju hofi, þá eru þó í gömlum eyðstaf áuefndir þessir 3: Freyr, Njörðr, ok Áss, sem vèr hyggjum þá meina með Óðinn, af því hann var æðsti höfðingi híngat í Norðrlönd kominn úr Asía; Æsar eða Æsir kölluðust fleiri. Þessi goð

þá[1] var landinu skipt í fjórðúnga, ok skyldi vera þrjú þíng í fjórðúngi, en þrjú höfuðhof í þíngsókn hverri; þar voru menn valdit[2] til at geyma hofanna at viti ok rèttlæti; þeir skyldu nefna dóma á þíngum, ok stýra sakferli, því voru þeir guðar[3] kallaðir[4]; hverr maðr skyldi gefa toll til hofs, sem nú til kyrkju tíund[5].

8. Þorsteinn leggr, son Bjarnar blátannar, fór or Suðreyjum til Íslands, ok nam lönd öll fur norðan Horn til Jökulsár í Lóni, ok bjó í Böðvarsholti þrjá vetr, hann seldi síðan löndin, ok fór aptr í Suðreyjar.

Rögnvaldr jarl á Mæri, son Eysteins glumru, Ívarsonar[6] Upplendínga jarls, Hálfdánarsonar hins gamla, Rögnvaldr átti Ragnhildi, dóttur Hrólfs nefju; þeirra son var Ívarr, er fèll í Suðreyjum með Haraldi konúngi enum hárfagra; annar var Gaunguhrólfr, er vann Norðmandí, frá honum

stóðu á stalli, eða háum bekk; frammi fyri þar stóð stalli með miklum hagleik, ok þiljaðr ofan með járni; þar skyldi á vera eldr sá, er aldrei slokknaði, þat kölluðu þeir vígðan eld; á þeim stalli skyldi ok standa bolli mjök af kopar; þar skyldi í láta blóð þat allt, er kæmi af fè því, er þar var tilgefit, eða mönnum þeim sem til blóts voru dæmdir; þat kölluðu þeir hlutbolla, en hlutunum skyldi bæði dreifa yfir menn ok fè (Vatzhyrna). Þorsteinn Ingólfsson lèt setja fyrstr manna þing á Kjalarnesi, áðr álþingi var sett, við ráð Helga bjólu ok Erlygs at Esjubergi ok annarra vitra manna, ok fylgir þar enn sökum því goðorði alþingishelgun. Þorkell máni lögsögumaðr var son Þorsteins Ingólfssonar; Þormóðr var son Þorkels, er þá var allsherjargoði, er kristni kom á Ísland. Þorgeirr Ljósvetningagoði var þá lögsögumaðr, (Landnáma), *b. v. E.*

1) Um daga Þórðar gellis, *E.* 2) vandaðir, *E.* 3) goðar, *E, Sk.* 4) ok hofgoðar, en þeirra tign ok umdæmi kallat goðorð, *b. v. E.* 5) *frá fyrra* [ *v. í B;* fè þat, er til hofs var gefit skyldi hafa til mannfagnaðar þar eð blótveizlur voru. Norðlendingafjórðúngi var skipt í 4 þíng, hann var stærri enn hinir fjórðúngarnir, *b. v. E.* 6) í Vors, sonar, *E.*

eru Rúðujarlar komnir ok Engla konúngar; þriði var þórir jarl þegjandi, er átti Álöfu árbót, dóttur Haralds konúngs hárfagra, ok var þeirra dóttir Bergljót, móðir Hákonar jarls ens ríka. Rögnvaldr (jarl) átti friðlusonu þrjá, hèt einn Hrollaugr, annar Einarr, þriði Hallaðr, sá veltist or jarldóminum í Orkneyjum; en er Rögnvaldr jarl frá þat, þá kallaði hann saman sonu sína, ok spurði, hverr þeirra þá vildi til eyjanna; en þórir bað hann sjá fur sinni ferð; jarlinn [kvað honum vel fara, en[1] kvað hann þar skyldi ríki taka eptir föður sinn. þá gekk Hrólfr fram, ok bauð sik til farar; Rögnvaldr kvað honum vel hendt fur sakir afls ok hreysti, en kvaðst ætla at meiri ofsi væri í skapi hans, enn hann mætti þegar [at löndum setjast[2]. þá gekk Hrollaugr fram, ok spurði, ef hann vildi at hann færi; Rögnvaldr kvað hann eigi jarl mundu verða: hefir þú [þat skap, er engi styrjöld fylgir[3], manu vegir þínir liggja til Íslands, mantu þar verða göfugr ok kynsæll á því landi, en engi eru hèr forlög þín. þá gekk Einarr fram, ok mælti: láttu mik fara til Orkneyja, ok mun ek þèr því heita, er þèr mun bezt þykkja, at ek mun aldrí koma aptr í augsýn. Jarlinn svarar: vel þykki mèr at þú farir brott, en lítils er mèr von at þèr, því móðurætt þín öll er þrælborin. Eptir þat fór Einarr vestr, ok lagði undir sik eyjarnar, sem segir í sögu hans. Hrollaugr fór þá til Haralds konúngs, ok var með honum

[1]) *frá* [ *v. í C.* [2]) fyri ríki ráða, *C.* [3]) ekki styrjaldar skaplyndi, *C.*

um hríð, þvíat þeir feðgar komu eigi skapi saman eptir þetta.

9. Hrollaugr fór til Íslands með ráði Haralds konúngs, ok hafði með sèr konu sína ok sonu; hann kom austr at Horni, ok skaut þar fur borð öndvegissúlum sínum, ok bar þær á land í Hornafirði, en hann rak undan ok vestr fur landit, fèkk hann þá útivist harða ok vatnfátt; þeir tóku land vestr í Leyruvogi á Nesjum, ok var hann þar hinn fyrsta vetr; þá frá hann til súlna sinna, ok fór austr þannveg, var hann annann vetr undir Íngólfsfelli; síðan fór hann austr í Hornafjörð, ok nam land austan frá Horni til Kvíár, ok bjó fyrst undir Skarðsbrekku í Hornafirði, en síðan á Breiðabólstað í Fellshverfi; [þá hafði hann lógat þeim löndum, er norðr voru frá Borgarhöfn, en hann átti til dauðadags þau lönd, er suðr voru frá Hreggsgerðismúla[1]. Hrollaugr var höfðíngi mikill, ok hèlt vingan við Harald konúng, [en fór aldri utan[2]. [Haraldr konúngr sendi Hrollaugi[3] sverð ok ölhorn, ok gullhríng þann, er vá fimm aura; sverð þat átti síðan Kolr son Síðu-Halls, [en Kolskeggr enn fróði sá[4] hornit[5]. Hrollaugr var faðir Özurar keiliselgs, er átti Gró, dóttur þórðar illuga[6]; þeirra dóttir var þórdís, móðir Halls á Síðu. Annar son Hrollaugs var Hró-

1) *frá* [ *v. í C.* 2) *frá* [ *v. í B.* 3) ok eigi vitjaði hann Rögnvalds jarls, föður síns, þvíat honum var útitt við stjúpmóður sína, en jamnan var vingott með þeim konúngi, ok sendi Haraldr konúngr honum gersimar á deyjanda degi, *í stað þess frá* [ *E.* 4) hafði sèt, *hin.* 5) *frá* [ *v. í C.* 6) sonar, *b. v. E.*

aldr., faðir Óttars[1] hvalróar, föður Guðlögar[2], móður Þorgerðar, móður Járngerðar, móður Valgerðar, móður Böðvars, föður Guðnýjar, móður Sturlusona[3]. Önundr var hinn þriði son Hrollaugs. Hallr á Síðu átti Jóreiði Þiðrandadóttur; þeirra son var Þorsteinn, faðir Magnúss, föður Einars, föður Magnúss biskups. Annar son Halls var Egill, faðir Þorgerðar, móður Jóns biskups ens helga. Þorvarðr[4] Hallsson var faðir Þórdísar, móður Jórunnar, móður Halls prests, föður Gizurar, föður Magnúss biskups[5]. Yngvildr Hallsdóttir var móðir Þóreyjar, móður Sæmundar prests ens fróða. Þorsteinn Hallsson var faðir Guðríðar, móður Jóreiðar, móður Ara prests ens fróða. Þorgerðr Hallsdóttir var móðir Yngvildar, móður Ljóts, [föður Járngerðar, móður Valgerðar, móður Böðvars, föður Guðnýjar, móður Sturlusona[6].

10. Ketill hèt maðr, er Hrollaugr seldi Hornafjarðarströnd [utan frá Horni[7] ok inn til Hamra, hann bjó at Meðalfelli; frá honum eru Hornfirðíngar komnir.

Auðunn[8] hinn rauði keypti land at Hrollaugi utan[9] frá Hömrum ok út öðrum megin til Viðborðs, hann bjó[10] í Hofsfelli, ok reisti þar hof mikit; frá honum eru Hofsfellíngar[11] komnir.

Þorsteinn hinn skjálgi keypti land at Hrollaugi allt frá Viðborði suðr um Mýrar ok til

1) föður, *b. v. Sk.* 2) Þórlaugar, *E eptir Landn.* 3) ok föður Þórðar prests, föður Markúss á Melum, *b. v. E.* 4) Þorvaldr, *B, H, I, Sk.* 5) ok Þorvalds, föður Gizurar jarls, *b. v. C.* 6) sem fyrr var ritat, *í stað þess frá* [ *C.* 7) *frá* [ *v. í B.* 8) Önundr, *A-J.* 9) inn, *E.* 10) fyrstr, *b. v. E.* 11) Hornfirðíngar, *E á spáz. eptir Landn.*

Heinabergsár; hans son var Vestmaðr[1], er Mýramenn eru frákomnir.

Úlfr hinn Vorski keypti land at Hrollaugi suðr frá Heinabergsám[2] til Hreggsgerðismúla[3], ok bjó at Skálafelli [fyrstr manna; frá honum eru Vorsar komnir. Síðan færði Úlfr bú sitt í Pappýli, ok bjó á Breiðabólstað, ok er þar haugr hans ok svâ Þorgeirs[4] haugr. Þorgeirr var son Vorse-Úlfs, er bjó á Hofi í Pappýli[5].

Þórðr illugi son Eyvindar eikikróks[6], [Helgasonar[7], Helgasonar, Bjarnarsonar bunu[8]; hann braut skip sitt á Breiðársandi; honum gaf Hrollaugr land milli Jökulsár ok Kvíár, ok bjó hann undir Felli við Breiðá; hans synir voru þeir Örn hinn sterki, er deildi við Þórdísi jarlsdóttur, systur Hrollaugs, ok Eyvindr smiðr; dætr hans voru þær Gróa, er Özur[9] átti, ok Þórdís, móðir Þorbjargar, móður Þórdísar, móður Þórðar illuga, er vo Vígaskútu.

Ásbjörn hèt maðr, son Heyángrs-Bjarnar, hersis[10] or Sogni[11], hann andaðist í Íslandshafi þá er hann vildi út fara, en Þorgerðr kona hans ok synir þeirra komu út; [en þat var mælt, at kona skyldi eigi víðara nema land, enn leiða mætti kvígu tvævetra vorlángan dag sólsetra í millum, hálfstalit naut ok haft vel; því leiddi Þorgerðr kvígu sína undan Tóptafelli skamt frá Kvíá suðr, ok í Kiðjaklett[12] hjá Jökulsfelli fyrir vestan. Þor-

---

1) Vestmarr, *B*, *C*, *Sk*; Vestmann, *E*; Vestarr, *A-J*. 2) Heinabergsá, *B*, *E*, *Sk*. 3) Heggsgerðismúla, *C*. 4) Þorteits, *C*. 5) *frá* [ *v. í B*. 6) eikikross, *E*. 7) *v. í E*, *G*, *Sk*. 8) *frá* [ *v. í B*, *H*, *I*; hann fór til Islands, *b. v. E*. 9) Hrollaugsson, *b. v. E*. 10) lends manns, *E*. 11) hann var son Helga Helgas., Bjarnars. bunu, *b. v. B*, *E*. 12) Kiðjaleit, *C*; Kvíaklett, *H*, *Sk*.

gerðr nam[1] því land um allt Íngólfshöfðahverfi á milli Kvíár ok Jökulsár, ok bjó hún at Sandfelli, [ok Guðlaugr, son þeirra Ásbjarnar, eptir hana; frá honum eru Sandfellíngar komnir; annar son þeirra var þorgils, er Hnappfellíngar eru frákomnir; . þriði[2] var Özur [í Bakkarholti, ok hinn ellri Veðormr, faðir þuríðar hofgyðju. Özur var[3] faðir þórðar Freysgoða, [er margt manna er frákomit[4]. [Álfeiðr var móðir þórðar Freysgoða ok þuríðar hofgyðju[5].

Helgi hèt annar son Heyángrs-Bjarnar, hann fór til Íslands, ok bjó at Rauðalæk [at ráði þorgerðar frá Sandfelli[6]; hans son var Hildir, er Rauðlækíngar eru frákomnir.

Bárðr[7] var enn þriði son Heyángrs-Bjarnar, [er fyrr er getit[8], hann nam fyrst Bárðardal norðr, en síðan fór hann suðr um Vonarskarð Bárðargötu, ok nam Fljótshverfi allt, ok bjó at Gnúpum; hann var kallaðr Gnúpa-Bárðr; hans synir voru þeir þorsteinn ok Sigmundr, Egill ok Nefsteinn, þorbjörn krumr, Hjörr ok þorgrímr, [ok Gísli[9], ok hinn níundi Björn, faðir Geira at Lundum[10], föður þorkels læknis, föður Geira, föður þorkels kanúka, vinar þorláks biskups ens helga, er[11] setti reglustað[12] í þykkvabæ[13].

11. Eyvindr karpi[14] nam land í milli Almannafljóts ok Geirlandsár[15], ok bjó at Forsi fur

---

1) ok námu, *í stað þess frá* [ *B.* 2) hennar son, *í stað þess frá* [ *C.* 3) *frá* [ *v. í B.* 4) *frá* [ *v. í C.* 5) *frá* [ *v. í B.* 6) *frá* [ *v. í B.* 7) Hörðr, *A-J.* 8) *frá* [ *v. í C.* 9) *v. í C, Sk.* 10) Laugum, *E.* 11) hann, *B.* 12) regúlustað, *B, C; E.* 13) þjókkabæ, *C.* 14) korpi, *C, H, I;* karfi, *E;* korpa, *Sk.* 15) Geirsár, *A-J.*

vestan Móðólfsgnúp[1]; hans synir voru þeir Móðólfr smiðr[2], faðir þeirra Hrólfs ok Ketils, ok Ástríðar mannvitsbrekku; annar var Önundr, faðir þraslaugar, móður Tyrfings [ok Haldórs, föður Tyrfings, föður Teits[3]. [Áðr Almannafljót hlypi, var þat kallat Tóptalækr[4].

Ketill hinn fíflski hèt maðr, son Jórunnar mannvitsbrekku, dóttur Ketils flatnefs, hann fór til Íslands af Suðreyjum, ok var vel kristinn; hann nam land á millum Geirlandsár ok Fjarðarár[5] fur ofan Nýkoma. Ketill bjó í Kyrkjubæ, þar höfðu áðr setit Papar, ok eigi máttu þar heiðnir menn búa. Ketill var faðir Ásbjarnar, föður þorsteins, föður Surts, föður Sigvats lögsögumanns, föður Kolbeins, [föður Guðrúnar, móður Narfa ok Loðmundar Skeggjasonar[6]. [Hildr hèt dóttir Ásbjarnar, móðir þóris, föður Hildar, er Skarphèðinn átti. þorbjörg hèt dóttir Ketils ens fíflska, hana átti Vali, son Loðmundar ens gamla[7].

Böðmóðr hèt maðr, er land nam milli Drífandi ok Fjarðarár[8], ok upp til Böðmóðshorns[9], hann bjó í Böðmóðstúngu; hans son var Óleifr, er Óleifsborg[10] er viðkend, hann bjó í Holti; hans son var Vestarr, faðir Helga, föður Gró, er Glæðir[11] átti.

---

1) Meðalfellsgnúp, *A-J.* 2) *v. í B.* 3) *frá* [ *v. í C.* 4) Raptalækr, *C; frá* [ *v. í B.* 5) Fjaðrár, *C, E.* 6) *frá* [ *v. í B.* 7) *frá* [ *v. í G;* Þórðr hèt son Surts or Kyrkjubæ, faðir Guðrúnar, móður Þóru, móður Þorsteins hólmuns, föður Gunnhildar, móður Jódísar, móður Vilborgar, móður Magnúss, föður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum, *þ. v. E.* 8) Fjaðrár, *C, E.* 9) Böðmóðshrauns, *C, Sk.* 10) Oleifsbjörg, *E;* Oleifsberg, *A-J.* 11) Gleirr, *E;* Glæðr, *G, H, Sk.*

Eysteinn hinn digri fór af Sunnmæri til Íslands, hann nam land fur austan Geirlandsá til móts við Ketil hinn fíflska, ok bjó í Geirlandi; [hans son var Þorsteinn frá Keldugnúpi[1].

Eysteinn, son Hrana Hildissonar parraks, fór or Noregi til Íslands, hann keypti land at Eysteini digra, þau er hann hafði numit, ok kvað vera Meðallönd, hann bjó at Skarði; hans börn voru þau Hildir, ok Þórljót, er átti Þorsteinn at Keldugnúpi. Hildir vildi færa bú sitt í Kyrkjubæ eptir Ketil, ok hugði at þar mundi heiðinn maðr búa mega; en er hann kom nær at túngarði, varð hann bráðdauðr, þar liggr hann í Hildishaugi.

Vilbaldr hèt maðr, bróðir Áskels hnokkans, [þeir voru synir Dofnaks[2]; hann fór af Írlandi til Íslands, ok hafði skip þat, er hann kallaði Kúða, ok kom í Kúðafljótsós; hann nam Túngulönd öll á milli Skaptár ok Hólmsár, ok bjó á Búlandi; hans börn voru þau Bjólan, faðir Þorsteins, ok Ölver muðr, ok Bjöllök, er átti Áslákr aurgoði[3].

Leiðólfr kappi hèt maðr, hann nam land fur austan Skaptá til Drífanda, ok bjó at Á fur austan Skaptá [út frá Skál, en annat bú átti hann[4] á Leiðólfsstöðum undir Leiðólfsfelli, ok var þar þá margt bygða. Leiðólfr var faðir Þórunnar, móður Hróars Túngugoða. Hróarr átti Arngunni

[1]) hann var faðir Þorkels, föður Þorsteins frá Keldugnúpi, föður Þoríðar, móður Álofar, móður Guðrúnar, móður Þorvalds, föður Ingiríðar, móður Ástríðar, móður Ingibjargar, móður Þuríðar, móður Hallberu, er átti Markús Þórðarson frá Melum, *í stað þess frá* [ E. [2]) *frá* [ *v. í B.* [3]) *v. í C.* [4]) *frá* [ *v. í C.*

Hámundardóttur, systur Gunnars at Hlíðarenda; [þeirra börn voru þau Hámundr halti ok Ormhildr[1]. Vémundr[2] hèt son Hróars ok ambáttar. Hróarr tók þórunni brún, dóttur þorgils[3] or Hvammi í Mýdal[4]; þorfinnr hèt son þeirra. Hróarr bjó fyrst í Ásum; síðan tók hann Lómagnúps-lönd af Eysteini, [syni þorsteins titlíngs ok Auðar[5] Eyvindardóttur, systur þeirra Móðólfs ok Branda[6]; þraslaug var dóttir þorsteins titlíngs, er átti þórðr Freysgoði. Önundr töskubak, frændi þorsteins-barna, skoraði Hróari á hólm á Skaptafellsþíngi, ok fèll at fótum Hróari. þorsteinn Upplendíngr tók þórunni brún, ok hafði utan; Hróarr fór ok utan; þá drap hann þröst berserk á hólmi, er nauðga vildi eiga[7] Sigríði, húsfreyju hans, en þeir þorsteinn sættust. [Móðólfssynir voru at vígi Hróars, ok þórir, mágr þeirra, Brandi frá Gnúpum, ok Steinólfr búi hans; Hámundr hefndi þeirra Hróars[8].

42. Ísólfr hèt maðr, hann kom út síð landnámatíðar, ok skoraði á Vilbald til landa eðr hólmgaungu, en Vilbaldr vildi eigi berjast, ok fór brott af Búlandi; hann átti þá land milli Hólmsár ok Kúðafljóts[9]; en Ísólfr fór þá í Búland, ok átti land [milli Kúðafljóts ok[10] Skaptár; hans son var Hrani á Hranastöðum, en dóttir Björg, er átti Önundr, son Eyvindar karpa[11]; þras-

---

1) *frá* [ *v. í C.* 2) Vebrandr, *B*, *C.* 3) Brynjólfs, *C.* 4) Mirdal, *G*, *Sk.* 5) ok Auðr, *í stað þess frá* [ *Sk.* 6) Brandar, *Sk.* 7) *v. í C.* 8) *frá* [ *v. í C*; föður sins ok bróður, *b. v. E.* 9) ok Skaptár, *b. v. E.* 10) til, *í stað þess frá* [ *E.* 11) Korpa, *C*, *Sk.*

laug var dóttir þeirra, er átti þórarinn, son Ölvis í Höfða.

Hrafn hafnarlykill var víkíngr mikill, hann fór til Íslands, ok nam (land) í milli Hólmsár ok Eyjarár, ok bjó í Dynskógum; hann vissi fur elds uppkvâmu, ok færði þá bú sitt í Lagey[1]; hans son var Áslákr aurgoði, er Lageyíngar eru frákomnir.

Hjólfr höggvandi hèt maðr, hann bjó á Norðmæri, bær hans hèt Moldatún[2]; hans synir voru þeir Vemundr ok Molda-Gnúpr, þeir voru vígamenn miklir ok járnsmiðir. Vemundr kvað þetta, [er hann var í smiðju[3]:

Ek bar einn
af ellifu
banaorð,
blástu meir!

Gnúpr fór til Íslands fur vígasakir [þeirra bræðra[4], ok nám land [milli Kúðafljóts ok Eyjarár, ok[5] Álptaver allt, þar var þá vatn mikit ok álptveiðar á. [Gnúpr var mikilmenni, ok seldi land þeim mönnum, er síðar kvâmu út[6], ok varð þar fjölbyggt áðr jarðeldr rann ofan; þá flúðu allir vestr til Höfðabrekku, ok gerðu þar tjaldabúðir[7], er heitir á Tjaldavelli, en Vemundr smiðr[8], son Sigmundar kleykis[9], leyfði þeim eigi þarvist; þá fóru þeir í Hrossagarð, [ok gerðu þar skála[10], ok sátu þar um vetrinn, [ok gerðist þar ófriðr

---

1) Laxey, *B.* 2) Moldartún, *E.* 3) *frá* [ *v. í C.* 4) *frá* [ *v. í C.* 5) fyri vestan Kúðafljót til Eyjar, *C.* 6) Molda-Gnúpr seldi mörgum mönnum af landnámi sínu, *B.* 7) búðir, *C, E.* 8) *v. í B.* 9) klækis, er þar átti land, *C.* 10) *frá* [ *v. í C.*

með þeim ok vígafar[1]; [þar fèllu synir Molda-Gnúps tveir ok sjálfr hann, en Björn, son hans, hefndi hans ok þeirra[2]. [En um vorit eptir fóru þeir Molda-Gnúpr[3] vestr í Grindavík, ok staðfestust þar; [þeir höfðu fátt kvikfjár. þeir voru þá fulltíða synir Molda-Gnúps, Björn ok Gnúpr, þorsteinn hrúngnir[4] ok þórðr leggjaldi[5]. Björn dreymdi um nótt at bergbúi kvæmi at honum, ok bauð at gera fèlag við hann, en hann þóttist játa því; eptir þat kom hafr til geita hans, [ok tímgaðist[6] þá svá skjótt fè hans, at hann varð skjótt[7] vellauðigr[8]; síðan var hann Hafr-Björn kallaðr, [ok var bæði ríkr ok stórauðigr[9]. þat sá [ófreskir menn[10], at landvættir allar fylgdu Hafr-Birni þá er hann reið til þíngs, en þorsteini ok þórði, bræðrum hans, þá er þeir [fóru til veiða ok fisktu[11]. Hafr-Björn átti Jórunni[12], stjúpdóttur Gnúps, bróður síns; [þeirra son var Svertíngr, er átti Húngerði, dóttur þórodds Túngu-Oddssonar ok Jófríðar Gunnarsdóttur; þeirra dóttir þorbjörg, móðir Sveinbjarnar, föður Bótólfs, föður þórdísar, móður Helgu, móður Guðnýjar, móður Sturlusona. Gnúpr Molda-Gnúpsson átti Arnbjörgu Raðormsdóttur, sem fyrr er ritat[13]. Iðunn var dóttir Molda-Gnúps, sem átti þjóstarr á Álptanesi; þormóðr var son þeirra[14]. [Frá

1) *frá* [ *v. í C.* 2) *frá* [ *v. í B.* 3) Moldagnúpssynir, *E, H*; Björn ok Gnúpr, *Sk*; Björn fór, *í stað þess frá* [ *C.* 4) hrýngnir, *E*; hrúgnir, *H, Sk*; hrúngverr, *G.* 5) leggjandi, *G, H, I, Sk*; Björn hafði nær ekki kvikfè, *í stað þess frá* [ *C.* 6) tingaðist, *E, G, H, I, Sk.* 7) innan fárra ára, *E.* 8) *frá* [ *v. í C.* 9) *frá* [ *v. í B.* 10) ófresk kona, *C, E.* 11) fiskjar, *hin*; fisktu, *í stað þess frá* [ *C.* 12) þórunni, *G.* 13) *Sjá þó seinna 5 P. 8da kap.* 14) *frá* [ *v. í C.*

Molda-Gnúpi er margt stórmenni komit á Íslandi, bæði biskupar ok lögmenn[1].

13. Eysteinn hèt maðr, son þorsteins drángakarls, hann fór til Íslands af Hálogalandi, ok braut skip sitt, en meiddist sjálfr í viðum; hann bygði Fagradal[2]; en kerlíngu eina rak af skipinu í Kerlíngarfjörð, þar er nú Höfðársandr.

Ölver, son Eysteins, nam land fur austan Grímsá, þar hafði engi maðr þorat at nema fur landvættum, síðan Hjörleifr var drepinn. Ölver bjó í Höfða; hans son var þórarinn í Höfða, bróðir sammæðri Haldórs Örnólfssonar, er Mörðr órækja vo undir Hömrum, ok Arnórs[3], er þeir Flosi ok Kolbeinn, synir þórðar Freysgoða, vógu á Skaptafellsþíngi.

Sigmundr kleykir, son Önundar bílls[4], nam land á milli Grímsár ok Kerlíngarár, er þá fèll fur vestan Höfða. Frá Sigmundi eru þrír biskupar komnir: þorlákr [hinn helgi[5], Páll ok Brandr.

Björn hèt maðr auðigr, ok ofláti[6] mikill, hann fór til Íslands af Valdresi, ok nam land á milli Kerlíngarár [ok Hafrsár[7], ok bjó at Reyni; hann átti illt við Loðmund hinn gamla; frá Reyni-Birni er hinn helgi þorlákr biskup kominn.

Loðmundr hinn gamli nam land milli Hafrsár ok Fúlalækjar, sem fyrr er ritat; þat er þá hèt

---

1) *frá* [ *v. í B.* 2) Fagrabæ, *A-J.* 3) Arnórr, *E.* 4) býlds, Hróarssonar horns, Brúnasonar, er bragð vann á Brávelli, *E.* 5) *v. í B.* 6) skartsmaðr, *C.* 7) *h. v. hin* *v. í A.*

Fúlilækr, er nú kölluð Jökulsá á Sólheimasandi, er skilr landsfjórðúnga[1]. Loðmundr hinn gamli á Sólheimum átti [margt barna[2]: [sex sonu eðr fleiri[3]; Vali hèt son hans, faðir Sigmundar, er átti Oddlaugu, dóttur Eyvindar ens Eyverska. Sumarliði hèt annar son Loðmundar[, faðir Þorsteins hólmuns í Mörk, föður Þóru, móður Steins, föður[4] Surts ens hvíta Skaptastjúps, hann var Sumarliðason; Skapti lögmaðr átti Þóru síðar enn Sumarliði, [þat segir í Ölvusíngakyni[5]. Vemundr hèt hinn þriði son Loðmundar, faðir Þórkötlu, er átti Þorsteinn vífill[6]; þeirra dóttir var Arnkatla, móðir Hróa ok Þórdísar, er átti Steinn Brandsson[7]; þeirra dóttir var Þóra, [er átti * * *[8]. Ari hèt hinn fjórði son Loðmundar, Hróaldr hinn fimti, [Ófeigr hinn sjötti[9] son Loðmundar, laungetinn; hann átti Þraslaugu, dóttur Eyvindar [Eyverska, systur Oddlaugar[10]; frá þeim öllum er margt manna komit[11].

Nú eru ritut landnám í Austfirðínga fjórðúngi, eptir því sem vitrir menn ok fróðir hafa sagt, hefir í þeim fjórðúngi margt stórmenni verit síðan, ok þar hafa margar stórar sögur gerzt; en þessir hafa þar stærstir landnámsmenn verit:

---

1) Loðmundr bjó í Loðmundarhvammi, ok kallaði þar Sólheima, *b. v. E.* 2) *frá [ v. í B.* 3) *frá [ v. í C.* 4) Þóru, móður, *b. v. C.* 5) *frá [ v. í C.* 6) vífl, *C.* 7) brandax, *C.* 8) *hèr er eyða fyrir orði í A, B, E, G, H, I; frá [ v. í C, Sk.* 9) *frá [ b. v. hin; v. í A.* 10) *frá [ v. í C.* 11) Þóra Steinsdóttir, systir Surts, var móðir Þorsteins, föður Gunnhildar, móður Jódísar, móður Vilborgar, móður Magnúss, föður Snorra, föður Hallberu, er átti Markús Þórðarson á Melum, *b. v. E.*

þorsteinn hvíti, Brynjólfr hinn gamli, Grautatli ok Ketill þiðrandasynir, Hrafnkell goði, Böðvarr hinn hvíti, Hrollaugr, son Rögnvalds jarls, Özur, son Ásbjarnar Heyángrs-Bjarnarsonar, er Freysgyðlíngar eru frákomnir, Ketill enn fíflski ok Leiðólfr kappi[1].

---

[1]) *grein þessa v. hèr í C, kemr við niðrlag sögunnar;* þat er margra manna mál, at þat sè úskildr fróðleikr at rita landnám, en vèr þikkjumst heldr svara kunna útlendum mönnum, þá er þeir bregða oss því, at vèr sèum komnir af þrælum eða illmennum, ef vèr vitum vist vorar kynferðir sannar; svo ok þeim mönnum, er vita vilja forn fræði, eða rekja ættartölur, at taka heldr at upphafi til, enn höggvast í miðt mál, enda eru svá allar vitrar þjóðir, at vita vilja upphaf sinna landsbygða, eða hvers hvergi tilhefjast, eða kynslóðir, *b. v. E.*

# Fimti Partr.

*Her hefr landnám í Sunnlendíngafjórðúngi, er [með mestum blóma er alls Íslands fur landskosta sakir, ok höfðíngja þeirrá, er þar[1] hafa byggt, bæði lærðir ok ólærðir[2].*

AUSTFIRÐIR bygðust fyrst á Íslandi[3], en á milli Hornafjarðar ok Reykjaness varð[4] seinzt albyggt; þar rèð veðr ok brim landtöku manna fur hafnleysis sakir ok öræfis. Sumir þeir, er fyrstir kvâmu út, bygðu nærst fjöllum, ok merktu at því landskostina, at kvikfèit fýstist frá sjónum til fjallanna[5].

Þeim mönnum, er síðar kvâmu út, þótti hinir numit hafa ofmikit land ok ofvíða, (er fyrr komu), en á þat sætti Haraldr konúngr þá hinn hárfagri, at enginn skyldi víðara nema, enn hann mætti eldi yfirfara á degi með skipverjum sínum; menn skyldu eld gera þá er sól væri í austri, þar[6] skyldi gera aðra reyki, svâ at hvora sæi frá öðrum, en þeir eldar, er gervir væri þá

[1]) beztr er landskostr á öllu Íslandi, ok ágætastir menn, *í stað þess frá* [ *C.* [2]) leikir, *Sk;* nú má þykkja með mestum blóma ok umvexti til virðingar alls vors lands, fyri guðs gæzlu ok hinu æðstu höfðingja, er nú gæta með honum þessarar landsbygðar, ok í þeim fjórðúngi byggja ok byggt hafa, bæði lærðir ok leikir, þarmeð ok fyri landskosta sakir, *í stað þess frá* [ *E; með þessum fjórð. kemr F við aptr.* [3]) nær því, *b. v. E, F.* [4]) þó, *b. v. E, F.* [5]) ok undi þar vel; virðum vèr svâ, at kynfylgja sè hvör Norrænum mönnum ok Íslenzkum, fyri því at þar bygðist Noregr fyrst, er hann er mjúkastr ok hann gefr þat flest af sèr, er sældarkostr þykir í, þótt nú sè annann veg vorðit öndvegi þess lands, *b. v. E, F, á spáz. eptir Landn.* [6]) til, *b. v. E, F.*

er sól væri í austri, skyldu brenna til nætr; síðan skyldu þeir gánga til þess er sól væri í vestri, ok gera þar aðra elda.

Þórólfr, son Herjólfs hornabrjóts, ok Ólafr, bróðir hans, voru konúngar at Upplöndum; með þeim var Fleinn skáld Hjörsson, sá er fæddist upp norðr á Mæri í eyju þeirri skamt frá Borgund, er Jösrheið heitir, þar bjó faðir hans. Fleinn fór til Danmerkr á fund Eysteins konúngs, ok fèkk þar mikla virðíng af skáldskap sínum, svá at konúngr gaf honum dóttur sína[1]. Þrasi var son Þórólfs[2] hornabrjóts; hann fór af Hörðalandi til Íslands, ok nam land milli Jökulsár[3] ok Kaldaklofsar, [ok bjó á Bjallabrekku; þar heita nú Þrasastaðir skamt austr frá forsinum, en leiði Þrasa er fur austan[4] Forsá, heldr nær ánni í Drángshlíð, undir gnúpinum, ok er skriða áhlaupin[5]. Son Þrasa var Geirmundr, faðir Þorbjarnar, föður Brands í Skógum, [föður Skeggja, föður Bolla í Skógum, föður Skeggja, föður Hildar, er átti Njáll í Skógum Sigmundarson; þeirra son Skeggi, faðir Eyjólfs, föður Brands, er [nú býr[6] í Skógum[7].

Hrafn hinn heimski hèt göfigr[8] maðr, son Valgarðs[9], Vemundarsonar [örðlukárs[10], Þórólfssonar voganefs, Hrærekssonar[11] slaungvan-

[1]) *frá byrjun fjórðúngsins v. í B.* [2]) Herjólfssonar, *b. v. E.* [3]) Jökulsvíkrár, *E, F, eptir Landn.* [4]) vestan, *C, G, H, I, Sk.* [5]) hann bjó i Skógum enum eystrum; hann var rammaukinn mjök, ok átti deilur við Loðmund enn gamla, sem áðr er ritat, *í stað þess frá* [ *B.* [6]) bjó, *I.* [7]) *frá fyrra* [ *v. í B.* [8]) *v. í B.* [9]) Ævarssonar, *b. v. E, F.* [10]) Örðlukárssonar, *E, F, eptir Hauksbók.* [11]) *þannig hin;* Hárekssonar, *A.*

bauga[1], Haraldssonar hilditannar, Dana konúngs; hann fór or þrándheimi til Íslands, ok nam land milli Kaldaklofsár ok Lambafellsár, hann bjó at Rauðafelli[2] enu eystra, ok var et mesta göfugmenni; hans börn voru þau Jörundr goði, ok Helgi bláfauskr, ok Freygerðr. [Jörundr goði var faðir Svarts[3], föður Loðmundar, föður Sigfúss, föður Sæmundar ens fróða, föður Lopts, er átti þóru, dóttur Magnúss konúngs berbeins; þeirra son Jón, faðir Sæmundar, ok Páls biskups, ok Sigurðar, föður Jóns í Ási, föður Salgerðar[4], móður Steinunnar[5].

2. Ásgeirr kneif[6] hèt maðr, son Óleifs hvíta, Skæríngssonar, þórólfssonar; móðir hans var þórhildr, dóttir þorsteins haugabrjóts. Ásgeirr fór til Íslands, ok nam land í milli Lambafellsár ok Seljalandsár, ok bjó þar, er nú heitir at Auðnum; hans son var Jörundr, ok þorkell, faðir Ögmundar, föður Jóns biskups ens helga. Dóttir Ásgeirs var Helga, móðir þórunnar, móður [Höllu, móður[7] þorláks biskups hins helga. [Ásgeirr hafnaði sjálfráði blótum[8].

þorgeirr hinn Hörðski, son Bárðar blönduhorns, fór or Viggjum[9] or þrándheimi til Íslands, hann keypti land at Ásgeiri kneif í millum Lambafellsár ok Írarár[10], ok bjó í Holti[11]; fám vetrum síðar fèkk hann Ásgerðar, dóttur Asks

[1]) våganefs, þórólfssonar, Örðlukárssonar, þrándarsonar hins gamla, *í stað þess frá* [ *E, F.* [2]) Raufarfelli, *C.* [3]) Surts, *E, F.* [4]) Valgerðar, *E, F.* [5]) *frá* [ *v. í B.* [6]) hreif, *E, F.* [7]) þorláks, föður þórhalls, föður, *í stað þess frá* [ *B, E, F.* [8]) *frá* [ *v. í B.* [9]) Viggju, *C, Sk.* [10]) Irár, *C, Sk;* Yrjarár, *E, F.* [11]) fyrstr, *b. v. E, F.*

hins ómálga; ok voru þeirra synir Þorgrímr enn mikli, ok Holta-Þórir[1], faðir Þorleifs kráks ok Skorar-Geirs.

Ófeigr hèt maðr ágætr í Raumsdælafylki[2], hann átti Ásgerði, dóttur Asks ens ómálga. Ófeigr varð missáttr við Harald konúng hárfagra, ok bjóst af því til Íslandsferðar; en er hann [var búinn[3], sendi Haraldr konúngr menn til hans, ok lèt taka hann af lífi; en Ásgerðr fór út með börn þeirra, ok með henni bróðir hennar laungetinn, er Þórólfr hèt. Ásgerðr nam land milli Seljalandsmúla ok Markarfljóts, Lánganes allt upp til Jöldusteins, ok bjó norðan[4] í Katanesi[5]. Börn Ófeigs ok Ásgerðar voru þau Þorgeirr gollnir ok Þorsteinn flöskuskegg, Þorbjörn enn kyrri[6], ok Álöf Elliðaskjöldr, er átti Þorbergr kornamúli; þeirra börn Eysteinn ok Hafþóra, er Eiðr Skeggjason átti. Þorgerðr var ok Ófeigsdóttir, er átti Finnr Ottkelsson.

Þórólfr, bróðir Ásgerðar[7], nam land at ráði hennar fur vestan Fljót milli Deildará[8] tveggja, ok bjó í Þórólfsfelli; hann fæddi þar Þorgeir gollni, son Ásgerðar, er þar bjó síðan; hann var faðir Njáls, er inni var brendr [með átta[9] menn á Bergþórshvoli[10].

Ásbjörn Reyrketilsson ok Steinfinnr, bróðir hans, námu land fur ofan Krossá ok fur austan Fljót. Steinfinnr bjó á Steinfinnsstöðum, ok er eigi manna frá honum komit. Ásbjörn helgaði

---

1) Þórir í Holti, *E, F.* 2) Raumsdal, *C.* 3) þóttist búinn til útláts, *E, F, eptir Landn.* 4) norðr, *H, Sk.* 5) Kattarnesi, *A-J.* 6) kvirri, *C.* 7) laungetinn, *b. v. E, F.* 8) Deilda, *B.* 9) sjöunda, *E, F.* 10) *frá* [ *v. í B.*

landnám sitt þór, ok kallaði þórsmörk; hans son var Ketill enn auðgi, er átti þorgerði[1] Gollnis dóttur; þeirra börn voru þau Helgi ok Ásgerðr.

[Herjólfr, son Bárðar Bárekssonar, bróðir Hallgríms sviðbálka[2], bygði fyrst Vestmannaeyjar, ok bjó í Herjólfsdal fur innan Ægisdyr, þar sem nú er hraun brunnit; hans son var Ormr aurgi[3], er bjó á Ormsstöðum við hamar niðri, þar sem nú er blásit allt, ok átti einn allar eyjarnar; þær liggja fur Eyjasandi; en áðr var þar veiðistaða ok aungra manna vetrseta. Ormr átti þorgerði, dóttur Odds[4] kaldmunns; þeirra dóttir Haldóra, er átti Eylífr Valla-Brandsson[5].

3. Ketill hængr hèt ágætr maðr í Naumudalafylki[6], son þorkels Naumdæla jarls ok Hrafnhildar, dóttur Ketils hængs ór Hrafnistu, [Hallbjarnarsonar hálftrölls[7]. Ketill bjó þá í Naumudal er Haraldr konúngr hárfagri sendi þá Hallvarð harðfara ok Sigtrygg snarfara til þórólfs Kvöldúlfssonar, frænda Ketils; þá dró Ketill lið saman, ok ætlaði at veita þórólfi; en Haraldr konúngr fór hit efra um Eldueið, ok fekk sèr skip í Naumdælafylki, ok fór svá norðr [í Álest[8] á Sandnes, ok tók þar af lífi þórólf Kvöldúlfsson, fór þá norðan[9] hit ytra, ok fann þá marga menn, er til liðs ætluðu við þórólf, ok hnekkti konúngr þeim þá. Litlu síðar fór Ketill hængr norðr í Torgar, ok brendi inni Hárek ok Hrærek[10] Hildiríðarsyni, er þórólf höfðu rægðan

1) Þuríði, B. 2) sniðbaka, E; sniðbálka, F. 3) avgri, C; auðgi, G; óargi, Sk. 4) Orms, I. 5) *frá* [ *v. hèr í B, sjá* 5 P. 5 k. 6) Naumudal, C. 7) *frá* [ *v. í B.* 8) á Lost, B; í Álost, *hin.* 9) norðr, B, Sk. 10) Herrek, C.

dauðarógi; en eptir þat fór Ketill til Íslands með Íngunni[1], konu sína, ok sonu þeirra; hann kom skipi sínu í Rángárós, ok var hinn fyrsta vetr at Hrafntóptum. Ketill nam öll lönd á milli Þjórsár ok Markarfljóts; þar námu síðan margir göfgir menn í landnámi Ketils at ráði hans. Ketill eignaði sèr einkum land á milli Rángár ok Hróarslækjar, allt fur neðan Reyðarvatn[2], ok bjó at Hofi. Þá er Ketill hafði fært flestöll faung sín til Hofs, varð Íngunn, kona hans, lèttari, ok fæddi þar Hrafn, er [fyrst sagði lög upp á Íslandi[3], því heitir þar nú at Hrafnstóptum. Hængr hafði ok undir sèr lönd öll fur austan Rángá hina eystri, ok Vatnsfell[4], til lækjar þess, er fellr fur utan[5] Breiðabólstað, ok fur ofan Þverá allt, nema Dufþakshollt ok mýrina; þat gaf hann þeim manni, er Dufþakr hèt[6], hann var hamrammr mjök. [Helgi hèt annar son Hængs, hann átti Valgerði[7] Jólgeirsdóttur; þeirra dóttir var Helga; er átti Oddbjörn askasmiðr; við hann er kendt Oddbjarnarleiði. Börn þeirra Oddbjarnar ok Helgu voru þau Hróaldr, Kolbeinn, ok Kolfinna, ok Ásvör[8]. Stórólfr var enn þriði son Hængs; hans börn voru þau Ormr hinn sterki ok Ottkell, ok Hrafnhildr, er átti Gunnarr Baugsson; þeirra son var Hámundr, faðir Gunnars at Hlíðarenda. Vestarr hèt hinn fjórði son Hængs[9], hann átti Móeiði; [þeirra

[1]) Gunn-Íngunni, *hèr B.* [2]) *þannig E, F, G, H, I, Sk;* Reiðarvatn, *hèr B;* Reyðarvötn, *C;* Hreiðarvatn, *hèr A.* [3]) síðan var lögsögumaðr, *C.* [4]) vatnsföll, *E.* [5]) austan, *E, F.* [6]) ok mýrina, er Dufþakr hafði áðr numit, *b. v. E.* [7]) Valdísi, *B, C.* [8]) *frá* [ *v. í E, F.* [9]) er bjó undir Vestfelli, *b. v. E, F.*

dóttir var Ásný, er átti Ófeigr grettir[1]; þeirra börn voru þau Ásmundr skegglauss, Ásbjörn ok Aldís[2], móðir Valla-Brands[3], ok Ásvör, móðir Helga ens svarta; Æsa hèt ein. Herjólfr hèt hinn fimti son Hængs, faðir Sumarliða, föður Vetrliða skálds; þeir bjuggu í Sumarliðabæ, þar heitir nú undir Brekkum. Vetrliða vógu þeir Þángbrandr prestr ok Guðleifr Arason af Reykjahólum um níð[4]. Sæbjörn[5] goði[6] var son Hrafns Hængssonar, er átti Unni, dóttur Sigmundar; þeirra son var Arngeirr[7].

Sigvatr hinn rauði hèt göfugr maðr á Hálogalandi, hann átti Rannveigu, dóttur Eyvindar lamba [ok Sigríðar, er átti hafði Þórhrólfr Kvöldúlfsson; Rannveig var systir Finns ens skjálga[8], [föðursystir Eyvindar skáldaspillis; [en Landnáma segir móðir hennar hafi verit Ingibjörg Hávarðsdóttir, Grjótgarðssonar Háleygja jarls[9]. Sigvatr fór til Íslands at fýsi sinni, ok nam land at ráði Hængs í hans landnámi fur vestan Markarfljót, Einhyrníngsmörk[10] fur ofan Deildará, ok bjó í Bólstað; hans son var Sigmundr, faðir Marðar gýgju, [er mestr höfðíngi var á Rángárvöllum um hans daga, ok þat var hvört kallat loklausuþíng[11], er hann kom eigi til. Sigmundr fèll við Sandhólaferju; þar er haugr hans fur

1) *frá* [ *v. í C.* 2) Ásdís, *B.* 3) Valbrands, *B.* 4) Vetrliði níddi Þángbrand; fyri því vá Þángbrandr hann at torfgröfum; hann varðist með torfskera Guðleifi Arasyni af Reykjanesi; Þángbrandr lagði hann með spjóti. Um Guðleif orti Ljóðarkeptr lofdrápu, *b. v. E, F, á spáz.* 5) Snæbjörn, *I, Sk*; Sveinbjörn, *C, E, F.* 6) guði, *C.* 7) Arngrímr, *C, E, F.* 8) *frá* [ *v. í C.* 9) *frá* [ *fyrra v. í B*; móðir h. var Ingibjörg, *o. s. frv., í stað þess frá síðara* [ *C; v. í E, F.* 10) Þríhyrníngsmörk, *A-J.* 11) lögleysuþíng, *E, F.*

austan þjórsá[1]. Rannveig var ok dóttir Sigmundar, er átti Hámundr Gunnarsson; þeirra son Gunnarr at Hlíðarenda. [Sigfúss í Hlíð var ok son Sigmundar, ok Lambi á Lambastöðum, ok þorgerðr, dóttir hans, er átti Önundr bíldr í Flóa. Annar[2] son Sigvats var Bárekr[3], faðir þórðar, föður Steina.

Jörundr goði, son Hrafns ens heimska, bygði fur vestan Fljót, þar er nú heitir á Svertíngsstöðum[4]; hann reisti þar hof mikit. Bjór einn lá ónuminn fur austan[5] Fljót, millim Krossár ok Jöldusteins, um þat land fór Jörundr eldi, ok lagði til hofsins. Jörundr fèkk þuríðar, dóttur þorbjárnar ens Gaulverska, ok var brullup þeirra i Skarfanesi at Flosa, er öll lönd átti millum þjórsár ok Engár; þeirra börn voru þau Úlfr aurgoði, [er Oddaverjar eru frákomnir, ok Sturlúngar. Dóttir Jörundar var[6] þórunn, er átti Vigfúss í Hlíð, einninn var hans son Valgarðr goði at Hofi, faðir Marðar. Móðir Valgarðs[7] var þórlaug, dóttir Hrafns Hængssonar; hann átti Unni, dóttur Marðar gýgju, síðar enn Hrútr á Kambsnesi; [margt stórmenni er frá Jörundi komit á Íslandi[8].

þorkell bundinnfóti nam land at ráði Hængs umhverfis þríhyrníng, ok bjó þar undir fjallinu, hann var hamrammr mjök; hans börn voru þau Börkr blátannarskegg[9], faðir Starkaðar undir þríhyrníngi, ok þórunn[10], er átti Ormr hinn sterki, ok Dagrún, móðir Bersa.

---

1) *frá* [ *v. i B.* 2) *frá* [ *v. i C.* 3) Hárekr, *E, F, eptir Land.* 4) Svertingsvolustöðum, *B.* 5) vestan, *H, I.* 6) ok, *i staþ þess frá* [ *C.* 7) Valgerðar, *Sk.* 8) *frá* [ *v. i C.* 9) bláskeggi, *E, F, eptir Landn.* 10) þórný, *B.*

4. Baugr hèt maðr, fóstbróðir Hængs, hann fór til Íslands, ok var hinn fyrsta vetr á Baugstöðum, en annann með Hængi. [Baugr var son Rauðs Kjallakssonar, Kjarvalssonar Íra konúngs[1]; hann nam Fljótshlíð alla, at ráði Ketils, ofan um Breiðabólstað til móts við Hæng, ok bjó at Hlíðarenda; hans son var *Gunnarr* í *Gunnarsholti*, ok Eyvindr at Eyvindarmúla, þriði Steinn hinn snjalli, ok Hildr, er átti Örn í Vælugerði[2]. þeir Steinn hinn snjalli ok Sigmundr, son Sigvats rauða, áttu för utan af Eyrum, ok kvâmu til Sandhólaferju allir senn, Sigmundr ok förunautar hans ok Steinn, ok vildu hvârir fyrr fara yfir ána. þeir Sigmundr stökuðu[3] húskörlum Steins, ok ráku þá frá skipinu; þá kom Steinn at, ok hjó þegar Sigmund banahögg. Um víg þetta urðu Baugssynir allir sekir (or Hlíðinni), fór Gunnarr í Gunnarsholt, en Eyvindr undir Fjöll austr í Eyvindarhóla, en Snjall-Steinn útí Snjallsteinshöfða[4]. þat líkaði illa þorgerði, dóttur Sigmundar, er föðurbani hennar fór út þángat, ok eggjaði Önund bíld, bónda sinn, at hefna Sigmundar. Önundr fór með þrjátigi manna í Snjallshöfða, ok bar þar eld at húsum; Snjallsteinn gekk út, ok gafst upp; þeir leiddu hann í höfðann, ok vógu hann þar; eptir víg þat mælti Gunnarr, bróðir hans; hann átti þá Hrafnhildi Stórólfsdóttur, systur Orms hins sterka; Hámundr var son þeirra; [þeir voru báðir afreksmenn at afli ok vænleik[5]. Önundr

---

1) *frá* [ *v. í B.* 2) Væligerði, *B, E, F.* 3) sköruðu, *C.* 4) Snjallshöfða, *C.* 5) *frá* [ *v. í C.*

varð sekr um víg Snjallsteins; hann sat með fjölmenni tvo vetr. Örn í Vælugerði, mágr Gunnars, hèlt njósnum til Önundar. Eptir jól enn þriðja vetr fór Gunnarr með þrjátígi manna at Önundi, at tilvísan Arnar; Önundr fór frá leik með tólfta mann til hrossa sinna; þeir fundust í Orrostudal; þar fèll Önundr með fjórða mann, en einn af Gunnari. Gunnarr var í blárri kápu; hann reið upp eptir Holtum til þjórsár, ok skamt frá ánni fèll hann af baki, ok var þá örendr af sárum. En þá er synir Önundar vóxu upp, Sigmundr kleykir ok Eylífr auðgi, þá sóttu þeir Mörð gýgju, [frænda sinn[1], at eptirmáli[2]; Mörðr sagði þat óhægt[3] um sekjan mann; þeir kváðu sèr við Örn vest líka, er þeim sat nærst. Mörðr lagði þat til, at þeir skyldu fá Erni skóggángssök, ok koma honum svá or hèraði. Önundarsynir toku beitíngamál á hendr Erni, ok varð sú sætt, at Örn skyldi falla óheilagr fur Önundarsonum hvervetna, nema í Vælugerði ok örskotshelgi við landeign sína; Önundarsynir sátu jamnan um hann, en hann gætti sín vel. þat var einn tíma, er Örn rak naut or landi sínu, þá kvámu þeir at honum, ok vógu hann, ok hugðu menn at hann mundi óheilagr fallit hafa. þorleifr gneisti, bróðir Arnar, keypti at þormóði þjóstarssyni at hann helgaði Örn; þormóðr var þá kominn[4] út á Eyrum; hann skaut þá skot svá lángt af handboga, at fall Arnar varð í örskotshelgi hans. þá mæltu þeir Hámundr Gunnarsson ok þorleifr eptir Örn, en

[1]) v. í B. [2]) frænda sins, b. v. B. [3]) óhætt, Sk. [4]) nýkvâminn, K, F.

Mörðr veitti þeim bræðrum; þeir guldu eigi fè, en skyldu vera hèraðssekir or Flóa. Þá bað Mörðr til handa Eylifi Þórkötlu Ketilbjarnardóttur, ok fylgdu henni heiman Höfðalönd[1], ok bjó Eylífr þar; en til handa Sigmundi bað hann Arngunnar, dóttur Þorsteins drángakarls, [ok rèðst hann austr í sveit[2]. Þá gipti Mörðr Rannveigu, systur sína, Hámundi Gunnarssyni, ok fór hann þá at búa at Hlíðarenda, ok voru þeirra synir Gunnarr at Hlíðarenda, [Hjörtr, ok Helgi, ok Hafr, ok Ormr skógarnef, er fèll á Orminum lánga með Ólafi konúngi[3].

Hildir[4] ok Hallgeirr, ok Ljót, systir þeirra, voru [kynjut af Vestrlöndum[5]; þau fóru til Íslands, ok námu land milli Fljóts ok Rángár, Eyjasveit alla upp til Þverár. Hildir bjó í Hildisey; hann var faðir Móeiðar[6]. Hallgeirr bjó í Hallgeirsey; hans dóttir var Mábil, er átti Helgi Hængsson[7], en Ljót bjó á Ljótarstöðum.

5. Dufþakr í Dufþaksholti var leysíngi þeirra bræðra; hann var hamrammr mjök, ok svâ var Stórólfr Hængsson, hann bjó þá at Hvoli; þá skildi á um beitíngar. Þat sá ófreskr maðr um [kvöld, nær dagsetri[8], at björn mikill gekk frá Hvoli, en griðúngr frá Dufþaksholti, ok fundust á Stórólfsvelli, ok gengust at reiðir, ok mátti björninn meira; um morgininn var þat sèt, at dalr var þar eptir, er þeir höfðu fundizt, sem um væri snúit jörðunni, ok heitir þat nú

1) Hæðaland, *C.* 2) *frá* [ *v. í C.* 3) *frá* [ *v. í C.* 4) Haldórr, *A-J.* 5) Írsk, *C.* 6) at Móeiðarhvoli, *b. v. C, Sk.* 7) bróðir Vestars, er bjó í Hallgeirseyjum, *b. v. E, F.* 8) nótt, *C.*

Öldugröf; báðir voru þeir meiddir [ok lágu í rekkju[1].

Eylífr[2] ok Björn, bræðr, fóru or Sogni til Íslands; Eylífr nam Odda hinn litla upp til Reyðarvatns ok til Víkíngslækjar; hann átti Helgu, dóttur Önundar bílds; þeirra son var Eylífr hinn úngi, er átti Oddnýju, dóttur Odds ens mjófa; þeirra dóttír var þuríðr, er átti þorgeirr í Odda; þeirra dóttir var Helga.

Björn bjó í Svínhaga, ok nam land upp með Rángá; hans börn voru þau þorsteinn, faðir Gríms Holtaskalla, ok Hallveig, móðir þórunnar, móður Guðrúnar, móður Sæmundar, föður Brands biskups.

Bolli[3] hèt maðr, son Óttars ballar, hann nam land fur austan Reyðarvatn, ok Stotalæk[4] [fur vestan Rángá, ok[5] Tröllaskóg [til móts við þorstein tjaldstæðíng[6], ok bjó í Sandgili; hans son var Egill, er sat fur Gunnari Hámundarsyni [hjá Knafahólum[7], ok fèll þar sjálfr ok Austmenn tveir ok Ari, húskarl hans, en Hjörtr, bróðir Gunnars, af hans liði. [Synir Gunnars voru þeir Grani ok Hámundr. Gunnarr barðist við Ottkel or Kyrkjubæ við garð at Hofi, ok fèll Ottkell þar ok Skammkell. Geirr goði ok Gizur hvíti ok Ásgrímr Elliðagrímsson, Störkuðr undan

1) *frá [ v. í B, sem hèr bætir við (sjá 6tu grein 5 P. 2 k.)*: Ormr ánauðgi, son Bárðar Bárekssonar, bróðir Hallgríms sviðbálka, bygði fyrst Vestmannaeyjar, en áðr var þar veiðistöð, ok litil vetrseta eða engi; hans dóttir var Haldóra, er átti Eylífr Valabrandsson. 2) Óleifr, *A-J.* 3) Kolr, *C, E, F.* 4) Stóralæk, *E*; Slotalæk, *A-J.* 5) of, *í stað þess frá [ C.* 6) *frá [ v. í B.* 7) Knæfahólum, *G, H, I, Sk*; Knapphólum, *E, F*; *frá [ v. í B.*

þríhyrníngi, son Bárðar bláskeggs, þorkelssonar bundinnfóta, er átti þuríði Egilsdóttur frá Sandgili, þeir fóru um Leiðarskeið ok kvâmu um nótt með þrjátígi manna til Hlíðarenda, en Gunnarr var fur með einn karlmann fulltíða; tveir menn fèllu or liði Geirs, en sextán urðu sárir áðr Gunnarr fèll[1].

Hrólfr rauðskeggr hèt maðr, hann nam Hólmslönd öll milli Fiskár ok Rángár, ok bjó at Forsi; hans börn voru þau þorsteinn rauðnefr, er þar bjó síðan, ok þóra, móðir þorkels mána, ok Ása[2], móðir þórnýjar[3], móður þorgeirs at Ljósavatni, ok Helga, móðir Odds frá Mjósyndi; dóttir Odds var Ásbjörg, er átti þorsteinn goði, faðir Bjarnar ens spaka, föður Skeggja, föður Markúss lögsögumanns. þorsteinn rauðnefr var blótmaðr mikill, hann blótaði forsinn, ok skyldi bera leifar allar á forsinn; hann var ok framsýnn mjök. þorsteinn lèt telja [sauð sinn or rètt[4]: tuttugu hundruð, en ljóp alla rèttina þaðan af; en því var sauðrinn swâ margr, at hann sá um haustum hverir feigir voru, ok lèt þá skera alla; en hit síðasta haust er hann lifði, þá mælti hann í sauðarètt: skeri þèr nú sauði þá, er þèr vilið, feigr em ek nú, eða allr sauðrinn ella, nema bæði sè. En þá nótt[5], er þorsteinn dó, rak sauðinn allan út í forsinn, [ok fórst þar; Helga hèt dóttir hans, er átti Helgi rogn[6] Kjallaksson[7].

---

[1]) *frá* [ *v. í B.* [2]) *Æsa, E, F.* [3]) þórunnar, *B, E, F.* [4]) sauði sína, ok retta, unz voru, *E, F.* [5]) næstu, *b. v. E, F.* [6]) rjogn, *E, F.* [7]) *frá* [ *v. í B.*

6. Úlfr gyldir[1] hèt hersir ríkr í Noregi á þelamörk, hann bjó [í Stardal[2] á Fíflavöllum; hans son var Ásgrímr, er þar bjó síðan; [Ásgrímr var faðir þeirra þorsteins ok þórlaugar; þórkatla hèt móðir þeirra, er hríngja var kölluð[3]. Haraldr konúngr hinn hárfagri sendi þórorm[4], frænda sinn, ór þrumu af Ögðum at heimta skatt af Ásgrími, sem konúngr bauð honum; en hann galdt eigi, [því́at hann hafði sendt konúngi lithu áðr hest Gauzkan ok silfr mikit, ok sagði þat gjöf skyldu, en eigi gjald, þvíat hann hafði aldrí áðr skatt goldit; aptr sendi konúngr fèit, ok vildi eigi þiggja. þórkatla, kona Ásgríms, fæddi sveinbarn; Ásgrímr bað útbera; þræll hvatti grefsa[5], er honum skyldi gröf grafa, en sveinninn var lagðr niðr á gólf; þá heyrðist þeim öllum sem sveinninn kvæði þetta:

Láti mik[6] til móður,
mèr er kaldt á gólfi,
hvar muni sveinninn sæmri
enn at síns föðurs örnum[7]?
þarf eigi járn at eggja,
nè jarðarmen skerða[8],
lèttið ljótu verki,
lifa mun ek enn með mönnum.

Síðan var sveinninn vatni ausinn ok kallaðr þorsteinn[9]. En er þórormr kom annat sinn at heimta skatt, kvàddi Ásgrímr þíngs, ok spurði

[1]) guldir, *E, F.* [2]) Rímsdal, *C; frá* [ *v. í B.* [3]) *frá* [ *v. í B.* [4]) Þórarinn, *E, F, eptir Landn.* [5]) gref, sá, *E, F;* grefil, *H, I.* [6]) mög, *C.* [7]) örmum, *E, F, Sk.* [8]) skerá, *E, F.* [9]) *frá* [ *v. í B;* hann vóx upp, ok varð mikill maðr, *b. v. Sk.*

bændr, ef þeir vildi greiða þvílíkan skatt sem beiðst var; þeir báðu hann svára fur sik, vildu þó eigi greiða. Þíngit var við skóg; ok er þá varði minnst, ljóp fram þræll Þórorms at Ásgrími, ok drap hann; bændr drápu hann þegar. Þorsteinn var þá í hernaði; ok er hann spurði víg föður síns, seldi hann jarðir sínar til silfrs, ok bjóst til Íslands or Grænmar fur austan Líðandisnes; ok áðr hann færi, brendi Þorsteinn Þórorm í þrumu inni ok hjú hans öll, en hjó búit, ok rænti öllu lausafè, ok hefndi föður síns; Þorgeirr hèt bróðir hans, hann var þá tíu vetra, er Þórormr lèt drepa föður þeirra; hann fór til Íslands með Þorsteini, ok Þórunn, móðursystir þeirra, er[1] nam Þórunnarhálsa, ok bygði þar síðan. Þorsteinn kom í Rángárós, ok nam land at ráði Flosa[2] fur ofan Víkíngslæk, ok út til móts við Svínhaga-Björn, ok bjó í Skarðinu eystra; um hans daga kom þat skip út í Rangárós, er sótt var á mikil, ok vildi engi við þeim taka nè hjálpa þeim; en Þorsteinn fór eptir þeim, ok gerði þeim tjaldbúð, þar sem nú heita Tjaldarstaðir, ok þjónaði þeim þar sjálfr meðan þeir lifðu, en þeir dóu allir; hann var síðan kallaðr Þorsteinn tjaldstæðíngr; en sá þeirra, er lengst lifði, fal gull ok silfr, ok gróf niðr, svâ at þat hefir engi fundit síðan. [Þorsteinn átti fyrr Þuríði Gunnarsdóttur, Hámundarsonar; þeirra börn: Gunnarr, Þórhallr, Jósteinn, Jórunn; síðar átti Þorsteinn Þuríði, dóttur Sigfúss í Hlíð; þeirra börn: Skeggi ok Þorkatla, Rannveig ok

1) ok, *C, E, F, H, I.* 2) er numit hafði áðr Rángárv., *b. v. R, sem frá vís. og híngað til er orðfærri, en þó sama efnis.*

Arnóra[1]. Þorgeirr, bróðir Þorsteins, keypti Oddalönd at Hrafni Hængssyni, Strandir báðar ok Varmadal[2], ok oddan allan milli Hróarslækjar ok Rángár; hann bjó fyrstr í Odda, ok átti Þuríði, dóttur Eylífs [ens únga[3]; þeirra dóttir Helga, er átti Svartr Úlfsson; þeirra son Loðmundr í Odda, faðir Sigfúss prests, föður Sæmundar hins fróða[4].

7. Flosi hèt maðr, son Þorbjarnar ens Gaulverska, hann drap þrjá sýslumenn Haralds konúngs hins hárfagra, ok fór eptir þat til Íslands; hann nam land fur austan Rángá, alla Rángárvöllu ena eystri; hans dóttir var Ásný, móðir Þuríðar, er Valla-Brandr[5] átti. Son Valla-Brands[5] var Flosi, faðir [Kolbeins, föður[6] Guðrúnar, er Sæmundr enn fróði átti. [Flosi átti Guðrúnu Þórisdóttur, Skeggbroddasonar; þeirra synir voru þeir Kolbeinn, er fyrr var nefndr, ok Bjarni, faðir Bjarna, föður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends, föður Hauks. Af því fór Loptr hinn gamli, systurson Flosa, at blóta á Gaulum, at Flosa var ófriðt í Noregi. Flosi enn Norræni átti Þórdísi ena miklu, dóttur Þórunnar ennar auðgu, Ketilsdóttur ens einhenda; þeirra dóttir var Ásný, er átti Þorgeirr[7].

Ketill enn einhendi hèt maðr, son Auðunnar þunnkárs[8], hann nam Rángárvöllu alla ena ytri, fur ofan Lækjarbotna ok fur austan Þjórsá, ok bjó at Á; hann átti Ásleifu Þorgilsdóttur; þeirra

1) synir Þ. voru þeir Gunnarr ok Skeggi, *í stað þess frá [ B.* 2) Vatnadal, *B.* 3) auðga, *G, H, I, Sk.* 4) *frá [ v. í B.* 5) Valabrandr, *B.* 6) *frá [ v. í Sk.* 7) Ásgrímsson, *b. v. H, Sk; frá [ v. í B.* 8) þurkárs, *E, F.*

son var Auðunn, faðir [Brynjólfs, föður þorbergs[1], föður þorláks[2], föður þorhalls, föður þorláks biskups ens helga.

Ketill örriði[3], bræðrúngr Ketils ens einhenda, nam land hit ytra með þjórsá, ok bjó á Völlum enum ytrum; hans son var Helgi hrogn, er átti Helgu, dóttur [þorsteins rauðnefs[4]; þeirra son var Oddr mjófi, faðir Ásgerðar[5], er átti þorsteinn goði, ok Oddnýjar[6], er Eylífr enn úngi átti.

Ormr[7] auðgi[8], son Úlfs ens hvassa, nam land með Rángá at ráði Ketils hins einhenda, ok bjó í Húsagarði, ok Áskell, son hans, eptir hann; en[9] hans son reisti fyrst bæ á Völlum; frá honum eru Vallverjar komnir.

þorsteinn lúna[10] hèt maðr Norrænn ok farmaðr mikill, honum var þat spáð, at hann mundi á því landi deyja, er þá var enn eigi byggt. þorsteinn fór til Íslands í elli sinni með þorgilsi, syni sínum; þeir námu hinn efra lut þjórsárholta, ok bjuggu í Lúnansholti, ok þar var þorsteinn heygðr. Dóttir þorgils var Ásleif, er átti Ketill enn einhendi; þeirra synir voru þeir Auðunn, er áðr var nefndr, ok Eylífr, faðir þorgeirs, föður Skeggja, föður Hjalta í þjórsárdal; hann var faðir Jórunnar, móður Guðrúnar[11], móður Einars, föður Magnúss biskups.

Gunnsteinn berserkjabani, son Bölverks blindíngatrjónu, drap tvo berserki, ok hafði annar

---

[1]) Bergþórs, *B.* [2]) Runólfs, föður Bergþórs, *í stað þess frá* [ *E, F, eptir Land.* [3]) áurreiði, *E, F.* [4]) Hrólfs rauðskeggs, *B.* [5]) Ásborgar, *B.* [6]) Oddný, *B.* [7]) Grímr, *B.* [8]) örðugi, *E, F;* ánauðgi, *A, E, F, á spáz. eptir Landn.* [9]) Brandr, *b. v. E, F.* [10]) launan, *C.* [11]) Guðnýjar, *G.*

þeirra áðr drepit Grjótgarð Háleyjajarl í Sölvu[1] fur innan Agðanes. Gunnsteinn var síðan skotinn öru Finnskri or skógi á skipi sínu norðr í Hefni. Son Gunnsteins var þorgeirr, er átti þórunni[2] hina auðgu, dóttur[3] Ketils ens einhenda; þeirra dóttir var þórdís en mikla.

8. Raðormr ok Jólgeirr[4], bræðr, kvâmu vestan um haf til Íslands, þeir námu land milli þjórsár ok Rángár. Raðormr eignaðist land fur austan Rauðalæk[5], ok bjó í Vetleifsholti; hans dóttir var Arnbjörg, er átti Svertíngr Hjörleifsson[6]; þeirra börn voru þau Grímr lögsögumaðr ok Jórunn. Síðar átti Arnbjörgu Gnúpr Molda-Gnúpsson, ok voru þeirra börn Hallsteinn á Hjalla, ok Rannveig, móðir Skapta lögmanns, ok Geirný, móðir Skáldrafns. Jólgeirr eignaðist land fur utan Rauðalæk ok til Steinslækjar, hann bjó á Jólgeirsstöðum.

Áskell hnokan[7], son Dufþaks, Dúfnjálssonar[8], Kjarvalssonar Íra konúngs, hann nam land milli Steinslækjar ok þjórsár, ok bjó í Áskelshöfða; hans son var Ásmundr, faðir Ásgauts, föður Skeggja, föður þorvalds, föður þórlaugar, móður þorgerðar, móður Jóns biskups ens helga.

þorkell þjálfi[9], fóstbróðir Raðorms, eignaðist lönd öll milli Rángár ok þjórsár, ok bjó í Háfi; hann átti þórunni Eyversku; þeirra dóttir þórdís, móðir Skeggja, föður þorvalds í Ási;

---

1) Sölva, *B, C;* Sölfna, *E, F.* 2) Jórunni, *E, F.* 3) *þannig E, F;* móður, *A og hin.* 4) Sólgeirr, *A-J.* 5) Rauðá, *E, F.* 6) Hrolleifsson, *E, F.* 7) hnokkan, *E, F, Sk.* 8) Dufmálss., *G, H, I, Sk.* 9) *þannig C, E, F, G, H, I, Sk;* Þrálfi, *A;* bjálfi, *B.*

þaðan hafði Hjalti, mágr hans, reiðskjóta til alþíngis, ok þeir tólf[1], þá er hann var útkominn með kristni, því engi treystist annar fur ofríki Runólfs Úlfssonar[2], er sektan hafði Hjalta um goðgá.

[Nú eru ritaðir þeir menn, er land hafa numit ok þegit í landnámi Ketils hængs[3].

Loptr, son Orms Fróðasonar, fór af Gaulum til Íslands úngr at aldri, ok nam land fur utan[4] þjórsá, milli Rauðár ok þjórsár, ok upp til Skúfslækjar, ok Breiðamýri hina eystri upp til Súluholts, ok bjó í Gaulverjabæ, ok Oddný, móðir hans, dóttir þorbjarnar hins Gaulverska. Loptr fór utan hit þriðja hvert sumar fur hönd þeirra Flosa beggja, móðurbróður síns, at blóta at hofi því, er þorbjörn móðurfaðir[5] hans hafði þar varðveitt [at Gaulum. þorbjörn var ríkr hersir í Noregi í Fjalafylki, hann var Ormarsson, ok átti Hildi Úlfarsdóttur ok þórunnar Græníngjarjúpu. Vemundr hinn gamli, son Víkíngs Skáneyjarskelmis, mágr Bjarnar bunu, var hersir; [hans son var Fróði, faðir Orms, föður Lopts ens gamla[6]; frá Lopti er margt stórmenni komit: þorlákr hinn helgi, ok Brandr biskup, ok Páll biskup.

þorviðr, son Úlfars, bróðir Hildar, fór af Vors til Íslands, en Loptr, frændi hans, gaf honum land á Breiðamýri, ok bjó hann í Vorsabæ; hans börn voru þau Hrafn, ok Hallveig, er átti Özur enn hvíti; þeirra son þorgrímr kampi.

1) 14, *B.* 2) Úlfarssonar, *H, I, Sk.* 3) *frá [ v. í E, F.* 4) *þannig B, C;* austan, *A, E, F;* vestan, *G, H, I, Sk.* 5) móðurbróðir, *E, F.* 6) *frá fyrra [ v. í B; frá síðara [ v. í E, F.*

Þórarinn hèt maðr, son Þorkels or Alviðru, Hallbjarnarsonar Hörðakappa, hann kom skipi sínu í Þjórsárós, ok hafði Þjórshöfuð á framstafni, ok er þar áin viðkend. Þórarinn nam land fur ofan Skúfslæk til Rauðár, ofan með Þjórsá; hans dóttir var Heimlaug, er Loptr gekk at eiga sextuga[1].

9. Haraldr gullskeggr hèt konúngr í Sogni, hann átti Salvöru[2], dóttur Hundólfs jarls, systur Atla jarls ens mjófa; þeirra dætr voru þær Þóra, er átti Hálfdán svarti Upplendínga konúngr, ok Þuríðr, er átti Ketill helluflagi[3]. Haraldr úngi var son þeirra Hálfdánar ok Þóru, honum gaf Haraldr gullskeggr nafn sitt ok ríki. Haraldr konúngr andaðist fyrstr þeirra, en þá Þóra, en Haraldr úngi síðarst; þá bar ríkit undir Hálfdán konúng, en hann setti yfir þat Atla jarl enn mjófa. Síðan fèkk Hálfdán[4] konúngr Ragnhildar, dóttur Sigurðar hjartar, ok var þeirra son Haraldr enn hárfagri. Þá er Haraldr konúngr gekk til ríkis í Noregi, ok hann mægðist við Hákon jarl Grjótgarðsson, fèkk hann Sygnafylki Hákoni jarli, mági sínum, en[5] Haraldr konúngr fór í Vík austr; en Atli jarl vildi eigi afláta ríkinu, áðr hann fyndi Harald konúng; jarlarnir þreyttu þetta með kappi, ok drógu her saman; þeir fundust á Fjölum í Stafanesvogi ok börðust, þar fèll Hákon jarl; en Atli varð sárr, ok fluttr í Atley, ok dó þar or sárum; en eptir þat hèlt Hásteinn[6], son hans, ríkinu, þartil er

[1]) sextugr, *B*, *G*, *H*, *I*, *Sk*. [2]) Sölvöru, *B*, *C*, *I*; Sælvöru, *E*, *F*. [3]) helliflagi, *C*. [4]) *þannig hin*; Haraldr, *A*. [5]) er, *B*, *C*, *E*, *F*, *G*. [6]) Hallsteinn, *I alst*.

Haraldr konúngr ok Sigurðr jarl drógu her at honum; Hásteinn stökk[1] þá undan, ok rèð til Íslandsferðar; hann átti Þóru Ölvisdóttur; Ölver ok Atli voru synir þeirra. Hásteinn skaut setstokkum fur borð í hafi, at fornum sið; þeir kvâmu á Stálfjöru fur Stokkseyri, en Hásteinn kom í Hásteinssund fur austan Stokkseyri, ok braut þar. Hásteinn nam land milli Rauðár ok Ölvisár upp til Fúlalækjar[2], ok Breiðamýri alla upp at Holtum; hann bjó at Stokkseyri, ok Atli, son hans, eptir hann, áðr hann færði sik í Traðarholt. Ölver hèt annar son Hásteins, hann bjó at Stjörnusteinum, hann andaðist barnlaus, en Atli tók eptir hann arf allan; [Stjörnusteinar heita nú Ölversstaðir. Ölver hafði landnám allt fur utan Grímsá, Stokkseyri ok Ásgautsstaði, en Atli allt milli Grímsár ok Rauðár, hann bjó í Traðarholti[3]. Leysíngi Ölvis var Brattr, er bjó í Brattsholti, ok Leiðólfr á Leiðólfsstöðum. Atli var faðir Þórðar dofna, föður Þorgils errubeinsstjúps[4], [föður[5] Gríms glammaðs, föður Íngjalds, föður Gríms, föður þeirra Barkar ok Einars, föður Hallkötlu, er átti Hrafn Sveinbjarnarson; þeirra dætr Steinunn, móðir herra Erlends[6], ok Herdís, móðir Ála[7], föður Steinunnar, er Haukr Erlendsson átti. Börkr Grímsson var faðir Ragnhildar, er Flosi Bjarnason átti; þeirra börn Einarr, ok Bjarni, ok Valgerðr, móðir herra Erlends, föður Hauks; Þórdís var þriðja dóttir Flosa, móð-

[1]) tók, *C*, [2]) Fyllarlækjar, *B*, *E*, *F*. [3]) *frá* [ *u. í C.* [4]) orrabeins, *C*, *H*, *Sk*; errubeins, *E*, *F*. [5]) stjúpföður, *C*, *E*, *F*; stjúpfaðir, *Sk*. [6]) Rafns, *C*, *Sk*. [7]) Atla, *E*, *F*, *G*, *H*, *I*, *Sk*.

ir frú Íngigerðar, móður frú Guðrúnar ok Hallberu abbadísar. Halla var ok dóttir Flosa, móðir herra Kristófórus[1].

Hallsteinn hèt maðr, er fór or Sogni til Íslands, mágr Hásteins, honum gaf hann ytra lut Eyrarbakka, hann bjó á Framnesi; hans son var þorsteinn, faðir Arngríms, er veginn var at fauskagrefti; hans son var þorbjörn á Framnesi[2].

þórir, son Ása hersis, Ingjaldssonar, Hróaldssonar, fór til Íslands, ok nam Kaldnesíngahrepp[3] allan upp frá Fyllarlæk, ok bjó at Selforsi; hans son var Tyrfíngr, faðir [þuríðar, móður Tyrfíngs, föður[4] þorbjarnar prests ok Hámundar prests í Goðdölum[5].

Hroðgeirr hinn spaki ok Oddgeirr[6], bróðir hans[7], er þeir Finnr hinn auðgi ok Hafnar-Ormr keyptu or landnámi sínu, þeir námu Hraungerðínga hrepp, ok bjó Oddgeirr í Oddgeirshólum; hans son var þorsteinn öxnabroddr[8], faðir Hroðgeirs, föður Ögrs í Kambakistu; en dóttir Hroðgeirs hins spaka var Gunnvör, er átti Kolgrímr[9] hinn gamli; þaðan eru Kvistlíngar komnir.

Önundr bíldr, er fyrr var getit, nam land fur austan Hróarslæk[10], [ok bjó í Önundarholti; frá honum er margt stórmenni komit[11], sem áðr er ritat[12].

---

1) *frá* [ *v. í B.* 2) er þar bjó lengi síðan, *b. v. E, F.* 3) Kallnesingahrepp, *C, E, F.* 4) *frá* [ *v. í C.* 5) Haldórs, föður Þórdísar ok Tyrfings, föður Þorbjarnar prests, ok Hámundar prests í Guðdölum, ok Járngerðar, er átti Guðmundr bast, *í stað þess frá* [ *E, F.* 6) bráðr, *b. v. E, F.* 7) voru Vestmenn, *b. v. E, F.* 8) yxnabrjótr, *E, F.* 9) Þorgrimr, *A-J.* 10) Hróarsholt, *E, F.* 11) *frá* [ *v. í C.* 12) Jón biskup hinn helgi, ok Þorlákr biskup hinn fyrri, Jón Loptsson, Ari hinn fróði, Hallr í Hólum, *b. v. E, F.*

10. Özur hinn hvíti hèt maðr, son Þorleifs or Sogni. Özurr vá víg í veum á Upplöndum, þá er hann var í brúðför með Sigurði hrísa; fyrir þat varð hann landflótti[1] til Íslands, ok nam fyrst[2] öll Holtalönd milli Þjórsár ok Hraunslækjar; þá var hann sautján[3] vetra, er hann vo vígit; hann fèkk Hallveigar Þorviðardóttur; þeirra son var Þorgrímr kampi, faðir Özurar, föður Þorbjarnar, föður Þórarins, föður[4] Gríms Tófusonar. Özur bjó í Kampaholti; hans leysíngi var Böðvarr, er bjó at Böðvarstóptum við Víðiskóg; honum gaf Özur lut í skóginum, ok skildi sèr eptir hann barnlausan. Örn or Vælugerði, er fyrr var getit, stefndi Böðvari um sauðatöku; því handsalaði Böðvarr Atla Hásteinssyni fè sitt, en hann ónýtti mál[5] fyrir Erni. Özur andaðist þá er Þorgrímr var úngr; þá tók Rafn Þorviðarson[6] við fjárvarðveizlu Þorgríms. Eptir andlát Böðvars taldi Hrafn til Víðiskógs, ok bannaði Atla, en Atli þóttist eiga. Þeir Atli fjórir fóru eptir viði, Leiðólfr fór með honum; smalamaðr sagði Hrafni þat, en hann reið eptir þeim með [tíunda mann[7]; þeir fundust í Orrostudal, ok börðust þar; þar fèllu húskarlar Hrafns fjórir[8], en sjálfr hann varð sárr mjök; einn fèll Atla húskarl, en hann varð sárr banasárum, ok reið heim. Önundr bíldr skildi þá, [ok bauð Atla til sín[9]. Þórðr dofni, son Atla, [var þá níu vetra;

---

1) landflæmdr, *C.* 2) fyrstr, *E, F.* 3) átján, *G, H, I, Sk.* 4) ok, *H, I, Sk.* 5) fè sitt, *C.* 6) móðurbróðir hans, *b. v. E, F.* 7) átta mann, *B;* tíu manna, *C.* 8) tveir, *B.* 9) *frá* [ *v. í C;* Atli andaðist heima í Traðarholti, *b. v. E, F.*

en er hann[1] var fimtán vetra, reið Hrafn til skips í Einarshöfn[2], hann reið heim um nótt, ok var í blárri kápu; Þórðr sat einn fur honum við Haugavað, skamt frá Traðarholti; ok vo hann þar með spjóti; þar er Hrafnshaugr fur austan götuna; en fur vestan Hásteinshaugr, [Ölvishaugr ok Atlahaugr[3]; vígin fèllust í faðma; Þórðr varð frægr af þessu; hann fèkk þá Þórunnar, dóttur Ásgeirs[4] Austmannaskelmis[5], er drap skipshöfn Austmanna í *Grímsárósi*, fur rán þat, er hann var ræntr [í Noregi[6]. Þórðr hafði þá tvo vetr ok tuttugu, er hann keypti skip í Knarrarsundi, ok vildi heimta arf sinn, þá fal hann fè mikit; því vildi Þórunn eigi fara, ok tók hún við [búi í Traðarholti[7]; Þorgils, son Þórðar, var þá tvævetr. Skip Þórðar hvarf, ok spurðist eigi til; vetri síðar kom Þorgrímr[8] errubeinn til ráða með Þórunni, hann var son Þormóðar[9] ok Þuríðar Ketilbjarnardóttur; hann fèkk Þórunnar, ok var þeirra son Hæríngr.

Ólafr tvennumbrúni hèt maðr, hann fór af Lófot[10] til Íslands, hann nam Skeið öll milli Þjórsár ok[11] Sandlækjar; hann var hamrammr mjök. Ólafr bjó á Ólafsvöllum; hann liggr í Brúnahaugi undir Vörðufelli. Ólafr átti Ás-hildi, ok var þeirra son Helgi trausti, ok Þórir drífa, faðir Þorkels gullkárs, föður Orms, föður

1) *frá* [ *v. í C.* 2) Eyjarhöfn, *E, F.* 3) *þannig hin; v. í A;* Özur ok Þorgrímr, feðgar, liggja í einum haugi báðir, skamt frá Traðarholti, *b. v. E, F.* 4) Ásgríms, *E, F.* 5) Austmanns skelfis, *B.* 6) austr, *B.* 7) löndum, *B.* 8) *þannig hin;* Þorgils, *A.* 9) Þorbjarnar, *E, F.* 10) Lófot, *B, C, H, I, Sk;* eyju þeirri, er Lófot heitir, hún liggr fyri Finnmörk, *E, F.* 11) Hvítár, ok til, *b. v. E, F.*

Helgu, móður Orms[1] Hallvarðssonar; Vaði var hinn þriði son Ólafs, faðir Gerðar. Þorgrímr orrabeinn lagði hug á Áshildi, þá er Ólafr var dauðr, en Helgi trausti vandaði um; hann sat fur Þorgrími við gatnamót fur neðan Áshildarmýri; Helgi bað hann láta af kvámum; Þorgrímr lèzt eigi hafa barna skap; þeir börðust, þar fèll Þorgrímr. Áshildr spurði, hvar Helgi hefði verit; hann kvað vísu:

Var ek þar er fèll til fyllar,
[fram sótti vinr dróttar[2],
[Errubeinn, en unnar[3]
ítr túngur hátt[4] súngu;
Ásmóðar gaf[5] ek Óðni
arfa þróttardjarfan;
guldum[6] gálgavaldi
[Gauts tafn[7], en ná[8] hrafni.

Áshildr kvað hann hafa höggvit sèr höfuðsbana. Helgi tók sèr far í Einarshöfn. Hæríngr, son Þorgríms, var þá sextán vetra, er hann reið í Höfða at finna Teit Gizurarson með þriðja mann; þeir Teitr riðu fimmtán at banna[9] Helga för[10]. Þeir Helgi fundust í Merkrhrauni upp frá Mörk við Helgahvol[11]; þeir Helgi voru þrír saman komnir af Eyrum; þar fèll Helgi ok maðr með honum, ok einn af þeim Teiti; í faðma-fèllust víg þau. Son Helga var Sigurðr hinn Landverski, ok Skefill enn Haukdælski, faðir Helga

---

[1]) Odds, *B*, *C*. [2]) fram svekktu yinar dróttir, *E*, *F*. [3]) þrútinn em unar, *E*, *F*. [4]) hatr, *B*; hoð (*eða* ljóð), *C*. [5]) gat, *E*. [6]) gildum, *E*. [7]) *þannig B*, *C*, *G*, *H*, *I*, *Sk*; Gauts tá, *A*. [8]) Gauts tafni má, *E*. [9]) bana, *I*. [10]) far, *B*, *C*; *frá* [ *v. i. I*. [11]) Helgahraun, *B*.

dýrs, er barðist við Sigurð, son Ljóts laungubaks í Öxarárhólmi á alþíngi; [um þat orti Helgi þetta:

Band er á hægri hendi,
hlaut ek sár af týbáru,
lýg[1] ek eigi þat[2] leygjar
linvængis bil minni[3].

Hrafn var annar son Skefils, faðir Gríms, föður Ásgeirs, föður Helga[4].

11. Þrándr mjöksiglandi Bjarnarson, [bróðir Eyvindar Austmanns[5], er fyrr er getit, hann var í Hafrsfirði mót Haraldi konúngi, ok varð síðan landflótti, ok kom til Íslands síð landnámatíðar; hann nam land milli Þjórsár ok Laxár, ok upp til Kálfár ok Sandlækjar, hann bjó í Þrándarholti; hans dóttir var Helga, er Þormóðr skapti átti.

Ölver barnakarl hèt maðr ágætr í Noregi, hann var víkíngr mikill; hann lèt eigi henda börn á spjótaoddum, sem þá var víkíngum títt, því var hann barnakarl kallaðr; hans synir voru þeir Steinólfr, faðir Unu, er átti Þorbjörn laxakarl, ok Einarr, faðir Ófeigs grettis, ok Óleifs breiðs, föður Þormóðar skapta. Steinmóðr var hinn þriði son Ölvis barnakarls, faðir Konáls, föður Áldísar[6] ennar Bareysku, er Óleifr feilan átti. Son Konáls var Steinmóðr, faðir Haldóru, er átti Eylífr, son Ketils einhenda. Þeir frændr Ófeigr grettir ok Þormóðr skapti fóru til Íslands, ok voru hinn fyrsta vetr með Þorbirni laxakarli,

---

1) ligg, *H.* 2) þar, *H, Sk.* 3) *frá* [ *v. í I.* 4) Helgu, móður Odds, föður Þóris, *E, F.* 5) hinn Austræni, *E, F.* 6) Álfdísar, *E, F;* Ásdísar, *Sk.*

mági sínum; en um vorit gaf hann þeim Gnúpverjarepp, Ófeigi hinn ytra lut, milli þverár ok Kálfár, ok bjó (hann) á Ófeigsstöðum hjá Steinsholti; en þormóði gaf hann hinn eystra lut, ok bjó hann í Skaptaholti. Dætr þormóðar voru þær þórvör, móðir þórodds goða, föður Lög-Skapta[1], ok þórveig[2], móðir þorsteins goða, föður Bjarna ens spaka[3]. Ófeigr fèll fur þorbirni jarlakappa í Grettisgeil hjá Hæli. Dóttir Ófeigs var Áldís[4], móðir Valla-Brands.

þorbjörn laxakarl nam þjórsárdal allan ok Gnúpverjahrepp allan, ok ofan til Kálfár, ok bjó hinn fyrsta vetr at Miðhúsum; hann hafði [þrjár vetrsetur[5] áðr hann kom í [Haga, þar bjó hann til dauðadags; hans synir voru þeir Ottkell í[6] þjórsárdal, [ok þorkell trandill[7], ok þorgils, faðir Ottkötlu, [móður þorkötlu[8], móður þorvalds, föður Döllu, móður Gizurar biskups. þorkell trandill var faðir Gauks í Staung[9].

þorbjörn jarlakappi hèt maðr Norrænn at kyni, hann fór af Orkneyjum til Íslands; hann keypti land í Hrunamannahrepp at Mávi Naddoddssyni allt fur neðan Selslæk á milli Laxár, hann bjó í Hólum; hans synir voru þeir Sölmundr, faðir Brennu-Kára[10], ok þormóðr, faðir

---

1) Skapta, *C.* 2) Þórve, *B, C*; Þórney, *E, F.* 3) föður Skeggja, föður Markúss lögsögumanns, föður Valgerðar, móður Böðvars, föður Þórðar prests, föður Þorleifs í Görðum, ok Markúss á Melum, ok Böðvars í Bæ. Lög-Skapti var faðir Þorsteins hólmuns, föður Gunnhildar, móður Goðunar, móður Vilborgar, móður Magnúss, föður Snorra á Melum, *b. v. E, F.* 4) Álfdís, *E, F*; Ásdís, *Sk.* 5) þar vetrsetu, *E, F.* 6) *frá* [ *v. í H, I, Sk.* 7) *frá* [ *v. í C.* 8) ok Þorkels trandils; Ottkatla var móðir Þorkötlu, *í stað þess frá* [ *C*; *frá* [ *v. í E, F.* 9) *frá* [ *v. í B.* 10) Sviðu-Kára, *B.*

Finnu, er átti þormóðr[1] í Karlafirði[2]; þeirra dóttir var Álfgerðr, [móðir Gests[3], föður Valgerðar, móður þorleifs beiskalda[4].

Bröndólfr[5] ok Már, Naddodds synir ok Jórunnar, dóttur Ölvis barnakarls, komu til Íslands snemma landsbygðar; þeir námu Hrunamannahrepp svá vítt sem vötn deila. Bröndólfr bjó á Berghyl; hans synir voru þeir þorleifr, faðir Bröndólfs, föður þorkels skotakolls[6], föður þórarins, föður Halls í Haukadal ok þorláks, föður Runólfs, föður þorláks biskups. Már bjó á Máстöðum; hans son var Beinir, faðir Kolgrímu, móður Skeggja, föður Hjalta[7].

þorbrandr, son þorbjarnar hins óarga, ok Ásbrandr, son hans, kvâmu til Íslands síð landnámatíðar, ok vísaði Ketilbjörn þeim til landnáms fur ofan múla þann, er framgengr hjá Stakksá ok til Kaldakvíslar, ok bjuggu í Haukadal; þeim þótti [land oflítit[8], er túngan hin vestri[9] var þá bygð; þá jóku þeir landnám sitt, ok námu enn efra hlut Hrunamannahrepps, sjónhending or Múla í Ingjaldsgnúp fur ofan Gyldarhaga[10]. Börn Ásbrands voru þau Vebrandr ok Arngerðr[11]. [Vebrandr var faðir Oddlaugar, er átti Svertíngr Runólfsson[12].

---

1) Þórormr, *B, C*. 2) Kollafirði, *G, I, Sk*. 3) er átti Gestr, *E, F*. 4) föður Álfgerðar, móður Þorláks, föður Ketils prests, ok Herdísar, móður barna Páls biskups, *b. v. E, F*. 5) Brynjólfr, *C, I, alstaðar*. 6) skotakarls, *Sk*. 7) er með kristni kom til Íslands fyrst, svâ at hún væri í lög tekin, *b. v. E*. 8) lönd þau sèr til lítils verða, *E, F*. 9) eystri, *B, E, F*. 10) Galdrahaga, *E, F*. 11) Ásgerðr, *E, F*. 12) *frá* [ *v. í B*.

Eyfreiðr[1] enn gamli nam túnguna eystri á milli Kaldakvíslar ok Hvítár, ok bjó í Túngu; með honum kom út [Drumboddr, er bjó á Drumboddsstöðum[2].

12. Ketilbjörn[3] hèt maðr ágætr í Naumudal, hann var Ketilsson ok Æsu, dóttur Hákonar jarls Grjótgarðssonar; hann átti Helgu, dóttur þórðar skeggja. Ketilbjörn fór til Íslands, þá er landit var víða byggt með sjó; hann hafði skip þat, er Elliði hèt, hann kom í Elliðaárós fyrir neðan heiði; hann var hinn fyrsta vetr með þórði skeggja, mági sínum, en um vorit fór hann upp um heiði at leita sèr landskosta; þeir höfðu náttból, ok gerðu sèr skála, þar sem nú heitir Skálabrekka [í Bláskógum[4]; en er þeir fóru þaðan, kvâmu þeir at á þeirri, er þeir kölluðu Öxará[5], þeir týndu þar í öxi sinni; þeir áttu dvöl undir fjallsmúla þeim, er þeir kölluðu Reiðarmúla, þar lágu þeim eptir árreyðar[6] þær, er þeir tóku or ánni. Ketilbjörn nam Grímsnes allt upp frá Höskuldslæk, ok Laugardal allan, ok alla Biskupstúngu upp til Stakksár[7], ok bjó at Mosfelli. Börn þeirra voru þau, Teitr ok þormóðr, þorleifr ok Ketill, þorkatla ok Oddleif, þorgerðr ok þuríðr; enn var son Ketilbjarnar laungetinn Skæríngr. Ketilbjörn var svâ auðigr at lausafè, at hann bauð sonum sínum at slá þvertrè af silfri í hofit, þat er þeir lètu gera; þeir vildu þat eigi; þá ók hann silfrit

[1]) Eyfróðr, *C, E, F;* Vefreiðr, *A-I.* [2]) *þannig hin;* Dumboddr, er bjó á Dumboddsst., *A.* [3]) hinn gamli, *b. v. I, Sk.* [4]) *v. í B.* [5]) þvíat, *b. v. C.* [6]) árreiðar, *E, F;* reiðar, *G, H, I, Sk.* [7]) Stakkslækjar, *E, F.*

upp á fjallit á tveim yxnum, ok Haki þræll hans, ok Bót ambátt hans, þau fálu fèit svâ, at eigi [hefir fundizt síðan[1]; síðan drap hann Haka í Hakaskarði, en Bót í Bótarskarði[2]. Teitr átti Álufu, dóttur Böðvars af Vors, Víkíngakárasonar[3]; þeirra son var Gizur hvíti, faðir Ísleifs biskups, föður Gizurar biskups. Annar son Teits var Ketilbjörn, faðir Kols, föður þorkels, föður Kols Víkverja biskups. Margt stórmenni er frá Ketilbirni komit.

Ásgeirr hèt maðr Úlfsson[4], honum gaf Ketilbjörn þorgerði, dóttur sína, ok lèt henni heiman fylgja Hlíðarlönd öll fur ofan Hagagarð, hann bjó í Hlíð[5] hinni ytri; þeirra son var Geirr goði, ok þorgeirr, faðir Bárðar at Mosfelli[6].

Eylífr auðgi, son Önundar bílds, fèkk þorkötlu Ketilbjarnardóttur, ok fylgdu henni heiman Höfðalönd, þar bjuggu þau; þeirra son var þórir, faðir þórarins sælíngs.

Veðormr, son Vemundar ens gamla, var hersir ríkr[7], hann stökk fur Haraldi konúngi austr á Jamtaland, ok ruddi [þar merkr til bygðar[8]; Hólmfastr hèt son hans, en Grímr systurson hans; þeir voru í vestrvíking, ok drápu þeir í Suðreyjum Ásbjörn jarl skerjablesa, ok tóku þar at herfángi Ólufu, konu hans, ok Arn-

---

1) finnst, *B.* 2) Bótarskál, *E, F.* 3) Teitr bygði fyrstr í Skálaholti, *b. v. E, F.* 4) Álfsson, *E, F.* 5) Ásgeirshlið, *A-J.* 6) Geirr goði var faðir Vigdísar, móður Þorsteins, föður Bótólfs, föður Þórdísar, móður Helgu, móður Þórðar prests, föður Markúss at Melum ok Þorbjarnar at Melum, *b. v. E, F.* 7) á Upplöndum, *b. v. E, F.* 8) sèr þar jörð, *E, F.*

16[2]

eiði, dóttur hans, ok hlaut Hólmfastr hana, ok seldi hana í hendr föður sínum, ok lèt vera ambátt. Grímr fèkk Álofar, dóttur þórðar vaggagða[1], er jarlinn hafði átta. Grímr fór til Íslands, ok nam Grímsnes allt upp til Svínavatns, ok bjó í Öndurðunesi fjóra vetr, en síðan at Búrfelli; hans son var þorgils, er átti Æsu, dóttur[2] Gests Oddleifssonar; þeirra synir voru þeir þórarinn at Búrfelli ok Jörundr í Miðengi.

Hallkell, bróðir Ketilbjarnar[3] sammæddr[4], hann fór til Íslands[5], ok var með Ketilbirni hinn fyrsta vetr; Ketilbjörn bauð at gefa honum land; Hallkatli þótti lítilmannligt at þiggja land at honum, ok skoraði á Grím til landa, eðr hólmgaungu ella. Grímr gekk á hólm við Hallkel undir Hallkelshólum, ok fèll þar, en Hallkell bjó síðan at Hólum; hans synir voru þeir Ottkell, er Gunnarr Hámundarson vo, ok Oddr at Kiðjabergi, faðir Hallbjarnar, er veginn var við Hallbjarnarvörður, ok [Hallkell, faðir Hallvarðs, föður þorsteins, er Einarr[6] Hjaltlendíngr vo. Son Hallkels Oddssonar var Bjarni, faðir Halls, föður Orms, föður Bárðar, föður Valgerðar, móður Haldóru, er Magnús biskup Gizurarson átti[7].

Nú er komit at landnámi Íngólfs, [því þeir menn, sem nú verða taldir, hafa byggt í hans landnámi[8].

---

1) vaggar, *E, F.* 2) systur, *E, F, á spáz. eptir Landn.* 3) at Mosfelli, *b. v. E, F.* 4) samfeðri, *E, F, eptir Landn.* 5) fám vetrum síðar, *b. v. E, F.* 6) Hallkels, föður Þorsteins, föður Hallvarðs, er Gunnarr, *í stað þess frá* [ *E, F.* 7) Oddr Hallkelsson var faðir Jódísar, móður Vilborgar, móður Magnúss, föður Mela-Snorra, *b. v. E, F.* 8) *frá* [ *v. í C.*

13. Þorgrímr bíldr, bróðir Önundar bílds, [sammæðri við hann, var son Úlfs frá Hóli; hann[1] nam öll lönd fur ofan Þverá, ok bjó at Bíldsfelli.

[Steinrauðr Melpatréksson[2], göfugs manns af Írlandi, hann var leysíngi Þorgríms bílds, hann átti dóttur Þorgríms, ok var allra manna vænstr; hann nam[3] öll Vatnslönd ok bjó á Steinrauðarstöðum[4]; hans son var Þormóðr, faðir Kárs, föður Þormóðar, föður Brands, föður Þóris, [föður Brands á Þíngvelli. Þórir Brandsson[5] átti Helgu Jónsdóttur.

Hrolleifr, son Einars[6], Ölvissonar barnakarls, kom í Leyruvog þá er byggt var allt með sjó; hann nam lönd til móts við Steinrauð öll fur utan Öxará, er fellr um Þíngvöll, ok bjó í Heiðabæ nokkura vetr; þá skoraði hann á Eyvind í Kvíguvogum til hólmgaungu eða landsölu, en Eyvindr kaus heldr at þeir keypti löndum. Eyvindr bjó nokkura vetr síðan at Heiðabæ, ok fór síðan á Rosmhvalanes til Bæarskerja[7]; en Hrolleifr bjó síðan í Kvíguvogum, ok er þar heygðr; hans son var Svertíngr, faðir Gríms lögsögumanns at Mosfelli[8].

Ormr hinn gamli, son Eyvindar jarls, Ármóðssonar[9] jarls, [Nereiðssonar jarls ens gamla ok[10] sínka: Ormr nam land á milli Varmár ok Þverár um Ingólfsfell allt, ok bjó í Hvammi; [hann átti Þórunni, dóttur Ketils kjalfara, þess er finngálknit barði í hel, hún var systir[11] Gríms

1) *frá [ v. í B.* 2) Melpareksson, *I, Sk.* 3) hans leysingi var Steinrauðr, faðir Melpatrix, af Irlandi; hann eignaðist, *í stað þess frá [ B.* 4) Melpatrix var manna vænstr, *b. v. B.* 5) er, *í stað þess frá [ B.* 6) Arnars, *C.* 7) Bæjarskeggja, *H, I.* 8) *greinina v. í B.* 9) Arnmóðssonar, *C;* Arnrjóðssonar, *E, F.* 10) *frá [ v. í C.* 11) afasystir, *C.*

ens Háleyska; þeirra son Örn[1] hinn gamli, faðir Darra, föður[2] Arnar. Eyvindr jarl var með Kjötva auðga mót Haraldi konúngi í Hafrsfirði.

Álfr hinn Egðski[3] stökk fur Haraldi konúngi enum hárfagra af Ögðum or Noregi, hann fór til Íslands, ok kom skipi sínu í ós þann, er við hann er kendr, ok Álfsós heitir; hann nam lönd öll fur utan Varmá, ok bjó at Gnúpum. Þorgrímr Grímólfsson var bróðurson Álfs, hann kom út með honum, sá er arf tók eptir hann, þvíat Álfr átti eigi barn. Son Þorgríms var Eyvindr, faðir Þórodds goða, [föður Skapta[4]; Özur var ok son Eyvindar[5], er átti Beru, dóttur Egils Skallagrímssonar. Móðir Þorgríms var Kormlöð[6], dóttir Kjarvals Íra konúngs. [Dóttir Þórodds goða var Helga, móðir[7] Gríms glömmuðs, föður Íngjalds, föður Gríms, föður Barkar, föður Ragnhildar, móður Valgerðar, móður herra Erlends, föður Hauks[8].

14. Þórir haustmyrkr nam Selvog ok Krísuvík, en Heggr[9], son hans, bjó at Vogi, en Böðmóðr, annar son hans, var faðir Þórarins, föður Súganda, föður Þorvarðar, föður Þórhildar, móður Sigurðar Þorgrímssonar.

Molda-Gnúpssynir bygðu Grindavík, sem fyrr er ritat.

Steinunnr[10] hin gamla, frændkona Íngólfs,

---

1) Ormr, *C*; Óauri, *E, F*. 2) hans son var Darri f., *í stað þess frá* [ *B*. 3) Ezki, *C*. 4) er átti Rannveigu Gnúpsdóttur; þeirra börn Skapti, ok Þórdís, móðir Ísleifs biskups, *í stað þess frá* [ *E, F*. 5) ok Özurar, *í stað þess frá* [ *B*. 6) Kornlöð, *B, E, F*. 7) dóttir, *Sk*. 8) *frá* [ *v. í B*. 9) Hegri, *A-J*. 10) Steinmóða, *A-J*.

fór til Íslands, ok var með Íngólfi hinn fyrsta vetr; hann bauð at gefa henni Rosmhvalanes allt fur utan Hvassahraun; en hún gaf fur. heklu flekkótta Enska, ok vildi kaup kalla, henni þótti þat óhættara við riptíngum. [Steinunni hafði átt Herlaugr, bróðir Skallagríms; þeirra son var Njáll ok Arnórr[1].

Eyvindr hèt frændi ok fóstri Steinunnar, honum gaf hún land milli Kvíguvogabjarga ok Hvassahrauns; hans son var Erlíngr[2], faðir þórarins, föður Sigvats[3], föður þórörnu, móður þorbjarnar Arnþjófssonar[4] í Krísuvík, [ok Ólofar, móður Finns lögmanns, ok Freygerðar, móður Lopts, föður Guðlaugs smiðs.

Herjólfr, sá er fyrr var frásagt, var frændi Íngólfs ok fóstbróðir, af því gaf Íngólfr honum land á milli Reykjaness ok Vogs; hans son var Bárðr, faðir Herjólfs þess, er fór til Grænalands, ok kom í hafgerðíngar; á skipi hans var Suðreyskr maðr, sá orti Hafgerðíngadrápu; þar er þetta upphaf:

Allir hlýði ossu fulli
amra fjalla Dvalins hallar[5].

Ásbjörn hèt maðr Özurarson, bróðurson Íngólfs; hann nam land milli Hraunsholtslækjar ok Hvassahrauns, Álptanes allt, ok bjó á Skúlastöðum; hans son var Egill, faðir [Özurar, föður[6] þórarins, föður Ólafs, föður Sveinbjarnar, föður Ásmundar, föður Sveinbjarnar, föður Styrkars,

---

1) *frá* [ *v. í B.* 2) Egill, *B, E.* 3) Sigmundar, *B.* 4) *v. í B.* 5) *frá* [ *v. í B.* 6) *frá* [ *v. í B.*

[föður Hafrbjarnar, föður þeirra þorsteins ok Gizurar í Seltjarnarnesi[1].

15. Nú er yfir farit um landnám þau, er[2] verit hafa á Íslandi, [eptir því sem fróðir menn hafa skrifat, fyrst Ari prestr hinn fróði þorgilsson, ok Kolskeggr hinn vitri. En þessa bók [ritaði herra[3] Haukr Erlendsson eptir þeirri bók, sem ritat hafði herra Sturla lögmaðr þórðarson[4], hinn fróðasti maðr, ok eptir þeirri bók annari, er ritat hafði Styrmir hinn fróði, ok hafði[5] þat or hverri, sem framar greindi; en mikill þorri var þat, er þær sögðu báðar eitt, [ok því er þat eigi at undra, at þessi Landnámabók sè lengri enn nokkur önnur[6].

En þessir landnámsmenn hafa göfgastir verit í Sunnlendíngafjórðungi: Hrafn hinn heimski, Ketill hængr, Sigvatr rauði, Hásteinn Atlason, Ketilbjörn hinn gamli, Helgi bjóla, Íngólfr Arnarson, Örlygr hinn gamli, [Kolgrímr hinn gamli[7], Björn gullberi, Önundr breiðskeggr.

Svâ segja fróðir menn, at landit yrði albyggt á sextígi vetrum, svâ at eigi hefir síðan vorðit fjölbygðara; þá lifðu enn margir landnámsmenn ok synir þeirra. þá er landit hafði sextígi vetra byggt verit, vóru þessir höfðíngjar mestir á landinu: í Sunnlendíngafjórðúngi: Mörðr gýgja, Jörundr goði, Geirr goði, þorsteinn Íngólfsson, Túngu-Oddr; en í Vestfirðíngafjórðúngi: Egill Skallagrímsson, þorgrímr Kjallaksson, þórðr gell-

---

1) *frá [ v. í B; það sem eptir er hèðanfrá v. í E, F.* 2) vèr höfum heyrt at, *b. v. B.* 3) ritaða ek, *C.* 4) *v. í C.* 5) hafða ek, *C.* 6) *frá þriðja fyrif. [ v. í B; frá síðasta [ v. í H, I.* 7) *b. v. hin; v. í A.*

ir; en norðr: Miðfjarðar-Skeggi, þorsteinn Ingólfsson, Guðdælir, Hjaltasynir, Eyjólfr Valgerðarson, Áskell goði; en í Austfirðíngafjórðúngi: þorsteinn hvíti, Hrafnkell goði, þorsteinn, faðir Síðu-Halls, þórðr Freysgoði; [Hrafn Hængsson hafði þá lögsögn[1].

Svá segja vitrir menn, at [þessir hafi skírðir verit landnámsmenn[2]: Helgi magri, Örlygr hinn gamli, Helgi bjóla, Jörundr hinn kristni, Auðr hin djúpauðga, Ketill hinn fíflski, ok [þeir flestir[3] [vóru komnir[4] vestan um haf; hèldu sumir vel kristni til dauðadags, en þat gekk óvíða í ættir, þvíat synir þeirra sumir reistu hof ok blótuðu, en landit var alheiðit nær hundraði vetra[5].

---

[1]) *frá* [ *v. í Sk.* [2]) nökkurir landnámsmenn hafi skírðir verit, þeir er byggt hafa Island, flestir þeir er kvámu vestan um haf, er til þess nefndt: *í stað þess frá* [ *B.* [3]) enn fleiri menn, *B.* [4]) er komu, *B, C.* [5]) *hèr sleppa B, C, at fullu.*

# Viðbætir[1].

Óaldarvetr mikill varð á Íslandi í heiðni, í þann tíma er Haraldr konúngr gráfeldr fèll, en Hákon jarl tók ríki í Noregi, sá hefir mestr vorðit á Íslandi; þá átu menn hrafna ok melrakka, ok mörg óátan ill var etin; en sumir lètu drepa gamalmenni[2] ok ómaga, [ok hrynda fur hamra; þá sultu margir menn til bana[3], en sumir lögðust út at stela, ok urðu fur þat sekir, [ok drepnir[4]; þá vógust skógarmenn sjálfir, þvíat þat var lögtekit, at ráði Eyjólfs Valgerðarsonar, at hverr frelsti sik, sá er þrjá dræpi sekja. Áttatígi vetra síðar varð annat óáran, þat hófst þann vetr, er Ísleifr tók biskupsvígslu af Albertó Brima[5] biskupi, þat var um daga Haralds konúngs Sigurðarsonar. En þann fyrsta vetr, er Ísleifr biskup var á Íslandi, var manndauði sem mestr á Íslandi af sulti; þá var allt þat etit, er tönn[6] festi á; en um sumarit lèt biskup því heita á þíngi, at menn skyldu fasta enn tólfta dag jóla um þrjú ár, þvíat svâ var gjört í Herfurðu, þar er biskup hafði í skóla verit á Saxlandi; þá var svâ snæmikit hvervetna, at menn gengu flestir til alþíngis; en er heitit var, batnaði þegar veðrátta, ok varð sumar hit bezta; en veturinn eptir var svâ góðr, at engi

1) *Hèr er engi fyrisögn í handritunum.* 2) gamla menn, *H, Sk.* 3) *frá* [ *v. í Sk.* 4) *frá* [ *v. í Sk.* 5) Bruna, *Sk.* 6) hönd, *H.*

kom þeli í jörð, ok gengu menn berfættir til [tíða um jól, en húsuðu[1] ok lögðu garða á þorra. Hit næsta sumar eptir var þat í lög tekit, at jamnan skyldi fasta hinn tólfta dag jóla, ef eigi bæri á drottinsdag. Son Ísleifs biskups var Gizur biskup.

Bjarni Skeggbroddason sókti eldhúsvið til Noregs, ok gjörði eldhús í Krossavík hálffertugt föðmum, en fjórtán álna hátt, ok fjórtán álna breitt, hann var því kallaðr Bjarni húslángr; hann drukknaði [með sjöunda mann[2] á Skjálfanda, er hann fór til þíngs. Broddi þórisson, bróðurson Bjarna húslángs, færði skálann mikla or Krossavík til Hofs, ok lèt þar uppgera, hann var þá hálfþrítugr föðmum, ok þrettán álna breiðr, ok þrettán álna hár. Broddi var hinn mesti ágætismaðr, ok varð fèlaus; hann fór þá vestr til Hóla í Hjaltadal til Ketils biskups þorsteinssonar, ok andaðist þar með honum.

Sigurðr, son Sigmundar konúngs, er kallaðr var Fáfnisbani, ok Brynhildr Buðladóttir áttu dóttur þá, er Áslaug hèt, hún var fædd með Heimi[3] jarli í Hríngdölum þartil er hann var drepinn. Ragnarr loðbrók, son Sigurðar[4] hríngs, átti þóru, dóttur Herrauðar Gauta jarls; þeirra börn voru þau Agnarr, ok Eiríkr, ok Óluf, er átti Hundasteinarr Engla jarl; þeirra son var Björn, faðir Auðunnar skökuls, föður þóru moshals, móður Úlfhildar, er átti Guðbrandr kúla;

---

[1]) jólatíða; um jól húsuðu þeir, *Sk.* [2]) *v. í I.* [3]) Húna, *H, I;* Hými, *Sk.* [4]) Sigmundar, *Sk.*

þeirra dóttir. Ásta, móðir Ólafs konúngs ens helga. Annar son Hundasteinars ok Ólufar hèt Eiríkr, hann var faðir Sigurðar bjóðaskalla, föður Víkíngakára, föður þeirra Böðvars, ok Vigfúss, ok Eiríks á Ofrustöðum, föður Ástríðar, móður Ólafs konúngs Tryggvasonar. Dóttir Vigfúss var Ástríðr, móðir Víga-Glúms, föður Vigfúss, föður Bergs, föður Steinunnar, móður þorsteins rángláts, föður Guðrúnar, móður Höllu, móður Flosa, föður Valgerðar, móður herra Erlends lögmanns, föður herra Hauks[1]. Óluf hèt dótttir Böðvars hersis, er átti Teitr Ketilbjarnarson frá Mosfelli; þeirra son Gizur hvíti, faþir Ísleifs biskups, föður Gizurar biskups. Ragnarr loðbrók átti síðar Áslaugu, dóttur Sigurðar Fâfnisbana; Sigurðr ormr-í-auga var son þeirra, ok Hvítserkr, ok Björn járnsíða, ok Ívarr hinn beinlausi, ok Ragnhildr.

Hálfdán svarti Upplendínga konúngr, son Guðrauðar[2] ljóma, átti þóru, dóttur Haralds gullskeggs, Sygna konúngs, ok Sólvarar Hunnólfsdóttur[3], jarls or Fjörðum, systur Atla jarls ens mjófa. Son þeirra Hálfdánar ok þóru var Haraldr; en er hann var úngr þá andaðist móðir hans, en sveinninn litlu síðar; litlu síðar fèkk Hálfdán Ragnhildar, dóttur Sigurðar hjartar; móðir Sigurðar var Áslaug, dóttir Sigurðar orms-í-auga; þeirra son var Haraldr enn hárfagri; en þá er hann var tíu vetra, þá drukknaði

[1]) lögmanns, *b. v, G, H, I, Sk.* [2]) Guðmúndar, *Sk.* [3]) Hundólfsd., *Sk.*

Hálfdán, faðir hans, á Hríngaríki, í vatni því, er Rönd heitir, er hann ók eptir ísinum; þá brast ísinn, er þeir komu á nautabrunna[1] fur Sverðsstöðum í Ríkinnvík, ok drukknaði hann þar, ok allt lið hans; tók þá Haraldr konúngs nafn; en þá er hann var tvítugr, þá lagði hann fyrst undir sik Sygnafylki, en Atli jarl hafði aldrí skatt goldit; en síðan lagði hann undir sik allan Noreg, sem segir í sögu hans.

Vikarr hèt konúngr, son Haralds Egða[2] konúngs; hans son var Vatnarr konúngr, sá er haug á fur sunnan Hákonarhellu. Einn kaupmaðr í Noregi var sá, er sagði sögu Vatnars, er þeir sigldu með landi fram, ok kallaði hann verit hafa ágætan mann; en er hann lá við Vatnarshaug, dreymdi hann, at Vatnarr konúngr kom at honum[3], ok mælti við hann: þú hefir sagt sögu mína, vil ek þat launa þèr, leita þèr fjár í haugi mínum, ok mantu finna; hann leitaði, ok fann þar mikit fè.

Svâ er sagt, þá er Haraldr konúngr harðráði lá við Glaumstein í Hallandi með her sinn: þeir sá þar haug mikinn á sjáfarhellunni, ok annann litlu ofar; hann spurði, hverir þar væri leiddir; en þat kunni enginn at segja; en um nóttina eptir, er hann hafði þessa spurt, dreymdi Sigurð enn hvíta, at maðr kom at honum í herklæðum, ok kvað þetta:

Snjallr á hauga hellu,
Hjaldr á búð til kalda,

[1]) nauta brúna, *Sk.* [2]) Eyða, *I.* [3]) um nóttina, *b. v. H.*

vekì þèr í dag dreyra,
drótt! nú er sigr á spjótum;
valdr man[1] hitt at hildar
hlæjandi[2] rauð[3] ek blæju[4],
skjöld nefni ek svå sköfnum
skjóma fyrstr at rómu.

Enn sömu nótt dreymdi Björn búkk, at annar maðr kom at honum með hinum sama búníngi, ok kvað vísu:

Mín stóð búð síst[5], bræðra
brands gekk hvårr fur annann,
holl[6], ok hèldum[7] snjallir,
hèr fèllum þá, velli;
hrósar hug fur vísa
Hjaldr, eru víg til sjaldan[8],
gleðr oss þat er val Viðri
veit ek þik gefa teitan.

En er Haraldr konúngr kom til Noregs, þá sagði honum Kári enn svarti, frændi Þjóðólfs or Hvini, at þeir voru synir Vatnars konúngs, þeir Snjallr ok Hjaldr, ok voru hinir mestu hermenn. Snjallr var faðir Einars, föður Ölvis barnakarls; hans son var Steinmóðr, ok Steinólfr, ok Grímr, ok Einarr, faðir þeirra Hrolleifs, föður Svertíngs, föður Gríms at Mosfelli, ok Óleifs[9] breiðs, föður þeirra Þormóðs skapta ok Ófeigs grettis; svå segja sumir menn, at Guðbrandr kúla væri son Óleifs[10] breiðs; en Hjaldr var faðir

---

[1]) nam, *G, I.* [2]) hlæindi, *I, Sk.* [3]) rauf, *G.* [4]) blæin, *Sk.* [5]) siðst, *Sk.* [6]) höll, *G, I.* [7]) heldu, *G.* [8]) skjaldar, *I.* [9]) Ófeigs, *H.* [10]) *þannig leiðr.;* Ófeigs, *öll.*

Grims, föður Bjarnar bunu. Björn buna átti Velaugu, systur Vemundar hins gamla; þeirra synir vóru þeir Kétill flatnefr, ok Hrappr, ok Helgi, faðir Helga, föður Heyángrs-Bjarnar, hverr et ríkr hersir ok ágætr var í Sogni. . . . . .

Yxnaþórir hèt maðr ágætr, á Ögðum, ok auðigr, hann átti þar þær þrjár eyjar, er áttatígi yxna var í hverri; en er Haraldr konúngr hárfagri bað hann strandhöggs, þá gaf hann honum eina eyna, ok alla yxina með, af því var hann kallaðr Yxnaþórir; ok (er) frá honum komit margt stórmenni á Íslandi ok Noregi. Son þóris var Ósvaldr, faðir Ölvis hins hvíta, föður [þorsteins hins hvíta, föður[1] þorgils, föður Broddhelga, föður Vígabjarna. . . . .

Á því ári, er Gizur biskup Ísleifsson andaðist, gerði hallæri mikit á Íslandi; þá kom hríð svá mikil í dymbildögum, at menn máttu eigi vera tíðir í kyrkjum í sumum stöðum ok hèruðum fur norðan land; föstudag hinn lánga tók upp knör undir Eyjafjöllum, ok snèri á lopti, ok kom hvolfandi niðr, hann [var sex[2] rúm ok tuttugu; páskadaginn fyrsta máttu fáir menn tíðir sækja at taka þjónustu, en sumir urðu úti dauðir; annat illviðri kom um sumarit eptir andlát hans, þann dag, er menn riðu á þíng; þá braut kyrkju á þíngvelli þá, er Haraldr konúngr Sigurðarson lèt [höggva viðinn[3] til; þat sumar fóru fjörutígi[4] skipa út híngat, ok braut mörg

[1]) *frá* [ *v. í Sk.* [2]) *þannig hin;* VII, *A.* [3]) höggviðinn, *Sk.* [4]) þrjátigi ok fimm, *G, H, I, á spáz. eptir Hauksbók.*

við land, en sum týndust í hafi, ok leysti sundr undir mönnum, en átta ein kvámust brott með þeim, er áðr voru hèr, ok kvámust þau engi fur Mikkaelismessu af hafi; af þeim mannfjölda varð hallæri [svâ mikit hèr á landi[1].

þá er Gizur biskup andaðist voru þessir mestir höfðíngjar á Íslandi: Hafliði Másson norðr, ok synir Ásbjarnar Arnórssonar í Skagafirði, þorgeirr Hallason ok Ketill þorsteinsson prestr; en austr: Gizur Einarsson, Sigmundr þorgilsson, hann andaðist á því ári í Rómför; en suðr: Hallr Teitsson, Skúli Egilsson; en vestr: Styrmir Hreinsson, Haldórr Egilsson, þorgils Oddason, þórðr Gilsson, þórðr þorvaldsson [ori Vatnsfirði[2].

Einum vetri eptir andlát Gizurar biskups var þorsteinn Hallvarðsson veginn, göfugr maðr, en vetri eptir þat var þíng fjölmennt; þau missèri hafði svâ mikill manndauði verit, at Sæmundr prestr enn fróði sagði svâ á þíngi, at eigi mundi færri menn hafa andazt af sótt, enn þá voru til þíngs komnir. þat sumar var þraung mikil at dómum; þá særði þorgils Oddason Hafliða Márs-son; þá varð um ekkert mál at lögum dæmt; þorgils varð sekr um áverkann, ok sat í sekt um vetrinn; þá var svâ lítill vopnaburðr, at ein var stálhúfa á alþíngi, ok reið drjúgum hverr bóndi til þíngs, er þá var á Íslandi.

þat vor, er þrír vetr voru liðnir frá andláti Gizurar bikups, andaðist Jón biskup at Hólum

---

1) *frá* [ *v í Sk.* 2) *frá* [ *v. í Sk.*

9 *kalendas Maji*; þat sumar sat Hafliði Márs-son á efrum Völlum með [tólf hundruð[1] manna, ok ætlaði at banna þorgilsi Oddasyni þíngreið; þar var með honum Hallr Teitsson, ok þórðr or Vatnsfirði, mágr hans, ok margir aðrir höfðíngjar; þat var hinn næsta dag fur Jónsmessu; þorlákr biskup gekk þannig[2] til með kennimenn, ok leitaði marga vega um sættir með þeim; en er þat tjáði eigi, þá furbauð hann þeim þar at sitja, ok lèzt mundu bannsetja þá, ef þeir gengi eigi heim; þá kvað Hafliði at þeir skyldi heim gánga til tíða[3]. þorgils reið á þíng með sjö hundruð manna, með honum voru flestir höfðíngjar or Vestfirðíngafjórðúngi, nema þórðr or Vatnsfirði; en er um sættir var leitat, var þat í meðal þeirra, at Hafliði vildi hafa sjálfdæmi um allt, óskorat, en þorgils vildi undantaka goðorð, ok staðfestu, ok sektir allar; þann skakka gat Ketill prestr þorsteinsson niðrfeldan með umtölum sínum; þat sumar var hann kosinn til biskups, í stað Jóns biskups, ok fór utan. þorgils handsalaði Hafliða sjálfdæmi; en hann gerði sextígi hundraða[4] sex álna aura vöru virðs fjár, í gulli, eða í brendu silfri, eðr í rífum aurum, eðr í gripum þeim, er honum þætti gersimum sæta, ok hann virði sjálfr, eða þeir menn, er hann tæki til; þetta fè handsöluðu sex menn, ok unnu at fimtardómseið, at þeir skyldu

1) *þannig Kristnisaga;* XCC, *þannig skrifað í öllum.*
2) þángat, *I;* þann 19, *Sk.* 3) búða, *Sk.* 4) *v. í I, Sk.*

þetta fè gjalda sem fyrr var mælt. Þorgils ok Hafliði veittu sjálfir trygðir, ok hèldu vel sætt þessa. Hafliði Másson átti fyrr[1] Þuríði, dóttur Þórðar Sturlusonar; Þórðr hèt son þeirra, hann átti Sölvöru, dóttur Ásgríms Þórhallssonar; Ívarr hèt son þeirra. Hafliði átti síðar Rannveigu, dóttur Teits or Haukadal; Sigríð hèt dóttir þeirra, er átti Þórðr í Vatnsfirði; Þórðr ok Páll vóru synir þeirra. Valgerðr hèt önnur dóttir þeirra Hafliða, hana átti Íngimundr prestr Illuga son ok Ornýju[2], dóttur Þorkels Gellissonar; Illugi var son þeirra, er drukknaði þá er hann flutti lím til steinkyrkju þeirrar, er hann ætlaði at láta gera á Breiðabólstað í Vestrhópi[3].

Rögnvaldr jarl kali[4] var veginn fimm nóttum eptir Maríumessu fyrri[5]. Ólafr konúngr Tryggvason barðist á Orminum lánga næsta dag eptir Maríumessu síðari[6].

Þessi eru nöfn biskupa þeirra útlendra, er verit hafa á Íslandi: Friðrekr, Bjarnarðr, Ólafr Grænlendínga biskup, Kolr, Roðólfr, Jón, Bjarnarðr[7], Heinrekr, Arnaldr Grænlendínga biskup, [Jón Grænlendínga biskup[8], ok Helgi Grænlendínga biskup. Verit hafa enn þeir fleiri, er biskupar lètust vera: Guðiskólkr[9], Örnólfr, [ok þrír[10] af Armenía: Petrus, Stephanus ok Abraham[11].

---

1) *v. í I, Sk.* 2) Oddnýju, *Sk.* 3) *þetta frá orðunum að framan:* Á því ári, er Gizur biskup Ísleifsson andaðist, *og hingað til, stendur í Kristnisögu nokkuð fáorðara, sem síðasti kap. hennar.* 4) koli, *G, H, I, Sk.* 5) ánnó 1158, *b. v. H.* 6) *þessi grein stendr fyrir aptan Kristnisögu í C.* 7) Bjarnvarðr, *H.* 8) *frá* [ *v. í hin.* 9) Guði, Skólkr, *H, I, Sk.* 10) ögný, *G.* 11) *við þessa grein nefna A, G, Hauksbók.*

Friðrekr biskup kom í heíðni til Íslands með Þorvaldi víðförla, ok var at Gilja ok Lækjamóti. Bjarnarðr enn bókvísi var á Íslandi fimm vetr. Húngrvaka segir, at Bjarnarðr Vilráðsson enn bókvísi hafi verit af Englandi, ok farit til Íslands af ráðum Ólafs konúngs ens helga, því hann hafi með honum verit áðr[1]. Kolr (var á Íslandi) fá ár; hann var með Halli í Haukadal, ok er jarðaðr í Skálaholti fyrstr biskupa, segir Húngrvaka. Roðólfr (var hèr) nítján ár; hann setti múnklífi í Bæ í Borgarfirði, hann bjó ok[2] á Lundi. [Húngrvaka segir Úlfr biskup hafi verit af Rúðuborg or Englandi, ok nefndr því Rúðu-Úlfr[3]. Jón hinn Saxneski (var hèr) fjögr ár, Húngrvaka segir Jón Írskan, ok farit hèðan til Vindlands[4], kristnat þar, verit þar síðan píndr ok drepinn. Heinrekr (var hèr) tvö ár[5]. Bjarnvarðr (var hèr) nítján ár; hann bjó at Gilja í Vatnsdal. Húngrvaka talar svâ um þenna Bjarnvarð: hinn sjötti útlenzkr biskup var Bjarnvarðr biskup enn Saxlendski, er var með Magnúsi konúngi enum góða Ólafssyni, ok fór síðan til Íslands, ok var á Íslandi tuttugu vetr; hann hafði tvo bústaði: í Vatnsdal at Gilja ok Steinsstöðum; ek meina þat Steinnes; hann vígði marga luti, þá er mörg merki hafa at vorðit, kyrkjur ok klukkur, brúar ok brunna, vöð ok vötn, björg ok bjöllur, ok þykkja þessir lutir hafa birt sanna tign hans ok

---

[1]) annó 1003, *b. v. H.* [2]) *v. í H, I, Sk.* [3]) *þannig frá* [ *G, H, I, Sk;* Úlfr biskup var af Rúðu or Englandi, *A.* [4]) *þannig leiðr.;* Vinlands, *A og hin.* [5]) vetr, *Sk.*

gæzku. Bjarnvarðr var á Íslandi meðan Haraldr konúngr var í Noregi Sigurðarson, þvíat þeir vóru eigi samsáttir; síðan fór hann utan, ok til handa Ólafi konúngi kyrra Haraldssyni, ok síðan fór hann til Róms at bæn konúngs, ok friðaði fur önduðum[1]; en er biskup kom aptr, þá skipaði konúngr hann biskup í Selju; en síðan fór hann í Björgvin, ok andaðist þar, ok er einmælt hann hafi verit hinn mesti merkismaðr[2].

---

1) orðunum, *I, Sk.* 2) *orðin milli () í fyrif. grein eru tekin úr Sk.*

# Heidarvígasögu brot.

***VIÐARKÖSTR, saknar hann nú hestanna, ok leitar ok fiðr *** þikkir vera illa *** ner við, ok ferr nú til fundar við þórarinn, verðr nú við hann skapfátt, veitir hónum áverka svâ næsta mikinn, at hânum er þat gyldr þykkr, ok eigi banvænligr; en þaðan af kemr þat fyri þá Höskuld ok Eylíf, beiða þeir bóta fyri þíngmann sinn; hann lætr eigi bráðt við því, ok eigi sættust þeir á þat, ok stendr nú svâ búit um hríð. Barði hafði verksmið mikinn, ok þeir bræðr, sumar þat, ok fór verk vel fram um sumarit, er nú var betr tilskipat enn fyrr. Nú er þat komit sumri, at sjö vikur lifa sumars; þá ferr Barði at hitta þórarinn, fóstra sinn, til Lækjamóts; þeir hjöluðust opt ok laungum við fóstrarnir, ok vissu menn úglöggt, hvat þeir mæltu. Nú man vera mannamót, segir þórarinn, á milli Hofs ok Húnavatns, þar sem heita þíngeyrar, en ek hef því ráðit, engin vâru hèr til; nú skaltu þángat fara, ok reyna vini þína, fyri því, at nú vættir

mik, at menn sè forkunnar margir, er lengi hefir dvalizt, man þar nú vera fjölmennt; vættir mik, at þar komi Haldórr, fóstbróðir þinn; bið hann föruneytis ok brautargengis, ef þèr er hugr á at fara yr hèraði á braut, ok hefna bróður þíns. Bær heitir á Bakka, hann er fyrir utan Húnavatn, þar bjó kona sú, er þórdís hèt, ok var kölluð gefn, ok var ekkja; með henni var at ráðum maðr sá, er Oddr hèt, hann var gyldr maðr fyri sèr, ekki var hann einskostar fègöfigr eða ættstórr: hann ræðr svörum. þar er kallat í sveit þeirri at Kólgumýrum, ok eru þar bæir margir, ok heitir einn bær at Meðalheimi; þar bjó sá maðr, er þorgils hèt, hann var systrúngr Gefnar-Odds at frændsemi, ok var hraustr maðr, ok skáld gott, ok átti góða kosti fjár, ok gyldr maðr fyri sèr: kveð hann til farar með þèr. Bær heitir at Búrfelli, miðlum Svínavatns ok Blöndu, þat er á Hálsi út; þar bjó sá maðr, er Eiríkr hèt, ok var kallaðr Eiríkr víðsjá, hann var skáld ok eigi lítill fyri sèr: hann skaltu kveðja til föruneytis með þèr. Í Lángadal heitir bær at Auðólfsstöðum, þar bjó sá maðr, er Auðólfr hèt, hann var góðr drengr, ok mikill fyri sèr; bróðir hans er þorvaldr, ok er eigi hans við förina getit; hann bjó þar sem heitir í Slèttadal, þat er upp frá Svínavatni, þar eru tveir bæir, er svâ heita; hann var sterkastr maðr at afli fyri norðan land: eigi skaltu hann kveðja til þessarar ferðar, ok kemr til þess skapferði hans. Bær heitir at Svínavatni, ok bjó þar sá maðr, er Sumarliði hèt, ok kallaðr gjallandi, auðigr at fè

ok mannvirðingum; með honum var heima dóttursonr hans, ok heitir Þorljótr gjallandafóstri, hraustr maðr: bið hann til föruneytis með þèr. Eyjólfr hèt maðr, bjó at Ásmundargnúpi, þat er milli Vatns ok Víðidals: hann skaltu hitta, bið hann fara með þèr, hann er vinr várr; nú vættir mik, segir hann, at lítt verði íráðit. Þetta flytr þú fram með mótnu[1] ***, ok leitar þá við þá um þetta mál, ok segir svá, at þeir sèu eigi skyldir til farar með þèr, ef eigi þú kemr þann næsta laugardag til hvárs þeirra, er fimm vikur eru til vetrar, ok þaðan skaltu eigi hafa þann, er þá er eigi búinn, þvíat sá er engi eyrögr. Því skaltu þessa menn velja til farar með þèr, en eigi aðra sveitarmenn, at þessir eru nauðleitamenn hvárr annars, ok eigu allir góða kosti, ok svá frændr þeirra eigi síðr, ok er þat þvílíkt, sem eru sjálfir, ok þessir eru röskvastir af öllum þeim, er þar eru í Víðidal ok öllum *** sveitum, ok þeir munu yðr bezt viljaðir, en várir vinir hinir mestu. Nú er þat úglíkt at hafa með sèr góða drengmenn ok hrausta, eðr einhleypínga, þá er sèr eiga eigi góðs kosti, ef nokkut hendir til vandræða. Nú eru ok ráðnir til farar með þèr heimamenn þínir ok nábúar, er bæði eru frændr þínir ok tengdamenn: Eyjólfr, mágr þinn, frá Borg, hann er hraustr maðr ok góðr drengr. Bær heitir í Vestrópi á Þernumýri, þar búa bræðr tveir, heitir annar Þóroddr, Þorgils annar, ok váru Hermundarsynir, bræðrúngar Barða at frændsemi, ok áttu góða kosti fjár,

[1]) *líkliga:* á mótinu.

miklir kappsmenn ok góðir áræðis; þeir eru ráðnir til farar með þèr. Nú ro þeir ráðnir bræðr til farar þrír. Enn eru nefndir bræðr tveir, er þar váru heima með honum, ok hèt annar Dagr, en annar Ólafr, þeir váru systrúngar Barða, ok höfðu þar uppvaxit með Guðmundi: þeir eru ráðnir til farar með þèr. Enn eru nefndir tveir menn, hèt annar Grís, ok var kallaðr Koll-Grís, hann var þar uppfæddr í Ásbjarnarnesi, en hann var hagr ok verkstjóri þeirra, ok hafði þeim lengi verit velviljaðr; annar hèt Þórðr, ok var kallaðr melrakki, var fóstri þeirra Þuríðar ok Guðmundar, höfðu þau hann tekit barn af válaði ok fætt upp; hann var alroskinn ok vel at sèr gerr, ok þat segja menn, at fyrir honum var enkis örvænt, orðs nè verks, ok unnu þau honum mikit, ok virðu hann meira enn hann var verðr; hann er ráðinn til heimanferðar með þeim. Nú ro nefndir þeir menn, er fara skyldu með Barða. Nú er þeir hafa slíkt talat, skiljast þeir. Drottinsdaginn kemr Barði til Lækjamóts, ok ríðr þaðan til mannamóts; ok er hann kemr þar, þá er þar komit fjölmenni mikit, ok er þar skemtan góð; bar[1] mönnum nú forkuðr á skemtan, er lengi höfðu verit niðrlögð mannamót. Nú var lítt íráðit þótt mönnum væri tíðrætt á þeim fundi. Takast at orðum þeir fóstbræðr, Haldórr ok Barði, spyrr Barði, hvárt hann vildi fara með honum nokkut um haustit yr hèraði. Haldórr segir, at eigi man þat þikkja minn-

[1]) *máske rèttara:* var.

ar handar mikilmannliga til orðs, at ek þikkjumst eigi búinn at fara; nú er ferð mín albúin á braut, en ek hef ætlat at fara tvívegis til Noregs; nú hef ek þat ætlat; ef svâ ferr sem ek vil, at koma þèr at liði er meira væri, ef þú þyrftir nokkra nauðsyn heðan frá, fyri því at margir eru betr tilfallnir fararinnar, at því er ek hygg þú villir fara. Barði lætr sèr skiljast at svâ er sem hann sagði, ok kveðst honum mundi eigi verri vin enn áðr. En ek man biðja þik nokkurs lutar, segir Haldórr: þat var hèr í sumar, at mik skildi á við mann þann, er heitir þórarinn, ok varð hann fyrir áverka af mínu tilræði; hann er lítilsverðr fyrir sinar sakir, en þeir menn beiða bóta fyrir hann, er mikils ro verðir; nú hæfir mèr eigi at varna þeim bóta, þeim Höskuldi ok Eylífi; vil ek þú sættist á málit fyri mína hönd, en ek get eigi af mèr, þó hefi ek áðr synjat at bjóða þeim yfirbætr. Barði gengr þegar at hitta þá Höskuld ok Eylíf, ok tekr þegar málit fyri Haldór, ok leggja þeir fund með (sèr), at sættast á málit, er fjórar vikur eru til vetrar, at Klifum at búi þórarins. Nú kemr Barði at máli við Gefnar-Odd, at hann fari með honum til Borgarfjarðar suðr. Oddr svarar bráðt þessu máli: þóttu hefðir kvaðt vetri fyrr eðr tveimr, þá mundi ek þó búinn þeirrar ferðar. þá hittir Barði systrúng Odds, þorgils, ok talar hit sama mál. Hann svarar: þat manu menn mæla, at eigi hefir þú þessa fyrr kvaðt, enn vân var, ok man ek fara, ef þú vilt. Hittir hann Arngrím, fóstra Auðólfs, ok spyrr, ef hann muni

vera í för með honum. Hann svarar: búinn em ek, þegar þú ert búinn. Slíkt hit sama mælti hann við alla þá, er fyrr váru nefndir, ok tóku allir vel máli hans. Nú mælti Barði: þèr hafið haft drengiliga af þessu við mik, nú man ek kvâma laugardaginn til yðar, er fimm vikur eru til vetrar, ok ef ek kem eigi svâ, þá eruð þèr enkis skyldir með mèr at fara; ríða nú heim af mannamóti. Hittast þeir nú, fóstbræðrnir, Þórarinn ok Barði, ok segir Barði honum, hvat þeir Haldórr ræddust við; Þórarinn lætr (vel) yfir því, ok kvað eigi at síðr þessa för mundu framkomast, þó eigi færi hann; ok má hann enn vel koma þèr at haldi; fyri því hefik fyri svâ skömmu gjört vart við þessa för, at ek vildi sem síðst komi frètt áðr í hèrað þeirra Borgfirðínga. Nú líðr fram at föstudeginum í hinni sèttu viku; ok at eikð dags þá koma heim húskarlar Barða, ok höfðu þá lokit mjök svâ heyverkum. Barði var úti ok þeir bræðr, en þeir kvâmu heim verkmenn, heilsuðu þeir þeim vel; höfðu þeir með sèr verkfæri sín, ok dregst Þórðr melrakki eptir með ljáorf sitt. Barði mælti: dregr melrakki eptir sèr halann nú. Svâ er, segir Þórðr, at ek dreg eptir mèr halann minn, ok ber ek lítt upp eða eigi, en þess varir mik, at þú dragir halann þinn mjök lengi áðr, enn þú hefnir Halls, bróður þíns; en Barði hefndi honum engu orði. Gánga menn til borða. Þeir bræðr matast skjótt, ok stíga undan borðum þegar, ok gengr Barði fyri Þórð melrakka, ok mælti við hann, leggr fyrir hann verk, hvârt

hann skal gjöra um aptaninn ok um dag eptir, laugardaginn; fjörutígi sátna váru úfærðar saman í Ásbjarnarnesi, ok þat mælti Barði, at hann skal þat saman færa, ok lúka því um aptaninn: en þú skalt fara á myrgun at sækja foristugeldíng várn, er Fleigir[1] heitir, þvíat geldíngar eru gengnir yr afrètt ok heim í haga; því vísaði hann hónum til þess, at hann var verra at henda enn aðra sauði; nú skaltu ok á morgyn sækja í Ambárdal yxni fimm vetra gamalt, er vær egum, ok drepa af, ok færa til Borgar suðr slátrit allt laugardaginn; verkit er mikit, en ef eigi er unnit, mantu reyna, hvárr halann sinn berr brattara þaðan frá. Þórðr svarar, ok kvaðst opt hafa heyrt hót hans digr, ok blotnar hann eigi við. Nú ríðr Barði um aptaninn til Lækjamóts ok þeir bræðr, ok hjala þeir bræðr ok Þórarinn um aptaninn. Nú er at segja frá sýslu Þórðar, hvörsu honum endist; saman ók hann heyinu, en staðit hafði vindr vel; en þá hann kemr heim, býst smalamaðr at reka fè sitt útá Björg, ok ríðr Þórðr hesti þeim, er hann hafði ekit á um daginn, ok finnr hann geldíngaflokk, sem honum hafði verit ávísat, ok fær eigi sókt, fyrr enn at Hópsósi; nú gjörir hann til geldínginn, ok ríðr hann með slátrit, ok nú hefir hann sprengdan hestinn; nú tekr hann annann hest, ok leypir yfir um dalinn sem leið liggr; ekki hyrðir hann hvárt hann ferr á nótt eðr dögum; nú kemr hann árdegis, ok fær yxnit, ok drepr, ok gerir til, ok bindr uppá hestana, ferr síðan leiðar sinnar, ok

[1]) *þannig leiðrètt;* en bettir fleigir, *handritið.*

kemr heim, ok leggr af hestunum, tekr slátr geldíngsins; ok er hann kemr aptr, þá var í brottu limr uxans; þórðr mælti eigi gott. þurfiðr gengr eigi gegn at; á braut kveðst hún tekit hafa, ok bað hann eigi dyrfa sik um at ræða, nema hann vildi hafa högg. Tekr hann annat slátrit, ok ferr til Borgar suðr, sem honum var boðit. Nú tekr Álöf, systir Barða, ok fóstra hennar við slátrinu, sú hèt ok Álöf, hún var vitr kona, ok fóstra Barða, ok þeirra Guðmundarsyna, hún var kölluð kjannavík, ok skilit svå nöfn með þeim. Álöf, fóstra Barða, var vitr mjök, ok kunni margt gerla at sjá, ok þeim velviljuð Guðmundarsunum; hún var forn ok fróð í skapi. Nú er frá því at segja, hvat þeir töluðust við fóstrar, þórarinn ok Barði, áðr hann væri í braut búinn; þeir hjöluðu margt; þat var laugardagsmorgyninn snemma þá skyldi hann fara; ok finna föruneyti sitt, er með honum skyldi fara; ok þá hann er búinn, erú þar leiddir fram hestar tveir hvítir, ok svört eyru á hvårutveggjum, þá hesta åtti þórðr á Breiðavaði, þeir höfðu horfit um sumarit á þíngi. Nú mælti þórarinn: hèr eru hestar þórðar, skaltu fara, ok færa honum þá, ok þiggja engin laun af honum fyrir, ok eigi (er) þèr vant fyri, þvíat ek veld[1], er þeir hurfu, ok hafa í minni varðveizlu verit; en því lèt ek taka hestana, at mèr þótti þetta merkiligra, at spyrja eptir hestum þessum, enn dusilrossum, ok hefi ek opt senda menn suðr til Borgarfjarðar í sumar at spyrja eptir þeim,

[1]) *ágizkað; v. í handritið.*

þótti mèr þát vera merkiligt eyrindi, ok vættir mik, at eigi verði íráðit; ok nú hefik sendan mann at nýju suðr, ok man sá sunnan koma á morgyn, ok segja tíðindi sunnan or hèraðinu. þá var kaupstefna á Hvítárvöllum, ok vâru skip komin af hafi litlu fyrr enn þat var. Nú ríðr Barði þaðan, ok kemr á Bakka, þar sem þórdís bjó, ok stóð þar hestr söðlaðr, ok skjöldr stóð þar hjá; riðu þeir heim mikinn dyn í túnit eptir hörðum velli; þar var úti karlmaðr ok kona, ok þó hún höfuð hans, ok hafði hún eigi þvegit löðr yr höfði honum, ok vâru þau þórdís þar ok Oddr, ok var at van-ljóðum nokkut, er hún þó höfuð hans; þegar hann sá Barða, sprettr hann upp, ok fagnar honum læjandi; Barði tók vel kveðju hans, ok biðr konu lúka verki sínu, ok vaska honum betr; hann lèt svâ gera; nú býst hann, ok ferr með Barða. Nú koma þeir út yfir Blöndu til Breiðavaðs, ok færa þórði hesta sína. þat er at segja, í þann tíma var þorgils Arason riðinn norðr til Eyjafjarðar á þeirri vikunni er umb var liðin, er hann skyldi kvângast á þverá, ok var hans norðan vân á annari viku. þórðr tekr vel við hestum sínum, ok býðr góða hesta gelda at launum; hann kvaðst eigi vilja laun fyri þetta, ok svâ kvað hann þann bjóða, er hafði heimta hestana: skal því vinar, segir hann, í þörf neyta. Ríðr Barði í Lángadal, ok á völluna mjök, svâ á bæ Auðólfs, ok sá þeir at maðr reið yr túninu ofan, ok kenna þar Arngrím förunaut sinn, er vera skyldi, ok ríðr hann nú með þeim. Ríða þeir nú vestr

yfir Blöndu til Eiríks víðsjá, ok koma þar er embætt er fè at morgynmáli, milli miðdegi ok dagmála; hitta smalamann, ok spyrja, hvárt Eiríkr væri heima; en hann sagði, at hann var á hesti í sólar upprás: ok nú vitum vèr eigi hvört hann hefir riðit. Hvört þikki þèr líkligast, hvört hann mani hafa riðit? ok kemr í hug, at hann mani hafa skotizt undan, en vilja eigi fara; en eigi barr svâ raun vitni, at hann hefði undan skotizt. Sá þeir þá tvâ ménn ríða ofan með Húnavatni, þaðan var víðsýnt af bænum, ok kendu, at þat var Eiríkr víðsjá ok þorþjótr gjallandafóstri; þar hittuet þeir við á þá, er Laxá heitir, er fellr yr Svínavatni; fagna hvârir öðrum vel. Ríða nú til þorgils at Meðalheimi; þeir kvödduſt vel, ok ríða leiðar sinnar, ok kvâmu mjök at Gljúfrá. þá mælti Barði, at skyldi ríða til bæjar at Alviðrgnúpi ok hitta Eyjólf Oddsson; maðr ríðr, segir hann, ok eigi seint frá bænum út ok ofan með ánni, vættir mik, segir hann, at þar sè Eyjólfr, get ek hann mani vera við vaðit er vær komum þar, ok ríðum fram; svâ gerðu þeir. Nú sá þeir mann við vaðit, kenna þar Eyjólf, hittast nú, ok kvödduſt vel; fara nú leiðar sinnar, ok kvâmu þar, sem heitir á Askviðsdal; þá riðu í mót honum ok förunautum hans þrír menn í litklæðum, ok hittust þeir brátt, er hvârir riðu mót öðrum, ok vâru þar tveir systursynir Barða í þeirri för, hèt annar Húnn, en annar Lamkárr, ok þá er hinn þriði Vazdælíngr í för með þeim; þeir höfðu kvâmit utan vestr í Víðidal, þar sem heitir á Guðbrands-

stöðum. Nú verðr þar fagnaðafundr með þeim frændum, er Barði hitti systursunu sína; segja hvárir öðrum tíðindi. Barði segir för sína, hvört hann ætlaði; þeir váru * * * vetra gamlir, ok höfðu einn vetr utan verit; þeir váru hinir mestu ágætismenn at vænleika, at abli ok at íþróttum, ok þó væri þeir vel at sèr gervir, þótt þeir væri fulltíðari at aldri. Nú rèðu þeir ráðum sínum, ok kveðst þeim á því hugr, at ráðast í för með þeim, en förunautr þeirra ferr í Víðidal. Barði ríðr nú þartil hann kemr til Lækjamóts, ok segir nú fóstra sínum svá búit. Nú skaltu ríða heim í Ásbjarnarnes, en ek man á morgyn ríða til fundar við þik, ok með mèr þorbergr, sun minn, man ek ríða á leið með yðr. Nú ferr Barði heim ok föruneyti hans, ok er heima nótt þá. Um morgyninn býr Kollgrís þeim dagurð; en þat var siðr, at lagðr var matr á borð fyri menn, en þá váru engir diskar; þat varð til nýnæmis, at hurfu þrjár deildirnar fur þrem mönnum; gekk hann ok sagði Barða til þess. Ber þú fram borð, segir hann, ok ræð eigi um þat fyrir öðrum mönnum. En þuríðr mælti, at þeim bræðrum hennar skyldi eigi deila dagurð, ok kveðst hún deila mundu. Svá gerir hann, at hann hefir borit borð fram fyri menn, ok deilir mat á. þuríðr gengr þá inner, ok leggr sitt stikki fyri hvárn þeirra bræðra, ok var þat þá yxnis bógrinn, ok britjaðr í þrennt. Tekr hann Steingrímr þá til orða, ok mælti: þó er nú britjat stórmannliga, móðir! ok eigi áttu vanda til

at gefa mönnum svâ kappsamliga mat, ok er á þessu mikit vanstilli, ok ertu úvitandi vits. Hún svarar: eigi er þetta furða nein, ok máttu þetta eigi undrast, fyri því at stærra var Hallr, bróðir yðarr, britjaðr, ok heyrða ek yðr eigi þess geta, at þat væri nein furða; hún lætr fylgja slátrinu sinn stein fyrir hvârn þeirra. þeir spurðu, hvat þat skyldi merkja? Hún segir: helzt hafi þêr þat, bræðr! er eigi er vænna enn steina þessa, er þèr hafið eigi þor at hefna Halls bróður yðars, þvílíks manns sem hann var, ok eru þèr orðnir lángt frá yðrum ættmönnum, er mikils eru verðir, ok eigi mundu þeir þvílíka skömm eðr neisu setit hafa, sem þêr hafið þolat um ríð, ok margt ámæli fyrir haft; gekk hún utan ok innan eptir gólfinu eyskrandi, ok kvað vísu:

Bráðt man Barða fría
beiðendr þrimu seiða
ullr mantu ættar-spillir
undlíns taliðr þinnar;
nema lýbrautar látr
láðs valdandi falda
lýðr nema orð sem kvâðum
lauk hýrs boða rauðu.

Nú vinda þeir fram borðum ok öllu því er á var, gánga til hesta sinna, ok búast hvatliga; þat var drottinsdaginn er fimm vikur vâru til vetrar; nú stíga þeir á bak hestum sínum ok ríða á braut yr túni. Nú sjá þeir bræðr þat til þuríðar, móður sinnar, at hún er komin á bak hesti þeim, er þau kölluðu Eykjarð, ok hún hafði heimt húskarl sinn til föruneytis við sik; en svâ

er sagt, hann mani grunnúðigr vera. Nú mælti Barði: þetta horfir til úefnis, er hún er á ferð komin, ok mættum vèr þess vel án vera, ok verðum nú at leita ráðs, ok launa ofanförna hennar. Hann heimtir til sín þá Ólaf ok Dag, heimamenn sína: nú skuluð ið, segir Barði, ríða á móti henni, ok mælið við hana sæmiliga ok fagrt, en gjörið sem ek býð: segið, at þat sè vel, at hún sè kvâmin í för vâra: bindið hann vel, er fylgir henni, húskarlinn, ok styðið hana á baki, ok ríðið svâ, unz þèr kvâmið fram at Saxalæk, hann fellr yr Vestrhópsvatni ok ofan undir Dalsá; skeiðgata liggr at lækinum norðan, ok svâ frá honum, ok þá skuluð ið spretta gjörðunum hennar, skal Dagr þat gera, ok láta sem hann girði hestinn, er þið komið at lækinum, ok reiðið hana af baki, svâ hún falli í lækinn ofan, ok svâ þau bæði, en hafið með hestinn. Nú riðu þeir í mót henni, ok kvöddu hana vel: ok urðu þèr til þess at ríða í mót mèr, en eigi synir mínir, segir hún, ok sæma mik. þeir buðu okkr þetta eyrindi, segja þeir. Hún segir: því em ek í ferð komin, at mik vættir, at síðr mani fyrifarast nokkut stórræði, fyri því at eigi skal skorta til áeggjan, fyri því at þess þarf við. þeir láta þat mjök mani bæta, at hún fari. Ríða nú, þartil (þau) koma fram at Saxalæk; þá mælti Dagr: þessi maðr er manvitull, er þèr fylgir, þuríðr! hann hefir eigi svâ vel girðt hest þinn, at þat mani duga, er þat skömm mikil, at fá slíkt til fylgju við dugandi konur.

Girðtu betr þá hestinn, segir hún, ok fylg mèr síðan. Hann tekr nú ok sprettir gjörðum af hesti kerlíngar, rekr þau bæði af baki í Saxalæk, sem þeim var boðit; þar var þuríði við engu meini hætt, ok grublar hún af lækinum. þeir ríða nú í brott, ok höfðu með sèr hestinn; hún ferr heim of kveldit ok húskarl hennar, ok eigi eyrindi fegin. Barði ríðr nú leiðar sinnar, ok flokkr hans, þartil þeir áttu skamt til Borgar, þá riðu menn móti þeim nokkurir, ok var þar þórarinn, fóstri Barða, ok þorbergr, sun hans. þeir ræðast við þegar, ok takast at orðum, fóstrarnir: þó hefir þú þar sverð mikit, fóstri! um knè þer. Hefir þú eigi sèð mik hafa þetta vâpn fyrr? hygginn ok glöggþekkinn, segir þórarinn, sem er, ok eigi hefik fyrr haft; nú skalu vèr skipta vâpnum, skal ek þat hafa, er þú heldr á, ok svâ gjörðu þeir. þá spurði Barði þórarinn; hann sagði honum með öllum atburðum hve fór með þeim Lýng-Torfa, ok hve hann hafði lokkat hann til at sækja vâpnin: en þorbergr, sun minn, hefir annat vâpnit, ok á þat þorbjörn, en þorgautr á þetta, er þú hefir; þat þókti mèr makligast at vâpn þeirra síðægði ofmetnað þeirra ok dramb, því ræð ek þessi ráð, ok svâ hit sama hefndir þú þeirrar svívirðíngar, er þeir gerðu til yðvarra frænda; nú vilda ek þú værir mèr ráðhollr svâ mikla stund sem vèr leggjum á yðra sæmd. Nú ríða þeir í tún á Borg til Eyjólfs, mágs þeirra bræðra; þar vâru tveir hestar búnir fyri dyrum, er Barði kom í garð, ok vâru á öðrum vistir þeirra bræðra, er ætl-

aðar våru þeim til nestis, ok jarðteiknuðu þat hin nýju slátrin, er Barði lèt þángat færa; þær vistir hafði búit Álöf, systir þeirra, ok Kjannavík [1], fóstra hans. Þá stígr Eyjólfr á bak, ok var albúinn at ríða í tún frá dyrum. Þá kemr út kona, ok kallar á Barða, ok mælti, at hann skyldi aptr ríða þángat til duranna, ok kvaðst eiga við hann mál; þat var Álöf, systir hans; hann bað þá ríða fyrir, en kvaðst eigi mandi dveljast; kemr hann at durunum, spyrr hvat hún vill; hún biðr hann stíga af baki, ok hitta fóstru sína; hann gerir svâ, gengr inn. Kerlíngin s* * * við innari í húsinu, en hún var í rekkju sinni; hverr ferr þar nú? segir hún; hann segir: Barði er þar nú: hvat viltu mèr fóstra? Gakk þú híngat, segir hún, vel ertu kominn nú, sofit hefir ek nú, segir hún, en vakat hefir ek í nótt at búa vistir yðar, ok systir þín; far þú híngat, segir hún; hann gerði svâ sem hún mælti, þvíat hann unni henni mikit; hún tekr til í hvirflinum uppi, ok þreifar um hann öllumegin allt á tær niðr. Barði mælti: hve kynnist þèr til, ok hve ætlar þú vera? Hún svarar: vel þikki mèr, sagði hún, hvergi þikki mèr viðhnýta, þat ek finn á, stórum. Barði var mikill maðr ok sterkr at abli, digr var háls hans, ok spennir hún höndum sínum um háls honum, ok dregr yfir skyrtuna á háls honum steinaskyrvi mikit, er hún tók or serk sèr ok hún átti; hann hafði týgilkníf á hálsinum, lèt hún hann þar vera, ok bað hann vel fara. Hann ríðr braut eptir förunautum sínum; hún kallar eptir hon-

[1]) *má jafnvel lesast:* Kjannavk *í afskriftinni.*

um: lát nú svâ vera svâ búit, sem ek hefi umbúit, ok vættir mik at þá man lýða; nú er hann kemr til liðs síns, þá ríða þeir leiðar sinnar. Þórarinn ferr lángt á leið með þeim, ok hefir umbráð um ferð þeirra; honum þikkir mikit undir, at þeim færist vel: gistíngarstað hefik yðr fengit í Gnúpsdal, er þèr skuluð hafa; Njáll heitir búandi, er þèr skuluð í nátt gista at; svâ er sagt, at hann sè eigi mikill þegn við aðra menn af fèi sínu, þó hefir hann ærit þess, vættir mik at við yðr taki hann at orðsendíngu minni. En nú er sá maðr hèr kominn, er í nótt reið sunnan yr Borgarfirði, er ek senda suðr í þessari viku, at vita tíðindi í hèraði, ok kann mèr sá gerla satt at segja, ok hefir hann sagt, at Hermundr Illhugason man vera í kaupstefnu öndverða þessa viku, ok margir aðrir hèraðsmenn; þat manuð þèr ok spurt hafa, at þeir bræðr, synir Þorgauts, hafa sýslu fyrir höndum í sumar, at slá teig þann, er Gullteigr (heitir); nú líðr fram verkit, svâ lokit man miðvikudag í þessi viku, ok munu þeir heima vera. Spurt hefir ek þat, at þeim er tíðt at ræða Gíslúngum, þegar nokkut hark eðr háreysti verðr, þá mæla þeir: man eigi Barði koma? gjöra at því mikit spott við yðr til svívirðíngar. Nú gerist þat ok hèr, ok þat sagt með miklum sannindum, at þat hafa þeir hèraðsmenn samráðit, ef nokkur tíðindi verða í hèraðinu, þau er af manna völdum eru, þá skulu allir skyldir til eptir þeim at ríða, síðan þeir Snorri goði höfðu sofit skamt frá bygðum eptir víg sín ok stórvirki, ok skal sá út-

lagðr, er eigi verðr til þess búinn, þrem mörkum hverr, er þíngfararkaupi á at gegna frá Hafnarfjöllum ok til Norðrár, sem þeirra þíngmenn eru flestir Síðumanna ok Flókdæla. Nú ríði þèr annann dag viku frá Njáli, ok farið tómliga, ok hafið náttstað á heiðinni; þá fèkk hún þat namn, at hún var Tvídægra kölluð: ok skuluð koma til vígis þess hvârstveggja, er á heiðinni er, þá er farit er suðr, ok sèð hvârt svâ er, sem ek segi yðr. Flói heitir á heiðinni, ok eru þar vatnsföll stór; þat er í norðanverðum flóanum vatn þat, er nes liggr í, ok eigi breiðara at ofanverðu, enn níu menn megu standa jamnfram, ok deilir norðr vatnsföllum til hèraða vârra; þángat vísa ek yðr. Til er enn annat vígi í sunnanverðum flóanum, er ek vilda síðr at èr hefðuð, ef eigi þurfið til at taka; þar gengr enn nes fram í vatn, þar megu standa átján menn jamnframt, ok deilir suðr vatnsföll til hèraða þeirra yr því vatni. En þèr munuð koma suðr þriðjadag þann til selja, er allir menn eru farnir or seljum eptir endilaungum Kjarradal, ok þar eigu allir Síðumenn selfarar, ok hèrtil hafa þeir þar dvalizt. Nú vættir mik, at þar komið þèr um eykð dags; þá skulu ríða tveir menn af liði yðru ofan í hèrað þar, ok eptir fjalli, ok svâ til brúa, ok koma eigi til bygða fyrr enn fyri sunnan ána. Þá skuluð þèr koma á bæ þann, er heitir á Hallvarðsstöðum, ok spyrja bónda tíðinda, ok frètta eptir hestum þeim, er horfit hafa norðan yr sveitum; þið skuluð ok spyrja yr kaupstefnu. Þá munuð ið sjá á Gullteig, er ið farið ofan með

ánni, hvárt þar sèu menn at slætti, sem nú er eptirhermt; þá skuluð ið ríða upp svâ til vaðs, ok láta búanda ykkr til vaðs vísa, ríða svâ til heiðarinnar ok upp á heiðina; þá manuð ið sjá á Gullteig, er ið farið upp með ánni. En miðviku morgyninn skaltu fára ofan á brúna, þar er sèð tíðindi um hèrað, ok skaltu þá skipta liði þínu í þrjá staði; alls eruð ið átján saman; eptir skal vera inn nítjándi, ok gæta hesta yðvarra, ok skal þat vera Kollgrís, ok láta þá vera búna, er ið þurfið til at taka. Sex menn skulu vera á brekkunni uppi, ok man ek ákveðit gera, hverir þar skulu vera, eða hví þanninn er tilskipat; þeir frændr skulu þar vera, þeir þorgils af Meðalheimi[1], ok Arngrímr, ok Eiríkr víðsjá, ok þorljótr gjallandafóstri, ok Eyjúlfr frá Ásmundargnúpi; því skalu þeir þar sitja, at þeir manu þèr vera menn stríðastir ok torsveigastir, er ið komið í hèrað, en yðr hæfir eigi svâ, at eigi hafið èr stilling við. En miðleiðis skulu sitja aðrir sex: bræðrnir þóroddr ok þorgils af þernumýri, bræðrúngar Barða, ok sá maðr inn þriði, er kom í stað Haldors[2]: þeir skulu ok þar vera systursynir þínir: Húnn ok Lambakárr, Eyjúlfr, mágr þinn, hinn sjötti; þeir manu þèr hóti ráðhollari, ok eigi fara með jafnmiklum geisíngum; fyri því skulu þeir þar sitja, at þá sjá þeir mannfarar um hèraðit. En èr sex skuluð ofan fara, þú, ok Steinn[3], bróðir þinn, Steingrímr, Ólafr, ok Dagr, ok þórðr, þeir manu þèr ráð-

---

[1]) *Gefnarodds er vangetið.* [2]) *líkliga Þorbergr Þórarinsson.* [3]) *hans er eigi áðr getið.*

hollastir, ok er þeim þó full-liða, er á teginum eru fyrir, ok skuluð þèr þegar á braut fara, er þèr hafið þeim skaða gert, fyri því at eigi man yðr eptirförin ljúgast; minni man stund á lögð um eptirförina; ef eigi eru sènir meir enn sex menn, ok man eigi þá mjök fjölmennt eptir (sókt), ef svá er meðfarit. Nú skuluð ið undan ríða sem hvatast, þartil er þèr komið til hins nyrðra vígis á heiðinni, fyri því at þá ber norðr alla kviðburði, ok er yðr þat mest fulltíng, ef þat verðr, en þó grunar mik, at eigi komir þú því við fyri þeirra ofstæki, er með þèr eru; en (nú) manum vèr skiljast at sinni, ok finnast heilir. Nú kemr Barði at kveldi til Njáls með flokk sinn, ok stendr Njáll úti, ok býðr þeim gistíng öllum ölværliga; þeir þiggja þat, láta lausa hesta sína, setjast á báða bekki. Njáll er úti um kveldit at búa vistir gesta sinna, ok kona hans, en sveinn þeirra er úngr ok skemtir þeim. Barði spyrr sveininn, ef hann hafi brýni nokkvat. Ek veit, segir hann, harðstein nokkurn, er faðir minn á, ok þori ek eigi at taka. Ek man kaupa at þèr, segir Barði, ok fá þèr til týgilkníf. Já, segir hann sveinninn, * * * hví man ek eigi tilráða; þá leitar hann harðsteinsins, ok finðr, ok selr Barða. Barði tekr við harðsteininum, ok tekr týgilkníf af hálsi, ok þokast þá nokkvat steinaskyrvit, er hún hafði látit á háls honum kerlíngin, ok þess verðr getit síðar. Nú brýna þeir vápn sín, ok þikkist sveinninn vel hafa hnykkt, er þeir hafa þat, sem þeir þyrftu. Nú eru þeir þar um nótt, ok hafa góðan beina. Nú

ríða þeir annann dag viku í góðu veðri, ok fóru eigi hart. Barði spyrr Eirík víðsjá, hvernig hann ætlaði at farast myndi. Hann segir, ok kvað vísu:

Blóðs höfum hlinir of heiði
ræborðs farit norðan
vèr hyggjum nag næra
nítjan saman rítar;
þó getum hins at hríðar
lýntams munni sunnan
ár hyggr skáld til sköru
skæs nokkuru færi.

Nú eru þeir, um nóttina á heiðinni, ok ríða miðvikudag í Kjarradal, ok var þat nær eykð dags. Ok er þeir höfðu átt um stund, þá ríða tveir menn ofan í hèrað, sem til hafði skipat þórarinn, ok hittu enga menn á bæjum, ok fóru fjallveg allt, ok komu til Brúar, ok nú á Hallvarðsstaði, ok sáu tíðindi gerva á Gullteig, ok sá þat, at þar vâru karlar á teiginum, ok slógu allir í skyrtum, ok sýndist, at jamnt myndi eptir dagslátta sem sagt; finna nú búanda, ok hjöluðu við hann, ok spurðu tíðinda; hvârigr kunni þar öðrum tíðindi at segja; spurðu þeir at hestum þeim, er þeir vâru á léit komnir, ok mjök opt höfðu farar verit til gervar; hann kvaðst aldregi vita hvar þeir væru, ok bað þá (eigi) klifa svâ ey ok eyar. þeir spurðu, hvat tíðinda væri í kaupstefnu, eða hve fjölmennt þar væri; hann kveðst úglöggt (vita) hvat þar er tíðt, kveðst ok engu máli þikkja skipta. þeir báðu hann vísa sèr leið upp með ánni til; skiljast þeir; fóru þeir til funðar við förunauta sína, ok segja þeim svâ búit; sofa af nótt þá.

2. Nú er nokkut at segja frá þeim hèraðsmönnum, er hèr koma við þetta mál. Þorbjörn Bjarnason á Veggjum stóð upp snemma, ok biðr húskarl sinn standa upp með sèr; ok skal fara upp til smiðju í dag til Þorgauts, ok skal smíða þar; þat var snemma þegar í sólar upprás; hann kvaddi þeim dagurðar, ok var þat eigi ákveðit hvat fengit var annars, enn húsfreyja setti fyri þá trýgil á borðit. Þorbjörn váttar, at honum sè eigi vel fengit, ok rekr meðal herða henni trýgilinn; hún snýst við, ok verðr há við, ok mælti við hann rapalligt, ok svá hvárt við annat: ok ber þú þat fram, er ekki eru í nema blóð eitt, ok undr er, at þú sèr eigi missmíði á því. Hún svarar honum þá stilliliga: ekki bar ek þat fram fyri þik, er eigi mættir þú vel neyta, ok ætla ek eigi því verr, at þau undr beri fyri þik, at þú sèr bráðt í helju, ok víst man þetta þín furða vera. Hann kvað vísu:

Eigi man sú er egum
auðmær at mik dauðan
fold vill manns í moldu
minn aldr blá falda;
ann en ekki vinna
ellz má brík at slíku
þat er úskapligt eplis
ölselja mèr heljar.

Hún leypr þá á brott, ok tekr osthleif, ok kastar fyrir hann; hún sezt í pallinn öðrumegin ok grætr. Þorbjörn kvað vísu:

Úþakkir kann ekkju
áta mars þótt gráti

fák rennandi farnar
fagrstrykvins mik kykvan;
þvíat amllitar unnu
ofnauð er skal dauðan
hlýra höfgum skúrum
heiðíngja mik leiða.

En svâ bregðr nú kynliga við: undan þikki mèr nú gablhlaðit vera hvârttveggja undan húsinu, ok á sýnist mèr falla straung eptir hèraðinu norðan af heiðinni, en mold ein sýnist mèr, ok svá kennist mèr eigi síðr ostrinn, er ek èt; ok stíga þeir undan borðum, ok gánga til hesta sinna, ok stíga á bak; ríða yr garði. Þá tekr hann til orða Þorbjörn: dreymt hefir mik í nátt, segir hann. Húskarl spyrr: hvat dreymdi þik? segir hann. Þar þóktumst ek vera staddr, er eigi þókti öllum einn veg, ok þóktumst ek hafa þat, er ek hef vanr verit at hafa í hendi mèr, en nú er eigi heima, ok brotnaði í sundr, er ek hjó fram; en ek þóktumst kveða vísur tvær í svefninum, ok man ek þær báðar:

Þat varð mèr hin mæra
minn vanda ek brag randa
hjálmfæris brast hólma
hvítvöndr í tvâ rítur;
Þars á mætu móti
mótrauðs í örn snóta
heimþínga bar hánga
hnitu reyr saman dreyra.

Væri betr ek bæra
benvönd í gný randa

hleypikjöls ok heilan
haus úkosta lausan;
sá er dalrýrar dauða
dýrfitjar skal vitja
herðigaldr ok hèldumst
her úfáum meiri[1].

Nú nam sá vísur báðar, er honum fylgdi, er þeir riðu. Nú svipast hann um þorbjörn; þá segir hann: heima liggja nú smíðarefnin, eða ella hafa niðr fallit, far þû aptr ok leita; finðr þú á leiðinni, þá far þú til smiðju, en ek man ríða fyri; nú ef eigi finðr þú á leiðinni, þá far þú til verks þíns. Nú skiljast þeir; finðr húskarl eigi smíðarefni. þorbjörn ríðr nú til þorgauts, frænda síns, til smiðju, ok hittir hann fur dagmál dags; kveðjast þeir, ok spurðust at tíðindum; hvârugir kunnu öðrum þar til tíðinda segja. Nú er frá því sagt, at þeir synir þorgauts rísa upp allir, ok fara at slá á Gullteig, ok ræddu um þat, at nú myndi vel bíta, ok myndi sleginn verða Gullteigr hinn sama dag; gánga þeir til teigs, ok lögðu af sèr klæði sín ok vâpn; gekk Gísli um teiginn nokkvat, svâ at sá á, er þeir ætluðu at slá, nemr staðar, ok kvað vísu:

Hèr vildu mik höldar
kom fres[2] í stað þessum[2]
fálu fúlra[3] vèla
fjöl ræki[2] manns sækja;
hitt segir ullr at allr
óðgaldrs munit skáldi

[1]) *handritið hefir:* m. [2]) *ógreiniligt í afskriftinni.* [3]) *þannig ágizkað;* fura, *handr.*

hríðar hlakkar glóða
herðendr tveir verða.

Segir draum sinn, at honum þótti sem þeir væri þar staddir á Gullteig, ok kæmi at þeim vargar margir, ok ættust þar við, ok var mikit um: ok ek þóktumst vakna við þat, er ek hljóp heim til bæjarins undan. þeir tóku til verks síns, ok slógu um stund.

3. Nú hefir Barði skipat liði sínu í setu, sem fóstri hans kendi honum, ok áðr er sagt, ok nú segir hann þeim öllum, hver fyriætlan honum er í áhuga; þá undu þeir við hóti betr, ok ætluðu at þá myndi framkoma þat, er fyrr var ætlat, ok lètu sèr líka þessa tilskipan at kalla, ok kváðust þó ætla, at litlar myndu atgerðir verða. þá var skógr mikill í Hvítársíðu, sem var víða á landi, en þeir sátu fyrir ofan skóginn sex saman, ok sáu á tíðindi á Gullteig. Barði var í skóginum, ok snertu eina frá þeim, þar er þeir slógu, ok þeir sex saman; nú þikkist hann eigi víst vita, hvert kona er hinn þriði maðrinn, er hvítt er til höfuðsins, eða man þar vera Gísli; gánga nú ofan undan skóginum hverr eptir öðrum, ok þótti þeim svá fyrst þorgautssunum, sem einn maðr gengi þar, ok tekr hann til orða, hann þormóðr, er síðst sló á teiginum: menn fara þarna, kvað hann. Mèr sýnist, segir Gísli, at einn maðr gángi; en þeir gengu hardt ok runnu; eigi er þat, kvað Ketill brúsi, menn eru þar ok eigi allfáir, ok námu staðar nokkvat ok sáu. Ketill mælti: man eigi Barði þar vera, ok eigi er honum úglíkt, ok kann ek eigi mann at kenna, ef

eigi er hann, ok svâ var hann búinn í sumar á þíngi. Þeir bræðr sá á, Ketill ok Þormóðr, en Gísli sló, ok tók til orða: svâ látið þèr, sem Barði mani koma undan hvârri hríslu í allt sumar, ok hefir hann enn eigi komit. Þeir Barði höfðu skipat til mönnum áðr: tveir skyldu annast einhvârn þeirra; þeir Barði ok Steinn skyldi annast Ketil brúsa, hann var ramr at afli; þeir Dagr ok Ólafr skyldu gánga mót Gísla; þeir Steingrímr ok Þórðr skyldu gánga mót Þormóði; nú snúa þeir at þeim. Nú mælti Ketill: eigi man viðljúgast, at hann Barði er kominn, ok vildi þrífa til vâpna sinna, ok enginn þeirra fèkk náð sínum vâpnum. Nú er þeir sjá hvar komit er, þá vilja þeir laupa heim til túngarðsins Ketill ok Gísli, ok Barði eptir, ok þrír hans förunautar, en Þormóðr snýr niðr til árinnar, ok þeir eptir honum Þórðr ok Steingrímr, ok elta hann á ána, ok grýta hann frá landi; hann kemst yfir ána, ok er hann vel færri. Nú koma þeir heim at garðinum bræðr, verðr Ketill fljótari, ok stiklar yfir inn. Ok þá er Gísli leypr á garðinn, þá fellr torfa yr garðinum, ok skriðnar hann; þá kemr at Barði, hann varð þeirra skjótastr, ok höggr til hans með sverðinu Þorgauts-naut, ok höggr mjök svâ af andlitit; nú þegar snýr hann mót förunautum sínum, ok segir þeim, at âverki hafi orðit nokkur; þeir kváðu lítit tilráð orðit myndu ok úsnöfrmannligt; hann lèt þá svâ búit myndi verða at vera: ok skulum nú aptr hverfa; hann verðr at ráða, ok er þat þó mjök í móti vilja þeirra. Ketill

kippir honum Gísla inn af garðinum, ok kastar honum á bak sèr; ekki sjá þeir at honum yrði mikill þúngi at honum; hann leypr heim til bæjarins. þeir þorgautr våru í smiðju ok þorbjörn, ok bíðr, ef húskarl hans kæmi með smíðarefni; hann mælti: þorgautr! þó er hark mikit, er eigi Barði kominn? Ketill kom inn í smiðjuna í því bili, ok segir: þat fann Gísli, son þinn, at hann er kominn; kastaði honum dauðum fyri fætr honum. Barði snýr nú móti förunautum sínum, ok kveðst þat ætla, at kominn myndi maðr fyri mann; þeir kváðu þá eigi jamnmenni vera, ok kváðu lítit atgert, þó einn maðr væri drepinn, ok fara svå lángt til. Nú er þeir hittust allir förunautar, mæltu þeir, er efri våru í setunni, at víst eigi hefðu þeir farit, ef svå skyldi á braut leysast, at eigi skyldi meiri hefnd eptir þvílíka harma, sem þeim hefði ger verit; kvoðu eigi þá jamumenni Gísla ok Hall, ok lögðu nú ámæli til við Barða, kvoðust ætla, ef þeir yrði viðstaddir, at meira mandi atgert; fara nú til hesta sinna, ok kvoðust vilja hafa dagurð. Barði bað eigi hirða um dagurð nú; þeir kváðust eigi vilja fasta: ok kunnum vèr eigi ætla hve þèr (myndi) innan undan, ef þú hefðir nokkut þat atgert, er frami væri at. Barði kvaðst eigi hirða, hvat þeir ræddu. Nú matast þeir. Nú talast þeir við heima þorgautr ok þorbjörn ok Ketill; ræðir þorgautr, at mikit er aforðit: ok mèr er nærri höggvit, en þó sýnist mèr, sem eigi mani minna viðhlýta, ok vil ek at hvårgi sè eptir riðit; þeir segja báðir, at þat skuli aldrei verða. þær

heyrðu konur hvat var, ok sendi Ketill þær útá Fróðastaði ok Síðumúla at segja tíðindin, ok þá mætti hverr öðrum segja þaðan frá, svâ at orð kæmist í Norðrárdal, at eptir þeim sè riðit, er verk á hafa unnit, ok fyrri sik svâ sektum ok fjárlátum. þeir fára, ok taka hesta sína, ok ríða til Háfafells til Árna þorgautssonar; hann átti þar mágum at fagna, var þar kominn þórarinn þverhlíðíngr, faðir Ástríðar, konu hans; þaðan riðu þeir fimm saman. þat er nú at segja frá þormóði, at hann ferr upp fyri sunnan ána, þartil hann kemr í Ás, þá var þar fábyggt fyri sunnan ána, þá var mannfátt heima, ok vâru menn farnir á völlu, en húskarlar á verki. Eyðr sat at tabli ok synir hans tveir, annar hèt Illugi, en annar Eysteinn. þormóðr segir þau tíðindi, er orðin vâru. þá var brú á ánni upp hjá Bjarnafossi, ok lengi síðan. Eyðr fýsti eigi ferarinnar, en synir hans grípa til vâpna sinna, ok ferðast; fara þeir bræðr til þorgils á Höggvandastöðum; þá var ok heim kominn Eyjólfr, sun hans, hafði þá ok út komit um sumarit. þormóðr ferr upp á Hallkelsstaði, kemr þar, ok segir tíðindin; Tindr var heima einn karla, en komnir menn til smiðju. Sú kona bjó þar it næsta, er þorfinna hèt, hún var kölluð skáldkona, hún bjó á þorvarðsstöðum; hún átti sun, er Eyjúlfr hèt, ok bróður, er hèt Tanni, er kallaðr var hinn handrammi, ok eigi var hann sem menskir menn at abli, ok svâ hvâritveggi þeirra, ok vâru fullhugar at áræði; þeir vâru komnir til smiðju til

Tinds; en nú var eigi komit á Gilsbakka, at Hermundr var til skips riðinn ok húskarlar hans; þeir Tindr verða fjórir saman, þormóðr hinn fimmti, en þat var síð dags. Synir Eyðs koma til þorgils höggvanda; þeir bregða við skjótt, ok fara þaðan sex saman; þar var Eyjólfr, sonr hans, í för ok fjórir menn aðrir. Nú er frá því at segja, hvat þeir Barði sjá tíðinda, ok sjá þeir flokk eigi miðjúngi minna, er þeir höfðu; hann ríðr fyrstr þeirra, ok nokkurn harðast, svâ at hlíð var á millum þeirra, en þeir riðu heldr tómliga eptir, ok kváðu hann furðu hræddan vera. Nú sjá þeir mannaför eptir sèr, ok sjá flokk eigi miklúngi minna, enn þeir höfðu sjálfir, ok glöddust þeir förunautar Barða, at nú myndi verða nokkut söguligt um ferðina. þá mælti Barði: förum undan enn of ríð, ok er eigi minni vân þeir kostgæfi eptirförina. þá kvað Eiríkr víðsjá vísu:

Flykkjast frægir rekkar
fúss er hverr til snerru
þjóð tekr harðt á heiði
herkunn dragast sunnan;
fara biðr hvârgi herja
harðráð fyri Barði
geira hreggs frá glyggvi
gunnórúnga sunnan.

Eigi segir þû þat satt, segir Barði, þat mæli ek, at hverr fari sem má, þartil vèr komum til vígis þess, er fóstri minn mælti at vèr skyldum neyta í neyrðra flóanum, en því gat Barði eigi á leið komit, ok kvoðust þeir þá fulleltir, er þeir

komu til syðra vígis í flóanum; sèr hann nú, at svâ man verða at vera, ok snèri nú í mót þeim, kvaðst hann eigi mundu svâ miklu fúsari undan at ríða, heldr enn þeir: ok skulu þeir þess samkvæðis gjalda, þó má nú eigi letja yðr, at eigi skulum vèr fyrr ríða í kveld, enn yðr þikkir mál, ok èr skuluð þat mæla fyrr enn ek, at bíða, eðr hvârugir ella. Nú þikkir þeim allvænt um. Ross sín lètu þeir fram í nesit frá sèr, settu þeir þar til Kollgrís at gæta, hann var eigi styrjaldarmaðr, ok af æsku skeiði. þá kvað Eiríkr vísu:

Fast höldum vèr foldu
fram þoki hverr at snerru
látum randaval reyndan
ríðendr í ben sníðja;
skal ek þóat sagt sè sunnan
sverðèl taki at herða
rjóðum harðt á heiði
hjálmríð yr stað bíða.

Á þeim degi var farit eptir Hermundi á vöku, ok var hann heim á för, ok hittu sendimenn hann á leið upp frá þíngnesi; hann lèt ok fara leið allan farángr sinn, ok biðr hvern mann til farar með sèr, er komast mætti, ok biðr sèr liðs, ok ríðr eptir þeim. Nú hittast sunnanmennirnir ok Barði, stíga þeir af hestum sínum. Hafa þeir Barði fylkt liði sínu um þvert nesit: gángi nú enginn fram yr þessum sporum, segir Barði, þvíat mik grunar, at fleiri manna man vòn. þat stóðst á, nesit þvert ok fylkíng þeirra átján

manna, ok var einumegin at þeim gengit: ok er meiri (vân) at ið fáið at reyna vâpn, segir Barði, ok væri betra at hafa hit nyrðra vígit, ok eigi myndu þat til ámælis lagt, þótt svâ gerðum vèr, en betra til eptirmáls, ok skulum vèr ótta hèr við gjalda. Þeir stóðu með brugðnum vâpnum; á aðra hönd Barða stóð Þorbergr, ok á aðra hlið Gefnar-Oddr, þá bræðr Barða tveir. Nú ráða þeir eigi svâ skjótt á þá, þeir sunnanmenn, sem þeir hugðu, ok meira lið var fyrir enn þeir vættu; þar var höfðíngi Þorgautr ok Þorbjörn ok Ketill. Þá mælti Þorgautr: ráðligra er at bíða meira liðs, hafa þeir haft ráð mikit, er þeir koma fáir í hèrað. Nú gánga þeir eigi at; ok er sá norðanmenn, þá ætla þeir sitt ráð; mælir Þorbergr: hvârt er Brúsi í liðinu? Hann segir, at hann var þar. Hvârt kennir þú sverð þetta, er ek held á? Hann kvaðst eigi vita þess vânir, eða hvârr ertu? Ek heiti Þorbergr, en sverð þetta seldi mèr Lýngtorfi, frændi þinn, ok hèr af skaltu margt högg þola í dag, at því er ek vilda; eða hví sækið þèr nú eigi at, en hafið þrásamliga eptirsókt í dag, at því er mèr sýnist, riðit ok runnit? Hann segir, vera kann, at þar sè vâpn, er ek á, en áðr vèr skiljumst í dag mántu lítt oss frýja þurfa. Þá mælti Þorbergr: ef þú ert drengr fullr, hvat skaltu þá bíða meira ofreblis? Þá tekr Barði til orða: hvat er tíðinda at segja yr hèraði? Þau tíðindi, er þèr mán góð þikkja, víg Gísla, bróður míns. Hann svarar: eigi löstum vèr þat, ok eigi þóktumst vèr allgrunsamliga unnit hafa; eða hvessu er, þikkist þú, Ketill!

eða ið feðgar engis eiga hefna oss? mik minnir, at þat var fyri skömmu, er þú komt heim, Ketill! berandi hendi feðr þínum með bak byrði; nú ef þú mant eigi, þá man hèr vera þetta sama sverð, er enn er eigi þornaðr heilinn á, ok skekr at honum sverðit: þikkist þú engis eiga hefna oss? ok sè hèrna, at eigi er heilinn þornaðr á, ok skekr þá enn at honum sverðit. þetta fá þeir eigi staðizt, ok laupa at þeim, þorbjörn leypr at Barða ok höggr á hálsinn, ok brast við furðu hátt, ok kom á stein þann í sörvinu, er þokast hafði, þá er hann tók knífinn ok gaf syni Njáls, ok steinninn brast í sundr, ok dreyrði tveim megin bandsins. þá mælti þorbjörn: tröll! er þik bíta eigi járn; nú listir þeim saman eptir höggit þetta hit mikla, stýrir hann þegar í móti þóroddi, ok eigast þeir við vâpnaskipti. Ketill gengr í mót honum (Barða), þorgautr ok þorbergr; þar skorti eigi högg stór ok áeggjan. Nú er fyrst at segja viðskipti þeirra Barða ok Ketils: Ketill var manna sterkastr ok ofrhugi; kemr þar at, at Barði slæmir á síðu honum, ok fellr Ketill, ok hleypr nú at þorgauti, ok veitir honum banasár, ok hnigu þeir báðir fyri því vâpni, er þeir áttu sjálfir. Nú er at segja frá þorbirni ok þóroddi: þeir gángast at í öðrum stað, ok skortir þar eigi stór högg; ok eitt högg höggr þóroddr til þorbjarnar, ok af fótinn í ristarliðnum, ok eigi berst hann at síðr, ok leggr fram sverðinu í kvið þóroddi, ok fellr hann, ok liggja úti iðrin. þorbergr sèr nú frændr sína, ok hirðir eigi um líf

með örkumzlum þessum. Nú snúa þeir fram synir Guðbrands í móti Þorbirni; hann mælti: leitið ykkr annarstaðar færis, ekki hefði þat úngmennis verit fnrrmeir at keppast við oss; leypr hann síðan at Barða, ok berst við hann. Þá mælti Barði: þú þikkir mèr tröll, er þú berst svá, at af þèr er fótrinn. Nei, segir Þorbjörn, eigi er þat tröllskapr, at maðr þoli vel sár, ok sè eigi svá blautr, at eigi verìst hann, meðan hann má, ok virða þat til drengskapar, en trylla menn eigi, alls þú ert góðr drengr kallaðr, ok þat skuluð þèr eiga at segja, at ek nenti at vísu at neyta vápna, áðr enn ek hníg í gras; þar fèll hann fyri Barða, ok fèkk gott orð. Nú skortir eigi sókn, ok sezt þó með því, at sunnanmenn taka undan. Ok þat er sagt, at Þorljótr hèt maðr, kappi mikill, hann átti heima á Veggjum, sumir segja hann frá Sleggjulæk; hann barðist við Eirík víðsjá, ok áðr þeir berðust, kvað Eiríkr vísu:

Hleðið höfum rjóðr af reiði
randir þuðra branda
berum eigi vægð at vígi
Vegg-bergr saman leggja;
mjök hef ek heyrt, af hjarta
hug þínum viðbrugðit
nú skalum foldar fjötra
fýrr leynir þat reyna.

Þeir eigust við lengi, at varliga sè hraustari menn, hvárrtveggju manna mestr ok sterkastr, vápnfærir vel ok ofrhugar. Nú höggr Eiríkr til Þorljóts með sverði, ok brast í sundr sverðit,

hann þrífr blóðrefilinn, ok höggr til hans, ok veitir honum mikit sár, ok hann fellr. Nú er á hvíld nokkur; ok nú er sèn reið manna sex, þar var þorgils höggvandi ok Eyjólfr, sun hans, ok synir Eyðs; sjá nú vanrètti sinna manna, ok mjök hefir ávegizt þeirra lut, ok una nú illa við. Synir Guðbrands verða varir við, at Eyjólfr er þar, biðja Barða at veita sèr, at þeir nái lífi hans ok hefna sín; en þat hafði verit, er þeir vâru austr, at hann hafði rundit þeim yr loptriði nokkuru ok í sorpit ofan, höfðu þeir farit neysuliga, ok hafa því gert ferðina at upphafi með honum, ef þeir næði honum. Nú segir Barði: ið eru vaskir menn ok mikils virðir, ok mikit tjón ef ið látist; nú skalum vèr enn við leita, at yðarr vili framgángi, en biðja vil ek, at ið gángið ekki yr fylkíngu; þeir fá eigi stillt sik, ok laupa á mót honum á braut, ok berjast. Eyjólfr var hinn mesti sundrgerðamaðr, sem faðir hans, fullgerr at abli, reynt sik mjök í framgaungu, ok er atgángr þeirra harðr, ok lýkst með því, at hvârutveggi eru svâ þráir ok kappssamir, ok miklir fyri sèr, at þeir liggja allir dauðir at skilnaði. Synir Eyðs berjast ok fast, ok gánga fast fram, ok berjast karlmannliga, Steinn ok Steingrímr þar á móti; ok nú berjast þeir allir, ok gjöra mikit af sèr, ok þar falla þeir synir Eyðs, ok var Barði nærstaddr, er þeir lètu líf sitt. þorgils höggvandi hlífist eigi við, þikkir svâ mikill skaði gerr í dauða sonar síns; hann var mestr fyri sèr af sunnanmönnum, ok betr vâpnfærr enn aðrir menn; hann höggr á tvær hendr, ok

þikkir eigi betra líf enn hel. þeir eru mest til þess nefndir, at framast hafi verit, þorgils ok Eiríkr ok þóroddr. þorgils hlífir sèr eigi, ok eigi var sá maðr í því hèraði, öllum þótti meira brautargengi at enn honum; þorgils ræðst honum í móti, bróðir þórodds, ok eigast við lengi, ok eigi skortir harðfengi hvârutveggja; ok eitt högg höggr þorgils til hans or brúnum ofan nefit, ok mælti: nú fèkk þú gott mark, ok þèr hæfiligt, slíkt skyldu þeir fleiri hafa. þá mælti þorgils: eigi er markit gott, en meiri vân at ek þori at bera hreystiliga, ok lítt þurfi þèr enn at hælast, ok höggr til hans svâ hann fellr, ok er vígr. Nú verðr hvíld nokkur á bardaganum, ok binda menn sár sín. Nú er sèn reið manna fjögra, þar var Tindr ok Tanni, Eyjólfr ok þormóðr; ok er þeir kvâmu at, eggja þeir mjök, vâru sjálfir miklir ofrkappsmenn. Tekst bardagi hit þriðja sinn. Tanni ræðst mót Barða, tekst þar víg afburða frækniligt. Tanni höggr til Barða, er enn sem fyrr, at hann er torsóktr, ok lýkr með því þeirra máli, at Tanni fellr fyri Barða. Eyjólfr gengr móti Oddi, ok berjast þeir, ok er þar hvârutveggi hinn bezti drengr; ok nú höggr Eyjólfr til Odds, ok kemr í kinnina ok í hvâptinn, ok verðr þat mikit sár; þá mælti Eyjólfr: vera kann at ekkjunni þikki-versna at kyssa þik. Hann segir: lengi hefir eigi gott verit, en þó man mikit hafa umspilzt, ok þó kann vera þú segir eigi þetta þinni vinkonu, ok höggr til hans svâ, at hann fèkk mikit sár; var hèr sem fyrr, at Barði var nærstaddr, ok veitir honum skaða.

þormóðr þorgautsson var hraustr maðr, ok gekk vel fram; Eyjólfr frá Borg ræðst honum í móti, ok verðr mjök sárr; ok þótt þessir sèu mest nefndir af Norðlendíngum, þá gengu allir vel ok hraustliga fram, fyri því at þeir höfðu einvala lið; ok er þessir vâru fallnir, þá lètti bardaganum. Nú mælti þorbergr, at þeir skyldu undan leita, ok vâru átta sunnan fallnir, en þrír norðan. Nú spyrr Barði þórodd, ef hann myndi fara mega; hann lætr eigi þess vân, ok biðr þá undan ríða; Barði sè í sárit. Nú sjá þeir liðit, sem sunnan ferr, sem í skóg sæi; spyrr Barði, ef þeir vili bíða; þeir kváðust ríða vilja, ok svâ gera þeir, ríða nú sextán saman, flestir sárir. Nú er at segja frá Illuga: hann kemr á vetfánginn, ok sèr þat ný tíðinði, ok þó mikil; þar lá Tindr; ok er Illugi spurði, hve margir þeir myndu hafa verit, (kvað hann):

Hátt hefir ask við àska
átján lagar mána
veðstafir lágu
laið hýrs níu dauða,
slíks bíðum vèr síðan
sverðs nema hefndir verði.

Eyðs eru ævi meiða
allbert í hýr fallnir
ok í gný geira
Guðbrands synir handan,
trautt líðr minni ið mesta
móðs aldregi bætr.

* * *[1] segir hann, hvat viltu leggja til í slátrin

[1]) hèr vantaði 2 blöð í sögubrotið.

við oss, ef vèr ökum nokkut í för? þorbjörn mælti: ekki man ek tilleggja, því at ek er enkis um skyldr. Nú áttu menn luti við Björn, ok fèkst eigi gott af honum. Barði mælti: hvârigr man þá vald hafa, ok manu þeir gjalda, er áfallit er, en þann lut skal gjöra, er þèr er úvirðiligastr. Nefnir Barði sèr vâtta, ok segir skilit við Guðrúnu, dóttur hans, ok finnr þat til: at þú ert miklu meiri níðíngr, enn dugandi manni sómi at eiga þik at mági, mundu hvârki ná af mèr mund nè heimanfylgju. Nú heyra þeir gný mikinn, at menn ríða margir til árinnar, var þar kominn þorgils Arason norðan of land frá brúðlaupi sínu, ok Snorri goði með honum, ok riðu saman áttatígi manna. þá mælti Barði: tökum ofan búnað vârn, ok ríðum í flokkinn, ok aldrei nema einn í senn, ok manu þeir ekki íráða, er myrkt er. Ríðr Barði at Snorra goða, ok hjalar við hann á vaðinu, ok segir honum tíðindin. Nú ríða þeir af vaðinu; þá mælti Snorri: hèr viljum vèr æyja ok eiga dvöl, ok hjalast við, áðr vèr skipum oss á gistíng. Bræðr Barða ríða hjá flokkinum, ok ráða menn eigi í þat. þorgils ætlar of kveldit á Breiðabólstað. Nú er þar niðrsezt; þá mælti Snorri: þat er mèr sagt, þorgils! segir hann, at enginn maðr mæli jamnvel fyri griðum sem þú, ok önnur lögskil. Lítill umba * * * ir, segir þorgils. Nei, segir Snorri, mikit man tilhaft, er einn maðr, er nemndr. þorgils segir: eigi svâ * * * fyri h * * * ek mæli betr fyri griðum enn aðrir menn, ok má þó lögfullt vera. þat vil ek, segir Snorri, at þú látir mik heyra.

Hann svarar: hver er þess þörf? eru hèr nokkurir missáttir? Hann kvaðst aldrei þat vita: en aldrei er því misráðit, ok ger sem ek vil, ok skorar fast á. Þorgils segir, at svâ skal vera; hann tók þá til máls: þat er upphaf griðamála vârra, at guð sè við oss alla sáttr, vèr skulum ok allir vera menn sáttir vâr í millum, ok s* * * verrir at öldri ok at áti, ok at þíngi ok þjóðstefnu, at kirknasókn ok at konúngshúsi, ok hvervetna þar, er manna fundir verða, þá ok þelum* * * svâ sáttir, sem aldri hafi fjandskapr vâr í millum verit; vèr skulum deila kyn ok kitst* * *kkar, alla luti vâr í milli, sem frændr ok eigi fjandr; ef sakar gerast hèðan af á milli vâr, þær skal fè bæta mega, beiu rjóða; en sá vorr, er gengr á gervar sættir, eða vegr á veittar trygðír, þá skal hann svâ víða vargr rækr ok rekinn, sem menn víðast varga reka, kristnir menn kirkjur sækja, heiðnir menn hof blóta, eldar uppbrenna, jörð grær, mögr móður kallar, skip skríðr, skildir blika, sól skin, snæ leggr, Finnr skríðr á skíðum, fùra vex, valr flýgr vorlángan dag, standi hânum beinn byrr undir báða vængi, viðr vex, veitir vatni til sjáfar, karlar korni sá; hann skal fyrrast kirkjur ok kristna menn, guðs hús, ok gyma heim hvern, nema helvíti; tekr hvârr vâr trygðir við annann fyri sik ok sinn erfíngja, alinn ok úborinn, getinn ok úgetinn, nefndan ok únefndan, en hverr veitir í mót trygðir ok ævintrygðir, metrtrygðir ok megintrygðir, þær er æ skulu haldast, meðan moldir ok menn lifa; nú erumk vèr sáttir ok sammála hvar sem vèr

finnumst á landi eða legi, skipi eða skíði, í hafi eða hestbaki, árar at miðli eða össkotu, þóftu ok þilju, ef þörf gjörast, jamnsáttir sem sunr við föður, eða faðir við sun í samförum öllum; hafum nú lófatak at trygðamálum, ok höldum vel trygðir, at vilja Krists ok vitni allra manna, þeirra er nú heyrðu trygðamál vâr; hafi sá guðs hylli, er heldr trygðir, en sá gremì guðs, er rífr rèttar trygðir, en hylli sá er heldr; höfum heilir sezt, en guð sè við alla sáttr. Ok er þorgils hafði lokit at mæla fyri griðum, þá mælti Snorri: haf þökk, vinr! stórvel er mælt, ok er þat sýnt, sá er á bak gengr, er griðníðíngr at vísu, ok sè hann viðstaddr. Nú segir Snorri tíðindin sem orðin vâru, ok þat, at þeir Barði vâru þar komnir í flokk þeirra þorgils. þar vâru margir vinir sunnanmanna ok náfrændr. þorgils hafði ok fyrr átt Grímu Hallkelsdóttur, systur Illuga ens svarta. þá mælti þorgils: vel hefðum vèr mátt missa þín, Snorri! nú at sinni. Hann svarar: eigi er þat, góðr vinr! ærin eru nú orðin vandræði með mönnum, þótt hèr nemi staðar. þorgils vill nú eigi gánga á grið þessi, er hann hefir sjálfr fyrimælt, ok skiljast menn nú. Ríðr Snorri með tuttugu menn, ok Barði með honum, ok hans menn, til Lækjamóts, ok tekr þórarinn vel við þeim, ok eru nú kátir, ok ráða ráðum sínum at ***[1] þjóstum laust ek þik, þvíat mèr þókti eigi annat at þèr geranda.

---

[1]) *hèr vantar eitt blað, sem skorið var útúr skinnbókinni, en hún byrjar aptur þannig.*

4. þá stendr upp einn gamall maðr, ok var þar Eyðr Skeggjasun, ok mælti: ok kunnum vèr mikla úþökk, at menn skattyrðast hèr, hvârt er þat gera vârir menn eðr aðrir, til engis kemr þat góðs, en opt gerist íllt af því; skyldu menn þat mæla hèr, at sátt á væri; ætlum vèr, at eigi mani aðrir eiga meir eptir sínum lut at sjá enn vær, eðr öðrum mani stórugi meira harma leitat, enn mèr; sýnist oss þó þat ráð, at sættast manum vær, því eigi vorkynna öðrum, þóat hèr skattyrðast, er þat ok vænast til, at illa gefist sem fyrr, at velja mönnum neyslig orð; hann fèkk góðan róm at sínu máli. Er nú leitat hvârir vænstir sè um sættir at leita. Snorri er tilnemndr, at mest leitaði um sættir, hann var þá mjök hníginn (at aldri); þorgils var annar, vinr Snorra, þeir áttu systr tvær, ok ræddu svâ hvâritveggju, at slegit mandi í gjörð ok í mannjöfnuð, en menn höfðu þó sárt haldit frændum sínum. Kunnum vær nú ekki annat at segja, enn til mannjafnaðar vâru lagðir menn, er fallnir vâru, ok var Snorri tekinn til gjörðar af hendi Barða, ok Guðmundr Eyjúlfssun, þorgils Arasun ok Illugi af hendi sunnanmanna; ræddu nú sín á milli hvat vænligast væri til sátta. Nú sýndist þat, at menn skal leggja til mannjafnaðar, syni Eyðs ok syni Guðbrands, en þóroddr Hermundarsun ok þorbjörn, þeir vâru jamnir. Borgfirðíngum þókti frekliga horfa við Hall Guðmundarsun, ok hurfu frá, ok rufu sættir, en þeir vissu áhuga Barða. En frá málalokum er þat at segja, at synir þorgauts, Ketill ok Gísli, vâru jafnir við Hall Guðmundar-

sun. Alls fórust níu menn sunnan; þá eru fjórir norðan við fimm Gíslúnga; þá våru fjórir úbættir sunnanmanna: þorgils ok Eyjúlfr, sun hans, Tanni inn handrammi ok Eyjúlfr, systursun hans. En Barði sagði, at hann var enginn auðmaðr nè þeir frændr þeirra: ok eigi munum vèr biðja oss fjár til bóta. Snorri svarar: eigi man hèr þó hvârki koma fè, nè mannsektir. Barði svarar, at hann vill eigi því neita, at menn færi utan, ok ættu þó útkvæmt, ok færi því fleiri: ok er sá einn, at eigi er færr, ok skal fè fyrir hann gjalda, en þó kann vera, at þeir þikkist saknæmt við hann eiga: Gríss, fèlagi vârr, man eigi sakbitinn. Hesthöfði, er býr þar, er nú heitir at Stað í Skagafirði, hann er frændi hans, hann tók með honum; þat komst á leið, at sættir verða at því, ok kom þat helzt saman með þeim, at þeir færi utan, ok þikkir þat helzt nokkura nafnbót vera, alls Barði var eigi bítr á fèbætr; væntu þeir, at sjatna mundi heldr úfriðrinn, ok þókti sèr þat eigi minni sæmd, at þeir væru utan, ok þókti vitrum mönnum þat líkligast, at sjatna myndi þeirra ofsi, svâ mikill sem var, at sè eigi fyrst samlendir. Fjórtán menn skyldu utan fara, þeir sem verit höfðu at Heiðarvígum, ok vera utan þrjá vetr, ok eiga útkvæmt hit þriðja sumar, en ekki skyldi fè til farníngar þeim, ok var sæzt á málit fyri dóma; ok sú var virðíng á, at Barði þókti haldit hafa fullan lut, ok þeir, er honum veittu í svâ úvænt efni, sem komit var um hríð.

5. Nú sendir Barði menn heim í hèrað; þeir höfðu selt land sitt af hendi ok bú, ef þess-

ar yrði málalyktir, er eigi var áðr ráðit þat. Sá maðr hèt þóroddr ok kallaðr kergarðr, ekki vinsæll, hann skyldi hafa 3; hann var frændi þeirra Guðmundarsuna, auðigr at fè; var nú ráðit at kalla kaup þeirra. Nú kemr skip af hafi í Blöndós, er átti Haldórr, fóstbróðir Barða. Nú koma menn heim af þíngi. Ok er Haldórr spyrr, at Barði skal utan fara, lætr hann bera farminn af skipinu, ok flyzt uppí hópit fyrir hús Barða, verðr þar fagnafundr. Frændi! segir Haldórr, þú hefir vel í höndum við mik haft, veitt mèr opt mikit, stiggst eigi við, at ek fór eigi; nú heiti ek þèr nokkuru tillagi, skaltu nú þat heyra: skip þetta vil ek gefa þèr með rá ok reiða. Barði þakkar honum, þikkir hann stórmannliga gjört hafa; býr hann nú skip þetta, ok er með honum hálfr þriði tugr manna, verða heldr síðbúnir, láta í haf, ok eru níu daga úti; verðr á þá leið, at hann brýtr skipit við Siglunes norðr, ok týna þeir miklu [1], (en) menn haldast. Guðmundr gamli var þá riðinn útá Gálmarströnd, ok spyrr tíðinda, ok hvatar heim; ok um kveldit mælti Eyjúlfr, sun hans: vera má, at Barði sè fyrir handan, er hèðan of sèr, sögðu margir þat væri eigi úglíkligt. Hvârsu myndir þú hátta, segir hann Eyjúlfr, ef hann væri aptrreka orðinn? Hann svarar: hvat sýnist þèr ráð? Hann mælti: bjóða þeim öllum heim til vistar, þat væri þirmisligt. Guðmundr svarar: mikit er þèr í hug, ok eigi veit ek þat sè úráðligt. Hann svarar Eyjúlfr: mæl manna heilastr! ek kann segja þèr,

[1]) *heldur enn:* mjölu.

at þeir Barði eru aptrreka orðnir, ok brotit (skipit) í spán við Siglunes, en týnt mestum luta fjárins; man þèr at þessu verða virðíng, ok tekr fyri munn honum. Guðmundi þikkir eigi enn betr, ok lætr hann ráða.

6. Eyjúlfr gerir ferð sína, ok hefir hálfan þriðja tug hesta í mót þeim, ok hittir þá á Ströndum. Eyjúlfr kveðr þá vel, ok biðr þá fara heim með sèr, at ráði föður síns; þeir gera svâ, skipa þar á annann bekk um vetrinn, ok er Guðmundr reifr við þá, ok veitir þeim stórmannliga. þetta spyrst víða. Einarr Járnskeggjasun býðr þeim þar ok opt at vera með sèr, ok nú eru þeir kátir. Er nú til þess at taka, er þórarinn rèð, at þeir vâru með Barða er (vâru) mikils verðir, ok mikils áttu kosti; láta nú gera eptir fèi sínu vestr, ok ætla enn utan um sumarit. þat var um vetrinn, at maðr spurði Eirík skáld af atburðum, ok hversu mikit mannfall yrði. Hann kvað vísu:

Lágu liðar frægir
lögðis skeiðs á heiði
lind sprakir um randa
rauð ellifu dauða;
hitt varð áðr enn auðar
ógnar gims í rimmu
jókum sókn við sæki
sár þíslar fèkk Gísli.

Enn verðr þess dæmi, at nú var spurt, hve margir fallnir vâru af hverum. Hann kvað vísu:

þrír hafa alls af oru
ítrstalls liði fallit

vær ruðum sverði sárum
sigrborðs viðr norðan;
en fyr þollar fèllu
Fjölnis seiðs á heiði
gjörðist grimt með firðum
gunnèl níu sunnan.

þá verðr ok rætt, at mjök hafi ávegizt þeirra lið, þeirra sunnanmanna; þá kvað hann vísu:

Styrr lèt snarr ok Snorri
sverðþíng háit verða.
þar er gnýverðr gerðu
Gíslúnga hlut þúngan;
enn varð eigi enn minná
eitt skarð þat er hjó Barði
fèll geisla lið Gísla
gunnórúnga at sunnan.

Nú tóku þeir fè sitt fèlagar Barða, ok bjuggust til utanferðar með góðan fjárlut. Barði sendir orð ok þeir bræðr, at þeir vilì hafa land sitt ok selja, þikkist þurfa lausafè. Hann vill eigi láta laust landit, vill at kaupit sè sem ætlat var; verða nú annathvárt at missa fjárins, eða drepa hann. Nú segir Eyjúlfr, at hann man fá þeim jamnmikil fè, sem land er verðt, kveðst annathvárt á því sumri hafa drepit hann, eðr rekit af landinu, ok kastat sinni eigu á. Barði kaupir skip, er uppi stóð í Húsavík, fór þá utan, ok leiddi Eyjúlfr þá virðuliga á braut, ok ferst nú vel, ok kemr af hafi norðr við þrándheim í kaupángi, lætr nú uppsetja skipit sitt ok búa vel um. Ólafr konúngr hinn helgi rèði þá Norvegi, var hann í kaupbænum. Barði gengr fyri konúng

ok hans förunautar, kvöddu hann vel sem sæmdi: ok er á þá leið, herra! segir Barði, at vèr vildum vera vetrgestir þínir. Konúngr svarar á þá leið: vèr höfum frètt til þín, Barði! segir hann, at þú ert ættstórr maðr ok mikill fyri þèr, ok þèr eruð vaskligir menn, ok hitt í nokkur stórræði, ok rekit harma yðvarra, ok verit þó lengi fyrir, ok þó hafið þèr nokkut forneskju, ok þesskonar átrúnað, sem oss er úskaptlíðr, ok fyri þá sök, at vèr höfum þat svá mjök frá oss skilit, þá viljum vèr eigi taka við yðr, en þó skulum vèr vera vinir yðrir, Barði! segir hann, ok man nokkut mikilligt fyrir yðr liggja; en þat kann opt verða, er menn hitta í slíka luti, ok verðr svâ mikit rið at, ef nokkut verðr viðblandit forneskju, at menn trúa á þat ofmjök. Þá mælti Barði: eigi er sá maðr, segir hann, at ek vildi heldr minn vin, enn yðr, ok kunnum vèr þökk þinna ummæla. Barði hefir þar bæjarsetu um vetrinn, ok virðist öllum vel; en um várit býr hann skip sitt til Danmerkr, ok er þar vetr annann í góðu yfirlæti, ok nú er eigi getit tíðinda; eptir þetta býr hann skip sitt til Íslands, ok kvámu fyri norðan land út, ok våru mjök svâ fèlausir. Guðmundr var þá andaðr, ok kom Eyjúlfr þá ímóti þeim, ok bauð til sín, ok síðan fór hverr til sinna heimkynna, er allir våru sîknir. Eyjúlfr gefr þeim bræðrum upp föðurleifð sína, ok lýsti enn stórmennsku sinni sem fyrr, veitti þeim enginn maðr jamnmikit lið sem hann. Barði ferr til mâgs síns, Guðbrands; hann var bæði auðigr ok kynstórr, ok kallaðr nokkut fèfastr. En bræðr Barða fóru til Borgar innar

syðri til Eyjúlfs, mágs síns; þá var fóstra þeirra dauð. Nú keypti Eyjúlfr land undir þá bræðr, ok leysir Barða frá með lausafè; setja nú bú saman á föðurleifð sinni, ok urðu ellidauðir, nýtir menn, ok eigi jammmiklir sem ættmenn þeirra, ok (vâru) báðir kvongaðir, ok menn frá þeim komnir. Barði ríðr til þíngs, eptir er hann hafði einn vetr verit hèr á landi; þá bað hann sèr konu, sú hèt Auðr, dôttir Snorra goða, ok er hún föstuð honum, ok skyldi brúðkaup vera í Sælíngsdal at Snorra goða, föður hennar; eigi er ákveðit, hve mikit fè henni skyldi heiman fylgja, en líkligt at vera myndi góðr sómi; hún var skörúngr mikill, ok unni Snorri henni mikit; móðir hennar var þuríðr, dóttir Illuga hins rauða. Barði ríðr um þíngit til Vatnsdals, til mága sinna, ok unir vel við ferð sína, ok hefir góða virðíng af mönnum; fór eptir því, sem vitrir menn höfðu fyrisèð, at sætt manna hèlzt, sem á var. Nú býr Snorri veizluna, sem ætlat var, ok kemr þar fjölmenni mikit, ok ferr hún fram sköruliga, sem vân var, ok er Barði þar of vetrinn ok bæði þau; en um vârit fara þau í braut með allt sitt, ok skiljast þeir Barði ok Snorri góðir vinir; hann fór nú norðr til Vatnsdals, ok er þar með Guðbrandi, mági sínum. Ok at vâri býr hann ferð sína, kaupir skip, ok ferr utan, ok kona hans með honum, ok er sagt honum greiddist vel ferðin, ok kemr af hafi norðr við Hálogaland, ok er þar um vetrinn í þjóttu með Sveini Háreks-syni, ok var vel virðr, ok þóktust menn sjá á honum stórmennsku, ok virði hann þau bæði mikils.

7. Svâ bar til einn myrgin, er þau vâru útí skemmu bæði, at Barði vildi sofa, en hún vildi vekja hann, ok tekr eitt hægindi lítit, ok kastar í andlit honum svâ sem með glensi; hann kastaði braut, ok ferr svâ nokkrum sinnum; ok eitt sinn kastar hann til hennar, ok lætr fylgja hendina; hún reiðist við, ok hefir fengit í stein, ok kastar til hans. Ok um daginn eptir drykkju stendr Barði (upp), ok segir skilit við Auði, ok segir, at hann vill eigi af henni ofríki taka nè öðrum mönnum; ekki tjáir orðum við at koma, svâ er þetta fast sett. Er nú fjárlutum skipt þeirra á milli, ok hann ræðst þaðan braut um vârit, ok lætr eigi af ferð sinni, fyrr enn hann kom í Garðaríki, gekk þar á mála, ok var með Væríngjum, ok þókti öllum Norðmönnum mikils um hann verðt, ok höfðu hann í kærleikum með sèr ávalt; er konúngsríki skal verja, er hann í leiðángri, ok fær gott orð af reysti sinni, ok hefir um sik mikla sveit manna; þar er Barði þrjá vetr í mikilli sæmd frá konúngi ok öllum Væríngjum. Ok eitt sinn, er þeir vâru á galeiðum við her, ok vörðu enn konúngs ríki, þá kom at þeim herr; gera nu bardaga mikinn, ok fellr mjök lið konúngs, er við ofrefli var at brjótast, ok gjörðu áðr mörg stórvirki; ok þar fèll Barði með góðan orðstýr, hafði drengiliga neytt sinna vâpna til dauða. Auðr var gipt öðrum manni, syni Þóris hunds, er Sigurðr hèt, ok eru þaðan komnir Bjarkeyíngar, hinir ágætustu menn, ok lýkr þar þessari sögu.

---

# Ágrip Vígastýrssögu ok fyrra parts Heidarvígasögu,

## ritat af Jóni Ólafssyni frá Grunnavík.

Atli stóð í dyrum úti, ok var hann veginn af manni nokkrum, sem deildi við hann af einum lángási (man ek eigi, hvort sá var þræll Atla), reiddi hann burt ásinn. Þar með endaðist sá kapítuli.

2. Þarnæst getr um, at Stýrr vo þenna sama mann[1], ok at hann héti Þormóðr[2], eðr þvílíku nafni, vildi sá forðast Stýr, ok hafði vara á sèr; var hann tekinn til at færa sik úr bygðinni, er Stýrr frètti til ferða hans; tók hann sik þá heiman með fjóra menn, ok reið af staðum nóttina, eðr í dögun; spurði hann upp náttstaði hans í tveim stöðum, vildu þó báðir þeir bændr leyna manninum; reið Stýrr svo upp veg eptir honum; þetta var á einu kveldi; mætti hann þá mönnum, sem sögðust hafa sèð menn ríða fyrir utan almennings veg; hvataði Stýrr þá eptirreiðinni, ok varð varr við mennina í víðirkjörum nokkurum, eðr krosum, skamt frá veginum; reið hann þegar þar at, ok fóru eigi mörg orð milli þeirra, áðr Stýrr vo hann, ok var hann götvaðr þar við veginn[3].

---

[1]) minnir mik. [2]) Kannske, ok svo minnir mik, hann hafi heitit Þorbjörn, ok sè sá sami Landn. umgetr kap. 17, bróðir Klepjárns, en Þórdís, systir þeirra, kannske hafi verit móðir Gests, ok hann nefnist þar Þorgestr. [3]) *Þau orð og greinir, sem þannig standa gisnari enn ella, eru sjálfrar aðalsöguunnar orð, er höfundr ágripsins hafði uppteiknað, þá er hann afskrifaði skinnbókina, er ásamt með afskriftinni glataðist.*

*Af Berserkjunum.*

**8.** Vermundr hèt maðr, kallaðr Vermundr hinn mjófi, hann bjó í Ísafirði á bæ þeim, er Langaból heitir[1], sá var bróðir Stýrs; honum þótti bær sinn lasinn ok mjök at falli kominn, þessvegna fór hann utan til Noregs at sækja sèr við til húsabótar. Hákon jarl rèði þá í Noregi; Vermundr hitti á þar hann sat um vetrinn; brátt kom hann sèr í vingun við jarlinn, ok gaf honum gráfeldi ok skinnavöru, sem hann hafði með sèr fært; þar var hann um vetrinn með jarli í góðri vináttu. Berserkir tveir voru með hirð jarls, hèt sá eini Halli, annar Leiknir, hann var þeirra yngri[2]; hafði jarlinn þá til stórvirkja, því þeir voru menn miklir fyri sèr, skapstórir, ok sterkari öðrum mönnum; væri þeir eggjaðir eðr reiðir, stóð ekki fyri þeim, ok kom þá at þeim slíkr bèrserksgángr, at aungvir menn stóðust, þótti því flestum ódælt við þá at skipta. At vori þá kaupmenn bjuggust til Íslands, ok Vermundr hafði búit skip sitt, kveðr jarlinn hann at máli eitt sinn, ok biðr hann mæla til þess í sinni eign, sem honum leikr helzt hugr á. Vermundr svarar, at nokkut sè þat, sem sèr þyki helzt gripr í, en sè uggandi, hvort jarlinn vili veita sèr þat. Jarlinn spyr, hvat helzt þat sè. Vermundr segir þat vera menn þá tvo hina öflgu, sem eru í hirð hans, þyki sèr mesta gersemi í þeim, ef jarlinn vili gefa sèr, því sèr megi vera mikit traust at þeim, en hann egi sökótt víða. Jarlinn svarar, at hann hefði ætlat hann mundi til annars heldr mælast,

[1]) Þat mun heldr hafa verit í Vatnsfirði, því Eyrbyggja, kap. 46, getr eigi um, at Vermundr hafi búit þar, fyrr enn hann fylgdi Snorra til Borgarfjarðar vorit eptir er Stýrr var veginn, ok eptir Grettissögu, kap. 51, (að reikning Þormóðar: 1018, þá Grettir kom þar vestr); en þat er Eyrb. kap. 25 segir, at hann hafi búit í Hraunhöfn, þá hann fèkk berserkina (því hún lætr hann hafa tekit þar við búi 982, en þegit berserkina 983), man ek fyri víst at þessi saga sagði eigi, heldr á Vestfjörðum, þó er Eyrbyggju sögn líkligri. [2]) Eyrb. kap. 25 segir þeir hafi verit Svenskir at kyni, því Eiríkr enn sigrsæli Svía konúngr hafði senda þá jarlinum.

ok annat væri honum þarfara, því hann þekki ógo skaplyndi berserkjanna; at eigi sè hændum hendt at halda þá, ef eigi er at þeirra skapi gjört, muni sèr þykja á sinn hluta gjört, ef illa er at þeim farit, eðr veitt nokkr vèlræði, ok býðr Vermundi at kjósa annat. En Vermundr vill eigi annat þiggja, ok lætr at þessi vandhæfi sè eigi svo mikil, at hann geti þá eigi vel haldit fyrir skapsmuna sakir, svo þeir vel uni. Jarlinn svarar, at þá skuli hann þessu ráða, en miklu þyki sèr varða, at vel sè við þá gjört; heitir Vermundr góðu um þat. Ok þat verðr at lyktum, at berserkirnir fara með Vermundi; gefr þeim vel byri heim um sumarit; ok tekr Vermundr strax at bæta hús sín, ok hafði þá til heimilis starfa. Brátt fannst þat á skapi berserkjanna, at þeir voru eigi feldir til vinnu, en voru fúsir til manndrápa ok stórvirkja; sögðu þeir Vermundi, at jarlinn hefði seldt sik honum í hendr til trausts móti fjandmönnum hans, en eigi til vinnu; voru þeir skapstirðir, ok gjörðust nú ofrefli Vermundar[1]; iðrast hann nú at hann beiddi þessarar gjafar af jarlinum, ok íhugar um, hvernninn hann geti komit þeim af sèr. Þetta spyrst víða, at Vermundr hefir þegit berserkina af jarlinum; þikir nú óvinum Vermundar hálfu verra á hann at ráða enn áðr.

Vermundr átti dóttur eina fullvaxna; Halli lagði hug á hana, ok var opt á ræðum við hana; þetta rómaðist brátt, ok verðr Vermundr þessa varr, en lætr sem hann viti eigi.

Um vetrinn[2] á útmánuðum sendir Vermundr mann at Hrauni til Víga-Styrs, bróður síns, þess erindis, at hann býðr honum at heimboði til sín. Styrr tekr því fáliga í fyrstu, en segir þó hann muni koma, telr þat

[1]) Eyrb. kap. 25 segir öðruvís frá þessu, nl., at Halli bað Vermund at fá sèr kvonfáng sæmiligt, en Verm. taldist undan, ok því sló Halli á sik álfbúð ok illindum. [2]) en Eyrb. kap. 25 segir, at berserkirnir hafi komit til Styrs um haustit 984.

eigi hafa verit vanda bróður síns fyrri; ok heldr hèr muni nokkut undir búa, því fátt hafði þeirra milli verit þángat til, fer þó heiman með nokkra menn, ok ríðr vestr í Ísafjörð at Laugabóli; tekr Vermundr á móti honum báðum höndum, ok þakkar honum þarkomuna; gistir þar Stýrr þrjár nætr í góðu yfirlæti, var þat kallat kynnisför[1]. Þann dag, er Stýrr vill burt ríða, sitja þeir bræðr yfir drykkjuborðum, eru nú báðir allglaðir, ok fellr allt vel á með þeim. Þá mælir Vermundr: nú skaltu hafa þökk, bróðir! at þú hefir eptir bón minni heimsókt mik, ok þar þat hefir eigi fyrri verit, vilda ek þú nytir þess í nokkru: hèr er gjöf sú, er mèr sýnist þèr vel í hag koma, þat eru berserkir tveir, er hèr hefi ek með mèr; veit ek, at þú átt marga mótgöngumenn, ok víða árása von. Stýrr mælti: þetta er mikil gjöf, ok af því ek veit þat eigi í minni eigu, er þessu sè jafnvægt, þá kann ek þèr eigi betri laun, enn ek gefi þèr þessa berserki aptr, svo þú njótir þeirra sjálfr. Vermundr þykkist við, ok segir hann gjöri eigi rètt at virða illa, er hann býðr honum til sæmdar svo þarfa gjöf. Stýrr svarar: segðu hitt, bróðir! at þú iðrast, at þú hefir við berserkjunum tekit, því nú finnr þú þik eigi megnugan at halda þá fyri þeirra skapsmuna sakir. Vermundr segir þá, at svo er, ok lætr upp allt hit sanna, ok biðr hann at leysa sik við þetta vandræði. Stýrr kveðst deigr við þeim at taka, því jarlinn sè til eptirmælis, ef þá saki nokkut, muni hann þó þar at ráða, ef þeir vili sèr fylgja, ok leysa svo vandræði hans; Vermundr verðr þessu glaðr. Nú eru berserkirnir kallaðir þángat, ok spurðir, ef þeir vili Stýr fylgja; segir Vermundr, at Stýrs ok þeirra lunderni muni betr samankoma, því hann egi sökóttara, en sè skörángr í geði, en sik

[1]) Sbr. Þórðar hreðu sögu, kap. 5: Eiðr varð þessa varr at kynnisvist at Reykjum.

þarfa heldr at sinnast við búskapar annríki. Berserkirnir segja, at jarlinn hafi sik honum alleina til fylgdar fengit, en vel ok höfðingliga lítist sèr á Stýr, þó muni þeir hèr á hætta, þar hann lofi at gjöra eptir sínu skapi, ok brúka sik til mannhefnda meir enn húsýslu. Verðr þat af, at berserkirnir skulu fara með Stýr, ok skilja nú við Vermund allir.

4. Þorbjörn hèt maðr, kallaðr Þorbjörn kjálki, hann bjó í Kjálkafirði[1]; á milli Stýrs ok hans höfðu lengi deilur verit, ok hafði Stýrr aldrei náð hefndum á honum eptir sínum vilja; nú þótti honum vel tilfallit at brúka berserkina þar til, svo hann kæmi sèr í geðþokka við þá; segir hann þeim þessa fyriræltan, ok eru þeir þess allfúsir. Þángat koma þeir á nóttu, ok berja at dyrum; en af því fólk allt var í svefni, var eigi skjótt til dyra gengit; skipar Stýrr þá at brjóta upp dyrnar, ok þat gjöra berserkirnir. Þorbjörn hvíldi í skála; hann vaknar við þenna hávaða, ok spyr, hverr þar fari með slíkum óspektum, at brjóta hús á fólki um nætr. Stýrr segist þar vera, ok nú hafi hann þá menn með sèr, er þori at sjá honum í augu, ok nú vili hann launa honum margar skapraunir, ok hafi þat allt oflengi undandregizt, ok sè honum at verða við. Þorbjörn kveðst hvorki mundi flýja, nè friðar beiðast, segist senn kominn af fótum fram, þeir megi gjöra hvat þeir geti, hann vili taka við eptir föngum. Þorbjörn lá í lokrekkju, hleypr hann nú upp í sænginni, ok tekr sverð, er þar hèkk, ok ver sik. Stýrr eggjar nú berserkina stórum, ok segir þat eigi skammlaust, at einn maðr standi svo lengi fyri þeim. Ok við þessi frýjunarorð verða berserkirnir óðir, ok brjóta lokrekkjuna at Þorbirni, en ámæla Stýr, at hann frýi sèr hugar, en vegi hvergi sjálfr nærri at koma. Stýrr gengr þá fram í ákafa, ok sækir at Þor-

[1]) Þessi kap. er að öllu samhljóða Eyrbyggju.

birni, ok leggr hann í kviðinn, svo hann fellr; geðjast nú berserkjunum vel at hans framgaungu, ok segjast gjarnan vilja fylgja svo djörfum foríngja. Ríða nú þaðan, ok lýsa víginu; getr um hátt eða þeirra í söguuni, voru þeir fjórir[1], ok einn í Ljárskógum; koma nú heim at Hrauni, ok geðjast nú hvorutveggi vel at öðrum, ok þykir þeim Stýrr góðr ok röskr höfðíngi; stóð nú eigi minni ótti af honum, enn áðr, ok þótti óvinum Stýrs hann nú alltórennilligr. Líðr nú af vetrinn.

Stýrr átti dóttur gjafvaxta, er Ásdís hèt. Leiknir[2], sá yngri berserkrinn, lagði þat í vanda sinn, at hann sat laungum á tali við hana ok at tafli; tóku þá mönnum til at verða margrætt um þetta, ok kom þat fyri Stýr, en hann kvað þat engu varða, ok lèt sem hann ekki vissi, þó hann þat vel sæi. Nokkrum tíma síðar talast þeir við, berserkirnir ok Stýrr, spyr hann, hversu þeim getist at sínu haldi. Þeir láta vel yfir, ok segja sèr þyki hann verá höfðíngi þeim til hæfis. Falla þá svo orð í þeirra ræðu, at Stýrr spyr, hvort þeir vili eigi leita sèr nokkurrar staðfestu, ok kvænast. Leiknir svarar, eigi sè þat sèr fjærri. Stýrr spyr, hvar honum renni hugr til. Leiknir svarar, þat muni helzt í hans valdi. Stýrr svarar, at þó hèr sè nokkr sjáfnuðr á, þá felli sèr hann vel í geð, ok mætti þat ennú reynast betr. Stýrr spyr ok Halla, hvort honum standi hugr til nokkurrar konu. Halli segir þat vera. Stýrr spyr: hvar? Halli segir, Vermunðr egi þar svörum at ráða, ok mundi þat með hans atfylgi takast mega. Stýrr tekr engu fjærri, ok fella nú þetta tal um sinn. Litlu síðar vekr Leiknir sama mál. Stýrr mælti: til skapsmuna ertu mjök við mitt lyndi, en þess skaltu gæta, at þú hefir eigi fè móti at leggja. Leiknir svarar: þó ek sè maðr fèlaus, þá kann verá ek geti

[1]) m. m. [2]) Eyrbyggja, 28 kap., segir: Halli.

unnit þau verk, sem þrek er í, þèr til vilja, sem aðrir menn eru eigi í fterum um, ok með því móti leyst mik frá fjártillagi, en verft þèr jafnan hèr eptir til liðs með Halla, bróður mínum; átt þú mótstöðumenn marga, ok er þèr því þörf traustra manna, en þú fá mèr bólfestu nökkurá. Stýrr kvað þat satt vera, því sèr væri stórt traust at þeirra gjörfugleika, ok vildi hann gjöra þar nökkura tilraun á áðr. Þykir nú berserkjunum eigi óvænliga áhorfast.

Um vorit ríðr Stýrr út at Helgafelli til Snorra, vinátta var þá góð þeirra á millum, gekk Snorri á veg með honum, ok ræddust þeir við allan daginn; en engi maðr vissi, hvat þeir töluðu, eðr hvaða eyrindi Stýrr átti við Snorra. Eru berserkirnir mjök eptirleitnir um konumálin, ok einna mest Leiknir. Stýrr segir hann verði at sýna nokkurt þrekvirki áðr. Leiknir lætzt þess albúinn, ok spyr, hvat þat sè. Stýrr mælti: hèr er hraun hjá bæ mínum illt yfirferðar, hefi ek opt huxat, at ek vildi láta gjöra veg þar um, ok ryðja þat, en mik hefir skort mannstyrk; nú vilda ek þú gjörðir þat. Leiknir segir, þat þyki sèr eigi mikit fyrir, ef hann njóti liðs Halla, bróður síns. Stýrr sagði hann mætti þat við hann eiga. Taka nú berserkirnir at ryðja hraunit at kveldi dags, ok at þeirri sýslan eru þeir um nóttina; vega þeir stór björg upp þar þess þurfti, ok færa út fyri brautina, en sumstaðar koma þeir stórum steinum í gryfjurnar, en gjöra slètt yfir, sem enn má sjá; var þá á þeim hinn mesti berserksgángr. Um morguninn höfðu þeir því lokit, ok er þat eitt hit mesta stórvirki, er menn viti, ok mun sá vegr æ haldast með þeim ummerkjum, sem á eru, meðan landit stendr. Skulu þeir nú gjöra eitt gerði, ok hafa því lokit at dagmálum. Á meðan býr Stýrr þeim bað, sem þeir skulu í fara, þá þeir hafa aflokit gerðinu; en at morgni skal Leiknir hafa brullaup. Baðit var svo

tilbúit, at þar var feldr stórr hlemmr ofan í gólfit með einum glugga á, sem vatninu var inn um hellt; húsit var grafit í jörð, ok voru dyr fyri því með sterkum stokkum, ok húsit allt af nýjum viðum, ok hit rambyggiligasta; tröppur voru fyrir húsinu upp at gánga. Um morguninn, þá þeir eru at gerðissmíðinni, lætr Stýrr Ásdísi búa sik sem allra bezt, en bannar henni at vara berserkina við, hvat hann hafi í ráði; ok áðr enn þeir hafa lokit gerðinu, gengr hún burt frá húsunum á svig við berserkina, þar þeir eru at sínu starfi. Leiknir kallar til hennar, ok spyr, hvert hún skuli; hún svarar engu. Þá kvað Leiknir vísu þessa[1]:

Hvert hafið gerðr um gjörfa
gángför liðar hánga
ljúgvættr af mèr leyjar
línbundin för þína?
Þvíat í vetr en vitra
vánga sá ek þik gánga
hirðidís frá húsi
húns skrautliga búna.

Nú hafa þeir aflokit þessu starfi; segir nú Stýrr hann hafi búit þeim bað, er þeir skuli í fara, hafi þeir nú þat þrekvirki unnit, er sèr vel hugnist, ok uppi muni verða um alla æfi. Halli er í fyrstu eigi ráðinn at gánga í bað, ok spyr, ef eigi skuli fleiri gánga í baðstofu með þeim. Stýrr svarar, þat muni eigi hendt öðrum, at gánga í bað ásamt slíkum afarmönnum, sem þeir eru; en Leiknir vill gjöra þat at vilja Stýrs. Nú setjast þeir í baðstofu, ok er hlemmrinn lagðr yfir, ok borit grjót á, dyrunum er ok lokat, ok borit grjót fyri sem rammligast, en á tröppurnar er breidd blaut uxahúð; baðstofan er gjörð ákafliga heit. En þá þeir hafa setit í baðinu litla stund, lætr Stýrr bera sem

[1]) Hún er svo eptir Eyrb., ok svo minnir mik vísan væri, en hvort hin, sem í Eyrb. eptirfylgir, sah þar, minnist ek eigi.

öðást brennheitt vatn, ok steypa inn um gluggiann. Finna nú berserkirnir, at eigi er allt heilt við þá; hamast þeir nú í baðinu, ok brjótast á hlemminn, springr Leiknir inni, en Halli kemst út; ok er hann kemr á tröppurnar, verðr honum fótaskortr, ok fellr á húðinni; en Stýrr er þar fyri með reidda öxi, ok höggr á háls honum, svo Halli lèt þar lífit. At þessu verki unnu lætr Stýrr leiða heim þjóra tvo tvævetra, ok höggr þá, því þat var trúa í þá daga, at ef svo væri gjört, yrði eigi af eptirmálum. Spurðist þetta víða, ok ræddu menn mísjafnt of víg þessi. Skömmu síðar gipti Stýrr dóttur sína Snorra goða, ok varð hann við þær tengdir traustari móti óvinum sínum.

5. Nú vaxa svo metorð ok yfirgángr Stýrs, at flestum stóð mikill ótti af; þótt hann vægi menn, bætti hann engu, ok flestir urðu svo at láta vera sem hann vildi, því engi fèkkst rèttr yfir honum; stóðu ok margir ríkir menn at honum, vinir ok mágar, svo fáir þorðu at veita honum nokkurar tilgjörðir. Maðr hèt Einarr[1]; á hann taldi Stýrr nokkurar sakir, ok lèt dómendr dæma sèr stórar fèbætr. Þessi maðr átti Akreyjar á Breiðafirði, sló Stýrr á þær eigu sinni, en engi mælti á móti; flæði maðrinn af búi sínu, ok duldist um sumarit híngat ok þángat í Breiðafjarðareyjum; um vetrinn fór hann út á Mýrar, ok skaut Þórhallr á Jörfa skjóli yfir hann, ok annar bóndi þar nálægt á Járngerðarstöðum[2], hèldu þeir hann til skiptis um vetrinn; en um vorit eptir vildi hann flytja sik suðr til Borgarfjarðar, ok hafði einn eðr tvo húskarla með sèr ok fáeina klyfjahesta. Stýrr hèlt spurnum fyri þessu, ok reið heiman við nokkura menn, ok varð víss, hvar hann hefði verit um nóttina; reið hann eptir honum upp frá bæjum, ok sá á einum litlum hálsi til manna undan sèr; en þá þeir urðu varir við eptirreið-

[1]) m. m. [2]) m. m.

ina; fóru þeir af almenníngs vegi; en af því þeir fóru með klyfjehesta, en hinir riðu lausa, ok ört á eptir, bar brátt saman með þeim; lèt maðrinn húskarlana undanfara, ok meinti Stýrr mundi heldr eptir þeim ríða; en Stýrr þekkti hann; þar var mýrlendi er þeir hittust, svo eigi varð greiðriðit. Stýrr spyr, hvat valdi þessu fyritæki hans, at flytja sik úr bygðum, eðr því hann hafi fyri sèr dulist. Hinn svarar, at flestum sè kunnugr ofsi hans ok yfirgángr, ok hafi hann skilit margan við líf, sem hann hafi lagt minni þykkju á. Stýrr segir hann beri sök á baki sèr með þessu fyritæki, ok hafi hann nógar sakir til at drepa hann, ok þess eyrindis sè hann kominn. Maðrinn hleypr af hestinum, ok vill taka til fóta, ok renna undan; en þat varð torsókt, því mýrin var blaut, ok fèll hann í henni, enda voru hinir fleiri, er eptirsóktu; verðr þat skilnaðr þeirra, at Stýrr vegr hann þar, dysjar, ok lýsir víginu síðan. Þá kvað Stýrr vísu, í hverri hann segist nú hafa vegit 33 menn, sem hann hefði eigi fèbótum bætt, ok svo varð um þetta víg.

*Af Þórhalla.*

6. Nú telr Stýrr fullar sakir á þá báða, Þórhalla ok hinn, er haldit hafa áðrgreindan mann; áttu margir hlut þar at til friðstillíngar, verðr hinn bóndinn fyri fjár útlátum; en af því Stýrr þótti Þórhalli hafa átt hèr meiri hlut í, þá krefr hann af honum meiri bóta; gjörist sá sami á máli þeirra, at Þórhalli skal standa honum fyri kosti, þá Stýrr vill hjá honum gista, hvort sem hann fer frá eðr til, eðr hvat marga menn sem hann með sèr hefir; heitir Þórhalli þessu, því honum leizt þúngt at etja kappi við Stýr. Líða nú nokkr misseri, at svo stendr, en Stýrr þóttist hafa þeim íveitt, at hann lèt þá lífi halda.

¹) að vísu, eðr 36, þó minnir mik, at hit fyrra stæði í sögunni.

7. Þat bar til nýlundu eitt haust, at mjök heimtist af fjöllum enn vant var, þó vandliga væri leitat; kendu menn þessar illar fjárheimtur útileguþjófum, nema ef einhverir væri í bygð, er þessu ylli, en þat varð þó eigi uppvíst. Stýrr var þar mestr sveitarhöfðíngi, ok setti þau lög með fremstu bændum, at hverr maðr skyldi eitt auðkenni brúka á fè sínu, ok sýna nágrönnum sínum. Sumarit eptir ber svo við eitt sinn, at von er Stýrs til Jörfa; þar var einn alinn hrútr, sem á sumrum gekk í töðum ok túnum, ómarkaðr, því hann var alltíð heima við bæ, ok gekk eigi með öðru fè; hann var glettinn við vinnukonur, ok spilti opt mjólk þeirra, lögðu þær til hann væri slátraðr, at fagna Stýr með, því hann var vel feitr; þat þótti hendi næst, ok á þat fellst húsfreyja, sem Þorgerðr[1] hèt; var nú svo gjört. Stýrr kemr, ok gistir þar um nótt, er honum gjörðr góðr beini, sem vant var. At morgni, áðr Stýrr vill burt, gánga þeir til dagverðar; er nú slátrit af hrútnum borit fram, ok fylgdi þar höfuðit með. Ok þá þeir sitja at borðum, tekr einn Stýrs manna höfuðit upp, ok segir þetta sè geisifeitr sauðr. Stýrr lítr til, ok skoðar höfuðit ok mælir; þetta er furðu mikit höfuð, eðr sýnist öðrum sem mèr, at ekkert er auðkenni á eyrum; þeir segja svo vera. Stýrr mælti: veiztu eigi, Þórhalli! at vèr sveitarhöfðíngjar höfum í lög sett, at hverr maðr hafi eitt mark á fè sínu, en þetta er ómerktr sauðr. Þórhalli kveðst þat vel vita, en segir, at sauðr þessi hafi gengit heima í töðum, síðan hann var lamb, ok hafi menn því eigi hirðt at marka hann. Stýrr mælti, at samt hefði honum borit at sýna hann nágrönnum sínum, svo þeir beri vitni hèr um. Þórhalli segir, at hvorki þeim nè öðrum sè þat dult, því sauðrinn hafi helgat sik hans eign, þar hann hafi heima við bæinn gengit fyrir

[1]) m. m.

allra augum ótalit. Stýrr segir, at þat hæfi þó eigi bændum, at kasta orðum sveitarhöfðíngja undir fætr sèr svo gálausliga, ok hafi hann optsinnis eigi látit minni sakir óhegndar. Þorgerðr kemr at í þessu, ok segir, at þat sè ofjöfnuðr stór, at Stýrr kenni bónda sínum þjófnað, ok launi þanninn góðan greiða, sem menn hann hafi margopt illa þegit; verðr hún ófamálug mjök. En Stýrr svarar fáu, en safnar reiði, ok segir, hann muni eigi líða bændum lagabrot óreíst, ok svo kunni hèr at verða. Skiljast þeir síðan, ok líkar hvorutveggjum allilla.

Nú huxar Þórhalli um þetta mál, ok þykir þúngs at von, þar sem Stýrr, er; mágar ok frændr hans voru í Borgarfirði, fer hann suðr um haustit seint, ok spyr þá ráða, Kleppjárn, Illuga svarta, ok Þorstein Gíslason, mág sinn. Þeir ráða honum til at færa sik burt úr hèraðinu, ok sæta eigi lengr álögum Stýrs, því eigi megi vita, nema hann bíði líftjón af hans völdum, ok bjóða honum þángat suðr til sín, svo hann sè ohultari fyri Stýr, ok skuli hann flytja sik at vori. Þetta boð þekkist Þórhalli, ok þykir allgott ráð; fer heim til sín vestr, ok lætr eigi á þessu bera, ok líðr nú svo af vetrinn. Vorit var kaldt ok vindasamt, ok víða harðt milli fólks, var því illt til hesta, ok komu grös seint upp. Lætr Þórhalli ekkert á sínu áformi brydda, ok bíðr fram til alþíngis, þartil Stýrr er riðinn heiman, ok vill þá flytja allt sitt suðr; en Stýrr fær þó njósnir hèrum. Nú spyr Þórhalli, at Stýrr er heiman farinn; ok hèrum eptir tvo daga[1] tekr hann sik upp, ok flytr nú fyrst búsgögn sín, hefir hann meðferðis níu klyfjaða hesta ok einn húskarl með, sem Íngjaldr hèt, ætlar hann í næstu ferð at flytja sik alfarit með konu ok börnum. Stýrr hefir fengit grun af fyrirætlun Þórhalla, snýr af vegi sínum, ok sezt í veg fyrir

[1]) m. m.

hann sunnan í heiðarbrekkunum, þar hann veit at leið Þórhalla liggr um; Stýrr reið við fimta mann. Nú kemr Þórhalli með húskarli sínum vestan af fjallinu ofan í brekkurnar; húskarlinn var betr skygn enn Þórhalli, ok segist sjá þar menn í einni brekku, ok segist ugga, hvört allt muni trútt, ok mætti vel ske at hèr væri Stýrr. Þórhalli segist vera fyri því óhræddr. Þá þeir koma nokkru nær, segist Íngjaldr þekkja at þetta er Stýrr, ok muni hann nú hafa eitthvat íllt í sinni, þar hann hagi svo ferðum sínum, ok segir þat sè bezta ráð, at þeir snúi aptr, því þó þeir hefði hesta lúnari, þá megi enn vel takast at ríða undan þeim vestr af fjallinu, ok þá verði þeim nóg til manna styrks. Þórhalli vill þat eigi, ok segist aldrei skuli svo hræddr, at hann renni undan mönnum, þó fleiri sèu, ok bindi svo með hræðslu sakir at sjálfum sèr, viti hann eigi heldr, at hann hafi gjört þær sakir við Stýr, at þess sè verðar, at hann leiti eptir bana sínum. Íngjaldr vill samt til baka ríða, því hann hafi skjótari hest, ok afla sèr manna, ef þeirra kunni at þurfa, sem sèr sýnist, ok viðskipti þeirra yrði eigi svo skjót. Þórhalli segir hann megi því ráða, því ef Stýrr hafi víg í hug, muni hann eptir sèr sækja heldr enn honum. Ríðr nú Íngjaldr til baka þat hraðasta hann getr, en Þórhalli rekr áfram hestana sína leið, ok lætr sem hann verði eigi þeirra varr. Þegar þeir sjá Þórhalla, skunda þeir á hesta sína ok ríða í veg fyrir hann; mætast þeir Stýrr, ok heilsar Þórhalli honum vingjarnliga. Stýrr spyr, hvat valdi þessum tiltektum hans, at sèr lítist hann vilja flytja sik úr hèraðinu. Þórhalli segist því sjálfr ráða, þó hann leiti sèr betri bólfestu, en kveðst eigi kunna skil á, því hann mæti Stýr hèr. Stýrr segist svo hafa tilætlat, at þeir fyndist hèr, ok at þat yrði fundr þeirra hinn seinasti.

þórhalli segist eigi vita sik hafa þat til saka gjört, at hann þurfi at banna sèr leið sína, ok eigi vænti hann þess, at hann siti eptir lífi sínu. Stýrr mælti, at svo minntist hann seinasta viðtals á Jörfa, at eigi þyldi hann honum lagabrot eðr nokkra skapraun við sik, ok sè nú eigi annars kostr enn verja sik. Þórhalli segist eigi flýja mundu. Sækja nú menn Stýrs at honum í ákafa, en Stýrr gefr sik eigi at; verst Þórhalli vasklíga ok veitir þeim mörg sár, en verðr ákafliga móðr, því maðrinn var við aldr; gengr svo nokkra stund, at þeir sækja, en vinna hann þó eigi, ok verða allir móðir; þá kalla þeir at Stýr, at hann komi, ok siti eigi hjá, en setí sik í hættu; hleypr nú Stýrr at, ok skiptast þeir eigi mörgum höggum, áðr Stýrr höggr með öxi aptan í höfuð Þórhalla, ok fellir hann þar; ríðr þaðan burt sem skjótast, en lætr reka alla hestana heim at Hrauni, ok fer leið sína til þíngs, ok gjörir ekki orð á þessu. Frèttist þetta nokkru síðar um sumarit í Borgarfjörð, ok þótti vinum ok mágum Þórhalla sèr nærri höggvit, ok fara stór orð frá þeim um haustit. En þá Stýrr heyrir þat, kvað hann vísu, í hverri innihaldit var orðtækit: eigi verðr þat allt at regni, er rökkr í lopti, ok svo mundi fara um hótanir Borgfirðínga.

8. Í þann tíma gjörðust þau góð tíðindi á landi hèr, at forn trúa var niðrlögð, en rèttir siðir upptekuir, lètu þá margir ríkir bændr byggja kyrkju á bæ sínum; þeirra einn var Stýrr, ok lèt hann kyrkju reisa at Hrauni. Sú var trúa á tímum þeim, at sá, er kyrkju lèt gjöra, ætti ráð á svo mörgum mönnum at kjósa til himnaríkis, sem margir gætu staðit innan kyrkju hans[1]. Þórhalli lèt tvö börn eptir sik, hèt annat Gestr, en annat Áslaug, þau voru bæði úng, þá faðir þeirra var veginn, varð því eigi af eptirmálum; ok

[1]) Sbr. Eyrb. kap. 49.

líða nú svo tímar fram. Gestr var smár vexti ok seinþroska, ok þótti því mönnum lítil þreks von at honum. Kom nú sá bóndi at Jörfa, sem þorleikr hèt, ok hèlt hann samt uppi gistíngu við Stýr, óx þar Gestr upp með honum. Eptir nokkur misseri ber svo við, at bændr tveir í Borgarfirði (fyrir) sunnan Hvítá, verða missáttir af hestagaungu, hèt annar Haldórr, er bjó á Ferjubakka, hinn hèt Höskuldr[1], er bjó á næsta bæ. Hestar Haldórs gengu opt í högum Höskuldar, ok eitt sinn, er þeir höfðu gjört þar nokkurn usla, varð Höskuldr afarreiðr, ok hljóp heim á bæ Haldórs, ok illyrðtist við hann, var við sjálft búit þeir mundu berjast, en Höskuldr drepa hestana, því þeir gengi sèr til óhelgis. Stýrr var mikill vinr Haldórs; hann skaut þessu máli undir hans gjörð, ok því samþyktist hinn. Sendir Haldórr boð vestr Stýr, vin sínum, um haustit, at semja þessa deilu þeirra á millum. Stýrr segist koma vilja, en verða þó at bíða þess, at vatnavextir mínki, ok ísa leggi; fer hann nú at heiman um vetrnætr, fylgir honum þorsteinn, son hans, sem þá var fullorðinn at aldri, ok nokkrir menn fleiri; gistir hann á Jörfa, sem hann var fyrri vanr, þá hann fer suðr um; tekr þorleikr vel við honum, ok yfir borðum mælti hann til Stýrs: þat virðist mönnum þú hafir fyri litlar sakir vegit þórhalla, stóð hann þèr jafnan fyri kosti, ok vissu allir, at sú sök, er þú feldir á hann, var af einfeldni hans, en engri tilverknan; nú eru hèr börn hans úng ok munaðarlaus eptir, væri því höfðíngskapr at hugga þau í nokkru. Stýrr segist vilja sjá sveininn; er hann nú leiddr fyri Stýr, ok lízt honum sveinninn smár í augum sèr, ok óvænligr til hefnda. Stýrr mælti: eigi hefi ek bætt víg mín híngattil dags, ok verðr þat nú hit fyrsta sinn sem ek þat gjöri; í sumar sögðu griðkonur mínar þar vera hrútlamb eitt, grátt at lit,

[1]) m. m.

ullarríat, er eigi vildi þrífast; nú sýnist mèr þat rètt ákomit, at sveinn þessi hafi lambit í föðurgjöldin, en eigi mun hann frekara af mèr fá. Þorleikr mælti: þetta er hvorki góðmannliga nè höfðíngliga mælt, ok hefða ek annara orða vænt af þèr, er sveininum lítil huggun í þessum svörum. Stýrr biðr hann at þegja, ok segir honum muni hendtast at skipta sèr eigi meir af þessu, muni svo hljóta at standa sem hann mælt hefir. Þorleiki þykir ráðligast at fella þessa ræðu. Ríðr nú Stýrr þaðan suðr á leið, en er von hann muni þar gista, þá hann fer heimleiðis. Kemr Stýrr á Ferjubakka til Haldórs, vinar síns, ok semr með þeim Höskuldi hestadeiluna bótalaust; lætr Höskuldr svo standa; en Haldórr gefr Stýr at skilnaðí góðan hest gráan, er þeir Höskuldr höfðu mest um deilt, ok skiljast þeir með vináttu; fer Stýrr leið sína vestr.

*Af vígi Stýrs.*

9. Gestr sitr nú hugsi um sitt mál, var hann lítill at vexti ok frár á fæti, geymdi hann fjár fóstra síns; dag þann, er von var Stýrs at sunnan, sat hann at fè ok skepti öxi sína; varð þá sá atburðr, at blóðdropar nokkrir fèllu á skaptit; hann kvað þá vísu, kemr heim síðan, ok hittir systur sína úti, ok segir frá; hún segir sèr þyki líkast, at einhvörjum tíðindum gegni, ok vildi hún þat kæmi niðr í makligum stað; hann kvað enn vísu. Þá þau eru þetta at mæla, ber þar menn at garði, eru þat Stýrr ok fylgdarmenn hans, höfðu þeir vöknat í Hítará[1], en Stýrr hafði skúaðan hest, ok var því eigi votr; frost var um daginn, var þeim beini gjörðr, dregnar af þeim brækr ok skóklæði, ok kyndr eldr upp; Stýrr sat við eldinn. Þar hafði verit höfð soðníng daginn sama, ok stóðu hitukatlar utar á gólfinu, sem soð var í; Áslaug, systir Gests, rekr þar í brækrnar, ok ber útá vegg; eldahúsit

[1]) m. m.

var svo lagat, at handraðar voru innan veggja, svo gánga mátti á milli þeirra ok veggjanna á baki mönnum; tvær dyr voru á húsinu, lágu aðrar dyr út, ok voru þat laundyr. Förunautar Stýrs segja, at sparaðr sè eldiviðrinn; hleypr Gestr út, ok sópar saman því eldiviðar sorpi, er hann finnr, ber inn fullt fáng sitt, ok kastar öllu á eldinn, ok jafnskjótt öðru fángi, lýstr þá upp miklum reyk í húsin; hleypr Gestr þá í handraðana kríng á bak til við Stýr, ok höggr með öxi af öllu afli í höfuð honum, bakvið eyrat hægra megin, svo í heila stóð, ok mælti: þar launaða ek þèr lambit gráa! hleypr út laundyrnar, ok skellir í lás; en Stýrr hnígr fram á eldinn; þorsteinn hleypr undir hann, ok þá hann sèr, at hann er höggvinn til bana ok örendr, hleypr hann út ok þeir allir ásamt eptir Gesti. Gestr rennr undan allt at Hítará, áin var rend, ok rann í streing á milli; en með því Gestr var frár, þá stökkr hann yfir ána. Förunautar Stýrs komast sumir á miðja leið, ok snúa heim aptr, þykir þeim íllt at etja berum fótum við klakann; en þorsteinn rennr allt at ánni, stendr Gestr öðrumegin, ok varnar honum yfir at komast; sèr þorsteinn at fjandmaðr sinn stendr hinumegin, ok vofir yfir höfði sèr; er þar vogun til at ráða, hitt er ok at hætta at hlaupa á ána, ok snýr við þat aptr. En bóndi læsti Stýr í húsi, þartil Snorri kæmi, ok sæi sár hans, eptir því sem lög sögðu, ok fengu þeir hann eigi; voru þá send boð Snorra sem skjótast; hann kom, nefndi votta at sárum Stýrs, ok bjó um líkit; fer síðan þaðan, ok kemr at kveldi til bónda þess, er Snorri hèt, ok bjó í Hrossholti, sagðist hafa með lík at fara ok beiddist greiða; honum var veittr hann eptir faungum; líkit hafði dregizt nokkut ofaní Haffjarðará, ok vöknat til höfuðsins, var því kyndtr eldr upp at þurka þat. Snorri bað fólk at hafa kyrt um sik um nóttina. Bóndi átti dætr tvær, hèt

önnur Guðríðr, hún var sextán, en hin fjórtán vetra; þær hvíldu báðar í einni rekkju. Þá fólk var allt í svefni, ok góðr tími af nóttu, tók þeirra eldri svo mjök at óróast, at hún brauzt á hæl ok hnakka; hin spyr hvat veldr; hún segir, at hún hafi heyrt mikit sagt af Víga-Stýr, en aldrei sèt hann, meðan hann var á lífi, nú sè sèr á engu meiri fýsn, enn at sjá hann. Hin svarar, hún skuli eigi mæla soddan heimsku, at vilja sjá hann nú dauðan, er mörgum stóð mikill ótti af í lífinu, ok biðr hana hætta þessu tali. Litlu síðar vekr hún sama mál, ok tekr nú meir at ókyrrast enn fyrri, segist aldrei fá betra færi at sjá hann enn nú; hin ýngri vill hamla sem fyrr, en sú eldri ræðr meir; fara nú báðar á fætr, ræðr sú eldri ferðinni, en hin fer eptir. Stýrr var rifaðr í húð, en líkit hafði dregizt ofaní ána um daginn, ok var því sprett frá höfðinu; eldrinn var útbrunninn ok glæður eptir, var ljóst hit efra um húsit, en dymt hit neðra. Þær gánga hljóðliga inní eldahúsit, ok stilla nú hægt þángat sem Stýrr liggr, ok skygnast nú sem bezt at honum, ok var sú eldri nærgaungulari; sýnist þeim þá Stýrr rísa við í húðinni, ok kveða vísu[1]. Snorri varð varr við, at einhverr var á fótum, kippir fljótliga skóm á fætr sèr, ok gengr út til eldahússins, at forvitnast um, hvat þær hafist at; en þegar hún heyrir vísuna, bregðr henni svo við, at hún æpir hástöfum, ok hleypr í fáng Snorra; koma menn á fætr ok halda henni, er hún þá svo ær, at fjórir hafa fullt í fángi með hana; linnti hún aldrei af ópi ok umbrotum alla nóttina, þartil undir dag, þá

---

[1]) Þat var stirðt kveðin ok æði draugalig dróttkveðin visa, alls ólík þessari, sem menn hafa um hönd: horfinn er fagr farfi, o. s. frv., en þó var sama meining fyrst i henni, ok var þar nefndr litr, en eigi farfi; nefndi þar í blæjuheim eðr þvílikt, ok eigi býðr hann henni þari at kyssa sik, heldr segir, at hún muni innanskams byggja með sèr í moldbúaheimi, eðr þvilikt, ok þat var seinast í henni.

deyr hún. Snorri segir við bónda, at nú sè verr launaðr greiðinn enn hann vildi, ok kveðr þat eigi sína skuld, þó sèr hafi eigi hlýdt verit. Bóndi svarar at hann hafi enga skuld í, þótt svo illa hafi tiltekizt, heldr sèu þat ósköp dóttur sinnar. Snorri býst burt hit hraðasta, ok fer áleiðis með líkit, tekr þá at gjöra mikla snjódrífu á móti þeim með frosti; ok þá á daginn líðr, tekr líkit at fara illa á hestinum, ok snúast öfugt, gjörist þat þá svo þúngt, at þeir koma því eigi lengra enn at eyðihúsum nokkrum á melholti einu, ok þar bera þeir grjót at því ok dysja; fara þar eptir leið sína, ok er eigi annars getit enn þat gengi greiðt. Um vorit þá upp leysir snjó, fer Snorri eptir líkinu, ok er þá allt tíðindalaust í þeirri ferð; er þat jarðat at kyrkjunni undir Hrauni, er Stýrr hafði sjálfr gera látit; en nokkrum tímum þar eptir, þá kyrkjan brann, voru bein hans upptekin ok flutt at Helgafelli.

10. Nú frèttist víða víg Stýrs, ok þykir mörgum mikils um verðt, at Gestr, svo úngr maðr, er aldrei hafði fyrr víg vegit, skyldi hafa vogat soddan stórræði við slíkan ofsamann, er Stýrr var í lífinu, ok mörgum stóð ógn af, ok þótti þetta mjök hafa farit at málavöxtum. Nú er þat at segja frá Gesti, at þeir Þorsteinn skilja þar við ána, rennr Gestr suðr á leið til Borgarfjarðar, ok kemr at Mel; sá hèt Haldórr, er þar bjó, en kona hans var föðursystir Gests. Haldórr spyr, því svo viki við ferðum hans. Gestr greinir allt af vígi Stýrs, ok biðr hann liðsinnis. Haldórr bregðst stórliga reiðr við, ok skipar honum at dragast burt frá sínum augum hit skjótasta, ok eigi sè honum at vænta liðs hjá sèr, er svo mikit óhappaverk hafi unnit, at drepa Stýr, slíkan höfðíngja; en kona hans leggr beztu orð til við bónda sinn. Gestr verðr fár við, ok meinar hann muni þenkja sem hann talar, en þat var þó reyndar eigi; er Gesti fenginn hestr á laun,

ok nú þykir honum betrast hagr sinn, at hann er kominn á hestbak; ríðr nú þaðan á leið til Borgarfjarðar slíkt er hann má, ok hefir eigi marga náttstaði, áðr hann kemr suðr yfir ána; kemr hann síð um kveld at bæ Haldórs, ok drepr á dyr; þar kom húskarl út; Gestr biðr hann at kalla Þórdísi, konu Haldórs, á tal við sik, hún var systrúnga Gests; hún gengr út, ok kennir eigi Gest í fyrstu; Gestr segir henni, hvat hann á um at vera, ok í hvaða vandræðum hann sè staddr; hún segir honum skuli til reiðu sín hjálp, en hún sè uggandi, hversu bóndi sinn verði við, því hann hafi verit vinr Stýrs, en vili þó freista hvers hún fái við hann orkat; lætr Gest vera í útibúri um nóttina, svo enginn veit af, nema hún ok húskarlinn. Þórdís stendr snemma upp um morguninn áðr enn Haldórr, lætr hún allblítt at honum; hann mælir, at eitthvat muni undir þessu blíðlæti búa, ok muni hún vilja biðja sik einhvers; hún segir, at svo er, ok ef hann láti þessa bón eptir sèr, vili hún í öllu geðþægja honum sem hún getr; segir, at frændi sinn Gestr sè þar kominn, ok leiti hans liðsemdar, ok segir hann hafi vegit Stýr í hefnd eptir föður sinn. Haldórr verðr óðamála, ok segir, at ef hann fái fest hendr á Gesti, skuli hann eigi lífs frá sèr komast, er slíkt ódáðaverk hafi gjört, at drepa vin sinn ok mesta höfðíngja. Þar mátti gánga í kríngum innanveggja allt húsit, ok hèngu tjöld fyri sænginni; Gestr stendr á bak við tjaldit at höfði honum, ok heyrir alla þeirra viðræðu, ok kveðr þá vísu, þeirrar meiníngar, at hann væri búinn til at leika við hann sem Stýr, ok rjóða láðar kiðr hans í blóði; hestr hans stóð söðlaðr úti fyrir, hleypr hann strax á bak, ok ríðr at Gilsbakka til Illuga svarta[1], heilsar honum, ok

[1]) Um forfeðr Illuga svarta getr Landnáma í 1sta parts 12 kap. (þar er hann 4ði frá landnámsmanni), en eptir 2, 1 kap.

segir hverr maðr hann sè. Illugi spyr, hvat títt sè í ferðum hans. Gestr kvað vísu. Þá spurði Illugi hann, hversu mikinn áverka hann hefði veitt Stýr; þá kvað Gestr[1]:

Varat um sár en sáran
sák Víga-Stýr hníga
böndum þarf at binda
beit hjálmastóð þveita;
þegar[2] í brúnar beinum
báglunds Goða mági
undasæg í augu
allrauðan sák falla.

Biðr hann Illuga ásjár; tekr hann því eigi fjærri, en telr, at sèr sè svo mikil fjölskylda á hendi, at hann treystist varla at halda hann með slíkum mannfjölda, sem sèr sýnist viðþurfa, ok biðr hann fyrst at fara til Bæjar, ok finna Þorstein Gíslason. Fer nú Gestr þaðan ok til Þorsteins, kemr þar á áliðnum degi ok drepr á dyr; húskarl einn kemr til dyra; þann biðr Gestr at kalla Þorstein út. Þorsteinn kemr út, ok spyr Gest at heiti ok tíðindum. Gestr kvað vísu þess innihalds, at hann hafi vegit Stýr[3], ok biðr Gestr hann nú ásjár. Þorsteinn kveðr sèr stóran vanda á

---

er hann sá 3ði; dóttur hans nefnir 2, 4 kap., en son hans, Hermund, Kristindómss. í 11 kap., hèrum 1000; einninn getr Bandamannas. um Hermund ok hans andlát, en þar er hann nokkut gamall til at vera samtíða Gesti Þorkelssyni; líka Laxd. 78 kap. um hans afsprengi; um Illuga svarta getr Eyrb. 17 kap. fyrst 982, svo einn ok hinn sami mun þessi Illugi vera, en kannske (óvíst) hvort sami, sem Vatnsdæla telr vera kominn af Grimi landnámsmanni.

1) Eptir Eddu Síra Magnúsar Ólafssonar, ok sú hálfa eptirkomandi. 2) *eða* þá er. 3) Þetta er helmíngr af vísu, sem Gestr kvað þá, eðr við einhvern annann vina sinna í Borgarfirði, þá hann var at segja frá vígi Stýrs:

Gestr hefir geitis rastar
galdrs miðjúngi skjaldar
dundi djúpra benja
dögg röskligast höggvit.

þessu, þar svo margir ok miklir eptirmælendr sèu, ok íllt eitt muni hann hljóta af slíkum óhappamanni, ok er heldr enn eigi styggorðr. Gestr kveðr vísu, ok enn aðra; þorsteinn segir sèr sè enginn þokki á vísum hans. Gestr kvað enn; þorsteinn biðr hann hætta því, ok segir hann skuli þó vera hjá sèr náttlángt; um morguninn sendir hann Gest til Reykja, ok biðr Kleppjárn[1] at taka við honum; Kleppjárn telr þorsteini þat skyldara, ok hafi hann aldrei heitit at taka við nokkrum vandræðamönnum af honum. Verðr Gestr þar þá nótt, fer þaðan til þorsteins aptr, ok tekr hann þá vel við honum; var hann ýmist með Illuga, Kleppjárni eðr þorsteini, um vetrinn, þó lengstúm með þorsteini, ok höfðu þeir öruggan vara á sèr allan þann vetr; var hjá þorsteini sjaldan færra enn sextígi karla um vetrinn. Líðr nú at vordögum.

Maðr hèt Teitr, at illu einu kendr, ok var kallaðr Fjalla-Teitr, því hann lá á fjöllum úti, ok lifði því líkara, sem hann væri illdýri, enn hann væri maðr. Kleppjárn var þar sveitarhöfðíngi; hann hafði nýbreytni þá, at hann gjörði mannsöfnuð at ná Teiti, ok hafði hann í böndum, vissi enginn hvar til þat skyldi, því hann hafði áðr aldrei látit hafa hendr á honum, þótt hann væri þrátt umbeðinn.

Nú er at segja frá Snorra: hann býr málit á hendr Borgfirðíngum, en þeir hafa búit til liðs fyri fram, ef hann kæmi. Fer Snorri heiman með flokk manna, en gjörir áðr orð vinum sínum, at koma til liðs við sik, ok þá þeir eru samankomnir, ríða þeir allir suðr í Borgarfjörð; Borgfirðíngar höfðu njósn af ferðum hans, ok hafa liðsafnað fyrir öllum vöðum út til sjáfar, at verja þeim ána. Snorri kemr at ánni

[1]) hvort þessi er sami ok Landn. nefnir í 1sta parts 13 kap, tvila ek, nema hann hafi orðit æðigamall.

vestan fram við Haugsenda, hefir hann 8 hundruð manna[1], en Borgfirðíngar 12 hundruð[2]. Gestr kvað vísu um morguninn, áðr hann fer heiman[3]. Snorri ríðr at ánni, ok biðr þá selja fram vegandan. þeir svara, at nú hafi þeir svo viðbúizt, at honum muni eigi kostr, at draga Gest úr greipum sèr. Með Snorra eru taldir upp hverir helztir voru ofrkappsmenn, er mest áfýstu at berjast, svo ok af Borgfirðíngum, at við sjálft lá, at þeir mundu berjast yfir um ána; áttu þá margir góðir menn hlut í, at eigi skyldi svo mikill mannfjöldi berjast; riðu hvorutveggi fram í ána. En Snorri reið fram í eina eyri, sem í var miðri ánni, ok kvað þat lög, at tala þar máli sínu, sem maðr kæmist lengst at hættulausu, ok stefndi Gesti um víg Stýrs[4]; hrjóta þá margar vísur úr flokki Borgfirðínga til Snorra, einna mest frá Gesti[5]. Snorri kveðst eigi vilja gegna hákyrðum hans, ok sè eigi at undra, þó hann tali djarft úr flokki; snýr hann frá við svo búit, ok fer vestr leið sína.

Nú líðr at alþíngi. Stýrimaðr einn var þenna vetr í Reyðarfirði í Austfjörðum, nafn hans var Helgi[6], ætlaði hann til Noregs um sumarit; sá var góðr vin Kleppjárns; þeir Borgfirðíngar taka þau ráð, at senda honum Gest til utanferðar. þá voru höfðíngjaskipti orðin í Noregi, ok Eiríkr jarl Hákonarson kominn í stað Ólafs Tryggvasonar; í hans hirð var þorsteinn, son Síðuhalls[7], hann var vinr Kleppjárns. Kleppjárn

1) 4 hundruð segir Eyrb. 56 kap., þar var í ferð með honum Vermundr hinn mjófi, bróðir Stýrs, hann bjó þá í Vatnsfirði, þar var ok Steinþórr af Eyri, o. s. frv.; Eyrb. telr þar upp mestu virðingamenn, sem voru með Snorra ok Borgfirðingum. 2) meir enn 5 hundrud segir Eyrb., ok er þat trúligra enn hinn mannfjöldinn. 3) ef eigi tvær. 4) Þessi sömu mál ónýtti Þorsteinn Gislason fyri Snorra goða um sumarit á alþingi, segir Eyrb. 56 kap. 5) voru tvær at visu teiknaðar i sögunni, ok i einni þeirra kallar hann Snorra blauðan, ok sá rauðskeggjaði goði hafi riðit vestan með hött síðan. 6) m. m. 7) m. m.

sendir honum orð sín at taka við Gesti, ok lætr þar með fylgja hríng til menja, ef hann vill eigi trúa orðum Gests; leggr þorsteinn ok Kleppjárn honum fè til farníngar, en þórdís var eigi ör þrifráða, gefr hún honum gullhríng ok þrjár merkr silfrs; skal Fjalla-Teitr fylgja honum austr, því honum voru allar leiðir kunnar; fara þeir austr fjöll um alþíngistíma fyrir ofan allar sveitir, verðr því engi maðr þeirra varr. Kemr Gestr þá til Helga stýrimanns, ok tjáir honum sitt eyrindi ok orð Kleppjárns; tekr hann við honum vel, ok á Teitr með at fara; býðr Helgi Gesti mestan varnað á, at láta nokkurn af skipverjum sínum verða varan við, hverr maðr hann sè, því þar sèu nokkrir vinir Stýrs á skipinu; lofar Gestr fögru um þat, ok svo gengr nokkra daga; en þat efndist þó eigi betr enn svo, at einn dag, er Gestr sat á búlka, kvað hann vísu, hvaraf skilja mátti, at hann var vegandi Stýrs; en þá skipsmenn vissu þat, hlupu þeir upp, ok ætluðu at honum, svo Helgi varð at gefa þeim fè til at leggja ekki til hans íllt; var síðan allt kyrt í ferðum þeirra; leggja þeir í haf, ok gefr vel byri, ok koma til Noregs. Jarlinn var þá staddr í þrándheimi[1], ok þorsteinn þar með honum; lætr Helgi Gest aldrei við sik skilja, fer hit snarasta á fund þorsteins, ok færir honum Gest með orðum Kleppjárns; þorsteinn tekr því seinliga, fyrr enn hann sèr jarðteiknirnar, segist þó eigi voga, at láta hann þar lengi vera, vegna vina Stýrs. Skilst nú Helgi við Gest, ok afsalar sèr, en Teitr fer með Helga, ok er hann úr sögunni. Gestr er um vetrinn með þorsteini; en um vorit sendir þorsteinn hann til einnrar ríkrar ekkju, er bjó norðr í Fjörðum, at menn yrðu hans síðr varir. Eigi hreifir Snorri þessu máli á alþíngi. Nú vita menn

[1]) m. m.

óglöggt, hvat or Gesti er orðit fyrst í bráð, var því eigi samsumars utanfarit.

Um vetrinn kemr þat upp, at Gestr muni af landi farinn, eykst sá rómr svó mjök, at menn hafa þat fyri satt. Þorsteini Stýrssyni þykir sèr skyldast at gjöra hefndina; fer hann um sumarit til Noregs, ok hefir vel fè með sèr, ok gjörir sèr menn vinholla með því um vetrinn; fær hann þá uppspurt, at Gestr er með ekkjunni; um vorit fer hann norðr þángat, ok eru þeir saman seytján á skipi; svo var tilfarit, at ekkjan bjó at fjarðarbotni. Einn dag, er Gestr var róinn á sæ at togfiski, koma þeir Þorsteinn seint um kveld í fjörð þann, er ekkjan bjó í, ok voru allu ókunnir leiðinni, róa þeir skipinu á sker, svo hvolfir undir þeim, en komast þó allir á kjöl. Gestr var við annann mann á bát, ok sèr þetta, róa þar at, sem menninnir eru á floti, spyr Gestr, ef þeir vili björg hafa; þeir játa því fegnir. Gestr segist því ráða vilja, hvat marga eðr hverja hann taki í hvert sinn á bat sinn at flytja til lands; tekr Gestr eigi fleiri enn tvo um sinn, ok ætlar svo til, at Þorsteinn tekr hann seinast, sitr hann í öðrum stafni, en Gestr í öðrum, ok hafði yfir sèr loðkápu; þekkir þá hvorr annann. Þorsteinn mælti[1], at nú hafi þeir svo fundizt, at hann hefði kosit at öðruvís hefði atborit. Gestr mælti: í öndverðu þekta ek þik, ok því vilda ek ráða, hvat mörgum yðar ek bjargaði í hvert sinn; vona ek þú munir eigi launa mèr því lífgjöfina at sækja eptir lífi mínu. Geta þeir nú eigi framkomit hefndinni um kveldit, ok þurfa greiða eptir þenna hrakníng; veitir ekkjan þeim hann, ok eru þar allir ásamt þá nótt; en þá hún veit þeirra eyrindi, átelr hún þá stórum, at þeir leiti eptir lífi manns síns fyri litlar sakir, ok

---

1) m. m. 2) m. m.

launi þanninn illu gott; vogar þó eigi at láta Gest vera þar um nóttina, ok sendir hann einum ríkum bónda, sem Eiríkr hèt, uppá Raumaríki, hersir at nafnbótum[1]; þángat fer Gestr. En þeir þorsteinn ok hans fèlagar standa upp um morguninn ok leita Gests, en finna hvergi; segir ekkjan, at eigi muni þeim auðit at hitta hann þat sinn. Fara þeir við svo búit heim aptr, ok þykir ferð sín orðin allframkvæmdarlítil. Nokkrum tíma síðar frèttir þorsteinn hvar Gestr er niðrkominn, fer nú þángat, ok kemr þar einn morgun snemmindis; bar þá svo við, at Gestr var genginn til vatns at þvo sèr, stóð sínn hvorumeginn. Gesti brá eigi vara fyri þorsteini; en þorsteinn höggr með öxi, sem hann huldi undir skikkju sinni, til Gests, ok stefnir á hann miðjan, bar höggit útaf síðunni, skeindist Gestr lítit, ok var þat svöðusár. Bóndi vill þegar taka þorstein, ok láta drepa; Gestr biðr hann gjöri þat eigi, segír, at þorsteinn þykist eiga hefnda at leita: ok mun mèr þetta fyrir engu standa álengdar; ok fyri bænir Gests verðr þat, at þorsteinn er laus látinn, ok þykir honum nú þessi ferð hálfu ófrægiligri enn hin fyrri, verðr þó svo búnu at una, ok fer heim. Gestr sèr, at hann getr eigi viðhaldizt í Noregi fyrir umsátrum þorsteins, ok fer at vori komanda suðr í Miklagarð, ok gengr þar á mála með Væríngjum, ætlar sik þar heldr óhultari verða. þorsteini kemr njósn af þessu, ok fer sama sumar út til Miklagarðs. En þat er siðr Væríngja ok Norðmanna, at vera at leikum á daga, ok gángast at fángbrögðum; þorsteinn gefr sik í flokk þeirra; en Gestr þekkir hann nú eigi, bregðr ok eigi vara fyrir honum; gengr þorsteinn til fángs við hann, ok í því bregðr hann saxi undan skikkju sinni, ok mundar til

---

[1]) m. m.

höfuðs á Gesti, en svo tókst til, at á öxlina kom, ok var þat ógeigvænligt sár; sannast hèr þat fornkveðna: at eigi má ófeigum bella, ok skeindist Gestr lítit. Væríngjar hlaupa upp þegar, ok er eigi annars kostr, enn þorsteinn sè þar strax drepinn, því þat voru lög hjá þeim, ef annar veitti öðrum bana tilræði, þá þeir voru at leikfángi, skyldi sá fyrigjöra lífinu. Gestr fellir bæn at Væríngjum, ok gefr þeim hálft fè sitt þorsteini til lausnar, segir þeim allan málavöxt, ok biðr þorsteini griða; eiga þar ok nokkrir menn hlut at, at honum sè líf gefit, ok gjörðu þat þeir menn, er tæðu máli þorsteins at vilja Gests, er vissu ættarferð þorsteins. Nú er þorsteinn laus-gefinn, biðr Gestr hann nú at láta af at sitja um líf (sitt) optar, þar hann megi sjá, at honum verðr eigi auðit at koma sèr af dögum, ok fari þat mjök at málavöxtum, því hann hafi eigi sakalaust vegit Stýr; þorsteinn heitir því, en biðr Gest aldrei at vitja á Norðrlönd aptr; ok því heitir Gestr, ok efndi. Er nú þorsteinn orðinn fèlaus eptir allt þetta, ok gefr Gestr honum fè til ferðar, ok skiljast nú sáttir. Fer þorsteinn nú til Noregs aptr, ok er þar næsta vetr eptir; fer um sumarit til Íslands, ok þykir frændum hans ferðin næsta gæfulítil orðit hafa; en Gestr kemr aldrei á Norðrlönd síðan, þótti þar dugandi drengr, er hann var, ok er eigi getit hvort nokkut manna sè frá honum komit[1]. þorsteinn sezt at búi undir Hrauni eptir föður sinn, ok bjó þar alla æfi upp þaðan. Nú eru þrír vetr liðnir, síðan þorsteinn fór utan í föðurhefndirnar, ok eru þeir Gestr úr sögunni.

Nú þykir Snorra halla máli at sèr, þar þorsteinn bar eigi auðnu til at koma fram hefnðunum, huxar nú

[1]) sýnist þá Gestr at hafa verit í herförum undir Basilió ok Konstantinó.

um, hvörsu hann skuli með hægasta móti ok minstri mannhættu vinna á Borgfirðíngum, frændum Gests, er hónum höfðu undanskotit; taka þeir nú til at verða nokkru óvarari um sik enn áðr, síðan svo mjök frálíðr falli Stýrs. Svo hafði tilborit, at þrjú skip höfðu komit af hafi um sumarit suðr á Eyrum, var eitt þeirra lekt ok öldúngis ófærandi á sjó; þat seldu kaupmenn þorsteini Gíslasyni, ok þessa varð Snorri víss; þá kaupstefna er sem óðust, sendir hann frá Sælíngsdalstúngu tvo menn á Eyrar suðr, at njósna um heimaveru þorsteins ok Borgfirðínga; annar þeirra var Kolskeggr[1] á Lambastöðum[2], ok biðr þá gjöra sem minnst vart við sik eðr sitt eyrindi, nè leggja þar íllt til nokkurs manns, en taka sem grandgæfiligast eptir öllu því, sem þeir heyra talat at þessum mönnum lútandi. þeir gjöra svo, eru þar tvær nætr, ok gjöra lítil kaup, ríða hit skjótasta heim vestr at Sælíngsdalstúngu, ok segja Snorra, at þorsteinn Gíslason hafi keypt hit ófæra skipit, ok ætli at draga þat í sundr á miðvikudag, en sveitarmenn skuli flytja viðinn heim á mánadaginn næsta þar eptir, innan þriggja vikna, ok sè þorsteinn eigi margmennr heima um þessa daga. Snorri sendir orð vinum sínum ok mágum út í Eyrarsveit[3], at þeir skulu hittast þann dag, er sex vikur eru til vetrar, en Snórri sendir at tvímánuði sumars, ok skuli þeir hittast í Lækjarskógi í Dölum[4].

11. Snorri tekr dagverð at miðjum morgni, ok standa hestar þeirra söðlaðir; hann átti þrjá sonu, hèt einn Haldórr, annar Guðlaugr, var hann þeirra elstr,

---

[1]) m. m. [2]) ellegar þat hefir verit Lambi, eðr (einhverr) Lambason úr Laxárdal; því þó Lambi væri hálfbróðir Ólafs þá, þá var hann 1006 með at drepa Bolla, ok hèrumbil 1018 at hefna hans á Hèlga Harðbeinssyni, Laxd. 53 ok 59 kap., ok getr þat því staðizt aldrsins vegna; nema þat hafi verit Eyjólfr, sonr Snorra, er bjó á Lambastöðum á Mýrum. [3]) sem þar eru á nafn nefndir, eigi færri enn 4, ok eigi fleiri enn 6. [4]) m. m.

ok þórðr sá yngsti, var hann þá 9 vetra, ok skal hann með fara. Guðlaugr var jafnan heima, ok lèt Snorri hann sjálfráðan hvat hann starfa vildi, var hann eigi heldr mikit laginn til vinnu; hann var siðprúðr ok bænrækinn, ok hèlt vel trú sína, átti ok ekki íllt við fólk, var hann því eigi lyndislíkr hinum bræðrum sínum, en þeir voru glensmiklir, ok köstuðu fyri þetta spotti at honum. Snorri gengr til kyrkju, er hann hafði þar gjöra látit, skein þá sól úr austri; ok er hann gengr inn, mætir hann Guðlaugi, ætlar hann þá út at gánga, ok hefir á bænum verit eptir venju sinni. Snorri mælir, hvort hann vili eigi fara með sèr at hefna móðurföður síns. Guðlaugr svarar, at hann ætli svo muni vel mannat, at eigi þurfi síns liðs við, ok hafi hann eigi skipt sèr af vígaferlum híngattil, megi faðir sinn ráða því, en helzt vili hann þó heima sitja. Snorri mælti: ek hefi eigi kallat at þèr um verk þín híngattil, ok skaltu þeim sjálfr ráða upp frá þessu, ok er mèr vel um gefit þú hvergi farir, ok rækir þína siðu. Svo hefir Snorri frásagt, at hann hafi aldrei slíka manns ásjónu sèt, sem Guðlaugs, sonar síns, er hann mætti honum í kyrkjunni, hafi hann þá verit rauðr sem blóð at sjá í andliti, ok hafi sèr svo sem nokkr ógn af staðit. Guðlaugr fór nokkrum vetrum síðar til Englands, gaf faðir hans honum fè með sèr, gekk hann þar í múnkaklaustr, færði siðugan lifnað, ok þótti hinn bezti klerkr allt til dauðadags. Snorri ríðr nú heiman ok fylgdarmenn hans[1], hittust hann ok hinir þar í Dölum, sem ráð var fyrigjört, ríða síðan allir saman suðr Bröttubrekku, var þetta á laugardegi; hallar þá mjök at kvöldi er þeir koma suðr af fjallinu, ríða þeir þá fyrir ofan bæi;

[1]) Eyrb. segir í 56 kap. þeir hafi alls verit 20 ok telr upp 4 þá helztu, þó er ólíkligt þeir hafi svo margir verit í þessari fluguferð.

þá mælti Snorri: eigi þykkir mèr at, þó nu kæmi þoka; ríða síðan suðr Hvítársíðu, þá var þoka yfir hèraðinu, ok vindr af hafi, ok úrvið, láta þeir nú taka niðr hesta sina, ok ægja, ríða þareptir nokkra stund; tekr þá til at elda aptr, ok heiða upp þokuna, ok sá tíðindi yfir hèraðit. Eigi var fleira manna heima á bæ þorsteins, enn synir hans, piltr einn, ok kona sú, er embættir fè. þareptir ríða þeir yfir ána; ok þá þeir komu svo nærri, at sjá mætti gripi við bæ þorsteins, spyr Snorri, hvort þeir sjái fleiri enn þrjá hesta þar heima við túnit, svo sem sèr sýnist; þeir segjast eigi fleiri sjá. þá mælti Snorri, at eigi mundu þeir mannmargir heima vera. Ríða nú at bænum, ok þá er sól nýrunnin upp, ok sjá þeir slóðina eptir sèr, er þeir gjört höfðu um nóttina yfir ána. þeir Snorri stíga af hestum sínum á bak við húsin, segir hann einum, er með honum var[1], hann skuli fara uppá skálavegginn hægramegin, því þar hefir hann spurt at þorsteinn liggr undir, ok segir honum at reita þekjuna, ok slíta grasit seint, ok taka fast ok jafnt í, líka sem hestr biti; maðrinn gjörir svo. þorsteinn vaknar, ok kallar til smalapiltsins, ok segir hann muni ofskamt hafa rekit hestana frá í gærkvöldi, ok skuli hann fara at reka þá; hann anzar at eins ok sofnar aptr. Enn heyrir þorsteinn at eitthvat nagar þekjuna, kallar aptr til piltsins, en hann sofnar aptr; fer þá þorsteinn á fætr út at forvitnast um þetta, ok er í línbrókum einum; ok þá hann kemr út úr dyrunum, litast hann um, ok verðr við ekkert varr, ok vill nú skygnast víðar at í kríngum húsin; í því bili hlaupa þeir Snorri at honum, er þar ekki at sökum spurt, ok engu orði kemr hann fyri sik; leggja þeir át honum fjórir í einu, kemr eitt lagit í kviðinn, ok fellr hann strax[2], draga

[1]) minnir mik sá hèti Þórðr. [2]) Eyrb. kap. 56 setr víg Þorsteins um haustit 1008 kemr þat af því til, at hún hleypr yfir hefnda eptirsókn Þorsteins við Gest ok þau árin.

þeir hann nú upp at veggnum, ok bíða þar úti hljóðliga; lengist þorvarði[1] at faðir hans kemr eigi inn, ok gengr út, kemr hann engri vörn fyri sik, ok fer á sömu leið[2]. Annar son þorsteins var ok heima, hèt hann Sveinn[3] ok var níu vetra gamall; lengist honum föður síns inn í bæinn, ok heyrir eitthvat hark úti, veit ok eigi hvat um er, kemr hann út í dyrnar, ok er honum svefn í augum. Snorri mælti við son sinn þórð kausa[4]: sèr köttrinn músina? úngr skal at úngum vega. þórðr[5] fóstri hans mælti: þat skal aldrei ske, at svo úngr sveinn sè veginn, ok skulum við undir eins falla báðir. Snorri segir hann skuli ráða, þó sèr sè grunr, at sá sveinn muni einhversstaðar höggva í ætt sína. Bera þeir nú líkin saman í eina kös þar í túninu, skiljast við svo búit, ok hraða sèr í burtu, var þetta á lítilli stundu gjört; lýsa víginu á næsta bæ; ríða nú upp með ánni, ok yfir í Hvítársíðu ok upp frá bæjum, stíga þar af hestum sínum ok taka atfáng, ok leggjast niðr, ok hvíla sik ok hesta sína. Fylgdarmenn Snorra telja þetta óvitrlegt, at leggjast niðr í grashögum skamt frá bæjum; en Snorri segir eigi muni tilsaka; liggja þeir þar fram yfir miðdegi, ok finna smalamann einn; Snorri biðr hann bera kveðju Borgfirðíngum frá Snorra goða, ok segja þeir hafi nú gjört sèr greiðara fyrir enn næst; ríða síðan vestr fjöll, ok hvorr heim til sín, ok þykkir förin vel hafa gengit.

Nú er at segja hvat gjörist á bæ þorsteins: kona hans kemr heim úr seli sama drottinsdags morgun, lítilli stundu eptir þat þeir Snorri eru burtriðnir, ok

---

1) mik minnir hann hèti svo; Eyrb. nefnir Gunnar son þorsteins, ok mun þat rèttara. 2) man ek eigi at þeir vægi þar fleiri menn. 3) m. m. 4) þórðr kausi er hèr látinn vera nógu úngr, því eptir Eyrb. kap. 55 sendi Snorri faðir hans hann út til Fróðár 1001, at setja dyradóm yfir aptrgaungunum. 5) mun hafa verit þórðr köttr, sbr. Laxd. kap. 63.

ætlar at færa þeim feðgum hreinar skirtur; tvær dætur hennar úngar eru með henni; ríða þær nú at túngarðinum, ok stíga þar af baki, ok biðr hún þær at bíða sín þar. Hún gengr heim at bænum ok sèr þar vegs ummerki; ok þá hún hefir litit á hverir liggja vegnir, gengr hún burt, ok stígr strax á hest, ok getr eigi um fyrir þeim hvat hún hafi heima sèt. Þær spyrja, hvat valdi hún komi svo skjótt aptr. Hún kveðr eyrindit eigi hafa krafit lengri tafar; ríðr nú sem skjótast til næsta bæjar, sem heitir Kelda[1], ok hittir þar klerk einn, frænda sinn, sem Eldjarn[2] hèt, ok segir honum tíðindin; bregðr hann við strax, ok tekr menn með sèr at sjá líkin, sendir boð á næstu bæi, ok flýgr nú þegar þessi viðburðr um Borgarfjörð, ok er at vörmu spori farit at leita Snorra, ok þeysast vestr um Hvítársíðu, þann veg er líkast þótti hann riðit hefði, ok hafa þeir eigi af honum. Fèll þeim nú allilla, at Snorri gekk svo úr greipum þeim, ok þá enn fremr, er þeir frèttu hann hefði legit þar í búfjárhögum um daginn, ok virðist þeim nú Snorri helzt til slægr orðit hafa; settu þeir þá í lög sín, at hverr maðr skyldi vera skyldr at leita strax um landeign sína at vegandа, ef víg væri vakit innan hèraðs. Líðr nú vetrinn eptirkomandi ok fram at alþíngi, ok búa þeir eptirmálin Borgfirðíngar, ok oru eigi þeir aldauða, er fylgdu at þeim málum. Eru nú þessi mál uppi höfð á alþíngi, ok heldr Snorri svari vegna manna sinna, ok er hann ljúfr at svara fèbótum; gengr sá dómr á málit, at víg Stýrs ok Þorsteins skuli fallast í faðma, en synir Þorsteins bættir þrem hundruðum silfrs[3], ok hèlt Snorri uppi fèbótum fyri menn sína; skulu fjórir þeirra[4] fara af landi burt, ok vera fyrir utan þrjá vetr; greiðir Snorri bætrnar á sama þíngi, en

[1]) minnir mik heldr enn Klúka eðr Lækr. [2]) m. m. [3]) m. m. [4]) m. m.

hinir fara samsumars utan, er til voru dæmdir. Lyktar nú þannin þessum málum at sinni.

## *Af Heiðarvígum*[1].

12. Guðmundr hèt maðr, hann bjó í Ásbjarnarnesi á Vatnsnesi; Guðmundr hafði verit hinn mesti garpr ok röskvasti drengr, en var kominn í elli þá þessi saga gjörðist; hann átti þrjá sonu: Hallr hèt sá elzti, Barði[2] annar, þriði Steingrímr. Hallr var í kaupferðum jafnan, spakr at viti, ok hinn bezti drengr; svo bar við þá hèr var komit sögunni, at hann var staddr í Noregi, sem optar, næsta sumar eptir fall Þorsteins. Í Björgvin[3] voru fyri þeir Hárekssynir, ok spyrja þar til Kolskeggs, sem fyrr er getit at fylgdi Snorra at drápi Þorsteins; þá Hárekssynir urðu hans varir í bænum, leituðu þeir hans, at þeir gæti hefnt á honum fyri víg Þorsteins; hann var ok[4] mágr Snorra. Kolskeggr leitar undan; en þeir ná fjárhluta hans, en honum eigi; þetta var um vorit, er hann nú fèlaus ok farþurfi, falar alstaðar far, en fær hvergi, hittir Hall, ok biðr liðs, kvartar um hrakníng sinn ok bágendi; Hallr gefr honum skip sitt ok nokkurn kaupeyri, svo hann kemst undan, ok fer til Englands[5]. Hallr leitar sèr nú fars til Íslands, ok fær hvergi, fer hann út til Þrándheims, ok finnr þar mann, er Þorgils hèt, þeir höfðu átt fèlag saman fyrri, en

---

1) *Þat sem nú er eptir ágripsins er fyrri partr Heiðarvíga-sögu.* Guðmundr var Sölmundarson, sá Sölmundr var Eylífsson, ok bjó í Ásbjarnarnesi fyrir son sinn Guðmund; hans dóttir var Þuríðr gyðja, systir Guðmundar; hana átti Þorsteinn Ingimundarson á Hofi í Vatnsdal; þeirra son Ingólfr fagri; hans dóttir Jórunn, er átti Ásgeirr æðikollr á Ásgeirsá, faðir Kálfs ok Hrefnu, er Kjartan Ólafsson átti, sbr. Vatnd. ok Landn. 3 p. 4, 6 kap. Laxd. kap. 31 segir, at Guðmundr eignaðist Þuríði, dóttur Ólafs pá; þeirra synir: Hallr, Barði, Steinn ok Steingrímr, en dætr Óluf ok Guðrún; Þuríðr var skapstór ok skörúngr mikill, sem í þessari sögu má síðar sjá. 2) hann er kallaðr Vígabarði Landn. 3, 6, ok eins í Vatnsdæla sögu. 3) m. m. 4) m. m. 5) m. m.

höfðu þá skillit; Hallr biðr hann fars; hinn tekr því tregliga; Hallr mælti, at hann vænti bezt til hans hjálpar, því þeir hefðu mælt þat fyrrum, þá þeir voru í fèlagi saman, at hverugir skyldi hendr við öðrum begja, ef annar þyrfti hins liðs í nauðsyn. Þorgils lætr þá tilleiðast at hann fái farit, þó eigi með öðrum kosti enn hann kaupi skipit hálft af sèr, ok þetta gjörir Hallr. Hárekssynir spyrja, at Hallr hefir undanskotit Kolskeggi, ok sè skipráðinn hjá Þorgilsi, sjá þeir at þeir hafa mist mannsins, ok snúast at Halli. Verða þeir Hallr síðbúnir; svo skjótt sem byr rann á, leggja þeir út undir ey þá í Þrándheimi, er Fólskn heitir, ok liggja þar nokkurar nætr fyri byr. Bóndi einn lítill bjó í eyjunni, hann var vitlítill ok vesalmenni, hann átti þar allgóðan skóg; skipverjar þeirra Þorgils fóru þángat, ok hjuggu sèr efnivið; en bónda líkaði illa, ok knurraði um. Þeir Hárekssynir fá njósn af, at þeir Hallr liggja undir eyjunni, taka sèr nú lítinn bát, ok róa þángat átta saman frá skipi sínu um nótt upp at eynni annarsvegar, tala við bónda, ok spyrja, hversu spakir kaupmenn sèu, eðr hvort stýrimaðr sè á skipi jafnan; hann segir þeim allt af lètta, at þeir sèu óspakir, ok gjöri sèr miklar skemdir á skógi sínum, en Hallr banni þeim, því sè sèr bezt til hans þokkat. Þeir láta sem þeir egi leyndarmál við Hall at tala, slá til kaups við bónda, ok gefa honum hálfa mörk silfrs, ef hann geti komit Halli á sinn fund, svo eigi sèu aðrir viðstaddir. Bónda grunar, at hèr muni prettir undirbúa, en þykkir þó fagrt fè, tekr við, ok lofar þessu; ferþareptir til Halls, ok hrósar góðmennsku (hans), er hann banni at spilla skógi sínum, vill hann nú launa honum með því, at gefa honum lof til at höggva sem honum líkar, þar beztr er skógrinn, ok skuli hann koma með sèr. Hallr gegnir þessu fáliga í fyrstunni, leiðist þó til við fagrmæli bónda, ok

fylgist með honum í rjóðr eitt þar beztr var skógr-inn; eigi höfðu þeir þar lengi staðit, áðr bóndi gengr frá Halli, skilr hann þar einan eptir, ok læzt nokkut hafa eyrindi. En þá bóndi er burtu, hlaupa þeir Hárekssynir allir saman úr launsátrinu at Halla, ok vega þar strax at honum, svo þar skipti engum orðum, ok engri vörn kemr hann fyri sik, vega þeir hann þar, hylja hræ hans, ok róa þareptir í skyndíngu burt. Skipverjum Halls þykir seinka aptrkvomu hans, spyrja bónda, hvar hann hafi skilizt við hann; en bóndi lætr sem hann hafi gengit frá sèr í skóginum; trúa þeir honum illa, taka hann ok kúga til sagna, svo hann verðr at láta hit sanna uppi; vísar hann þeim hvar hann gekk seinast frá honum, finna þeir Hall þar dauðan ok dysja hann, en festa bónda þar jafnskjótt upp. Hárekssynir þykkjast nú nokkru hafa á veg komit um hefndirnar, fara sem skjótast suðr með Noreg ok allt til Danmerkr ok at áliðnu sumri brjóta þeir skip sitt í spón við Jótlands síðu, svo enginn afkomst.

13. Þorgils sèr at torsókt muni at leita vegandanna, tekr fjárhlut Halls allan ok hirðir, ok lætr í haf þá byr gefr; fá þeir um sumarit mótviðri stór, ok eiga harða ok lánga útivist; um vetrnætr taka þeir höfn í Austfjörðum í Vopnafirði, ok vistar Þorgils háseta sína þar í kríngum sik um vetrinn, ok leggr ríkt undir við þá at leyna dauða Halls; hann var maðr spakr ok hægferðugr; um sumarit fer hann til þíngs, ok hefr með sèr fè Halls, hafði þá enginn spurt þessi tíðindi. Guðmundr faðir Halls var á þíngi. Þegar líðr at þínglokum gengr Þorgils einn dag til lögbergis, ok hefr þar upp alla sögu um víg Halls, en hásetar hans sanna með honum, hefr hann þar fè hans, ok vill afhenda. Þessi fregn fær Guðmundi svo mikils harms, at hann gengr þegar til búðar sinnar ok leggst, en Barði er fyri svörum; spyr hann Þorgils, því hann

hafi leynt þessu svo lengi. Þorgils kvað sèr sýnast þetta mál til nógra vandræða horfa, þó eigi hefði hann þess fyrr getit, þar slíkir menn ættu hlut at, þarmeð hefði hann viljat bíða, þartil bærist sönn afspurn um þessi tíðindi af öðrum mönnum. Barði kvað hann gjört hafa vitrliga: ok hefr þú haft vel ok drengiliga úr þessum málum, býðr honum at eiga fè Halls, sem hann meðferðis hafi; en Þorgils neitar þverliga, ok vill ekkert af hafa, segir, at svo kunni falla, at þeir þurfi sjálfir fjár síns um þat þetta mál sè til lykta; Barði vill hann haldi þá hálfu, ok þat verðr af. Þá Guðmundr kemr heim af þíngi, spyr Þuríðr, kona hans, hvat tíðinda sè af þíngi; hann andæpti mæðiliga, ok kvað vísu um fráfall sonar þeirra; hún anzar með annari; leggst þessi harmr svo mjök á Guðmund, at hann lifir eigi lengr enn mánuð. Um haustit ber svo við einhverju sinni, at Barði sezt í sæti þat, sem Hallr var vanr í at sitja, þá hann var heima, ok sat hann þá þeirra bræðra efstr; móðir hans kemr inn, ok þá hún sèr þat, rekr hún honum gyldan kinnhest, ok skipar honum at skreiðast burt úr sætinu sem bráðast, ok vera eigi svo djarfan at setjast í sæti Halls, meðan hans sè óhefnt; Barði segir svo skuli vera. Um haustit frètta menn nú allstaðar at þessi tíðindi um víg Halls, einnin um fráfall Hárekssona, þykkir nú mörgum vandast við þat málit. Þorgils seldi skipit hásetum sínum, ok lètti kaupferðum, tók sèr bú í Borgarfirði, ok sættu Gíslúngar nokkut úfa við honum, hefr hann þat til tals við þá, ok kveðr þeir eigi sik einskis at kunna; verðr at því lítit mark at svo stöddu.

Nú er þar til máls at taka, at Barði hugsar um eptirmælit. Þórarinn[1] hèt maðr, spakr at viti ok fram-

[1]) Hans foreldri sjá í Landn. 3, 5; systir hans, Þórdísi Þorvaldsdóttur, átti Haldórr son Snorra goða, ok er því eigi furða, þótt Snorri hafi veitt þeim Víðdælum at Heiðarvígun-

sýnn, er bjó á Lækjamóti í Víðidal, hann var fóstri Barða. Nú líðr fram at alþíngi sumarit eptir. Um leið Barði ríðr á þíng, finnr hann Þórarinn, fóstra sinn, at máli, ok spyr hann nú hversu reisa skuli málit. Þórarinn mælti: þèr eigið um mikinn vanda at mæla, ok þarf hèr þolinmæðis við, þvíat jafnan eru margir at frændsemi, ræðr honum at biðja Hárek bóta fyri sonu sína á næsta alþíngi, ok þó hann fái engar bætr, megi hann eigi láta sèr leiðast, ef hann vili sínum ráðum at hlýta, ok muni allir þetta vel virða. Barði hefr upp þessa bótabeiðslu á þíngi. Hárekr var engi orðamaðr, hann hafði þá brugðit búi ok afsalat fè sitt bróður sínum Kleppjárni; svarar hann því, at hann hafi engi fjárforræði, ok geti því engar bætr goldit; vísar hann því máli til frænda sinna, ok fær Barði ekki frekara svar at því sinni, ok fer við svo búit heim. Annat sumar leitar Barði enn ráða til Þórarins; svarar hann, at á sömu leið skuli atfara sem hit fyrra sumarit, kveðr hèr þurfi þolinmæði við at hafa, ok muni hit þriðja sumarit verða vissara hvar þeir skuli atgáng eiga, ef eptir hugboði sínu fer, en nú sèu margir jafnkomnir at frændsemi. Barði gjörir svo, hefr upp enn þetta mál áðr þíngi slítr, ok talar á þessa lund: mönnum mun kunnigt, at vèr

---

um. En at sá Þórarinn spaki, Laxdæla-goði, sem Bandamannasaga umgetr, sè sami ok þesssi, sýnist enganveginn geta staðizt, hvorki vegna aldrs, því hann verðr ofgamall, ef þessi ok sá er hinn sami, nè ættar; þar er hann sagðr Ospaksson, Höskuldssonar, Kollssonar, en móðir hans Þorgerðr, dóttir Egils Skallagrimssonar, sem eigi kemst heim við Laxdælasögu, því Höskuldr átti aungan Ospak fyri son, heldr Olaf pá, ok kemst þat þá heim, nema í því, at Laxd. nefnir engan af sonum Olafs með Þórarins nafni, ok eigi annann af hans vandamönnum, enn. Þórarinn, son Bárðar Höskuldssonar, ok kann þat at svo miklu leiti at komast heim, svo ok, at hann er látinn þar vera samtíða Hermundi Illugasyni ok Gellir, nema hvat ættartalan er órètt, svo ok at hann kallast Laxdæla-goði, ok því er undarligt at Bandamannasaga lætr hann vera í Víðidal eðr Húnavatnsþingi.

egum ofmikil vandræði at vera, þar nú er sannspurt, at Hallr bróðir minn er lífi minnr, beiddumst vèr bóta af Háreki, föður vegandanna, hèr í fyrra sumar, ok var oss engi úrslit veitt, ok mun því flestum virðast, at vèr berum skarðan hlut fyrir yðr; nú ítrekum vèr sömu beiðni, ef þèr vitið hverju nú skal heldr svara. Háreks var ekki við kostr, ok stóð honum elli, en hverr hinna, sem á þíngi voru, stúngu höfðum hverr at öðrum, ok fer allt á sömu leið sem fyrra sumarit; en allr þíngheimrinn lofaði hversu spakliga var at málinu farit. Gísli[1] hèt maðr, son Þorsteins[2], hann var í kaupferðum laungum, ofláti mikill ok óvarr í orðum; þetta haust kemr hann út, fer heim í Borgarfjörð til frænda sinna, ok frèttir af þessum málum. Þriðja sumar, áðr Barði fer á þíng, ríðr hann heim at Lækjamóti, ok spyr Þórarinn, hversu nú skuli at fara. Þórarinn mælti, at nú yrði hann enn at biðja bóta sem fyrr, skyldi hann eigi optar ráða honum til þess; sagði hann nú vera þann mann kominn, sem hann hefði eptir beðit, þat var Gísli: spyrst mèr svá frá Gísla, at hann er bráðskeyttr til máls at taka, frígjarn[3] ok of kapp[4], segir mèr svo hugr um, at hann muni einhverju því svara, at auðgengara verði at málinu eptir, enn verit hefir. Barði kvað sèr þykkja mikit fyrir at biðja þá enn bóta, en kvað þat mundi þó verða vera, því hans ráð mundu sèr til bezta koma. Narfi hèt maðr, frændi Gíslúnga, hann var mesti illhreisíngr ok ofstopamaðr, ramr at afli, lýginn ok ójafnaðarfullr at öllu; við alla menn lyndti honum illa, en þó verst við frændr sína, barði hann á mönnum, ef hann fèkk eigi

[1] Hvort sem þat hefir verit Gísli sá, er Grettir hýddi, ok Grettis saga umgetr í 61 kap., ok er þar sagðr sonr Þorsteins Gíslasonar, er Snorri goði lèt drepa; þó getr svo verit kannske [2]) m. m. [3]) eigi varð öðruvís lesit. [4]) ofrkappsmaðr.

þat hann vildi, ok tók af þeim, er hann mátti, var hann í ýmsum stöðum um land, ok eyrði hvergi. Þórarinn bað Barða fyri kost ok mun at fá þann mann norðr með sèr, ef hann væri á þíngi, ok kvað til nokkurs koma mundi. Barði kemr á þíng, þar er Gísli ok fleiri frændr hans Borgfirðíngar. Barði gengr til lögbergis einn dag á miðju þíngi, ok mælir: svo er viðvaxit, at ek hefi hèr tvisvar beðit bóta fyri víg Halls, bróður míns, beiddi mik þar nauðsyn til, ok var í hvorttveggja sinn gefinn lítill gaumr at máli mínu; nú sýnist mèr þar nokkurrar úrgreiðslu von, er þú ert, Gísli! svo ek þurfi eigi lengr at velkjast í þessum vafa, munu ok flestir þat mæla, at vèr eigi fórum með mikilli frekju at málinu, ok er yðr því skyldara góðu at svara. Aungvir anza fyrr enn Gísli, hann mælir, ok styðst á spjótskapt fram: vèr munum verða nokkru at svara, als þú rekr þitt erindi, ok þú hefir berliga á mik kveðit, þó ek þykkist nokkut þverkominn við málit: í fyrra sumar á Englandi var ek í þeim stað, er heitir at Þúfusteini[1], þar sat ek á torgi ok hafði nokkru silfri at verja, lá þar hjá mèr sjóðr einn, sem í voru sjö merkr silfrs, riðu þar um torgit nokkrir óskynsamir menn, ok varð einum þat fyrir, at hann kyntist til við mik ok stakk spjóti sínu við sjóð mínum, ok rendi uppá, ok reið með þat burt, hafða ek ekki þar af, vísa ek þèr þar til bróðurgjalda, þykkir mèr þat at glíku sem þetta mál, því þat silfr tel ek vera á vandarveifi, ok munum vèr þar eigi önnur fè tilleggja. Eiðr mælti Skeggjason: segja skal þursi, ef hann sitr nokkviðr við eld, ok er illa ok óvitrliga undirtekit, at svo stórir menn sem nú egu hlut at. Gísli svarar: hèr sannast þat, sem mælt er: Výlir[2] fjarri, en ver sjaldan! ok er þat þín

[1]) eðr eitthvat kendt við stein. [2]) varð eigi öðruvisi lesit.

at von, at halda svo svari frænda[1] þinna, sem nú má heyra, ok hleypr í bríxlyrði við Eið. Nú mælti Eiðr: eigi hyrðum vèr at skattyrðast við þik. Gjöra menn nú mikinn róm at máli Barða, ok þykkir þúngliga svarat með slíku spaklæti sem þessa er beiðst.

14. Helga hèt ekkja úng, hún bjó vestr í Dölum[2], hennar bað maðr sá er Grímr[3] hèt, norðan úr Eyjafirði; konan var í ætt við Kleppjárn; maðrinn var á alþíngi, ok var honum konan föstnuð, skyldi brullupit standa hálfum mánuði fyri vetr[4] um haustit. Barði kom eitt sinn at búð Kleppjárns, ok mæltu þeir þar málum; þar sá Barði Narfa, ok kom Barði sèr brátt í tal við hann, ok býðr honum heim til sín, ok þat þáði Narfi. Þá Barði kemr af þíngi talar hann við Þórarinn, ok segir honum af málum sínum, ok sèr þykki þúngliga áhorfast. Þórarinn mælti: nú er svo komit sem ek vildi, er þat nú í þreytt, at svo sýnist vitrum mönnum sem okkr, ok er nú óvandara enn fyrri, at sjá, hvar at skal gánga um hefndirna; Barði bað hann fyrisjá. Sá maðr var þat sumar í þíngför með Barða, sem Þórðr hèt, bóndi á Márstöðum í Vatnsdal; hann átti tvo hesta alhvíta, nema á eyrunum, þar voru þeir svartir, þóttu honum hestarnir slíkt metfè, at hann vildi þá eigi missa fyrir aðra hesta; þat hafði Þórði orðit til farreks, at hestar hans báðir voru í brottu. Narfi verðr eptir á Lækjamóti, tekr Þórarinn á móti honum ágætavel, svo Narfa þykkir leika í lyndi. Þórólfr hèt maðr, er bjó á Sleggjulæk í Borgarfirði, hann var nú mjök hnígninn á hinn efra aldr,

---

[1]) Þeir Gíslúngar er at sjá af sögunni at hafi verit at vísu vensladir við Illuga svarta, ef eigi Eið; en Illugi átti Ingibjörgu, dótturdóttur Miðfjarðar-Skeggja, systurdóttur Eiðs, sbr. Landn. 2, 17 og 3, 1, og Laxd. kap. 6, ok er því eigi at undra þótt Gísla þætti skyldug liðveizla Eiðs; en í þessari sögu man ek eigi at væru nokkurar ættartölur Gests eðr Borgfirðinga, ok mun þat hafa verit undangengit í því tapaða stykkinu (?) eins ok vandt er í sögum. [2]) m. m. [3]) m. m. [4]) m. m.

en hafði verit hinn gildasti garpr í æsku sinni; konu átti hann sèr, voru þau altíð ósamþykk, svo sitt vildi hvort, var hún óðmálug mjök ok meðallagi vitr; hann átti vopn góð í hirðslum sínum, er hann hafði eigi áhaldit síðan hann lètti vígaferlum. Nokkru síðar kemr Þórarinn á tal við Narfa, ok spyr, hversu honum sè vingat við frændr sína. Hann svarar, at lítill sè vinskapr þeirra á millum. Muntú vilja slá kaupi við mik? segir Þórarinn: mèr er sagt, at Þórólfr, frændi þinn, eigi sverð gott, ok getir þú sókt mèr þat, vil ek gefa þèr stóðhross væn; Narfi vill þat gjarnan. Þórarinn selr honum í hendr stóran hníf, er hann skal gefa konu Þórólfs til at vera með sèr í fylgi: er mèr sagt at vápnin eru sigrauðig, segir Þórarinn, mun þik eigi bresta at ljúga hvat þèr sýnist haganligast, hvarfyrir þú biðr vopnanna. Narfi bað hann at vera þarum óhræddan, ok gengr fús at kaupinu; hleypr síðan suðr um heiði, ok kemr um kveld ofan í Hvítársíðu til eins frænda síns, er bjó á Veggjum[1], er þar um nóttina, ok biðr hann at ljá sèr vópn, ok segir at einn Austmaðr norðr í Öxnadal[2] hafi skorat á sik til einvígis útaf konu einni, er báðir vildu hafa, ok sè stefnudagrinn at hálfsmánaðar fresti, ok fái hann hvergi vópn, segir hann þat líkligasta til um náttstaði sína; hinn svarar, at þetta muni allt lýgi, ok fái hann engi vopn hjá sèr. Líkar Narfa þat allilla, ok hleypr yfir til Þórólfs, sem sverðit hafði, ok segir honum, hvat hann á um at vera, ok til náttstaða sinna, sem á fyrri bænum, var vel við honum tekit at eins; biðr hann Þórólf at ljá sèr vopn, ok kveðr sèr aldrei meiri nauðsyn á vera enn nú. Þórólfr kvað sèr annat nær, enn skipta sèr af, þó hann gjöri sèr illindi við menn, ok megi hann sjálfr annast sín kvennamál, ok eigi muni hann sleppa við hann sverðinu; fer

[1]) m. m. [2]) m. m.

Narfi þá til konu hans, ok tjáir henni mál sitt, ok gefr henni hnífinn; hún tekr við ok þykkir þíng í vera, hleypr sem skjótast til karls síns, ok er næsta óðmálug, kveðr þát skömm mikla, at vilja eigi duga nauðstöddum frændum sínum: eða hvat skal fretkarli þínum svo gott vopn, þarstú er kominn at fótum fram? ok kveðr þat liggja ryðgat á kistubotni, ok muni nú lítit gagn í vera; hann svarar sem fyrri, at honum sè eigi þat um Narfa gefit, at hann sleppi vopnum sínum við hann, ok teir þat mangi muni gjört hafa at klækjast á við hann; fer hún þá ok brýtr upp hirzluna, sem sverðit lá í, ok selr í hendr Narfa; en hann strýkr þegar norðr ok fær Þórarni. Þórarinn kveðr hann vel hafa rekit eyríndit, ok biðr hann taka hrossin, ok fara norðr fyrst um stund at firrast fund frænda sinna. Narfa þykkir gjöfin góð, fer með hrossin burtu, ok er hann úr sögunni. Þeir Gíslúngar[1] þrír[2] bræðr höfðu einn teig við Hvítá at slá, ok gengu at því verki allir samt, ok skyldi teigrinn alltíð búinn á tilteknum tíma eptir þíng[3]. Sá hlutr var til nýlundu þar norðr um hèröð, Vatnsdal ok Víðidal, at aftókust öll mannamót[4] á þeim misserum. Skip hafði komit um sumarit í Blönduós, hafði stýrimaðr, sem Einarr[5] hèt, þar hest í hapti; maðr hèt Haldórr[6], lítill bóndi, er bjó í Kleifum[7] við Blöndubakka. Hestr stýrimanns hvarf um haustit; klagar hann þat fyrir Höskuldi goða á Höskuldstöðum, hann var góðr maðr ok rèttdæmr. Þar getr ok um mann nokkurn, son Þórdísar[8] spákonu at Spákonufelli[9], heldrenn um hana sjálfa[10].

[1]) m. m. [2]) heldr enn fjórir. [3]) hafa svo Heiðarvígin gjörzt eptir þessari sögu um haustit 1018. [4]) var svo illa máð, at eigi varð öðruvisi lesit. [5]) m. m. [6]) m. m. [7]) m. m. [8]) rètt mun þess minnst, því þessarar Þórdísar at Spákonufelli á Skagaströnd getr Kórmakssaga; Þórólfr hèt maðr hennar; hún var mjög fjölkunnig; hennar getr ok í Vatnsdælu at fjölkýngi einu. [9]) m. m. [10]) hèr datt botninn úr sögunni.

# REGISTR

yfir öll manna- ok þjóða-nöfn, o. s. frv., sem finnast í þessu bindi.

# REGISTR

## yfir öll fljóta- landa- ok staða-nöfn o. s. frv. sem finnast í þessu bindi.

